ENS ENSKA SKÁLDS,

J. MILTONS,

# PARADÍSAR MISSIR.

Á ÍSLENZKU SNÚINN

AF

ÞJÓÐSKÁLDI ÍSLENDÍNGA,



*JÓNI ÞORLÁKSSYNI.*

---

KAUPMANNAHÖFN: 1828.



Aungvum þeim, er nokkut skyn berr á bókmentir Islendínga, mun ókunnugt, at þeir at fornu ok nýu hafa yðkat skáldskap ok kvæðagjörð, eigi síðr, enn hverja aðra fræðigrein, er þeir hafa náð mestum þroska í; ok þóat kvæðin sèu nú mörg undir lok liðin, en sum fám kunn, berr skáldskaparmál þeirra ok bragarhátta fjöld eugu at síðr ljósliga vitni þarum, þarsem engin þjóð í heimi mun eiga hvort fyri sik jafnauðugt. Þó eru flest kvæði þeirra sama kyns, ok margar ljóðunar greinir annara þjóða mega kallast þeim miðr kunnar, þarsem þeir lengstum bundu skáldskapar fræði sína í sanngrundut eðr hugmyndut kappakvæði, eðr orktu gamanvísur, ok sjaldnarr svo köllut mentandi ljóð. Þrjú þjóðskáld Islendínga á seinni tímum hafa einkum ok mjök svo ráðit bót á þessu, bæði með snotrum frumkvæðum sínum ok líka útleggíngum; eru þat Eggert lögmaðr Olafsson, Benedikt assessor Gröndal, ok Jón prestr Þorláksson, er þeirra mest hefir unnit at kvæða þýðíngum á Islenzka túngu, ok gefit þannig löndum sínum í hendr frægustu eptirdæmi ok fyrimyndir í nokkrum skáldskapar greinum. Slíkt er kvæði þat, er hèr birtist í fyrsta sinn at fullu á prent komit; ok þó Islendíngar eigi mörg kvæði, sem áðr var sagt, er lúta at þeim flokki, at þat telst til, er þó ekkert þeirra, sem ferr yfir heilagt efni á þann hátt, at samlíkja megi þessu, nema ef vera þætti Lilja at einhverju leiti; en hvörsu sem því er varit, mun þeim með kvæði þessu gefin fögur mynd í téðri ljóðunar grein. Framarr at lýsa kostum þess, ætlum við þarfleysu, þarsem greindir lesendr munu sjálfir bezt verða varir fegurðar þess hvervetna; en á höfundarins æfi skal lítit drepa, þar hún mun fleirum landa vorra áðr ókunn vera:

Milton var fæddr í Lundúnum árit 1608; faðir hans, er var erendsreki alþýðu, telst verit hafa vel fjáðr; setti hann son sinn snemma til bókýðna, svo at hann þegar 15 vetra var sendr til háskólans í Kambbryggju, ok gjörðist þar 6 vetrum síðarr magister. Snemma var hans getit fyri ljóðmæli þau, er hann orkti í móðurmáli sínu, ok meirr þó á Látínu, en hvorutveggju albragð. Með föður sínum dvaldist hann, þartil er hann hafði 3 tugi vetra, en leitaði sèr einkis frama í embættum, því hvorki voru skólar, nè klerkdómr lagat at frjálsræðis anda hans; rèðist hann þá til utanferðar, ok dvaldist á ferðinni í Fránkariki ok lengst í Suðr-Vallandi á annat ár. Þá er hann var heimkominn, bjó hann ógiptr á hentugum stað í Lundúnaborg, ok hafði hjá sèr systursona sína ok nokkra aðra únglinga, sem hann sagði til, ok þat, meina menn, eptir því undirlagi, sem hann síðan útgaf á prent; en um þat bil braust fram uppreist móti konúngi Enskra, Karli enum fyrsta, er kúga þótti fólkit á ýmsan hátt, ok var því hörmuliga af dögum ráðinn árit 1649. Þó barðt ok illa væri á konúnginn gengit opinliga, fèkk frjálsræðis

vonin þó svo mjök á Milton, at hann gjörðist uppreistarflokknum heldr handgenginu, ok ritaði þeim ok konúngs aftökunni ýmisligt til afhötunar, en varð í þat mund blindr, ok taldi konúngsflokkrinn þat straff, frá æðri hendi komit. Meðan Krómvell sat at völdum var skáldit vel haldit; samdi hann þá málfræðis ok saguafræðis rit, ok bjó at aðalkvæði sínu: framflutti hann þat, en lèt aðra rita eptir fyrisögn sinni, ok var dóttir hans honum helzt til stoðar at því, ok at lesa honum bækr. At Krómvell látnum, náði Karl annar, árit 1660, stjórnarráðum þeim, er föður hans hafði verit frásteypt; voru þá nokkrir gripnir, þeir eð verit höfðu í mótgángi við fyrra konúnginn, en Milton faldi sik þá um hríð, svâ at hann slapp; bendir hann til talins mótgángs síns í byrjun 7du bókar P. M., eins ok í 10du bókinni, bls. 330, til hjúskapar mótlætis síns. Árit 1667 lèt hann Paradísar missir útganga á prent, er aldarháttrinn þó lèt margt atfundit; hefir ok kvæðit jafnan átt sèr marga með- ok mót-mælendr. Nokkru síðarr lèt hann kvæði sitt, ena endrfengnu Paradís í 4um bókum, útgefit; er efni þess holdtekja Drottins ok niðrbrot Satans ríkis. Auk þess hefir hann orkt hrærandi sjónarspilskvæði, er nefnist hetjan Samson, ok ýmsa smákveðlínga á Ensku, Itališnsku, Látínu ok Grisku; ok eru greind kvæði einkum hit fyrstgreinda, mjök opt prentuð ok á ýmsar túngur snúin[1]. Milton andaðist árit 1674.

Um Islenzku útleggínguna er þat sama at segja, sem um sjálft kvæðit, at hvorttveggja er okkru lofi meira, ok berr sjálft menjar ágætis síns, skal ok þýðandans því með fám orðum getit, at nafn hans mun allflestum lesenda áðr kunnugt.

Skáldit Jón þorláksson er borinn árit 1744; varð prestr til Saurbæjarþínga í Dalasýslu árit 1768, en fluttist þaðan at Stað í Grunnavík í Norðr-Isafjarðarsýslu árit 1772, sleppti þá um hríð prestsverkum, ok var á vist með tengdaföðr sínum, Boga bónda Benediktssyni at Hrappsey, sem þá stýrði prentverki því, er þar var nýliga niðr sett; gekk Jón prestr honum til handa við bóka útgáfur. Arit 1774 var þar prentuð snotur þýðíng nokkurra Túllíus kvæða á Islenzku af honum[2], ok en sömu nokkru síðarr aptr ásamt viðbætir eigi allfárra frumkvæða hans[3]. Seinna flutti hann norðr á land, ok varð prestr at Bægisá ok Bakka í Vöðlusýslu; hèldt hann því kalli til dánardægrs 21 októbr. árit 1819[4]. þóat efni hans ok ástand væri alla æfi at skornum skamti ok mótdrægt, var þó andi hans jafnan enn fjörugasti ok yðjusamasti. Auk kvæðafjölda þess, sem enn eru óprentut, hæði frumkveðin ok útlögð af honum, meðal hvörra Klopstokks Messíaljóð er et umfángs mesta, eru mörg einstök prentut í ýmsum ritlíngum, s. s. Kvöldvökunum, Vinagleði, Mínervu 1802, Minnisverðum tíðendum, Gamni ok Alvöru,

[1]) Bezta útgáfan ok at öllu en fegrsta ok snotrasta mun vera: The Poetical Works of J. Milton, by W. Hayley, Vol. 1-3, London 1794-7, 4blf., er þar ok bezt ok greiniligast sagt frá æfi Miltons. [2]) Nokkur Christ. Br. Túllíus kvæði, o. s. frv. á Isl. snúin af J. Th., Hrappsey, 1774, 8 blf. (á Dönsku ok Islenzku). [3]) Nokkur ljóðmæli, sem þat heiðrliga ok velgáfaða skáld Jón þorláksson kveðit hefir, o. s. frv., Hrappsey, 1783, 8 blf. [4]) Arit 1788

Klaustrpóstinum; ok eitt á Látínu í Sagnablöðunum, líka í allmörgum merkra manna eptirmælum, ok enn margir sálmar í enni Islenzku Sálmabók. Prentut er ok þýðíng hans í ljóðum af Pópes tilraun um manninn[5], ok þakklætiskvæði til ens Brezka Biblíufèlags, aptanvið Hendersons ferðabók ok víðarr. Fyrstu þrjár bækrnar Paradísarmissirs útleggíngar eru ok prentaðar í Ritum ens Islenzka Lærdómslista fèlags með Addísons hugvekjum við[6]; téðum bokum hafði skáldit snúit eptir Dr. Schönheiders Dönsku útleggíngu, sem víða er misjöfn, ok opt fellir greinir undan, en bresti þá, er þaraf hafði leidt við þýðínguna, umbættu útgefendr Ritanna, líkligast Jóhnsóníus. Fèlagit leið undir lok, áðr enn þat bindi, er 3ðja bókin stóð i, væri fullbuit, ok er hún því í fárra höndum. Skáldit hèldt áfram þýðíngu bókanna, en hafði þá fengit betri útleggíng kvæðisins á þýzku í hendr, líkliga Zachaiíæ, enn sú en Danska var, ok fylgdi þeirri framvegis, endrbætti ok sjálfr þriðju bókina eptir henni. Enn góðfrægi Dr. Henderson hefir í ferðabók sinni[7] minnst á þýðíng kvæðis þessa, ok ferr þarum svofeldum orðum: hún tekr eigi einúngis öllum öðrum útleggíngum af Milton fram, heldr keppist hún ok við frumritit, ok svo má þikkja, sem hún víða taki því fram, þar sem Eddu kenníngarnar eru viðhafðar. Getr þessi merkismaðr þess ok, at hann hafi í hyggju, at láta kvæði þetta prenta í Englandi, ef sèr gefist á því færi. En þó hann hafi eigi, at því sem komit er, ok við vitum til, getat látit téðri ósk sinni ok fyrirætlun framkvæmt, hefir samt eðallund ok örlæti annars Ensks fræðimanns, er eigi vill láta nafns síns getit, valdit þessari útgáfu kvæðisins, en okkr fól hann á hendr starf þat, er at henni krafðist. Tvær fyrstu bækrnar eru prentaðar eptir áðrgreindri útgáfu þeirra í Ritum ens Islenzka Lærd. L: Fèl., því ekkert annat handrit fèkkst af þeim, mun þýðandinn ok eigi síðarr hafa lagt hönd á þær. Þriðja bókin er prentut eptir endrbættri útleggíng í eiginhandar riti hans, er enn hálærði Prófessor Rask af ljúfmennsku sinni hefir lèð okkr; líka höfðum við at láni frá honum vel ok skilmerkiliga skrifat handarrit af hinum bókunum til sam-

---

hafði hann þegar sett sjálfum sèr þessa grafminníng:

Leikhnöttr lukkunnar
liggr í þessum reit,
mjök þeim hún mislynd var,
meirr þó opt köld, enn heit;
hvílu, sem þráði þrátt,
þversynjat honum var,
ok rór á engan hátt
unnt, nema þessarar.
Þat er Jón Þorláksson,
þessa sem byggir gröf
híðandi í blíðri von
betra lífs eptir gjöf;
þenk, maðr! þú, sem ert,
þvílíkr var hann hèr,
þú verðr, þat er bert,
þvílíkr sem hann er.
Eiga mun aptrkvæmt
annat hann lífs á skeið,
þá skal af þèr ei dæmt,
þat, sem hann gjörði ok leið;
búst við því koma kann,
kæzt ei af því, sem er,
þú veizt ei, heldr enn hann,
hvat lukkan ætlar þèr.

5) Leirárgörðum, 1798, 12 blf. 6) í 13da ok 14 bindi, Kaupmannahöfn, 1791-2, ok í 15da bindi titillausu. 7) Iceland, by E. Henderson, Edinburgh, 1818, Vol. 1, bls. 98; sjá ok Travels in the Island of Iceland, by Mackenzie, Edinburgh 1811, bls. 298, 299.

anburðar við þat er hinar 9 bækrnar voru prentaðar eptir; var þeirra alls engin orðamunr, ok annat var at minnsta kosti skrifat eptir eginhandarriti þýðandans; þess má hèr ok geta, at færstar athugasemdirnar eru af honum, heldr af útgefendum aðaltexta kvæðisins, t. d. af Th. Newton, Richardson ok Addison Innihaldit við seinustu 9 bækrnar vantaði í handritin, ok höfum við því viðbætt; þar sem svo stóð á, at skilmerkin voru of eða van til meiníngarvillu, ok efi var á, hve skiljast skyldi, höfum við lagfært slíkt eptir góðum útgáfum kvæðisins, en aldrei brjálat orðatiltæki. Af því þýðíng kvæðisins ok stefin voru fornyrðt, þótti feldast at brúka enn gamla rèttritunar máta, en hvervetna höfum við leitazt við, at velja þann, er túngunni var samkvæmastr; ok þó sjálfum sèr líkr; en þat sem yfir hefir sèzt í okkar lítilvæga verknaði virði lesendr á hægra veg!

Kaupmannahöfn í December 1828.

*Þorgeir Guðmundsson, Þorsteinn Helgason.*

# Innihald

## Paradísar missirs:

1 Bók: Fyrst er í fám orðum framsett yrkisefni þess heila rits: mannsins óhlýðni ok missir Paradísar; því nærst orsök mannsins hrösunar: Djöfullinn í höggorms líki; hvernig hann með allri sveit sinni var útrekinn af himni, ok niðrkastaðr í afgrunnit. Satan afmálast með sínum árum liggjandi í helvíti, skelfdr ok reiðsleginn; at níu dögum liðnum raknar hann úr roti, ok kallar á Belzebub, er lá nærstr honum; þeir ráðslaga um sína óhamíngju. Satan vekr lið sitt; þeir rísa upp, ok raða sèr í herfylkíngu; höfðíngjar þeirra eru nefndir eptir þeim hjáguðum, er síðan voru kunnir í Kanaan ok öðrum nálægum löndum. Satan hughreystir þá með von, at vinna himininn aptr, ok segir þeim frá spádómi í himninum, at ein ný veröld mundi verða sköpuð. Til þess at vita sannendi þessa spádóms, ok álykta þar eptir, samankallar hann fullkomna ráðstefnu. Aldèfli, Satans hofgarðr, verðr skyndiliga uppbygðr. Ráðit kemr saman.

2 Bók: Ráðit í helvíti byrjast. Satan vekr máls á, hvort hætta skuli á stríð at nýu, til at ná aptr himninum; sumir fýsa þess, sumir letja; en þriðja meiníng fær yfirhönd, at leita skuli upp ena nýu veröld, sem Satan hafði umrædt; nú er efi á, hverr til þess muni verða; Satan einn undirgengst þat eyrendi, fær þarfyrir allsherjar hrós ok samsinníng. Ráðit er lyktat, ok hverr gengr sinn veg, takandi sèr fyrir hendr þá sýslan, sem honum er helzt lagin. Satan ferr af stað at helvítis porti, ok finnr þat aptrlukt; hverr þess gætti, ok opnaði þat loksins; hann finnr þat it mikla djúp milli himins ok helvítis; hversu torsókt honum var ferðin; hann fær vegvísun af Oskapnaði, sem þar ríkir, ok fær umsíðir sèt ena nýu veröld.

3 Bók: Guð, sitjandi á sínum veldisstóli, sèr Satan nálægjast veröldinni, þá nýskapaðri; sýnir Syninum hann, sem sitr við hans hægri hönd; segir fyrir, at Satan muni framgengt verða, at fella manninn; forsvarar rèttlæti sjálfs síns mót allri ákæru, með því hann hafi skapat manninn frjálsan ok mégnugan at mótstanda sínum Freistara; þó kunngjörir hann sína mildiríku fyrirætlun manninum til handa, með því hann fèlli ekki fyri sína egin vonzku, sem Satan, heldr hans afvega leiðslu. Guðs Sonr vegsamar Föðurinn fyri þessa náðar breytni við manninn; ok með því, at guðdómligt rèttlæti hlýtr at friðstillast, býðst hann til, at undirgángast mannsins sök, ok líða hans straff. Faðirinn veitir því tilboði viðtöku, ok auglýsir hans upphafníng yfir öll nöfn á himni ok jörðu; býðr englunum, at tilbiðja hann; þeir hlýða því, ok vegsama með lofsaungum Föðurinn ok Soninn. Ameðan verðr Satan landfastr á yzta jaðri vorrar veraldar; hverjar persónur ok hlutir þar urðu fyrir honum; hann kemr at himinsins porti, hvers stígi, ok

vötnin, sem þar flutu um kríng, útmálast. Þaðan ferðast hann til sólarinnar; hann finnr hennar stjórnara, Uríel, en bregðr fyrst á sik líki eins minni háttar engils; lætr, sem hann hafi ákafa, eptirlaungun, at þekkja ena nýu veröld ok manninn; spyrr eptir bústað hans, sem honum er sýndr, ok nemr staðar á fjallinu Níphates.

4 Bók: Satan er nú þar staddr, at hann má sjá Eden; en þegar hann er svo mjök í nánd við stað þann, hvar hann skyldi framkvæmt láta sinni djarfráðnn fyrirætlun, sækir hann allt jafnóðt efasemd, ógn, öfund ok örvænting, en staðfestist þó loks í vonzku sinni, ok heldr til Paradísar; er þá mjök sagt frá afstöðu hennar; stekkr nú innangarðs, ok setr sik í sæbrafns líki á meið lífsins. Aldingarðinum er lýst. Frá því, er Satan leit Adam ok Evu í fyrsta sinn; hann undrar þeirra ágæti, skapnaðar ok farsældar ástand; fastræðr, at láta falli þeirra framkvæmt; heyrir á viðrtali þeirra, at þeim er bannat, at neyta af skilníngs trénu; byggir þará freisting sína, ok yfirgefr þau at því búnu. Meðan stígr Uríel niðr frá sólinni, ok gjörir Gabríel, sem vörð bèldt í Paradís, varan við, at nokkr vondr andi hafi skotizt þar inn. Þegar náttar heldr Adam ok Eva til hvílu sinnar; lundi þeirra er lýst; kvöldbæn þeirra. Gabríel sendir nætrvörðuna á stað til at leita um aldingarðinn; tveir af þeim eru gerðir til atsetrs Adams, ok finna þeir þar Satan í eitrpöddulíki við eyra Evu, freistandi hennar í draumum sínum; þeir færa hann Gabríel; hann anzar spursmálum hans hæðiliga, ok ætlar at veita viðnám, en er aptrat með himinteikni, ok hverfr útúr Paradís.

5 Bók: Þat morgnar. Eva segir Adam frá ennm dapra draum sínum; hann hressir hana, ok nú fara þau til yðju sinnar; morgunlofkvæði þeirra. Guð sendir Raphael engil til þeirra, at hvetja þau til hlýðni, vara þau við Óvin þeirra, ok fræða þau um þat annat, sem þeim mundi helzt gagn af, at vita. Þá segir frá Raphael; Adam getr hann at líta, ok gengr til móts við hann; leiðir hann til atsetrs síns, ok lætr framreidd fyrir hann en ágætustu aldini; borðræða þeirra. Raphael rekr upp fyrir Adam hans gjörvallt farsældar ástand, ok lætr hann áminntan um Óvin sinn; telr honum, hverr óvinr sá sè, ok hví hann sè þat orðinn; segir frá uppreist hans á himni, ok tilefni hennar; hvernin hann dróg herfylkíngar sínar á norðanverðan himininn, ok gat þar talit alla til uppreisnar, nema Seraph-engilinn, Abdíel, er hryndir gjörvöllum ástæðum hans, ok skilr við hann at svo búnu.

6 Bók: Raphael heldr áfram sögu sinni um þat, hvernin Michael ok Gabríel voru útsendir, at herjast við Satan ok ára hans. Segir þá frá enni fyrstu orrostu, Satan heldr undan með herflokka sína, þegar náttar; hann kveðr ráðs, finnr upp djöfullig drápstól, sem í annars dags orrostu láta englafylkíng Michaels nokkut ryðlat; rifu þeir þó björg upp at síðurstu, ok unnu þannig á herflokkum Satans ok drápstólum þeirra. Þó var ei bardaganum þarmeð lokit. Sendir Guð því þriðja dags Son sinn, Messías, er hann ætlat hafði sigrhrós bardaga þessa; hann heldr í mætti Föðnr síns til bardagans; lætr herfylkíngar sínar á báðar síður halda kyrru fyri; rennir með vagni sínum ok þrumum fram ámeðal óvinanna, ok rekr flótann allt at múr

himinsins; hann opnast; hrapa þeir þá með ógu ok skelfíng í Afgrunn niðr, stað þann, er búinn var til hegníngar þeim. Messías heldr í sigrhrósi aptr til Föður síns.

7 Bók: Raphael segir, at bón Adams, frá, hvernig ok vegna hvers heimr þessi er skaptr: at þegar Satan var af himnum steypt, hafi Guð gjört vilja sinn kunnan, at skapaðr mundi annar heimr ok innbúar hans. Guð sendir Son sinn í dýrðar ljóma ok engla fylgd, at hann láti sköpunar verkinu framkvæmt á sex dögum; englarnir vegsama þat með lofkvæðum, ok Sonrinn stígr aptr í himininn upp.

8 Bók: Adam spyrst fyrir um hræríngu himinhnattanna; fær tvíræð annsvör, ok er hvattr til, at grennslast heldr um þat, sem hann varðar nokkrs at vita, ok verða má honum til farsældar auka. Hann segir Raphael frá því, er við hann hafði framkomit, úr því hann var skapaðr: hvernig hann var settr í Paradís: viðræða hans við Guð um samvistir ok einveru: fyrsti fundr hans ok Evu, ok giptíng þeirra. Með ítrekuðum áminníngum skilr nú engillinn við hann.

9 Bók: Satan sem reykat hafði ámeðan kríngum jarðarhnöttinn, leynist nú inní Paradís, vafinn sudda þoku, ok læðist inní munn sofanda höggormi. Adam ok Eva fara um morgininn til vinnu sinnar; Eva ræðr til, at skilja um stund, svo yðju þeirra verði betr framgengt; því vill Adam aptra, en samsinnir þó loks við umtölur hennar. Höggormrinn hittir Evu eina saman, nálgast hana með flaðryrðum, hrósar skilníngs trénu, er hann kvað sik af hafa fengit mannliga skynsemd ok málfæri; fær hann svo loks unmælt, at hún bergir af ávexti þess. Höggormrinn hverfr áburt. Adam kemr at, ok lætr sik telja af Evu til at neyta einnig; verkan ávaxtarins á bæði þau. Þau leita skýlu nekt sinni, ok gjörast sundrþikk.

10 Bók: þegar, er brot manneskjunnar var kunnigt orðit, hvarf engla vaktin úr Paradís upp til himins, at gjöra skil fyri varðhaldsárvekni sinni. Guð álýktar þá síkna þeirra saka. Hann sendir Son sinn, at dæma þau en brotligu; Sonrinn birtir þeim dóm þeirra, ok fær þeim fata báðum. Synd ok Dauði, er sátu þángattil við port vítis, finna á sèr afrek Satans í enum nýa heimi, ok taka þat ráðs, at fylgja Föður sínum til hýbýla mannkynsins. Þau leggja brú frá víti til heims þessa yfir Óskapnað, ok fylgja þar sporum Satans; þegar þau eru komin at jörðunni, mæta þau honum; hann er hróðugr af happa för sinni, ok stefnir nú aptr til vítis. Satan nær Aldèfli, ok innir frá afreksverkum sínum; en í hljóðs stað er hví ok hviss gjört at máli hans; ummyndast hann nú, ok allir hans tilheyrendr, samkvæmt dómi þeim, er yfir hann var gengin, í höggorma. Synd ok Dauði koma í heiminn; Guð segir fyri sigr Sonar síns at lokunum yfir þeim; býðr englunum at breyta ýmsu á himnum ok höfuðskepnunum. Adam barmar sèr yfir sínu enu fallna standi, er meirr ok meirr fær á hann, ok snýst öndverðr við hughreystíng Evu ok bænarorð; hún heldr áfram, ok hliðkar hann loks. Eva ræðr til á ýmsan hátt at þau vinni ofríki á sèr; á þat fellst hann eigi; minnist nú heitsins um kvinnunnar sæði, ok von hans raknar við; bæði biðja uppgjafar brots síns með ángri ok auðmýkt.

11 Bók: Guðs Sonr framberr andvörp enna yðrandi mann-

eskna fyri Föður sinn; hann tekr þau gyld, en ákveðr, at þeim skuli eigi framarr leyft, at búa í Paradís; hann sendir Michael engil, með herflokk Chèrúbima, at flytja en fyrstu hjón þaðan. Michael stígr niðr. Adam bendir Evu til ýmsra fyriburða; lítr Michael nálgast, gengr honum ímóti. Engillinn kveðr upp vista skipti þeirra; kveinstafir Evu yfir því. Engillinn leiðir Adam uppá fjall eitt hátt, ok sýnir honum í fyriburðum, þat er fram skyldi koma fyri syndaflóðit.

12 Bók: Michael engill heldr áfram sögu sinni, ok lætr umrædt þat, er við skyldi bera eptir syndaflóðit; getr Abrahams, ok greinir smám saman, hvat kvinnunnar sæði merkir, því er Adam ok Evu hafði heitit verit; hann segir fyrir holdtekju Krists, dauða hans, upprisu ok himnaför, ok ástand safnaðanna, fram at seinni komu hans. Adam gjörist hugrakkr við tölur þessar ok heit, ok heldr ofan af fjallinu með Michael; mætir Evu, er ámeðan hefir sofit, ok er nú hress orðinn við hýra drauma. Michael leiðir þau sitt við hvora hönd útúr Paradís; blossandi sverð sveipar at baki þeim, ok Chèrúbim fylkja sèr til varðar Eden.

---

## Hèr hefr
## fyrstu bók Paradísar missirs.

Um fyrsta manns
felda hlýðni
ok átlystíng
af epli forboðnu,
hvaðan óvægr
upp kom dauði,
Edens missir,
ok allt böl manna;
þartil annarr, einn,
æðri maðr,
aptr fær
oss viðreista,
ok afrekar nýan
oss til handa
fullsælustað
fögrum sigri;
Sýng þú, Menta-
móðir himneska!
þú sem Hórebs fyrr
á huldum toppi,
eða Sínaí,
sauðaverði
innblèst fræðanda
útvalit sæði,
hve alheimr skópst
af alls samblandi;
Eða lysti þik
lángtum heldr
at Zíons hæð
ok Sílóa brunni,
sem framstreymdi
hjá Frètt [1] guðligri!
Eins, þar óðr minn
á þik heitir,
hvörr sèr vogar
með hán flugi
at efni því,
er enginn hefir
híngat til viðreynt
hugar krapta,
ljóðum í
eða lausri ræðu.
En einkum þú,
Andinn góði!
sem hefir hjarta frómt
í hávegum,
meirr enn mustera
mestu prýði,
fræð þú mik,
því þú fróðr ert!
Aðr varstu þar,
er upphaf varð,
ok vængi volduga
of vötnin hrærðir,
alheims afgrunn,
sem egg dúfa [2],

[1]) *Sílóa* var lítill bekkr, sem rann hjá Jerúsalems musteri; Esai 8, 6. Milton ákallar þá himnesku Mentagyðju, er upplífgaði Davíð ok spámennina hjá Zíons bjargi, eins ok Mósen við Sínaí. [2]) 1 Mós. bók. 1, 21: Guðs andi sveif yfir vötnunum.

til fjörs vermandi,
frjófsamt gjörðir;
Upplýs óljóst,
efl hitt veika
í mèr! svo hróðr hárr,
sem höfugt efni,
vitni eylífrar
veg Forsjónar,
ok gjöri mönnum ljóst
Guðs rèttlæti.
Inntu mèr þá,
því einkis hlutar
dylr þik himin
nè dýpst helvíti:
hvörr fèkk svo tælt
ok töfrum vèlat
fyrstu hjón
í farsæld vafin;
Ok af Guði,
gædd hinu bezta;
sjálfráðendr
sèrhvörs hlutar,
einnm einasta
undanskildum:
at Skaparann
ok skipan hans smáðu.
Þú hefir ollat
uppreist þeirri,
hvervetna bölvuð
Helvítis-naðra!
logand' af öfund
ok hefndarhuga,
frummóður vora
frekt þú tældir;
Er þú sjálfr varst
úr sæti hrundinn
dýrðar himneskrar,
dramb þitt fyrir,
sem fýsti þik
með fylgð eiðrofa
at hefja hernað
við himna Drottinn;
Ok keppast eptir
í krapti dýrðar
ok hærsta veldi
við hann at jafnast.
Guðligt almætti
grimmum Fjanda
í botnlaust afgrunn
bundnum steypti.
Sem logbrandr
af leiptranda himni
hrapaði Satan
hræðiligr,
ok var í demants
dróma keirðr,
til harðrar hegníngar
hroka sínum,
er sèr vogaði
Allsvaldanda
maktar armi
mót at rísa.
Nótt ok dagr
níusinnum
skiptust um,
meðan skari djöfla
veltist fallinn
í vellanda díki
geysiþjakaðr,
en gat þó ei drepist.
Svo var ályktat,
Satan skyldi
lengr bíða
lakari hefnda;
raknar hann nú
úr roti slíku,
ok minnist í kvölum
mistra heilla.
Dapr rendi
djúpsokknum augum
víðt umhverfis,
vottum skelfíngar,
harms, heiptrækuis,
ok hærstu drambsemi,
harla fjarstæðrar
hófs takmörkum.
Hann sá í einu
um allt víðlendi,
sem mega englar
mest yfirlíta,

ógn ok ólukku
endalausa,
ok sik innlæstan
í henni miðri.
Þar var at sjá
í öllum áttum
dapra dýblissu,
djúpan ofn kyndtan;
þó gaf eldr sá
aungva birtu,
heldr var sísærr
sortinn myrkra [3],
eintóma fullr
með ángr boða,
bleikar vofur,
böl færandi.
Ró var þar engin,
nè rök til friðar,
ei von, nè výls bót,
en vesöld án enda;
sást þar syndaflóð
sífeldt alit
af æ vellanda,
sem aldrei tæmist,
brennusteins báli;
bólstað slíkan
Satan, samboðinn
sèr, þar hrepti.
Hèr var ránglátum
af Rèttvísinni
útvalin bygð
ok erfð í myrkri,
þríslíkt frá Drottni
ok dýrðar ljósi,
sem himinrönd ytsta
frá heims miðpúnkti.
O hvat mjök mundi
misjafnt háttat
hýbýlum þessum
ok hinum mistu!

Nú sá Níðhöggr
neyð umkríngða
Bölmóðs bræðr
í bálstraumi.
Líkastr honum
lá hit næsta
í makt ok vondsku
mýhöfðíngi;
sá var Belsebúb
síðarr laungu
púki nefndr
í Palestína.
Máli firtan
af miklum ótta
hann þá vekr
Höfuð-andskoti,
Satan á himni
síðan nefndr,
forsug orð þannig
framberandi:
"Ertu þetta?
yfir mig gengr,
lágt liggr þú!
lángt er á milli
þess, er áðr
af þúsund englum
heiðr bar
í hæð skínandi.
Ertu þetta,
sem áðr hafðir
vina sáttmála
við mik bundit,
sömu ráðagjörð,
sömu hyggjur,
von ok djörfúng
til verka stórra?
Erum við þá
í aunnu hruni,
sem í sælunni
samfara vorðnir?

[3]) *Nihil illo carcere longius, non ut per tenebras videamus, sed ut ipsas, Seneca;* þ. e. ekkert er þeirri dýblissu lengra, ekki til þess, at vèr sjá kynnum í gegnum myrkrit, heldr myrkrit sjálft.

hèr má nú merkja
af háu falli,
hve þúngt var þrumuslag
þess, er oss refsti.
Hvörr vissi fyrr,
enn vèr um reyndum,
krapt grandeflandi
grimmra vopna?
Þó skal mik ekki
þat á bíta,
hvat refsa kann framarr
reiðr Sigrari.
Er ek enn nú
sama sinnis,
horfnar dýrðir,
en hugr ekki;
föst er reiði,
fast mèr svíðr
vansi sá,
er við mik skeði.
At mínum heiðri
var of nær gengit,
þat mik Guði gegn
til grimdar hvatti,
ok ótal anda,
sem áræði sýndu
hans at flýja,
en hylla mitt veldi;
Ok til orrostu
í upphæðum
valtrar vonar
vopn at hefja,
velta rambygðum
Ræsis stóli.
Týnt höfum sigri,
en ei tapat öllu.
Heill er hugr minn
ok hefndargirni,
fastr fjandskapr
ok fjölmóðr,
ok hvat umfram er
ósigrandi,
missir ek eigi
fyri makt nè reiði;
ei skal hann æru þá
af mèr kúga.
Ef ek bljúgr
beiddi náðar,
ok virðti guðliga
vald þat hnokinn,
sem armr þessi
efasamt gjörði,
þat væri vesælt,
versta sneipa,
háðúng verri
hreptu falli.
Oss gjörðu forlög
ódauðliga,
gáfu guða krapt,
gott er í efnum;
hefir oss reynslan
hyggnari gjörða,
en ei veikari
í vopnaburði;
kunnum vèr því
til kífs eylífan
samdrátt byrja
með sigrvændnm.
Vèr skulum brúka
vèl ok krapta,
ok við Ovin vorn
aldrei sættast,
sem oss unnum nú
yfir hlakkar,
ok ræðr einn öllu
ríki á himnum."
Þannig fleipraði
fallinn Engill,
hroka þrútinn,
en hrjáðr mjök,
ángistar fullr
ok örvæntíngar.
Svaraði stoltr
síðubróðir:
„O, þú höfuð
ok oddviti
margra fursta
ok maktarvalda!
svo ok Seraphim,
sem þú leiddir;

hertogi frægr!
í hildar blossa.
Þú, sem hættu
á hendr færðir
Ræsir himins,
ok reyndir hans veldi,
hvort heldr öllu
yfirburðir,
boð forlaga,
eða blind tilviljun;
Sorglig afdrif
sèr ek ofgjörla,
ok harma þat
oss himni firti,
en feldi allar
í feiknir mestu
hetjur þessar
heljar kvala,
ei máttu öflgir
uppheims búar,
dýrir guðir,
dáligar hrapa.
Veit ek at vísu,
vort hugferði
nær ei at sigra
nokkr þúngi;
einnig snarliga
aptr kviknar
dugnaðr vorr,
þó dýrð sè fölnuð,
ok af grunnlausu
gjörvöll sæla
vítis böli
vor upp sloknð.
En ef almekt þess,
er á oss hefndi,
hvörri ek neyðist
nú til at trúa,
yrði sigrsæl
eins ok fyrri,
ok vèr eins bornir
ofrliði?
En ef hann leyfir oss
líf ok krapta,
svo öll kvalræði
út megum standa
ok grimd gjörvalla
guðligrar hefndar
liðum óslökta
um lángar aldir?
En ef hann hefir
oss fyri þræla,
til víðfrægíngar
verka sinna,
hèr í helmyrkrs
heitri svælu,
hvat er þá unnit
heldr enn fyrri?
Er þá at gagni
ódauðlig vera,
hugprýði vor
eða hárr kraptr,
ekki til annars
enn at þola
hegníng eylífa,
hvat er þá verra?"
Ansaði bistr
Erki-fjandi:
„deigr at vera
dugir ekki,
hrasaði Cherúb!
himins útlagi!
eins hvort iðjum,
eðr íllt þolum.
Þú mátt, fèlagi!
þessu trúa:
gott at gjöra,
getum vèr aldrei,
en íllt jafnan
er eptirlæti,
til stríðs enum Háa,
er stöndum móti.
Vili hans forsjón
vondu breyta
til góðs því, er gjörum;
gefst oss iðja,
at hamla sem kunnum
hans áformi,
svo vondt hvörvetna
verði af góðu.

Tekst þat stundum,
ok til at geta
mun honum þar at
mestr ami,
þat mun Öðlíngs
ásetníngi
í djúpi duldum
ok dómum raska.
En sjá! hinn Söknbarði,
sem oss feldi,
hefir heimkallat
heiptar böðla,
linnt er stormi þeim
ok stríðviðri,
sem barði vorn skara
brennusteins hagli.
Stökkt er stórsjó þeim
af sterku báli,
sem fundum fyrsta rúm
fallnir af himni;
máske eldíng hans
ok meginþrumur
öllum eydt hafi
örvum sínum.
Ei máske öskri
upp héðan þeirra
dunur í gegnum
djúpit botnvana.
Höfnum ei færi,
hvort sem gefr
fjandmanns forakt,
eða fyltar hefndir.
Sérðu þaðra
felmtrsflötu
auðu óbygða,
armæðu sess?
ljós er þar ekki,
en logar gulir
bera blindt óljós,
sem bleikt maurildi.
Ut frá ólganda
ægiblossa
ok logalöðri
leitum hvíldar
þar, ef fást kynni;
þíngheim lestan
rekum saman
til ráðstefnu:
Hvörnig hataðan
helzt megum skaða,
en vort egit tjón
endrbæta,
ok úr þessum
þrautum leysast;
vitum, hvort vakit
von fær krapta,
eða örvænting
á eitthvat minnir."
Svo mælti Satan
við sér nærstan,
ok hafði hans spertan
yfir hafs bylgjú,
tinnaði úr augum,
teygðist Fjandi
um flóð fjarskavíðt
faðma marga.
Bæði sterkr
ok stórr hann mundi,
sem skrýmsli þessa
í skröksögum:
Títanar, þeir er
tignarháfan,
jarðar synir,
á Jóvem stríddu;
sem Týphon sá,
er Tarsó nærri *
beið í hellir
bundinn forðum;
Líkt sem lagardýr
Levíathan,
ógrligastr
allra skepna,
er Guð skóp at sveima
í geimi víðum,
ok haldinn verðr
af hafsiglendum,

*) *Týphons-hellir* var í Cilicía, í litlu Asíu; *Tarsus*, borg í sama landi.

þá um lágnætti
liggr sofinn
ofar öldu,
sem ey væri;
Lætr svo grunnflein
leiðsögumaðr
húðar hrúðri
hans í festan,
ok hyggst án hættu
hèr at bíða
morgunljóma
meinliga blektr.
Eins lá Satan
endilángr,
úr hóli teygðr
hræðiliga,
flaksaðist víðt
um funadíki,
víðjum voldugum
við þat bundinn.
Aldrei hefði hann
aptr þaðan
leystr orðit,
nè lypt höfði,
utan orðlofs
af Aldaföður,
ráðum hans myrkum
rúm leyfanda;
Svo hann mætti
mælir hegníngar
fyri ferskan glæp
fullan hreppa,
ok sjálfr dytti
á sínu bragði,
í því hann útgekk
aðra at fella;
Svo hann sjá hlyti,
með sviða í brjósti,
at illska hans ei
til annars væri,
enn at orsaka
ómælda gæðsku,
nægð miskunnar
ok náð guðliga;

Sem hugat hafði
himneskr Faðir
at veita voru
viltu kyni;
en hinum, sem vilti,
háðúng eylífa,
ramma sneipu
ok refsíng þrefalda.
Nú lèt Níðhöggr
nærsta þrekinn
skrokk úr skelfíngar
skvampi rísa,
bálöldur bifast
til beggja hliða,
en þar á milli
var ógnar dalr.
Víðt útveifða
vængi lætr
Satan fljúgandi
sik upphefja,
brá við byrði þá
bikdimmu lopti,
er þrykkt hafði aldrei
þúngi slíkr.
Nær svo Níðhöggr
nærsta landi,
ef svo má segja
um síbrennanda
ókvikt eldflæmi,
ei sem í díki,
þar funa fljótandi
fleygir straumr.
Hèr var bjargi því
líkt at líta,
sem af jarðvindi
sundr sprúngit
fèll af fárbröttum
Farós höfða [5]
ok reiðþúngaðrar
rifjum Etnu;
Hvörrar innífli
heitt logandi
útbyrðis orpin
allt kolsvíða,

[5]) *Capo di Faró*, fjall í Sikiley, hvört ok kallast Pelórus.

ok yfirklæða
með illri svælu
rammrar fýlu
ok reykjar bæði.
Svo var háttat,
þar Satan hvíldi
fót sinn í fyrstu;
fylgði strax eptir
honum nærstr
hinn fèlagi.
Báðir stærðu sik
af burtkomunni,
ok hèldu sik sloppna
úr heljar flóði
af eginn guðdóms
öflugum krapti,
en ei fyri leyfi
hins Almáttuga.
Mælti þá þannig
Mestr djöfla:
„liggr hèr lóð sú,
land ok álfa,
sem í himins stað
hafa skulum?
eiga skelfandi
í skiptum vorum
myrkr þessi
at mæta ljósi?
Allvel þá!
frá engla Drottni
lízt mèr bezt,
sem lengst at vera,
er einn siálfráðr
öllu stýrir,
oss öflugri,
en ekki meirr hygginn.
Far vel fagnaðar
fold ok heilla!
sælt vertu svarta
svælnríki!
hýs nú, helvíti!
Herrann nýa
mik, eins ætíð
ok allstaðar lyndtan,
mik, sem hefi sinn
sèr hit nægsta,
sem úr helvíti
himin skapar,
einnig úr himni
heljarvíti!
Hvat skal um bygðir
ok hús at vyla!
hvörju varðar
hvar ek er staddr?
nær ek alltíð er
einn ok hinn sami,
ok alltíð sá
ek á at vera.
Hèr megu vèr þó
halda frelsi;
ei mun Alvaldr
þat, er á hittum,
oss inni vort
ofgott mèta;
munat hans hèðan
hönd oss reka;
óhultir megum hèr
yfir drottna.
Ok er vel verðugt,
þótt í víti sè,
at stjórn ok ríki
stundum eptir;
hóhó! hvörs kostar
heldr at vera
hèr drottnandi,
enn á himnum þjóna.
En hví vora vèr
vini látum,
ok fasta fylgendr
fèlagsmála,
liggja dugvana
í dvala flóði?
heillsloppinn herr
hví skal ei vakinn?
At oss ok þá
í óhapps bygðum
gángi eitt yfir,
ok enn þá megum,
alefli meðr
í eitt lögðu,

freista á ferskan stofu
hvat framgengr,
hvat af hánm kann
himni vinnast,
eða missast má
meirr í helvíti."
Þannig talaði
Þengill djöfla;
en byrjar nýa
Belzebúb ræðu:
„Ó, þú leiðtogi
ljómandi skara,
hvörjum Almættit
eitt gat hrundit!
Nær þeir raust þína
nema hlustum,
vissan vonar pant
í voðahræðslu,
hvör þeim áðr
við hildaræði
opt í eyrum gall
ærit nauðþreyngðum,
herteikn örruggast
við högg sèrhvört;
Mun þeim móðr nýrr
ok megin vaxa,
þótt þeir liggi nú
í logadíki,
eins ok við áðr
örvita, marðir;
er þat at undra,
þar ofan duttu
slíka himinhæð
hræðiliga?"
Var slíkt úr hvopti
varla sloppit,
áðr dreissugr
djöfla Foríngi
skundar til strandar,
skjöldr var á herðum
stórvægr, stjörnulopts
stæltr í eldi;
Breiddist hángandi
at báðum öxlum,
sem máni vaxinn
yfir Valdarnó [6]
nær start er á
með stækkunargleri,
svo birta blettir hans
bif ok hauðr.
Sè spjóti því,
er spentu víðar
greipar Helvarðar
við grenitrè jafnat,
þat er stærst höggva
til straumfíla
meið - meiðar norskir
mastrs efni;
Þá er staf þeim lýst,
er studdan Fjandi
fèkk fót sinn við
í forsngri gaungu
yfir heitan leir,
himin var fjærri,
hèr at auk píndr
helvítskum loga.
Steig svo stórfetum
at strönd logelfar,
fylkíngar sínar
framæstandi,
er djúpt í dái
dreifðar kúrðu,
sem þurt lauf á hausti
í þykkum skógi;
Eða sem hrjáð
af hræsvelgs anda
sef, við ens rauða
síðu lagar,
hvörs á Búsíri [7]
bylgjur unnu
heljar skeindir
með her gjörvöllum;
Er hann Israel
elti forðum,
fullr fjandskapar
ok fláræðis,

[6]) *Valdarnó* er dalr einn í Toscana í Vallandi, eðr Italía.
[7]) *Búsíris* er Pharaó konúngr.

en þessir glaðir
á þurri fjörn
sáu kafnan hans
og sundran vagna;
Eins var alþakinn
ára grúa
lögr logandi
lángt útdreifðum,
rákust þeir taptir
ok ræmi firtir,
hrá þeim blöskrandi
við býti kjöra.
Rak nú Satan upp
rof úr hvopti,
svo djúpit holvíða
drundi við skjálfta:
' Þèr einvaldsherrar!
alda stjórnendr!
hetjur herkænar!
þèr himins prýði,
þess, er áðr
yðr tilheyrði,
en er heilli nú
illu mistr!
skuli slík hafa
skelfing dvalir
ódauðlignm
innan rifja?
Hvat þá? hafið þèr
hvild af stríði
hèr yðr kjörit
hægðar vegna,
er býðr ból þetta
til blunds, sem væri
dalr dýrðarlands
dægiligasti?
Hvat þá? hafið þèr
himnm Sigranda
svarit tilbeiðsln
í slíkri legu?
þeim, er horfir nú
af hæð ofan
kátr Seraph
ok Cherúb yfir,
hvörsu þeir veltast
í vondu flóði
með herfánum
ok hildarskrúða;
Unz aptr frá
uppsala portum
sjá sèr þjónar hans
sigrlæri,
ok ofan geysast,
oss at troða
fótum fáráða,
eða festa niðr
með þrumuviðjum
í þessu djúpi;
annathvort vaknið,
eðr aldrei meirr!"
Heyrðu þeir, sneiptust,
ok hrukku á fætr;
sem nær einn, settr
til nætrvöku,
ef sá, hann óttast,
atkom sofanda,
viðbragð tekr
ok veit ei hvat gjörir.
Ok þótt ei væru
þessir uppvöktu
án tjóns ok pínu
tilfinníngar,
hlýddu þeir heyrði,
hikudu ei viðr,
raust Höfðíngjans,
ok risu úr dái.
Eins ok þá Amrí son
út lèt rèttan
staf stórvirkan
yfir storð Egypta,
þá of fold flugu
Pharaónis
útköllut ský
af engisprettum,
hvar þau hám gjörðu
hángandi í lopti,
ok færðu yfir Níl
fælumyrkr.
Eins sáust þèttir
ára flokkar

helvítis undir
hvelfíng sveima,
mergð sú riðlaðist
meðal loga;
unz Liðsforíngi
at lyptu spjóti
teikn gaf, tóku þeir
án tafar stöðu,
ok hittu botn bygðan
af brennusteini.
Grúi sá þakti
gjörvalla slèttu,
ok ei nokkrt sinn
Norðrálfa
útsendi fiölfylkt
af freralöndum
slíkt regintal
yfir Rín og Dýná;
Þann tíð hervaskir
hennar synir
yfir Suðrlönd
sik útbreiddu,
sem vatnsflóð vaxandi
víðt um Gíbraltars
undirlendi
ok auðnir Lybíu.
Strax skundar sèrhvörs
flokksforíngi
til æðsta síns
yfirbjóðanda,
dýrðlig var ásýnd
dáfríð hegðan,
ypparligri
enn Adams sona;
Ok sem vonligt var
um veldisfursta,
er höfðu nýliga
himinstól prýddan,
þótt á lífsbók
ei lesist framarr
þeirra nöfn, þaðan
fyri þverúð skafin.
Ei heldr þeir
meðal Evu sona
fengu nöfn önnur
fyrr enn síðarr,
þá er gengu þeir,
at Guðs leifi
fold vorri á
at freista manna;
Þá, er gátu þeir
með göldrum lyga
ok falsi fárligu
flekat þjóðir,
til at gjöra sik
Guðs eiðrofa
ok Skaparanum
skyldu synja;
Til at umbreyta
tignarskærri
dýrð hins Eylífa
í dýra myndir,
klíndar holdligs dóms
hán glisi,
ok í Guðs stað
at göfga djöfla.
Þá gáfu heiðnir menn
heiti púkum
Franseg, Fræðadís!
hvat fyrstir hètu,
þeir við Ræsis raust
risu úr dvala,
honum nærst staddir
ok helztu metorða.
Fremst voru þeir,
er farit hafa
úr vítis djúpi
til vorra bygða
ráns leitendr,
ok raðat sínum
stól djarfliga
hjá Stillis himna,
ok sett hjá hans
sín ölturu;
Látit, líkt sem hann,
um líku sik biðja,
hræðst ei Drottins dýrð,
dunand' af Zíon,
nè maktarsæti
meðal Cherúbim;

Já, helzt til þrátt
í hans musteri
sjálfir innskotit
sínum plöggum,
offr ok tíðir
með andstygð saurgat;
ok myrkrum framtroðit
ímót hans ljósi.
Þá er morðínginn
Móloch fyrstr,
drukknum löðrandi
af dreira barna,
ok tárum mæðra
sem trumbusláttr
ok háreysti pípna
heyrnir glöptu;
At ei vör yrðu
viðkvæm hjörtu
óps, er önd mistu
af þeim fæddir,
sem á blótbáli
brendir voru
skammarligasta
skurðgoðs þessa.
Hètu börn Ammons
á hann í Rabba,
Argos ok Basan
ok Arnons merkjum;
nægði þat ei,
með nágrenni djörfu
vilti hann Salómon,
vísan tiggja;
Hvörr eð hof bygði
háðsverðu goði
gegnt fyri framan
Guðs musteri,
fjallhæð á
forsmánarligri,
helgan lund
í Hinnons dal fögrum,
heitnum Gehenna,
helvítis skugga.
Heiðraði Móab
hundsaurgan Kemos
í frá Aróar
allt til Nebó,
ok eyðimerkr
Abarim syðstu,
í Hesebon,
ok Hóranaim,
í Sibmas dal
sælum blómstra,
í Eleale
allt til hafs dauða.
Hafði púki sá
Peors heiti [8],
er hann við Sittim
Israel blekti,
er hann frá Egypto
aptrkomit
ginnti Guðs fólk
til gjálífs offra,
tókst þar tilefni
tjóns ok dauða.
Vóx þó villa sú
víðt út þaðan,
því skæð hans breiddist
skrípa dýrkan
allt at forsmánar
fjalli rændu,
þar Móloch bygði,
mættust djöflar,
grimd ok býlifi,
grannar verstu,
þartil Jósíæ
þá burtflæmdi
vandlætíng voldug
til vítis þaðan.
Þá skulu talin
þessum samfara
hjú helvítlig
af her fjanda,
þau sem við aldin
Evfrats merki,
ok fljót þat Egypta
fráskilr Sýrum,
áttu Baals
ok Astaroths heiti,

[8]) *Peor* halda menn sè sami sem Príapus.

í karllegg hinn,
en konu þessi.
Alhægt er öndum
at yfirklæðast
hvörjum kyns hætti
þeir helzt vilja;
svo viðvíkjanlig
er vera þeirra,
óblandin, lipr
án liðamóta;
Hindra limir ei
hold- ok bein-vana,
er þeim ásýnd hvör
andgjör, smá, stærri,
myrk ok mjök fögr,
sem mest hlýðir
stefnu loptstarfa,
til stríðs eðr ásta.
Fyri þeirra skuld
þrásamliga
yfirgaf Israel
hinn Allrahærsta,
lèt gleymt lotníng hans
ok lögmáli,
en bað beygðum knjám
berkvikendi.
Sakir svo framdra
svívirðínga
lèt þá Jehóva
laungum beygja
höfuð harðsvírut
hjör und bitran
óvina sinna,
þó annars smáðra.
Nú kom Astóreth [9]
nefnd af heiðnu
fólki: Astarte,
í Phenicía,
himins drottníng
með horn vaxandi,
tilbaðst tignat goð
í túnglskini;
súngu henni þá
Sídons meyjar
heit hjartanlig
ok hákvæði;
Sami heyrðist ok
hjá Zíons dætrum
hennar í hofi
hljómr gjalla,
því, er byggja lèt
á blótheiði
vífinn jöfr,
en vitr mjök,
hvörn ílls augnatál
átrímaðar
ginnti guðlausrar
til goðavillu.
Enn kom Thamúz [10],
er af undum sínum
lèt á Líbanon
ljóð uppspretta,
ángrljóð árlig
ok ástartölur,
fyri meyjarnar
í Phenicía;
Tíðkaðist þat
á tóll mánaða
sèrhvörra einum
sumardegi,
þá purpurarauðr
rann af bergi
Adónis lögr
ægis til;
þetta meintu menn,
mundi dreiri
úr æðum Thamúzar
árliga særðum;

[9]) Við þetta nafn var túnglit dýrkat. [10]) *Thamúz*, afguð hinna Sýrlendsku, meinast hinn sami sem Adónis. Um hann er diktat, at hann hafi drepinn verit af villugelti á fjallinu Líbanon; fljótit Adónis rennr af þessu fjalli, ok fær á vissum tíma ársins rauðan lit. A sama tíma var haldin Adónis hátið, ok hörmuðu þá kvinnurnar hann, meinandi þat væri blóð hans, er litaði fljótit.

Amors athöfn sú
einnig hvatti
Zíons dætr
til siðaspella.
Þeirra gætinn sá
í guðshúss porti
Ezechíel
óhæli skrípa,
þá er vitrnðust
í villu goða
svarta sokknir
synir Júda [11].
Enn kom einn,
sem af öllu hjarta
syrgði meingjörðir
sáttmáls arkar,
hún þá hertekin
honum steypti
óvirðtum, meiddum,
í eigin hofi;
Svo hann dugvana
datt til jarðar,
hausi firtr
ok handleggjum;
var þat blygð þeim,
er veittu goði
háðúngarveiðu
heiðran guðliga.
Þessi var Dagon
þángheims skrímsli,
myndaðr ofan
í mannslíki,
þó eins ok fiskr
þar fyri neðan;
átti afguð sá
eitt musteri;
Honum fórnfærðu
Philístear
í Gath, Ascalóns,
ok Accarons borgum,
einnig í bygðum
umhverfis Gaza.
Hèrmeð kom Rimmon [12]
honum fylgjandi;
átti hann, nærri
þar Abbans straumr
ok Pharphars fram velti
fögru bifi,
í dýrri Damascó,
dáfríðt sæti;
Gekk hann ok gífrla
móti Guðs húsi,
lèt hann líkþráan,
en lofðúng hreppti,
fyrr sinn fellanda
fíflit Achas,
þeim hann í brjóst blès
burt at flytja
helgan Herrans stól,
en hýsa sinn eginn;
Ok þar óþektar
offr tendra,
fyri goðum þeim
fram krjúpandi,
sem hann sjálfr
með sigrarmi
hafði þó áðr
at hauðri lagin.
Nú kom fjöld fram
af fornöld nefndra:
Osíris, Isis,
ok Orus gamli,
með leiðinligu
liði þeirra,
óvætta skrímslum
illrar tegundar;
Sem fengu forblindat
fólk Egypta,
ok helgiþjóna
af hjátrú galda,
at velja gaunguguð
til göfgunar,
meirr í málleysíngs
enn manns líki.
Osanrgaðr
af eitri slíku

[11]) Sjá 1 Samúelis bók, 5, 4. [12]) *Rimmon*, afguð hinna Sýrlenzku; 2 Kóng. bók, 5, 17.

ei mundi heldr
Israel sleppa,
af ljósu gulli,
til láns teknu,
sá er kálf steypti
sèr við Hóreb.
Þó tvöfaldaði,
þessa vondsku
döglíngr deilugjarn
í Dan. ok Bethel,
er þeim, hann skóp,
við uxa líkti,
Guði grip þann við,
sem gras ètr!
Já, þeim Jehóva,
sem Jacobs börnum,
útreisendum
af Egyptó,
sló þar eina nótt
alla frumburði,
jafnt sem flokk heilan
jórtrandi guða.
Svo kom Belíal
síðarst allra;
honum fèll enginn
af himnum verri,
sá íllt elski meirr
fyrir ílls sakir.
Atti hann ei kyrkju
nè altari,
en hvörr optarr þó
er þar staddr,
þá gefa prestar sik
í guðleysi,
sem arfar Elí,
þeir er óvirðtu
guðshús girndum með
ok gripdeildum.
Drottnar hann einnig
í döglíngs höllum,
í hölðíngja görðum
ok hóflausum borgum,
þegar órósöm
upphlaup geysa,
turnum hærra
tjón ok ofríki;
Nær eð náttmyrkrs
níðasorti
gjörir gángendum
götur blindar,
uppbelgð af öli
ok ofsakæti
börn Belíals
um brautir slarka;
Sem á Sodómæ
saurgum strætum,
ok í Gíbeah
þá göfug kona
var, til at varna
verra tjóni,
ein um nótt látin
utan gátta.
Nú eru talin
nöfn hinna fremstu
at metorðum
ok maktar hæð;
en öll önnur
at upprcikna
helzt til lángt mundi
heiti djöfla,
en þótt nafnfrægir
nærsta sèu:
Jóniskir
af ætt Javans
reiknuðust regin,
þó rannar lægri
fyrstu foreldrum,
fold ok himni:
Títan fyrst getinn
með tröllakyni
ræntist af hlýra
rètti frumburðar,
sá hèt Satúrnus,
ok sama hrepti
mein af mög Jóve
at missu ríki.
Flykktust þessir
ok fleiri þángat,
dimmum augum
daprt vendandi,

þó mátti at vísu
þarí merkja
glampa lítinn
af gleðibragði;
Er þeir sáu svo
sinn Foríngja
ei af örvænting
yfirfallinn,
er þeir sáu sik
í sælutjóni
ei með öllu þó
enn tortýnda.
Einneginn ásýnd
Erkifjanda
með sama sorta
sást umvafin,
þó fèkk heim heimtan
hann at vana
styrk hugar síns
ok stór orð mælti;
Voru þau ágæt
at yfirskini,
en í raun rèttri,
rækar lygar,
hvarmeð vina von
hann veika hresti
ok þeim hræðslu geig
hratt úr brjóstum.
Hann bauð hèr nærst
at hefjast skyldi
merki mektugast
með herópi,
básúnu ok lúðra
blæstri hvellum.
Kaus sèr kjörtign þá
Cherúb Azazel,
þóktist hann heiðri
þessum nærstr,
ok strax útrakti
af staung gullligri
fánn furðanliga
fylkis dýrindi;
Stóð hún hafin
sem hærst kunni,
til at líta
sem teikn á lopti,
blánkaði hún
ok blakti í vindi
gulli gjörþakin
ok gimsteinum,
silfri, Seraphs tign
ok sigrprýði.
Gall þá geysihvellt
glymjandi málmr,
ok herinn hrópaði:
húrra! gjörvallr,
svo hol helvítis
hlaut at rifna,
skalf auðn allheims
ok hin aldna nótt.
Mátti nú gegnum
myrkr líta
Týrsèls teikna
tíu þúsundir,
sem blöktu bylgjum lík
blikandi í lopti,
mjök til at mynda
sem morgunroði.
Með þeim uppkom
af mækjum, spjótum,
skógr skelfandi,
skjöldum, hjálmum
rígreknum saman
í raðir þrangvar,
er ekki mátti
fyrir enda sjá.
Ferr nú herr fram
í fylking jafnri,
fylgði þar saungr
fagrhljóða,
með tón dóriskum
af trumbuslætti
ok hvellum pípum,
hvervetna sætr;
Sá er mjök forðum
til manndáðar
gjörði hreifan hug
hreystimanna,
er vopnaþíng
vaskir sóktu;

ei blès hann æði
nè ofstopa,
styrkti heldr brjóst
með stöðvan þánka;

Til at fá festu
fótum örugga,
ok dirfa dug
fyri dauðans ótta,
til at fráfælast
flótta ragan,
nær óöld æðir
með áhlaupi;

Varat hljómr hans
hinn hátíðligi
minnr máttugr
ímót hugdeigju,
ángist, efasemd,
ótta, sorgum,
öndum ok mönnum
sem atþreyngja.

Þannig tráðu þeir
með þánka stiltum
hljóðir heita jörð
ok harðla kvaldir,
gat þó gángs pínu
glapit töfrum
hljómr yndæll mjök
af hljóðpípum.

Nú þeir framkomnir
námu staðar,
feiknarlig reim
fylktra skara,
lengðin leiða bauð
ok leiptr vopna,
sem hermenn fornir
með hlífar ok spjót.

Biðu þeir ávarps
Yfirbjóðanda;
en hann skjóteygðr
skoðan tamri
rennir bráðt gegnum
röð sèrhvörja,
ok sinn allan her
yfirlítr.

Niðrskipan
nærsta falligri,
einnig skapnaði
ok ásynd þeirra,
gaf hann gætr at,
guðum sómandi,
ok þá at lyktum
alla taldi.

Mjök svo við þetta
mektar ógrynni
af drambi þrútnar
Djöfuls hjarta,
stoltr stærir sik
ok stælist nærsta,
því jafnt lið þessu
bar jörð aldrei.

Færri var Phlegru[13]
flagða sægr,
hetjur þær, Thebis
er hjá stríddu,
ok Trójukífs kappar
kænir, á meðal
bjargvætta sinna
í beggja liði.

Færra var tal
hinna feiknarmiklu
riddara skara
skröksögum í,
ok frá Serklandi
sendra herja,
er Karlamagnúsar
kappa gjörvalla
við Fontarabía
felda lètu.

Þó var herr þessi,
þúsundsinnum
alla dauðliga
sem yfirgekk,
Oddvita sínum
yfrit hlýðinn.

Var hann fyri þeim
at vænleik mjök,
stóð hann sem turn

[13]) *Phlegru*, borg í Macedónía í Grikklandi.

með stoltarbragði[14],
mist var ei gjörvöll
meðsköpt prýði.
Hèr sást enn hrasaðr
Höfuðengill,
dýrð sem dulin var
með dökku myrkri;
rètt sem nýrisinn
röðull sýnist
gegnum sjóndeildar
glýu daggar;
Ok þá blakkt húm
bak frá mána
formyrkvuð sunna
yfir fold breiðir,
ok jafnvel alvöldum
ugg í brjósti
eykr geigvænnar
umbreytíngar.
Svo var dimmr,
þó af dýrð skini,
Höfuðengill
af hæð fallinn,
ok bar inngrafin
í andliti
þrumu djúp ör
af þúngu slagi.
Hrygð var málnð
Helvarðar kinnum
nærsta döpr
nábleikum á;
hárr skein af enni
hugar styrkr;
vottar drambs viðmót
vændir hefnda.
Heit brann úr augum
heiptar eysa,
þó var meðaumkan
þarí blandin
af bræðra falli
til böls dæmdra
óendanligs
í erfð kvala;
Með því mergð slíka,
margar þúsundir,
leit hann frá himni
lángt burtrekna,
fyri fylgð veitta
flasi sínu,
þó sèr enn trúa
at þrotnum glansa.
Svo stendr beinvaxinn
á bláfjálli
eikiskógr
ofan visinn,
ok heiðar greni,
sem háa toppa
látit hefir
fyri lopteldi.
I brjósti þrúngnu
bjó nú at varpa
á þá orðum
Erkidjöfli;
stóð hann fylkínga
miðt á milli
í ára hríng
innilnktr.
Nú var ganmgæft
ok gætt þagnar;
þá reyndi Satan til
í þrjár rèisur;
tróðu sèr engillig
tár fram þrisvar
gegnum djúpt forakt
ok drambs feiknir.
Fundu þó loksins
farveg þessi
orð, af andvörpum
opt þverskorin:
„ó þèr mörg þúsund
ódauðligra,
völd öllum æðri,
nema Almætti!
Var ei viðleitni
vor án æru,
enn þótt ógnarlig

[14]) Hvörsu veglig er eigi þessi afmálan, ok þessi Satans lýsíng ólík þeirri hlægiligu almennu: með horn, hala ok klær!

afdrif hrepti,
hvarum helzt vitnar
herfiligr
staðr þessi,
sem stygð er at nefna.
Hvörr var svo framsýnn,
forspár, hygginn,
at hann forlög þau
fyrirsæi,
at hreysti þvílík
ok herr goða
yrði nokkurt sinn
neydd til flótta?
Hvörr vill trúa,
þó tapat höfum,
at herlið þetta,
sem himin tæmdi[15]
með útlegð sinni,
ei muni þángat
at sjálfs dáð stíga,
sem þat var áðr,
ok vinna forn aptr
völd ok sæti?
Skulu hersveitir
himins allar
fyri fótum mèr
fá at vitna,
hvört ráðvilla
eða ragr ótti
hafa vorri von
vendt til einskis.
En hann, sem er nú
Einvaldsdrottinn
vegligum hafinn
á veldisstóli
þaðra[16] þángat til,
ok þykist borginn,
studdr hefð fornri
ok stöðgum vana,
fullt konúngs vald
í frammi hafði;
En þar hann leyndi oss
orku sinni,
freistuðumst vèr
til fyritækis,
sem er nú orðit
oss at falli;
þrek vort ok hans
þekkjum vèr síðan.
Hann til orrostu
á at skora
viljum vèr ei,
nè verða hræddir,
ef hann býðr oss
til bardaga.
Máske meinbrögð
yfir makt gyldi;
máske sjálfr hann
sannat fái,
at sá makt einni
sem með vinnr,
hefir náð at eins
hálfum sigri.
Verða má veröld
af víðu rúmi;
svo var orðfleygt
í upphæðum,
hann hugat hefði
heim at skapa,
ok þar ætt planta,
sem ást hans mundi
sèrligri sæmast,
sonum lík himins.
þángat fýsir mig
fyrst at vendum,
ef ei til annars,
þá at umskygnast
annathvort þar,
eðr einhvörstaðar;
burt vèr himneskir
úr helvíti!
Ei skal afgrunnit
oss framarr hylja
í náttmyrkrum

[15]) Eptir Jóh opinberun, 12, 4, meina menn, at þriðjúngr englanna hafi fallit ásamt með Satan. [16]) *þaðra*, þ. e. á himnum staðnum.

ok níðasorta.
þó skal stórvæg sú
á stofn setjast
fyrirætlan
með fullu ráði.
Ei mun oss friðar
auðit verða,
því hvörr vill hug. a
vèr háls beygjum?
Allvel! stríð, stríð!
ok ekkert framarr,
ljóst, eu leynt ella
lízt mèr einráðit."
Hèr við slotaði
slafri Fjanda,
ok var lýst ljúfu
liðs samþykki
með ótalligum,
sem útflugu,
sveipandi sverðum
frá síðum engla.
Varð þá skyndiskin
í Skaðvalds bygðum,
gaus upp grimdar fár
gegn enum Hærsta,
skullust á skildir,
skeði gnýrr mikill,
hvinu heitíngar
við hvelfíng ljósa.
Fjærri var þar ei
fjall eitt mikit,
hvörs ófrýnn útlits
efsti toppr
spjó eldgusum
ok ógn reykjar,
hitt var allt hulit
með húð glittandi,
merkja mundi hún
málm þar fólginn.
Flykktist því þángat
fjöldi djöfla,
sem þá flokkr ferr
fyrir herliði,
berandi graftól
ok beittar axir,
til at hagbúa
herbúða stæði
gröptum með
eða garðlagi.
Múga hèr greindum
Mammon stýrði,
lægstr allra
sem lètu himin;
hann bar hvervetna,
þó í hæð væri,
nærsta niðrlútt
negg ok þánka,
við gólf gullslegit
gladdr meirr,
enn hærstu hvörja
helgidóms sælu.
Sá mundi minna
menn á fyrstr,
at rètta hendr
á rán gjarnar
und Fjörgynjar fald,
frummóður sinnar
fyri frænda róg,
er falinn skyldi.
Bjargs var at bragði
búkr holgrafinn,
ok drjúg útdregin
dýngja af gulli.
Enginn má undrast
auð í víti,
botn þess bezt á við
bannvænt dýrendi.
Ok þú, drambfullr
af dýrð heimsligri!
sem undrast Babels
ok Egypta smíði,
vit, at mannfrægðar
minnisteikn þessi
yfirgekk þó
hit auðveldasta
hagvirki engla
úr himni flæmdra;
Er á einni stund
fá aflokit
því, er mýmargir

um mikinn aldr
arfar Adams
með alefli
varla megu
til vegar koma[17].
Nú voru nálægt
á niðrlendi
ofnar uppbygðir
yfrit margir,
ok með flóðs eldi
um farveg leiddum,
til gulls hreinsunar
frá gjalli, kyndtir.
Var í mót, myndut
margvísliga,
bráðt síðan ansit
bræddum málmi,
ok veitt um kríng
með völundar snilli,
svo hol hvört ok eitt
hèr við fylltist.
Eins ok orgverk
þegar útdregr
af veðrsafni
vel tilbúnu
súg þann, er fyllir
sèrhvörja pípu,
umhverfis leiddan
alla vegu.
Er nú upp undit
á angabragði
dýrri byggíngu,
sem dampi risi;
mátti merkja þar
mjök hljómanda
saung af symfóni
ok sætar raddir.
Var þat musteri
víðt, umbergis
pílárum skreytt
af skæru gulli
með Dóriskum hætti,
dýrð brast þar aungva
af höggnum myndum
ok hagleiks prýði;
glóaði þakit
af gulli slegnu.
Hvorki Babýlon
borg hin mikla,
eða Cairó sjálf
kyrkju slíka,
nè höll höfðu,
þá er hærst stóðu
í dásamligustum
dýrðarblóma;
þegar Assúr
ok Egyptar
áttu mektar kapp
ok óhófs saman.
Strax sem stoltar hús
stóð albúit,
víðum koparhurð
vattst frá gáttum;
þá var augum
eptir at renna
eggslèttu gólfi
ok allrúmum sal.
Hèngu með töfrum
frá hvölfðu lopti
logandi lampa
lángar raðir,
aldir á biki
ok brennusteini[18],
deyddu þeir dimmu,
sem dagr himins.
Öldin skundar
ok undrast smíði,
mikla verk þessir,
en völund hinir;
alkendr var hann

[17]) *Diódórus Sículus* hermir, at uppá einn turnstólpa í Egyptalandi hafi erfiðat 36000 menn því nærr í 20 ár. [18]) Þótt bik ok brennusteinn útþrykki eigi orðin *Asphalt* ok *Naphta*, sem aðalritit ok sú danska útlegging hafa, mun þat lítit saka, með því hin orðin eru þó fleirum skiljanlig.

af áðr bygðum
turnprýddum húsum
tignarengla,
er settir voru
af sínum Herra
drottnendr innan
deildra takmarka.
Ei var hann dulinn
nè ótignaðr,
á meðal Grikkja
Múlcíber nefndr;
hermist Júpíter
hafi reiðr
keyrt hann niðr
af krýstals múr,
ok hann híminsfrá
hvirfilpúnkti
hrapaðr, eins ok
heiðarstjarna,
lendt hafi loks
í Lemneyju.
En hann fèll áðr
með eiðrofum,
bjargat fèkk engin
bygging himna,
engin íþrótt
nè uppfyndíng;
hann mátti í helvíti
til húsgjörðar.
Hèr nærst var eptir
háu boði,
með heiðrs viðhöfn
hátíðligri,
blásit básúnum
til boðskapar
af úthróps árum
með öflga vængi.
Var þá tilskipat,
veldis samkomu
í höll aldèllis[19]
halda skyldi;
svo var atsetr
Satans kallat.
Heimtust höfðíngjar
af hvörjum flokki,
höfðu sik þángat
hópum saman,
þessir með hundrað
ok þúsund hinir
fylgdarsveina,
foríngja heiðr.
Gjörðist rúmlátt
fyri grúa slíkan,
þó væri portum
víðt út slegit,
ok garðr gjörr
fyri gáttir utan,
sem rúmr völlr
riddaraleika.
Þètt flykktust fjandar
um fold ok í lopti,
sem hvein víðs vegar
af vængja slætti;
svosem býflugur
á sælu vori,
er sól uppljómar
uxamerki;
þá sèr úngyrmi
ótal framþreyngja
ok hánga hús sín við
hópum saman;
eða frá blómstri
til blómstrs flögta,
en þyrpast jafnóðum
þess á milli
um flatan bekk,
sem er forstaðr
bygðrar af stráum
borgar þeirra,
roðnum balsami,
til ráðagjörðar.
Lík voru læti
loptflokks þessa,
er sèr sveimandi
saman þreyngði,
unz þeim með teikni
til var vísat.
Sjá nú eindæmi,

[19]) Aldèlli, *Pandæmonium*, svosem allra djöfla musteri.

þat undrum gegnir!
Þeir, er strax voru
stærðar vegna
öllum bergrisum
ógrligri,
gjörðust nú minni
minstu dvergum,
ok komust ótal
í eina smugu;
Eins ok Pygmæí[20]
Indíanna,
ok hjátrú lýsir
huldukonum,
er við uppsprettur
ok aldinskóga
leika um miðnætti,
þá máni skín,
þær með dillandi
dans ok saunguin
ýmist skemta
eðr ógn vekja
sál gaungumanns
seint á ferli:
Eins varð ára stærð
afarlítil,
svo þeir allir,
þótt ótal væri,
fengu samastað
í sal nýum;
en í egin mynd
innarr betr,
sátu stórherrar:
Seraph, Cherúbim;
Hèldu þeir lukt ráð
í leyndarherbergi,
gullnum stólum á,
guðum líkir,
fjölmenn samkunda
fjanda dróttar.
Eptir stutta þögn
ok stefnu lestr,
hófst þat mikla ráð
í helvíti.

[20]) *Pygmæí*, smælíngiar, dvergar, mjök smávaxit fólk, varla 1 alin á hæð.

## Hèr hefr
## aðra bók Paradísar missirs.

SAT á trón hafinn
tignarliga
at sið siklínga
Satan, prýddr
metfjám gjörvöllum
meirr skínandi,
er í Ormó[1] fást
ok Indíum.
Ea má eyðslusamt
austurveldi
slíkan gjaldgrúa
gulls ok perlna
bera buðlúngi
barbariskum,
sem Erkiárr
um sik hafði.
Yfirtak þat,
en þó íllt væri,
gjörði guðníðíng
at gildari,
ofarr örvænting
svo upplyptr

[1]) *Ormus*, vík nokkur, er atskilr Arabíam ok Persíaland, hvar eð enar fegrstu perlur fiskast.

umfram alla von,
enn vill hann hærra.
Svo var hans sólgin,
at saddist eigi,
fýsn til fíflsligrar
fleina rymmu,
honum varð hrakför ei
at hyggendum;
stukku fram stór orð
af stoltum hug:
„Heyrið höfðíngjar[2],
hávöld, furstar,
synir sólarheims!
sjáum vèr gjörla,
at ekkert afgrunn má
inni kreppa
afl ódauðligt,
þótt undirþrykkist,
hygg ek því hvörgi
af hæða kröfu.
Mun en himneska
frá myrkra djúpi
dáð, er endr rís,
í dýrð fram bruna
miklu mektugri,
enn mundi fyrr,
ok oss hatendum
ógnarligri,
enn ef skaðafall
eigi sket væri,
einnig albrynjuð
öruggri vissu,
ei at umturnast
annat sinn.
Ek þótt at rètti,
at uppheims lögum,
at sjálfra kjörum
sè yðarr herra,
egin verðskuldan
viðrlagðri,
eins ráðum í
ok örlögum;
Samt hefir tjón þat,
sem vèr liðum,
nú þó viðrètt
at nokkru leiti,
gjört mik öruggri
í göfgu sæti,
er ek hèr byggi
öllum samkvæða.
Vegligt himins vald
ok verðugleikr
mætti misunnast
minni háttar af;
en hvörr mun öfunda
hèr af sæti
þann, er skotmál skal
Skrugguþeytis?
þann, sem er virki
varnar yðrar,
dæmdr kvala til
deildar mestu?
hvar ekkert ágætt er
um at keppa,
heyrast áflog ei
nè hópa drattr.
Erat í víti
til veðs at renna,
engi fèkk eymdar þar
erfð svo litla,
at af metnaði
meiri girnist,
á þat undirlag
skulum iðu byggja.
Framarr fýstir,
enn fyrr á himni,
eindrægnis til
ok allra samráða,
skulum, at svörnu
sáttmáls bandi,
arf, sem áttum vèr,
aptr heimta;
Ok vera vissir um,
þó nú verr líði,
för fèsamari,
enn fyrr í sælu;
en hvort brögðum skal
beitt eða vopnum,

[2]) Svo nefnir Paulus englana, Cól. 1, 16.

sè ráðum ráðit;
ræði sá er kann!"
Mál fal Satan,
en Móloch harri
uppstóð öndverðr,
em ötulasti
himins herjenda·
ok enn heiptugasti,
orðinn ólmari
fyr' örvænting.
Hann vildi at hreysti
haldinn vera
jafn við Jehóvam,
jöfr eylífa,
eirandi betr,
et engi væri,
heldr enn mettist
minnr honum.
Markstefnu þá
á mis við förnum
ótti var honum
allr horfinn;
Guð ok helvíti
ok grand enn verra
virðti hann vettugi,
en veik til máls:
„Ek em augljósrar
áfýsandi
styrjaldar til,
ok stórra víga.
Launsvik lítt ek nam,
leifð þurfendum
þó, nær nauð krefr,
en nú eigi.
Því, meðan myndast
mót til svika,
mun þeim púsundum,
er þarna standa,
ok bíða bendíngar
búnar til rómu,
af himni flúnum,
hellzt til lángt þykja;
Fyri sælast svo
sitt heimkynni
mega með
myrkr fulla
sitja háðúngar
holu þessa,
sem hinn, drottnandi
nú af dvöl vorri,
setti oss sárgrimmr
at sjálfheldu.
Nei, at allsherjar
afli samlögðu,
heldr skulum vèr
með heljar blossa,
æði ok ofstopa,
oss veg ryðja
yfir háreista
himinturna.
Vèr skulum volig
vopn tilbúa
píslarfærum af,
þeim er plágumst með,
á þann, oss þjáir;
þrumur helvízkar
skulu ógn öskra
Almætti gegn;
Hans skal eldíngum
heldökk mæta
hvumleiðum eisan
úr Hvergemli,
vörpuð einmiðt inn
ok ekki spöruð,
hoskra meðal hans
herrfylkínga.
Já, stóllinn sjálfr,
þar Stillir sitr,
skal með bölbælis
brennusteini
ok illum eldi
yfirsteypast,
er hann oss at kvöl
hefir uppfundit.
Vera má, virðist
vegr torsóttr,
ok ei hærri hægt
at hefjast mót;
en ef ómegns öl
ok áin Lethe

eigi hafa rænu
rænt oss allri,
Þá látum oss nú
leiðt i sinni,
at er eðli vort
upp at stíga
til ens fyrrbygða
fæðíngarstaðar,
en niðrfall
nærsta úlagit.
Hvörr skal sá,
er um skemst ei fyndi,
þá vèr óvin af
eltir hrundum
gegnum afgrunn auðt,
hve ógreiðliga
sú gekk svaðilför
ok sukkum trautt?
Þá er uppgángan
þeim mun hægri;
en, þykir uggvænt,
hvörsu afleiðist,
ef oss ofsterkan
aptr nýrrar
upperta viljum
orrostu til.
Kann hann vita veg
verra þessum,
oss enn nú meirr
til at eyðileggja?
sè í víti þó
sök til ótta,
at verða enn nú meirr
eyðilagðr?
Hvat oss verra má
at höndum koma,
enn at búa við
bæli þetta,
reknir farsæld frá
ok fordæmdir
til svo ógnarligs
ok ílls staðar?
Eldofus þessa til
oss kveljanda,
at von endíngar
útilnktri,
hvenær sem heimtir
hefndar tími
oss óheyrða,
þótt undanbiðjumst,
til yfirbótar,
sem er hans bræði
einka leiðarmark
ok lyritti.
Ef vèr enn nú meirr
eyðileggjumst,
gjör drepnir verðum
gjörðir at öngvu,
hví viljum vèr þá
verra kvíða?
Hví hikum vèr
hann at áreita,
sem vèr megnum mest,
því þó morð hreppum,
eðr vera vor
verði at öngvu,
er oss þat betra,
enn at útstanda
eymdir eylífar
æ tórandi.
En ef erum vèr
ódauðligir,
ok kunnum aldrei
aungvir verða,
mun hagr vor
ei meirr spillast.
Styrk voru höfum vèr
ok stríðs afla
fullnógan fundit,
feiknir skelfíngar
hans at útbreiða
háftól kríngum,
(en þótt ófært sè
at á ráðast),
með viðvarandi
vopna snerru;
eru hefndir þat,
ef ekki sigr."
Hèr þvarr Mólochs mál,
en myrkt boðar

augnaráð hefndir
eirulausar,
ok örlög, öllum
óvoganlig,
minnr máttgum
enn megn guða.
Uppstóð Belíal
annars vegar,
Móloch mildari
ok mýkri siða;
engum andi fell
álitligri
honum af himni;
til hárra skaptr
dáða sýndist hann
ok dýrðarverðra,
en þat var ótrútt
ok allt á huldu.
Man af munni draup,
en meiníng þánka
ein var ætíð sú,
at umhverfa
ljótum lygum
í líki sannenda
ok ramskorðut ráð
at rífa niðr.
Lágu jafnan lágt
leiðir hyggju;
til einkis ötull var,
utan klækja;
dofinn ok duglauss
til dáða prúðra;
þó var hann eyrum
þóknanligr,
ok raust hjartnæmri
ræddi svo:
„Ek opinberrar
orrostu til
mundi mest hvetja,
mektugir furstar!
hefir ek hatr svo,
nema hèr talin
orsök aptraði
sú, er ílls boði
virðist vera,
sem varast ættum.
Móloch sjálfr er,
þó mest sik reiði
sinn á styrjar styrk,
stórum uggandi;
einber örvænting,
eyðing, dauði,
eru hugdirfðar hans
helzt ástæði,
einast' augnamið
ok endir hefnda.
Hvör er hefndin þá?
Himins turnar
of allt er
með ærnar fyltir
vaktir, varnandi
von atkomu.
Hèr með tíðum hans
herfylkíngar
gap við ginnúnga
á gægjum standa,
sem fram og aptr
í flugham dökkvum
sveyma vegar víðs
um veldi nætr,
gjörandi gis eitt
geirsóknum at.
En þótt gætum upp
með afli brotist
ok heilt helvíti
í hala drægjum,
til at hrjá hreinan
himins ljóma
myrkrs megnasta
meðr áhlaupi;
Sitja mundi samt
á sínum tróni,
alheill óvinr
ok eigi saurgast;
eldlopts tegundir
upphafligar
mundu mótspentar
meini hrynda,
ok unninn undirheims
af þvo funa.

Hvat vill verða þá
vort, er hreppum,
svo á bak brotnir?
beisk örvílnan;
vèr ertum upp
hinn Almáttuga
til at úttæma,
temprunar án,
heilfullan mælir
heiptar sinnar.
Sá mun verða vorr
viðskilnaðr;
at vèr upp þaðan
aungvir sèum,
megum vèr hafa
at meina bót.
Grátlig er græðslan!
þó grandi pína,
hvörr mun hyggjukrapt
hirða at láta,
ok skiljandi skyn,
er skundar gegnum
aldir eylífar,
eyðíng við?
við því, at verða
víðum svolginn af
iðrum ósorgar
ennar ósköptu,
fjörlauss, færslulauss
án formerkíngar?
Ok þótt vildum vèr,
væri spyrjanda,
hvört megna muni,
sá oss mót stríðir,
eðr vili oss
svo vonds unna;
ek em óviss um,
at hann megni,
hitt má vita víst,
at hann vill aldrei.
Mun hann, svo hygginn,
heiptum sleppa
öllum í einu,
sem af ómætti
eðr yfirsjón,
ok unna dólgum
þess, er æskja þeir?
þannig gefandi
endíng óvinum
í ofsabræði,
þeim er hlífir hann,
heiptar vegna
að eins, eyðíng við,
svo eylífð píni.
Hvörs höfum vèr
hèr at bíða?
herma hinir svo
hildar fýsendr,
vèr erum valdir,
ok vissum dómi
eylífs ángrs til
ákvarðaðir;
hvat sem höfumst at,
hendir oss eigi
meiri misþirmíng
enn megum líða,
vort it vonda kann
ei verra gjörast.
Er it þýngsta þá
þessi seta,
ráðslögun slík,
ok ró með vopnum?
hvat? mundum vèr ei
hjartans fegnir,
nær reknir runnum
fyri reið himins,
oss í afgrunns hyl
óska fylsnis?
Varð oss ei víti
þó at vondt þyki,
lemstr hyljandi
at líknarbúð?
víst mundi verr
vorum hag komit,
er fastir flutum
funa pytti í.
En ef andi sá [3],
er áðr kveikti

[3]) Esaj. 11, 4: Hann mun deyða hinn óguðliga með anda sinna vara.

blossa blöskrandi,
blèsi þá sömu
upp af nýu nú
nísting sjöfaldri,
ok oss óvægr
í þá steypti?
Hvat, ef hefndar mund
hvíld at sinni
ötuð unda sút,
aptr gripi
vopn, til at vekja
vora plágu?
Ef hún opnaði
allar[4] hirðslur,
ok hvelfíng Hvergemlis
hvæsti fossum
á oss af eldi,
með ógn heitíngar
í koll kvikum oss
at koma niðr?
Ef vèr enn,
meðan ósken höfum
örlög frægðarfull
frumráðum í,
yrðum gripnir upp
af ofviðri,
ok hvörr við hamar sinn
herbroddum spíttir,
lèðir herfángs til
ok leikafælu
hvössum hvínandi
hvirfilvindum?
Ef, í sæ söktir
síhveranda,
yrðum nauðnöglum
niðr festir,
svo með óslitnum
sorgarstunum
lifum aldir af
endalausar,
óaumkaðir
ok utan vonar?
Þetta meinar ek
mundi verra.
Hèr fyrir hættrar
hjörva rymmu,
hvort sem augljós er,
eða dulin,
em ek ófúss
ok afletjandi.
Því hvat megna mun
makt eða lymska,
at granda Gram þeim,
er gegnum sèr
augum eldskærum
alla hluti?
Sèr hann hæðum af
híngat niðr,
hvat vèr höfumst at,
heldr[5] kýminn,
ei meirr almáttkr
oss at verjast,
enn vís at velta
vandligast þenktu
ok slægð ramreirðu
ráða smíði.
Hvört hljótum vèr þá
himins afsprengi
svo at fóttroðast
fyltir eymd,
svo at sítóra
í sára keirðir,
til at hegnast hèr,
hlekki ok kvalir?
Þó er betra þat,
enn þessu verra,
at meiníng minni;
máttr forlaga
þvíat þvíngar oss,
þann ei umflýjum,

4) Job 38, 22: Hefir þú þar verit, hvaðan snjórinn kemr? eðr hefir þú sèt, hvaðan haglit kemr, hvörju ek inniheld til hörmúngar tímans, ok til þess dags stríðsins ok bardagans.
5) Psálm. 2, 4: Enn sá, sem á himnum býr, hlær at þeim, ok Drottinn hæðir at þeim.

órœk álvktan
ens Almáttuga,
ens bista boð,
er bar oss sigr af.
Eins til umburðar
ok afrekana
öll er hin sama
atorka vor;
ok sá setníngr,
er svo býðr,
eigi er ósanngjarn,
at orum[6] dómi,
væri vopnaþíng
vísliga stofnat
af oss þvílíkum
óvin móti,
með svo tvísýnum
sigrheillum.
Þat mik hlægir helzt,
nær hann, sem treystir
djarfr dör sínum,
en at dug brostnum
missir móð sinn
ok mælir æðru,
hyggst því hjá sneiða,
er hèr fylgir af:
forsmán ok flótta
ok fullu stralli,
dómi drottnanda,
þeim dæmumst nú;
Ef vèr þolum þann
með þögn ok kyrðum,
hans máske hjaðni
heipt um síðir;
við oss verendr
svo víðt í fjarska
mun hann meiðslum ei
meirum hreifa,
ef ei' ýfum hann
áleitni með.
Einnig útkulnar
eldr þessi,
nær ei æstr upp
er af honum;
hans mun vor vinna
vera dampa
skær hinn skaðvæna,
ok skjótt ei merkja.
Umbreytt eðli vort
eptir bygðum
mun þrautlaust þola
þeirra vondsku;
mun þá ógn þeirra
mýkri verða,
ok alsvört myrkr
oss at ljósi.
Hvörr veit hvat verðr?
von ok umskipti
til megu falla,
þá tímar líða,
máske verðug vel
vorrar biðar.
Því látum oss
með þreyíng kyrri
viðtöku veita
vorum kjörum,
enn þótt ill sèu,
ei hinum verstu,
utan sjálfir oss
aukum kvöl."
Belíal þannig
hjó með vitsku-
yfirhöfn orð sín,
en inntak ræðu
ei var annat, enn
afskiptaleysi,
friðlig ónenníng,
en friðr eigi.
Nú mælti Mammon:
„mistarhviðu
ætlum efnda vèr
til annarshvors,
at stökkva af stóli
Stillir himna,
eðr aptr ná
arfi vorum.
At stökkva Stilli
stendr vænda til

[6] *Orum* fyri *vorum*.

nær ráð forlaga
rýma hlýtr
fyri tilviljan
festulausri,
ok Óskapnaðr[7] á
um at dæma,
Vitfirríngs væri
at vona slíkt;
allteins annat hitt
af áðr töldu;
hvörn part hyggjumst vèr
af himni vinna,
at þeim óhröktum,
sem yfir ræðr?
En þótt ósk vora
hann eptirgæfi,
ok vèr næðum náð
með nýrri hlýðni,
hvörnig kunnum vèr
hans í náveru
beygja bljúgir oss
fyri boðum straungum?
Hans stól helgum með
hróðri prísa,
með halelúja
harðkúguðu,
göfgandi guðdóm
geigvænligann
vors æ öfundaðs
Einvaldsherra?
En hann sjálfan sjá
sitja bjóðanda,
ok hans altari
umhverfis tjaldat
með ylm af ambra,
önnúngsfórn vorri?
skal sú skemtan vor
ok skikk á himni.
En hve leiðinligt
at lifa svo
um tíð eylífa
tilbiðjandi
hann, sem hötum vèr?
hugsið aldrei þat!
Látum oss þess ei
leita framarr
sem vèr valdi með
ei vinna kunnum;
ok þótt unnt væri
at yfirkomast,
er oss ógeðfeldt,
eins á himni.
Þvílík er þegnstètt
þessi fagra;
heldr hyggjum á
hjá oss sjálfum
at afla ok njóta
egin gæða,
at sitja sjálfum oss
sjálfsmunum at.
En þótt í auðn sè
erum vèr frjálsir,
um skil skyldugir
ok skatt aungvum;
fellum heldr hug
at hörðu frelsi,
enn oki lèttu
ánauðugs glansa.
Skína mun þá mest
vorr mikilleikr,
er vèr stiptum stórt
af stofni smám,
gagnsemd af grandi,
gleði sorgum af;
þegar þrífumst vèr
í þrauta pressu;
er með ástundan
ok íls þoli
breytum vèr böli
bílífis til.
Hrollir hugr oss
af hreisi voru,
þvísa djúpt drekkta
dymmu landi;
lystir ljósan ei
Lávarð himna

[7]) Óskapnaðr, *Chaos*. Nær sem *Chaos* kemr fyrir í þessum verka, svo sem persóna, brúkast þetta nafn í Islenzkunni.

þó þrátt at búa
þykkvum skýum í[8],
lmlinn heið-myrkri
hátignarfullu,
hvaðan harðfleygar
hljóma skruggur,
svo líkist Breiðablik
bölva pæln?
Munum minnr vèr
myndat geta
ljós, nær lystir oss,
líkt sem hans?
en hann sèr óljóss
eptir voru.
Eigi er skortr á
í auðu þessi
fólgnum fjársjóðum,
fást nægtir hèr
af gulli, silfri,
ok af gimsteinum.
Eigi heldr álátt
oss at viti
eðr íþrótt,
af auðlegð slíkri
til at skapa skrant;
þó skíni fegr
himin, hvat hefir
hann at meira?
Líka lagast mun
með lengð tíma
eymd vor, eðliligs
til unaðsháttar;
sá er nístir nú,
næmr blossi,
verðr fyri vana
viðkunnanligr,
ok vèr fríir frá
at finna kvöl.
Svo býðr sèrhvat
til sinnis kyrða
oss ok unaðar,
ens öruggasta
meðals, til at mýkja
meinkjör vor,
hugleiddü, hvörir
ok hvar vèr erum!
ok at amast við
öllum þánka
um reisíng rómu;
ráð er þetta mitt."
Voru varir hans
varla luktar,
þá í þraung heyrðist
þessa skara
buldr hvískrandi,
sem beljan vinda
skvaldrar álengðar
af skerjum dæst;
þá á hler[9] hlýri
hleypti náttórum,
er síðan svæfir
saungóm hásum
þann of siglir sæ,
sèr í hlè boða
skýlanda skæðu við
skarki vindar.
Eins varð málkliðr
Mammons orðum at,
fast fèllust allir
á friðar ráð;
því örlög önnur
eins ok en fyrri
fældust framarr þeir,
enn fúlast víti.
Ok enn leyndist þeim
innan rifja
skelfíng af skeðu
skruggu slagi,
ok mæki, Michaels
mund er skók.

[8]) Psálm. 18, 12: Hans tjald í kríngum hann var myrkt, ok svört þykk ský, þar sem hann var inni hulinn; útaf þeim glampanum fyrir honum tvístruðust skýin með hagli ok leiptrungum. [9]) *Hlerr*, sjórinn; bróðir hans, vindrinn, hleypir á hann náttórum, þ. e. æsir hann.

Hreifðist hugr þeim
hvörgi minnur
þánka vakinn við
um veg ok frama,
er þeim ríkis hag
reisa kynni,
tímum líðandi,
Tignarkappi
unz viðr uppheim
etja mætti.
Þegar Belzebúb
gat þat at líta,
sat honum engi
nærst Satan hærra,
reis hann upp; röksemd
ok rík alvara
andkendar voru
í ásýnd hans.
Hátt stóð rètt reistr
ríkis stólpi,
djúpt var ígrundan
á enni þrykt;
viðhjálp veldis,
vísdómr fursta,
af skein augum hans;
en þá fallinn
var hann voldug tign
viðloðandi.
Allþreknar stóð hann
Atlassherðar með,
vís ok öflugr
viðlendustu
einvalds umdæmum
undir at rísa;
ró bauð álit hans
ok athygli,
sem dimm draumnjórun,
eða dags miðmundi
sæld um Svasaðar;
svo hann kvað:
„Trónar! kóngakyn!
kundar himins!
þèr uppheims afl!
eða hvat?
skulum vèr þann verðugleik
við oss skilja,
ok heita hèðan af
helvítis furstar?
Af því Allsherjar
óskir fýsa,
at vèr hús vor hèr
ok heill byggjum,
eflaust dreymir oss,
óminnuga
at Hilmir himins
hefir þenna
dæmt oss dimmustað
fyri dýblissu,
en ei vígi vort
mót veldis armi;
Ei at vèr skulum,
yfirdrottnan
hans frá fríir,
friðarspella til
aptr her heimta
honum á móti,
heldr þýngstan hèr
við þrældóm búa;
At æ sèum vèr,
en þó í fjarska,
fánga flokkr hans
við fast ok bundinn,
því eins upphæð
ok undirdjúpi
fyrst ok síðst mun hann
fyri ráða,
efið alðrei þat!
ok aungvu sleppa,
þótt rómu reisum,
af ríki sínu;
Hann hörðum mun
yfir helvíti
járnsprota með [10],
jafnan drottna,
sem yfir gimli
með gullspíru.
Hví þá? hvat skal oss
á hviður darra

[10]) Psalm. 2, 9: þú skalt í sundr slá þá með einni járnspíru.

eða frið framarr
frekt at standa?
áttum örlög vèr
illu heilli,
oss til töpunar
ok tjóns hvervetna;
erat boð gjört
nè beiðst friðar.
Hvílíks hyggið èr[11]
hèr muni friðar
auðit ánauðgum
utan slaga?
ílls ófrelsis,
allrar hegníngar,
eptir egin vild
áleggjanda.
Ok hvörn egum vèr
annann frið,
enn hatr, at bjóða,
heipt taumlausa,
hefnd í hvervetna,
sem helzt megnum,
er lángsamliga
leitist við,
en þó án afláts,
unnum spilla
sigri Sjóla þess,
sem oss feldi.
Ei mun tilskorta
tækifæri,
ei mun nauðsyn nú
nein, at förum
hættan hernað með
á himins veldi,
eru múrar hans
óttalausir
árásum fyrir
ok umsátrum,
allskyns umturnan,
undirdjúpi frá.
En ef ávísat
ek yðr fengi
nýtt fyritæki
nokkru hægra!
Eitt er rúm þat,
hvar annarr heimr,
ef aldin spá
eptir gengst,
myndaðr mun
um mundir þessar.
Farsæl fold er sú
fengin til bygða
nýskaptri veru,
sem nefnist **maðr**,
oss ei ólíkri,
en þótt lægri sè
at makt ok prýði,
miklu framarr þó
ástfólgin hinum,
sem uppi drottnar;
Svo hans vili var,
vitanligr
gjörðr guðum með
girðtr svardaga[12],
hvar við himin allr
hrærast nam.
Þángat viljum vèr
venda þaunkum,
at þekkja fáum
þessa skepnu:
hvörnig háttat sè
hennar efnum,
óstyrk ok orku,
einnig hvörjum með
hægast hennar má
hætti freista,
hvort vèlum heldr
eðr harðfengi?
En þótt himinum
sè aptrluktr,
ok hinn sá Hái,
sem honum ræðr,
óhullt varðveittr
af egin krapti,

[11]) *èr*, fyri *þèr*. [12]) Ebr. 6, 17: En þá Guð vildi yfirgnæfanliga auðsýna, at sitt ráð er eigi óstöðugt, hefir hann þartil eið álagt.

vel vera má,
at veldis enda
staðr nærbygðr
standi opinn sá,
afhendtr vöktun
innbyggenda;
þar máske mundi
meðr voligu
eitthvat afrekast
yfirfalli.
Ef vèr eyddum allt
með eldi vítis,
eðr hertækjum
harðfengi með
brelskan búanda
á brant rekandi,
eins ok áðr vèr
urðum fyri;
Eða ginnum hann,
at öðrum kosti,
til at vingast við
vort samneyti,
honum Guð gramr
svo göfugt smíði
almái sjálfr
eginna handa;
Væru hefndir þat
venju meiri,
ok honum hnekking
hentulig
fengins fagnaðar
af falli voru,
en oss hugarhægð
at hans ángri;
Er hans bezt elskut
börn fèlli svo
hraparla með oss
hrakför í,
veiku kynferði
ok vonum skjótarr
fölnaðri farsæld
formælandi.
Gefið greindu nú
gaum at efni,
verðugt viðburðar

hvort virðast kann;
eðr æskið þèr
ímynduðu
hèr helmyrkrum í
herradæmi
eins ok eggjum fugl
á at kúra?'
Svo fèkk Belzebúb
sitt uppkveðit
ráð djöfulligt,
en raunar spunnit
Satan sjálfum af;
svo djúplagðrar
hverr mundi fullfærr
fólsku annarr til,
enn hann, höfundr
at hvörskyns illu;
Ættlið allt vort
í einum stofni
at firra fjörvi,
fold ok helvíti
at blanda bundnum
í bendil saman,
stríðs ok stygðar til
stórum Skapara?
Þó mun þeirra spott
þjóna hljóta
honum hèðan af
heiðrs til.
Veittu viðtökn
með velþóknan
stèttir helvítskar
stoltarráði,
sendust sínr út
úr sèrhvörs brjósti
af gleði gegnum
glugga sjónar;
uppkvað allr herr
óp samþykkis.
Hann af nýu þá
hóf svo ræðu:
„vel þú veitt hefir
vitra dóma,
guða söfnuðr
göfugasti!

ok til lykta leidt
lánga ráðstefnu;
Þèr likr sjálfum
þú hefir nú
álýktat hluti
yfrit stóra,
sem oss eitt sinn enn
ættjörð vorri
nærr hefja skulu
neðsta djúpi frá,
virðtri vettugi
vild forlaga,
máske sjóndeild í
sólarheims;
Hvaðan heppnast kann
hentugleiki,
oss at innþrengja
með ásókn vopna
nágrannaligri
nauðgaum himin í;
En ef eigi,
þá at útvega
betri bústað
und belti myrkra,
ei án heimsóknar
af himins ljósi,
ok at affægjast
illum sorta
þess mjök skærum með
mörgungeisla;
þar skal lífgandi
loptblær sætr
bæta þau, hèr bíðum
af báli sár.
En þó er áðr
atspyrjanda:
hvörr mun fullfenginn
ferðar til,
hinn at uppleita
heim nýskapta?
hvörr berr huga til
í hyl at sveima [13]
botnsvana ok birtu,
brautir ókunnar,
at þramma þoku í
þreifanligri?
Hvörjum endast mun
afl, án þreytu
at veifa vængjum
í víðu rúmi,
unz hann hvílist á
eyju farsællri?
hvörr mun magt nægja
ment eðr kænska,
at vinna ok varast
varðhöld engla,
sem útdreifð eru
of alla staði?
Hèr lætr hann
í helzta máta
vareygð viðhafða
ok vèr ei minni,
því á faranda
þessum ríðr
öll velferð vor
ok von síðarsta."
Hann at svo sögðu
settist niðr;
óró eptirbið
í augum stóð,
ef sik einhvörr fram
til andsvars gæfi,
hans máli mót
eða meðhaldandi,
eðr ok byðist
á at hætta
tilraun djarfliga,
en talar engi.
Allir einum hug
yfirvógu
hávan háska
hugsan djúpri með,
ok sèrhvörr sína
sá þar fána
annars ásýnd í
egin hræðslu.

[13]) Lúc. 16, 26: Ok fram yfir allt þetta er á millum vor ok yðar mikit djúp staðfest.

Enginn útvaldra
afrekskappa
fannst svo fullhuga,
at frambyði
til vegs vogunar
viðbjóðsligrar
eyrendsreka sik
einn í för.
Svo at síðustu
Satan þessum
útbranzt orðum með
öruggs hugar
sem stoltr stillir:
„þèr, stór himins ætt!
makliga má oss
málfall henda,
ok djúp ígrundan,
þó dirfð skorti ei.
Lángr er hèðan
ljóssbygða til
ok vandfærr vegr,
en vor dýblissa
næsta rambygð,
níuföldum með
harðmúruð blossa
hvelfíng þessi;
Hèr með varnat er,
hverr sem atkæmi,
allrar útgaungu,
með aptrlæstum
demants dyrum; ok
djúp þeim, er slippi,
mætir magatóm
en myrkva nótt,
þanninn víðs vegar
í veruleysi,
honum hótandi
hyl þessum í
tjóni tapaðrar
tilveru.
Ok þótt kæmist af
einhvörstaðar
at lóð eðr landi
leyndu fyrr,
hvat er þá annat enn
á att hitta
nýum ókenda
nægð af háska?
En þá þekktumst ek
þessa sætis
óverðugastr,
öðlíngstignar
ok vegligs veldis,
ef volig hætta
eða þraut þar frá
þor beygði mitt,
at vilja voga
þat vorrar sýnist
efni til auðnu
allra saman.
Hví tiggja titli
tók ek á mót?
hví hafnað' ek ei
herradæmi?
ef ek vilda mik
undanskora
heiðrs ok hættu
hlutdeild jafnri?
Þeim, sem öðlast æðst
ærusæti,
heyrir til háskans
helzti partr.
Farið því, farið,
furstar voldugir!
þú hátt hrapaðr
himins ótti!
Hugleiðið heima,
meðan hèr búum,
hvat nú nístandi
nauð linar bezt,
ok gjörir böls hól
bæriligra;
ráð ef fundin fást,
eða fjölkýngi,
sem geta grennt
eða glapit pínu.
Ovin árvökrum
ætíð haldið
vareygðarsaman
vörð á mót;

meðan allar ek
utanvítis
myrkrar óstjórnar
merkr gegnum
leita eptir lausn
liði allsherjar;
skal þat meðr mèr
mángi starfa."
Endaði ok uppstóð
Erkifjandi,
forðandi færi
fleiri svara,
at ei íráðast
annarr skyldi,
ötull boðum í
þótt afsvar vissi,
ok í huga svo
hann við keppa.
Fælst var forboð hans
framarr hættu;
allir reistu sik
í einu svifi,
varð þytr þá,
sem af þórdunum[14]
feikna fármiklum
er fjærri gánga.
Fyri Satan sik
sèrhvörr hneigði
lotníng djúpri með,
líkt sem Guði,
honum hrósandi
sem himna Drottni,
ok hans hugprýði,
er hag eginu sinu
metti minnr, enn
múgans gengi.
Ei er útslokkin
öll til grunna
dygð hjá fordæmdum
díkis öndum;
því er vanvizka
vondum mönnum
at digrast drambi,
þó drengskap sýni,
kveiktan af hroka
ok af kappgirni.
Svo urðu málalok
myrkra þíngi á
fagnaðarfull,
fyri tilstilli
ára Höfðíngjans
öllum fremri;
Sem þá skuggaský,
skjótt uppdregin
fjallshvirfli frá,
at föllnum blástri
af nöpru norðri
náðir værar í,
sèr of hauðrs hjálm
heiðan dreifa,
ok yfir dymma
dýngju snævar
landsreiti ryðja
regns ok krapa;
En mey gullbúin
Mundilfara
býðr blíða nótt,
beðs vitjandi,
ofansendum
aptans geisla með,
svo mörk fjöldíðruð
fyllist lífi,
kveða kvöldhörpur
kvakandi fugla,
tjáir hljómr hárr
hjörð glaðværa,
svo fá fimbulmál
fjöll ok dalir.

[14]) Orðit þórdunur minnist ek ekki mik sèt hafa, utan í einni afargamallri íslenzkri lækníngabók, á kálfskinni skrifaðri, hjá sál. Landphysíco E. Pálssyni, (sem hann fyrir aldrs sakir kallaði móður). En bæði þat, at Reiðir vóru fararbóði þórs, ok líkindi þau, at *Torden* Danskra, sem ok *Donner* þýskra, eigi hèr skyldt við, sýnist mega helga því nokkurn myndugleika.

O, hvílík afmán
Adams barni,
veranda miðt í
vonum náðar!
djöfull vinskap við
djöful bindr,
en maðr manni
misann friðar,
einn egin tegund
áreitandi,
af skepnum öllum
sem skynsemd hreptu.
Guðs boð friðr er,
en grimd ok hatr,
ofsókn, illsku stríð,
allr fjandskapr,
hvervetna drottna
hauðri voru á;
eins ok egum vèr
ekki nóga
hatendr, nema
hötumst sjálfir,
þeir oss ástunda
at eyðileggja
eins um dymma nótt
ok dag bjartan.
Svo var voðvirktr
vítis fundr,
gengu í rèttri röð
ríkisfurstar;
skreytti Skaðvaldr
skara miðjan,
stoltr stýrir,
sem styrjarkappi,
aleinn etjandi
æðstan himin við,
í glansa ok prýði
Guðdóms api.
Kríngum hann mundi
krans af Serafím,
fögrum fánum, ok
fægðum spjótum;
er þá yfirlýst
með ópi hliðra
reirðri samþykki
ráðs ályktan;
Uthrópuð var hún
í átt sèrhvörri
klíngjandi pípum
af Chèrúbim;
afgrunns heyrði heil
hol víðátta,
ok gjörvöll vítis
gall á móti
jálmandi bygging
jakvæðum af.
Því gekk þaðan nú
með þánka hrestum
sèrhvörr sína leið,
af svikafullri
von ok vogunar
viðkviknaðr,
hvört, sem hugsan myrk
heimti kjörvillan,
ok hvar reikna rèð
róvænligast,
ok bezt at bana
biðar leiðendum,
eptir Oddvitans
aptrkomu.
Viku ýmsir þá
á völlu slètta,
aðrir frömdu flug
í fríu lopti,
áttust þeir veð við,
hverr vakrast rynni,
eins ok í leikum
Olympisku.
Sem þá svipliga
sjást í skýum
bardagar blóðgir
ok bitr spjót,
landi bölsboði,
birtust árar
etjandi vopnum
í átt hvörri.
Brutust sumir fram
með berserks æði,
svo fjöll ok björg
fyri hrundu,

þyrlaðist loptit
í púnga bili,
stóðst víti varla
vargagáng þann.
Eins og Alcides
aptr kominn,
ágættr sigri,
Öchalía frá,
rótföst grenitrè
reif af þínu
eitr ídýfðrar
yfirhafnar[15],
ok hratt hamstola
af hrygg Oetas
Lichas niðr
í lög Evbóas.
Aðrir fundust enn
ógrimmari,
er dvöl sèr kjöru
dali kyrrum í,
hátt lètu af hörpu
hagl'a stiltri
um egin afrek
engillig kvæði;
Um óheill orrostu,
illsku skapa,
er frækleik dæmdu
ok frelsis anda
undir púngbærast
þrældóms ok
ofrefli með,
ok ófyrisynju.
Allt var öfugt dæmt
í óði þeirra;
en sæt samhljóðan,
um saunglyst anda
hvat annat mundi
í hyggju leidt?
hrakti helvíti
í hrellíng miðri,
sem frá sèr numit
heyrði fagran klið.
Aðrir afviknum
áttu á hvoli
viðtal vinsamligt,
virðta samkvæmi;
hrærir orðsnild eins
eðli sálar
ok skær skilníngu
skemtan saungva.
Orðræður þær
at efni höfðu:
forsjón ok forlög,
ok frelsis gengi,
vondt ok gott, velstand
ok vesæl kjör,
heiðr ok háðúng,
hugar viðkvæmni,
ok tinnuligt þol
án tilfinníngar.
Allt var apaspil
ónýtrar fræði,
rángar röksemdir,
nè rètt speki,
þótt um stund stökkti
stórri þínu
ok veitti vesælum
von táldræga,
þarneð þols hörku
þverskallaða
styrkti stakki með
stáls tvöföldum.
Fóru fèndr enn
flokkum saman
nokkrir til njósnar
nýrra hluta,
myrkraríki rètt
at rannsaka[16]
of allar áttir.

[15]) *Alcides* er Hercúles, hvörjum Dejanira gaf af vandlætíng eina kápu, eitraða blóði Nessí, eins af fólki því, er kallaðist Centauri. [16]) Matth. 12, 43: Nær óhreinn andi er farinn út af manninum, reykar hann um þurra staði, leitandi hvíldar, ok finnr eigi.

enda milli,
hvort ei bólstaði
byggiligra
eitthvört á hittu
annars parts.
Flugu dreifðir þeir
á fjórar síðnr
með ám eins mörgum
endilaungum,
sem í helvíti
sínn gjósa
bölstrauma bifi
í brunapytt.
Fyrst er stuggvæn Styx
stríð af morðhatri;
önnur Acheron,
elfa sorgar
bæði djúp ok dökk;
dynr Cócýtus,
nefnd af nauðkveini,
sem í nánd heyrist;
fjórða Phlegeton,
fleytir báli,
öldur æsa þess
æði vitstola.
Lángt þaðan Letho
lygn ok hljóðfara
veltir vatni fram
villukróka;
henni hefir gleymska
heitis fengit;
hvört, sem bergir, brjóst
á bifi þvísa,
á strax efni sín
í óminni,
einnig sjálfan sik
ok sína vern,
grát sinn ok gleði,
gremju ok yndi.

Land er at líta
fyri lög handan
frosit, fælndymmt,
fullt óræktar,
stríkt með stormvendi
stirðum æva
hvirfilvindum af
ok haglèli,
sem þeigi þyðnar
eða þeys kennir;
Heldr drjúgum dregst
í dýngjur saman
landbroti líkar
ok ljótum rústum;
þat land þakit er
þykkvum snævi,
ok umgirðt ís
alla vegu.
Fannst þar foræði
furðu mikit,
því Serbóniska
sambjóðandi
dýinu djúpa [17]
við Damíata
ok hjá Casíó
enum forna,
hvarí herflokkar
heilir sukku.
Loptit bölbitra
brennir með frosti,
þess hefir elds afl
ærinn kuldi;
verða þángat
vítisnornum af,
römmum rifvörgum [18],
sem rán elr,
dregnir fordæmdir
daga tiltekna;
Ok þar útstanda

[17]) Eitt fen í milli Egyptalands ok Arabía, hjá fjallinu Casío, umgirðt með hæðum 'ok flugsandi, sem vindrinn opt feykir yfir vatnit, svo þar hafa sokkit heilir herflokkar; Heródótus 3 bók. [18]) *Harpyfodede* kallast *Furiæ*, eðr enar grimmu vitis nornir, í þeirri dönsku útleggíngu, af gripvörgunum *Harpyis*, sem menn hèldu at hripsuðu þá burt, sem mistust á jörðinni.

umskiptar kvalir,
hita ok heljar frost,
hvortveggja sárast,
fángnir ferjast þeir
fram ok aptr,
ángrs auka til
yfir Lethe;
því þegar sólgnir
þeir ástunda
naglsvætu at ná[19]
nokkurs dropa
æsktu vatni af,
eymdar sárendi
til at svæfa sín
með sætri gleymsku,
eru strax örlög[20]
upp á móti.
Geyma þau girnstan lög
gargansfælu með,
svo hans sjálfkrafa
sik frá dregr
bif þeim bergja vill,
ok bitran gabbar
þorsta þjakaðra;
þat sem forðum
tvistan Tantalum
á tálar dróg.
þannig reikaði
ráði týndu
forvitinn flokkr,
ok nú fyrst rendi
yfir ófrýni
erfðar sinnar
sokkinni sjón
með súr ángistar,
hvörgi hittandi
hvíld ena minnstu.
Gekk ganför þeirra
gegnum margan dal
skugga fullan
ok skelfíngar,
gegnum mýmargar
mótgángs álfur
yfir klökut sker,
klúngr glóandi,
gljúfr, grjóthamra,
gjár ok tjarnir,
dý, fen ok díki,
allt dauðans skugga;
Heim, sem er hel eitt,
hvorgi neitt annat,
gjörðr í grimd
af Guði vondr,
ok fyrir íllt eitt
einasta góðr,
hvar lif allt lætst,
en lifir hel;
Hvar neitt náttúran
nema skrímsli
getit ei getr,
grimma meinvættu,
illar ófreskjur
ei frá segjandi,
verri enn skáld skrökva,
eða skapt fèkk ótti
Gorgónes, Hýðras[21]
grúa af Chimeris.
Andskoti Guðs
ok allra manna
Satan með sama
sik tekr á
vængi snarfara,
ok vendir flugi
einn á veg, vítis
sem veit at portum,
hárri hugsan af
harðla tendraðr.
Oðfluga sveif hann

19) Lúc. 16, 24: þá kallaði hann, ok sagði: ó faðir Abraham! miskuna þú mèr, ok send Lazarum híngat, at hann drepi hinu fremsta síns fíngrs í vatn, ok kæli túngu mína, o. s. fr.
20) Örlög kallar Njála forlög: örlög þín eru úti á Islandi.
21) *Hýðra* var einn ormr í Lernuvatni med 7 höfðum; væri eitt afhöggvit, er sagt, at 7 yxi í staðinn; *Chímera* er sagt hafi hafi ljóns höfuð, hafrs búk, ok dreka hala.

ýmsum jöðrum at,
stundum fèkk djúpit
strokur lángar,
þá þaut hann hátt upp
þess á milli
rètt at rjúkanda
rjáfri hvergemlis;
Sem þá seglum með,
sènum álengðar,
skautat sýnist skip
í skýum hánga,
svo mundi Satan
at sjá í för.
Loksins nær hann nú
nillheims múrum,
er hátt hreyktu sèr
heljar mænir að.
Þar vóru þrjú port
þrisvarsinnum,
þrjú af kopar gjör,
þrjú af járni;
dyr voru þremmar
demants fjöllum af,
einkis kyns kraptr
komst þar í gegnum,
var þat allt umgirðt
vafrloga
á hverja hlið,
en þó hvörgi spillt.
Sátu portin við,
sín hvors vegar,
ókyndur tvær[22]
ofboðslignstu,
önnur ásjálig
at ofanverðu,
at mynd sem mær
til miðtis niðr;
En neðri hluti
nærsta ljótr,
víðum vikum með
vaxinu hrúðri;
hún var höggormr
hálf, und belti
döprum vopnuð með
dauðans broddi[23].
Henni skreið um skaut
skaðvænn grúi
helvítskra hunda
hátt geyandi,
ok utan afláts
ýgldum kjöptum,
eins ok á Plútóns,
portvaktara[24],
einnig orgi með
ógrligu.
Ef kom aptran at
óhljóðum þeirra,
ok þá sjálfum þeim
þótti betra,
aptr skutust þeir
í iðr hennar,
ýldu ok urruðu
eigi sènir.
Okynd hin önnur,
ef svo nefna má
þat, sem lim aungvan
nè lið hefir,
ef þat virðist verðt
vera at heita,
er eigi sýnist
utan skuggi,
stóð svo dökk sýnum
sem svartnætti;
Bist sem hamhleypur
heljar tíu,
svo hryllilig
sem sjálft helvíti,
fleini sveiflandi
fullum af ógn.
Hafði viðundrit

[22]) Ekki fæ ek af mèr at nefna hèr skepnur. [23]) þessi fræga eptirlíking er bygð á Jac. 1, 15: þegar girndin hefir getit, o. s. fr. [24]) *Cerberus* hèt porthundr Plútónis, vítisgoðs, þríhöfðaðr.

á höfði krónu[25];
en nær Níðhöggr
í nánd kom,
stökk þat styggliga
strax úr sæti,
ok trað feikna fet
faranda móti,
svo hristist helvíti
hvört spor við.
Stöðvar farar flug
fjölmóðgr Andi,
ok veit ei vætta hvat
vera muni,
undrast hann ókynd,
en eigi hræðist,
því utan Alföður
ok hans Sonar
skar hann skimp eitt
sköptu hvörju at,
ok varð af aungvu
óttasleginn.
Skaut hann skopaugum
á skrímsl, ok mælti:
„hvörr? it fordæmda!
hvaðan ertu?
sem vogar, vondr ok
viðbjóðsligr,
hans þinn vanskaptan
hèr at setja
þröskuld för minni
þessum portum at.
Vit, hvort sem vilt þú
eða viðspornar,
mína frem ek för
fram ok aptr,
dett sjálfr ella
um dælsku þína,
ok, niflheims niði!
nem af reynslu,
at bindast bardaga
við börn himins."
Honum svaraði
af heipt uppblásin
fólslig forynja:
„ferr enn vondi hèr
eiðrofs Engill,
ertu friðþjófr,
sá spekt ok trygð
spiltir himna,
óskerð áðr
æ sem var;
Ertu hinn illi,
sem í upphlaupi
drambsamrar dirfsku
drógst í hala
heilan þriðjúng af
hæða börnum;
þessvegna þèr nú
ok þeim er hingat
kastat fordæmdum
í kvöl eylífa.
Þó blygðast þú ei
þik at telja,
háðr helvíti,
himins öndum með,
þorandi þar
þrjózku at etja,
er ek einnsaman
öllu ræð!
Þèr þakkarlaust
ok at þvernauðgu
em ek öðlíngr þinn
ok yfirherra;
svei þèr hèðan burt,
svikull flæmíngr!
heim í hegníngar
höpt þín aptr.
Flýt ok forða þèr,
svo flengist eigi
hinkrandi minni
höggorms svipu af,
eðr þúngt lag
af þessu spjóti
skjóti nýum þèr

[25]) Opinb. b. 6, 2: Ok ek sá einn hvítan hest, ok sá þar uppá sat, hafði boga, ok honum varð gefin króna, ok hann fór út at yfirvinna.

skelk í bríngu
ok eymstrum þeim,
er ei áðr fanst!"
Meðan mælti svo
megnar heitíngar
dimmleitr draugr,
drógst á brýr honum
hraksvipr tífaldt
hræðiligri.
Stóð sámt Satan á
sínu máli
honum andspænis
hvörgi smeikr.
Líkr var hann logandi
á lopti norðrs,
af heipt heitt kyndtr,
halastjörnu,
sem bálast breiðum
brautum eptir
Ophíocei[26]
at endilaungu,
ok fársfullu úr
faxi hristir
ókjör, orrostur
ok illa pest.
Dólgar dauðvænligt
drápgjörnum höndum
reiddu höfði högg
hvorr at annars.
Eins var augnaráð
ójóst þeirra,
ok þá ský tvö,
skruggum þúngut,
meðr miklum gný
á miðjum víði
enum Kaspiska
koldökk mætast;
En stöðva stríð sitt
um stundar sakir,
unz bjarkarbrjótr
blæs til rómu,
ok í þrumógn þeim
þeytir saman.
Eins var ófriðligt
útlit þessara
stoltu stríðskappa,
stórum uxu
við þat en vondu
vítis myrkr;
ei munu slíkir
optarr hittast
óvinir, utan
einu sinni[27].
Nú hefðu framizt
ný stórvirki,
undr ógnarlig
öllum ufilheimi,
utan naðarnorn
nærstödd porti,
lykils geymandi,
hefði leik skakkat;
I því hún uppstóð
með ópi hræðslu,
ok miðt fleygði sèr
meðal þeirra,
hrópandi: „faðir!
hvílík ódæmi
miðar mund þín til
við mög at vinna?
Ok hvör fólsku feikn
framkeyrir þik,
sonr! er ei svífst
at sveifla brandi
helskæðum, föðurs
höfði mót?
Hvort er hulit þèr
at hinn þar uppi
hæðir heipt þína,
ok at hans þó ert
verkþræll, viðbundinn
vild hans hefndar,
er hann segir sè

[26]) *Ophíoceus*, ein himinmynd fyri norðan þau 12 merki, hefir eigi, þat ek veit, íslenzkt heiti. [27]) Ebr. 2, 14: Kristr mun fyri dauðann afmá þann, sem hefir dauðans magt, þat er, Djöfulinn.

sitt rèttlæti,
at fá framkvæmda,
sú er fella mun
um síðir eins
ykkr báða?"
Dróg nú dör at sèr
dælu slíka við
pestin helvítska,
en púka Oddviti
aptr ansaði:
„óvenju skrækr
ok orð undarlig
arm heptu minn;
At ei anglysir
orku sína,
unz ek víss verð,
hvör við mig ræðir,
hvat þú ert, tiltínd
tvær myndir í,
hví við fyrsta fund
mik föður nefnir,
ok vofu þessa
við mèr átta.
Aldrei þekkt' ek þik,
nè þèr ok honum
annat eygt hefi
ófrýnligra."
Svarar portpúta
púkabælis:
„hvert, em ek huga
horfinn þínum?
lízt þèr svo lítt á
þína lagskonu,
er svo fagra fannst
fyrr á himni?
Þá sik Serafim
saman drógu
með þèr mótfalls til,
ok mjök voliga
hreptir hríðir þú
hræðiligar,
svo þèr sortnuðu
sjónarljórar,
ok hrutu hýrokur
af höfði þèr;
Unz á vánga varð
vinstra glyggr,
þann ek útkom um[28]
af þèr borin,
lík at lögun þèr
ok ljósum glansa,
sem vopnuð gyðja
í vænleik himneskum.
Datt djúp forundran
dróttir himins á,
hopandi hræddar
á hæl í fyrstu,
Synd, þær nefndu mik,
ok sögðu vera
illan fyriburð
óhamíngju;
En vegna vana
ok viðkynníngar
gèðfeld gjörðumst ek
ok ginníng sætri
vann þá virðtu mik
viðbjóðsligasta,
en þik fyrst ok fremst,
sem fèkkst at líta
egin eptirmynd
á mèr þína.
Lèk þèr losti í hug,
ok laumök áttir
við mik, svo varð ek
af völdum þínum
brátt at bur þessum
barnshafandi.
Urðu þá örlög
um þær mundir
himni hærstum á,
þar hinn vann sigr,
er vèr hötum helzt,
hve mátti hann annat?
en vèr tókum tómt
tjón ok flótta.
Ultum vèr öll samt

28) Svo sem Mínerva eðr Vísdómrinn fæddist af Jóvis höfði, svo ok Syndin af Satans.

í afgrunn þetta;
valt ek vesæl með,
ok var mèr sá
afhendtr lykill
yfrit ramgjörvi,
með birtu boði,
at byrgðan geymi,
meðan eylífð er,
inngáng þenna;
enginn án þess
at ek uppljúki
fær af porti fram
fæti stígit.
Ein ek hímdi hèr
hlngarstúrin,
þó leið ei lángt um,
at líf, sem þýngðir,
þá til þrautar mjök
þrútnat, fyndi
harðar hristíngar,
hríðir sárar,
þartil þaðan brauzt
þetta skrímsli,
eiginn arfi þinn,
öllum hvumleiðr.
Iðr innstu mín
meðr ofbeldi
reif hann ramliga
ok risti sundr,
enn ek orðin því
öll at neðan
undin, aflöguð
fyrir ógn ok kvöl.
Kemr loks í ljós
sá lífi mínu
spratt af ok spilti,
ok spjóti skæðu
veifar vondsliga
vargr, borinn
ei til annars, enn
eyðileggíngar.
Ek mèr undan skaut,
ok æpti: Dauði!
enn nötrar niflheimr
við nafn hatat;
stórum stunum með
tekr strax undir
allt holt í helju,
ok hermir: Dauði!
Hljóp ek hörfandi,
en hann elti mik
meirr af munaðar
enn morðgirni,
skjótt hann náði mèr,
skunda nè kunnak
móðir máttþrota,
mædd af burði.
Nú mèr nauðgaði
níðíngsliga
fól til faðmlaga
felmtrsverðra;
í víkíngsverki
voru þvísa
getin gjálfrandi
garma skrímsli;
Er mik umkríngja
orgi sífeldu,
ýmist at alast
eðr undirkoma[29],
sem þú sèt hefir,
sískiptandi,
mèr meinsauka til
ok meiri plágu.
Því, þegar lystir,
þeir sèr smeygja
aptr inní mik,
ýlandi naga
munntöm matvæli
mína þarma;
þá skreppa þeir út
þess á milli,
ógn ok ángist með
æ plágandi
mik, sem aldrei er
auðit hvíldar.
Gegnt augum glápir

[29]) Í algengri hvörsdags Islenzku kallast, at barn komi undir, þá þat verðr getit.

grimmr Dauði,
bæði mögr minn
ok megindólgr,
sá þeim sigar upp,
ok sjálfr gjarnan
mik, sína móður,
mundi svelgja,
af því allafaung
önnur skortir;
Nema vissi vel
vísan fylgja
aldrtíla sinn
á eptir mínum,
ok at ek muni,
nær at því kemr,
honum beisk bráð
at bana verða;
svo hafa fyri fram
forlög sett.
En flý þú, faðir!
flein hans skaðvæna,
þarum þik ek læt
þrávaraðan;
hygg ei himneskr
herbúnaðr
veri voða þik
hans viðreignar!
stendst við dauðans styr
styrkr enginn,
utan þess eina,
sem uppi drottnar."
Þagnar portpúta,
en hinn prettvísi
sætir sínum hag,
svo mælandi
orð flærðarfull:
„Frumjóð kæra mitt!
þú mèr færðir fyrr
föðurs heiti,
ok minn sýndir mèr
mög enn fagra,
ljúfan lystarpant
ok leyfar gleði
áðr ákendrar,
er uppheim bygðum,
sú þá mundi sæt,
en síðan bitr,
óvæntra vegna
vistaskipta.
Vitjak ei, vit þat!
þín í vargshuga,
búumst ek til bjargar
báðum ykkr
burt af hrakhreisi
hræðilign,
ok hèr herteknum
himins öndum
öllum, sem eru nú
í alvepni
fyri fremdar skuld
fèlagsmála.
Einn hefir ek hafit
höfugt eyrendi,
einn of svamlar ek
afgrunn botnvana,
einn fyrir alla
ek mèr hætti djarft
út í auðt gap,
þat er engi mælir;
I því stað einn
til at uppleita,
áðr umspáðan,
at öllum líkum
nýskaptan nú,
í nágrend himins,
unaðar inni,
þar íbúa skal
kyn þar uppkviknat,
kannske svo fylli
rúm, þat fèllum frá,
þó fjærr himni,
svo hann optarr ei
óróa mæti
af makt mikilli
mergðar þeirra.
Til at njósna nú
nær meirr þetta,
eðr annat dult,
ek mèr hraða;
síðan víss vorðinn

vil ek koma hèr
ofan aptr,
ok ykkr færa
hèðan hinn í stað,
þar hafa kunnið
sælligt atsetr,
Synd ok Dauði!
Und hulinshjálmi
it hærra ok lægra
gegnum gángið þar
at girnd sjálfræðis
í blæva blíðu
balsams lopti;
þar ei skorta skal
skamtlaust eldi,
ok allt muu upptækt
í ykkar greipur."
Hann hætti tali,
en hinum báðum
fannst þat fullskjótt á,
at fegin urðu;
dimmum draugs augum
Dauðinn glápti,
ok blöskranda brá
brosi á granir,
af tilhlakkaðri
innan tíma skamms
lángs sultar sefun,
ok at svo komnu
sól hann góðar spár
gini sínu.
Mundat minnr glöð
mellan vonda,
sú til síns
sagði föður:
„hèr hefir ek
heimild fullri með
vald ok varðhald
yfir vítis lykli,
áðr umboðit
af ennm Hærsta;
Lagði hann lögmál mèr,
at ek læstum hèldi
dyrum þessum,
ok Dauðinn stendr
spennandi spjót sitt
at spyrna móti
albúinn öllum
áleitendum,
hvörgi hræddr við
hvat sem lifir.
En hví hirðir ek
hans at breyta
ummælum eptir,
er mik æ hatar,
ok mèr híngat hratt
í heldýpt myrkva?
Hví sit ek hèr
við hvumleiðt embætti?
hví við harðkvæli,
himinborin ek?
hví við ángist ok
ógn sífelda,
af egin úngum
illa plágnð,
ákaft iðr mín
er í sik hvoma?
Frá þèr, faðir!
em ek framkomin,
þú viss höfundr
veru minnar!
hvörjum öðrum ek
ætti hlýða
enn þèr? öðrum hveim
at eptirfylgja?
Ek mun innan skamms
af þèr verða
höfð í heill ok ljós
heimsins nýja,
ok í Ragna röð
með ró lifendra;
þar má ek með þèr
við munað drottna
um allar aldir,
eins ok hæfir
mèr, bæði barni
ok beðju þinni."
Hún at svo sögðu
síðu leysti frá
íllsvaldan lykil

óhamíngju,
tól þat táraverðt,
at tjóni voru;
dróg nú hrínghala
hræðiligan
it skaðvæna skrímsl,
er skreið at porti.
Þá strax þeyttist upp
þúngr slagbrandr,
hvörjum ekkert afl
annat vítis
mátti hót hagga;
hún síðan vatt
lagkæn lykil sinn
í lás fjölbrotinn.
Datt frá digr hverr
demants bolti,
stinnar stálfjaðrir
strax undanlètu,
svo skall frá bröndum
í skyndíngu
helvítis hurð
háu braki með.
Hrykti hartgnúnum
hennar lömum í,
þat var þvílíkast
at þruma slægi,
svo nötrar neðsti botn
í niflheimi.
Upp gat hún lokit,
en at aptrbyrgja
vondrar eigi var
í valdi Syndar.
Nú stóðu portin
nærsta víðt opin,
svo styröld stærsta hvör
með stríðsfánum,
hestum, hjólvögnum,
hægla gat
gengit þá þegar
þar í gegnum.
Gaus úr gapi því
grimdar svæla
ok ljótir logar
líkt sem úr ofni;
varð þeim víðsýnt mjök
um viðblasandi
allt it auða djúp,
áðr hulit,
haf eitt landa laust
ljóss ok mælis.
Þar breitt ok lángt allt,
þó til bísna sè,
týnist án tölu,
tíð ok staðr;
þar Osorg elzt
ok Oskapnaðr
æ ráða ríki
regluleysis.
Hèr þeir forfeðr
fyri ráða,
frá hveim Náttúran
miðr stígr,
óró umkríngðir
ok æva stríði;
hèr vill hvat öðrn,
heitt ok kaldt,
it vota ok þurra
verða meira,
æ ok án afláts
útfærandi
her ens minnsta mors,
er má ei deila;
Sem ferr sveimandi,
á sinn máta hvert
til liðs útbúit,
lètt eðr höfugt,
hvast eðr húðslètt,
hvat ok sein-fara,
ótalinn urmull,
eins ok foksandr,
af sterkt stríðandi
stormum þeyttr.
Hèr berr hvörr um sik
herradæmi
eitt augnablik;
en Oskapnaðr,
sem úr skera skal
með skipan sinni,
gjörir þeirra þá

þrætu verri,
hann fyrir hvörja
heldr ríki;
hèr er honum nærst
yfir hvervetna
boðsvald berandi
blind Tilviljan.
Svo stóð Satan nú
í sögðu djúpi,
í hulstri heims vors,
sem honum máske
verðr gjört at gröf,
þar grund er engin,
ei lopt, ei lögr,
ei loga bríni;
Heldr frumefni
ok fræ til þeirra;
hvat við annat allt
í óröð blandat,
er at eylífu
aldrei sættist,
utan Almættit
af þeim nýar
vili veraldir
verða láta.
Við þat villndjúp
varð enum slæga
Bölverk biðleikat,
barmi vítis á;
starandi stóð hann
um stundar sakir,
ok virðti fyri sèr
vandan gáng.
Ei var allmjótt sund
um at sveima;
ei mundu minna
merkja hlustir
hark ok háreysti
hèr (at líkja
mjök stórum hlutum
við miklu smærri),
enn þá heilan her
Hildr æsir[30]
með gný gjörvöllum
í gegn borg einni,
at um koll kunni
keirast niðr;
Ei minnr, enn ef
ofan fèlli
himins hvelfing,
eða höfuðskepnur
yndi í áflogum
allt jarðarhvel
snöggla sínum af
snúnings ási.
Loksins lætr hann
lánga vængi
til flugs útspenta,
ok fljótt upplyptr
botni burt sparkar;
í bylgjum reykjar
svo ferr hann fram
um fjölda rasta,
stoltum hug,
sem í stól af skýum;
En er þrutu þau,
þá varð fyrir
auðn, þar ekkert var,
afar við;
misti þá Morðárr,
er hann minnst varði,
flugs síns, forgefins
þó flögta reyndi,
fèll hann fimm þúsund
faðma tvenna
ofan aptr,
ólipra biltu.
Ok dveldist dettandi
í dag enn nú,
utan hefði hann
heilli verstu
skýi framfeyktu
fyrir orðit;
Brennusteini með
ok bitru loptsalti
altendrat var þat

30) Hildi eignast orrostu ráð, eins ok Bellónæ, stríðsgyðju Rómverja.

ok upphratt Fjanda
svo margar mílur,
en misti fótfestis,
ok lendti loks
í leðjufeni,
hvar ei vatn var
nè völlr fastr.
Þar öslar hann
því nær uppgefinn
seigan saur
milli sunds ok gaungu;
þó þraut hann eigi
þráláta keppni,
affram blautt ok bratt
brauzt hann gegnum.
Yfir þykkt ok þunnt,
þó þúngt veitti,
með höfði, fótum,
höndum, vængjum,
sveimar á sundi,
sökkr, gengr,
ferr Fofnis gáng,
eða flug þreytir.
Loks hann merkja má
móti sèr koma
grenjanda glaum
greinarlausan,
óhljóð undarlig,
er of allt glymja,
ruglaðar raddir,
sem ráknst gegnum
holt húmflæmi
heldr sterkliga.
Stýrir hann nú þángat
stefnu sinni,
ei við afl nokkurt
óttasleginn,
ei við anda neinn,
í ærslum þeim
enum stjórnlausu,
stað eiganda.
Eitt var áform hans
at um frètta
ena nærstu leið,
er lægi þángat,
sem mættust merki
myrkra ok ljóss;
andspænis honum
Oskapnaðar
tjáði trón sik
ok tjald hans myrkva,
þess dökkvir dúkar
of djúp breiddu sik.
Sitjandi þar sást
í svörtu skrúði
Gríma gömul
grams stóli á,
honum sífeldt sú
er samríkjandi.
Þar stóðu þessir
þeim til hliða:
Orcus ok Aðes,
ok með ógn nefndr
Demógorgon[31],
þá dauf Tilviljan,
þá Ospekt, Ohljóð
ok Oorða,
öll í áflogum,
ok enn at lyktum:
Þræta þúsundmynnt
(þeirra verst).
Hugdjarfr við þeim
snèrist Helvarðr,
ok skant orðum at:
„Þèr yfirvöld,
sem drottnið hèr
yfir djúpi þessu!
Þú aldin Osorg!
Þú Oskapnaðr!
Hefirat mik hnýsni
híngat leiddan,
at um hulinn hag
hefja vilì
ransókn nè raskan
ríkis ykkar,
heldr nauðsýn nóg

31) *Orcus* er *Plútó*, vítisgoð; *Aðes* eðr *Haðes*, myrkrastaðr; *Demógorgon*, einn töframaðr.

nú faranda
yfir auðn þessa
óskipuligu.
Gegnum víðáttu
veldis ykkars
liggr leið mín
í ljóssálfur,
ok án vegvísis
vil ek einförnm
til hálfs tapaðr
tröð hitta þá,
er má nærst komast
yztu merkjum
himinfullra heima
ok himindeildar.
Ok hafi hávegs
Hilmir ykkr
nýliga rænt
nokkrum parti
óðal ykkart,
sem þó áðr var,
þá er þánki minn
þángat vendr,
vísið veg þann mèr,
ok vil ek ykkr
ekkert allsmátt
í umbun gefa:
Land þat, er lètuð,
legg ek aptr
undir ykkart vald
ok auðn, sem fyrr,
svo gamla Gríma
(geng ek því þannig)
megi merki þar
aptr uppsetja,
er þá mín hefndin
eintom, en arðr
ykkarr heill."
Anzar Ostýrir
aptr fálmandi,
ok meðr ásýnd
í aungvu lagi:
„vel ek þekki þik
þú hinn atkomni!
ok veit, at engill
ert hinn sami,
eðr andi sá
hinn yfirstígni,
þó voldgr væri,
sem vopna rymmu
háðir nýliga
við hinna Guð.
Sá ok heyrði ek,
því soddan skara
ferligr fjöldi
fær ei hljóðla
afgrunn ógrligt
ofanhrapat;
sá ek hrun eptir
hruni fylgja,
sá ek hark hlaðast
á hark ofan,
sá ek umturnan
umturnaða.
Sá ek þúsundir
þúsunda
sigrsælum af
sóknaflokkum,
himins hliðum frá
er hina ráku
undanflýendr
óþirmliga.
Held ek hofgarð minn
hèr ok atsetr
endimörkum á
umdæmis míns,
ef ek afgáng þann
orka at verja,
sem nú eptir er
eign minnar;
hvörjum ok enn
við ykkar deilur
kann verða klippt af
ok kippt úr hendi
Osorg aldinni
at auk hins fyrra.
Yðvart fángaflet
við fyrst lètum,
niflheim allan
með náströndum,

er nær nærsta víðt
neðst í djúpi.
Þá heim þar eptir
þann enn nýgjörva,
láð ok lopt þat,
er leikr gullinni
hèr of höfuð mèr
heingt í festi,
nær við hátt hafna
himins álfu,
sem þèr fèlluð frá;
far nú án tafar
þángat þína leið!
þá er skamt vegar,
ok skal því skemra
til skjótrar hættu
Far, ok flýt þèr nú!
því foreyðíngu,
rán, tjón ok töpun
tel ek bata mèr."
Þarmeð þagnar hann
en Þengill ára
ei tafði tóm af
með tilsvörum;
Heldr hafnar von
af hárri kættr
fleygðist fimliga
með ferskum kröptum
lángt í lopt upp,
líkt sem þar flýgi
eldstólpi einn,
ok alla gegnum
harðleikni ok hernað
höfuðskepna
ruddi rásar til
reisu sinni.
Hèr var hættuferð
hálfu meiri,
enn Argos gnoðar,
er hún yfir rann
bylgjur Bosphóri
boða milli,
eðr Ulyssis,
er á stjórborða
vildi sporna við
voða Carýbdis,
en á bakborða
barst í Scyllam.
Svo gekk Satan tregt
at sinni því,
en allt eptir þat
auðveldara,
at myrðtum manni,
þá er myndaðist
(ó fásèn furða!)
fullbreiðr vegr
yfir afgrunn þvert
ærit dimma,
svo röktu sjálfráð
Synd ok Dauði
feril Föður síns,
(sem forlög vildu).
Djúpit lágt lagða
líða mundi
á sèr bygða brú,
bísnum lengri,
náði sú neðan
millheimi frá
veikrar jaðri jafnt
jarðar vorrar;
Tíðka til ok frá
utan torveldnis
illfúsir andar
yfirför hennar,
til straffs storðbúnm
ok stórrar freistni,
utan englar Guðs,
ok all hans náðar
sèrligrar, sè þá
sívaktandi.
Hèr kom en helga
honum ámót
ljóssins afleiðíng,
því lángt niðr
skýzt skíma dags
í skaut it dimma
Myrkrföru,
frá múrum himna.
Er hèr ný ok nið
Náttúrunnar,

er hèr Oskapnaðar
aptrhvarf,
er hann frá athöfn
utanvirkja
sem vopnsárr vargr
verðr rekinn;
óspekt ok óhljóð
ei hèr buldra
A nú flugfæri
Fjandinn hægra,
líðr hann lètt fram
sem á lognöldu
bleúdna birtu við,
ok beint at höfn
stýrir nú stefnu
stórum kættr;
eins ok umarfill,
er afblès stormr,
vindgar voðir ok
viðu strengda.
Svam hann hóft ok hóft
hægt spentum vængjum,
ok leit Aðalblik
afar fjærri,
átthaga sína
at undanförnu;
þar fèkk hann þekkt
þess víðlendi,
alskreytt af
ópalturnum
ok saffírsölum
síglansaði.
Við þat sá hann ok
vorrar jarðar
knött með gullkeðju
knýttan hánga;
var hún á at sjá
sem ein af stjörnum
minnsta vexti með,
máninn var nærri.
Hann, fullr hatrs
ok hefndargirni,
lætr leið sína
lagða þángat
bölvaðr sjálfr
bölstund á.

---

## Hèr hefr
## þriðju bók Paradísar missirs.

Heill sè þèr, hæða
heilaga Ljós!
þú skær frumburðr
skapanda himins!
Guðs sameylífr
geisli ens eylífa!
sè mèr saklaust þik
svo at nefna;
Hvarí ljósit er
sá ljóssins Guð,
er býr frá eylífð
í því ljósi,
sem ei nokkr nær
í nánd koma [1],
í þèr einskært flóð
óskaptrar birtu!
hverr veit upptök þín
ok aðalbrunn?
altærr leiptrandi
lopta straumr!
Aðr röðull rann
ok reistist himin,
ertu árborinn,
ok Alföðurs raust

[1]) 1 Tím. 6, 16: sem býr í því ljósi, er engi fær til komizt.

viðr voldnga
veröld klæddir,
eins ok kápa þú,
nær hún klakin var
útaf djúpum hyl
dimmrar nætr
ok frá anðn uunin
ómyndaðri.
 Fer ek fjörugra
enn fyrr með huga,
þín á ný
nú leitandi,
aptr útsloppinn
af eldflóðs hyl;
en þótt neyddumst ek
nógu lánga
í dimmu djúpi
dvöl at eiga.
 Fèkk ek á flugi
firna djörfu
yzt ok miðmyrkr
mínu gegnum
galat öðrum tón,
enn Orphevs harpa,
óð um óskapnað
ok aldna nótt.
 Af þèr, himnesk,
nam ek áræði,
andagift! dimmrar
til ofanferðar,
eins fær armr þinn
upphafit mik,
þó mèr þrautasöm
ok þúng væri
fáheyrð för mín
ok framin sjaldan.
 Þín nú vitjar ek
þaðan leystr,
ok finn hefð halda
yfir hvívetna
lampa lífsins,
en þó lætr þú
augna þessara
eigi vitjat;
 Forgefins þau velta,
ef finna mættu
gegnumþrengjandi
geisla þína,
en á mis fara
minnstu skýmu,
þau er þrykktr á
svo þykkr vagl,
sem þau sorgligum
sorta vefr
ok glepr með glýu
glerhúð þeirra.
 Þó þreytumst eigi
þarfyrir ek,
at fara reykandi
um fagra staði,
þar mætar búa
mentagyðjur
ítrar ok örar
viðr uppsprettur,
laufgaða hunda
ok lystihvol,
sem liggr svasligu
við sólskini.
 Leiðumst ek þángat
af lysting sætri
hugar míns
til helgra saungva;
einkum þó til þín
læt ek þráfarit,
Zíon! um miðja
Myrkrföru,
ok at bekkjum þeim
enum blómstrugu,
sem þvo hvískrandi
þinn helgan fót.
 Þeinkir ek þá stundum
þeli hljóðu
tveggja til,
sem tekit hafa
líkan hlut með mèr
í meinkjörum;
ó, at einneginn
ek meðr þeim
líkan hlut
í lofstýr tæki!

þat er Tamýris
taptrar sjónar,
ok blindi maðrinn
Mæónídes,
þarmeð þeinkir ek
þess ámilli
á Thíresiam
Thebiskan mann,
ok á Phínenm [2]
fyrri daga,
spámenn tvo
ena spökustu.
Hressa þá hug minn
háir þánkar,
ljúfri líkíng sik
er laga saman,
eins ok árvakr
ósorgarfugl,
sá saung í myrkri
gelr sitjandi
skæran und háu
skugga þaki.
Aptr venda svo
ár ok tiðir,
en ek sèr aldrei dag
aptrkominn,
eigi sæla sjón
sól boðandi
árdýrðar eðr
aptanskins.
Sèrat ek vorblóm,
nè sumarrós,
nè hjarðar hópa
í högum káta,
eigi guðdomligt
auglit manna;
heldr er í þess stað
þykkvu skýi
af myrkri sífeldu
mik um orpit.
Firtr em ek fríðri
fólks umgengni,
lukt er allt þat mèr,
sem líf gleðr;
fyri fræðibók
fagrskráða
sèr ek ei annat
enn alhvítt blað.
Máð ok meinut
eru minni sjón
veglig náttúru
verk at skoða,
ok enar einu
alsvinnu dyr
eru mèr orðnar
með öllu læstar.
Skín þú, himins Ljós!
því skærara
í mèr, ok upplýs
andarkrapta,
innset augu þar
ok allri dreif
þoku þaðan,
sem á þau skyggir;
Sjálfum þèr virðst þú
þau at helga,
at ek innvortis
ítrþveginn
bæði sjá svo
ok segja kunni
hluti, dauðligra
sem dyljast sjón!
Nú hafði æðstr
Aldafaðir
ofan auga rennt
frá Aðalbliki,
stendr þar hástóll hans
enn heilagi,
lángt ofarr öllum
öðrum trónum;
vill hann of verk sitt
renna vísri sjón,
ok hvat hefðist at
hug um leiða.

[2]) *Tamýris* er ókendr, en nefnist af *Mæónide*, þ. e. Hómerò í Ilíade; *Thíresías* var frá Thebis, ok *Phíneus*, kóngr í Arkadia, báðir blindir.

Allr umhverfis
hinn Eylífa
himins stóð í hríng
helgidómr;
þykk var þyrpíng sú,
sem þèttar stjörnur,
ok af ásýnd hans
ósegjanliga
mikilli sælu
á móti tók;
Honum ljómandi
við hægri síðu
ímynd sat
hans egin dýrðar,
Arfinn eylífi
ok hinn eingetni [3].
Þat hann fyrst lèt
á fold þessari
augum ávarpat
ættar foreldrar
vorrar voru,
at vísu tvö
at eins enn nú
ok hin einustu
myndut þær mundir
af mannkyni;
Vegligan voru
þau til vistar sett
aldingarð í,
hvar ódauðligra
nægta nutu þau
af nýum gróða
ástar ok yndis
æskiliga;
Okreinkt af ángri
var sú ánægja,
engin öfund blès
á ástir þær;
í sælu fámenni
sèr þau lifðu.
Nærst því niðr hann
til niflheims leit
ok yfir afgrunn
áfast honum.
Sèr hann Satan þar
í svörtu lopti
í nánd himins múr
við nætr mörk,
nú sem nærst kominn
nöktum feginn
at hvíla hrjáðan fót
á heims jaðri [4];
Sá er sýndist nú
Satans augum
álengðar at eins
sem eitt hauðr,
fast án festíngar,
en fèkst ei sèt,
hvert lopti lukt
eða lög mundi.
En Hilmir himins
at honum sènum
frá æðstum tróni,
þar er allt er ljóst,
eins liðit, nálægt
ok hit ókomna,
mælti mjök framsýnn
við Mög eingetinn.
„Sèr þú, Arfi minn,
hinn eingetni!
hvorsu óðr er
Ovinr vorr
af heitt logandi
helndargirni,
sem allar æðir
yfir aptranir?
Megn honum eigi
mældar skorður,
hörð grind helvitis,
nè hlekkja fjöld
ærit öflugra
á hann vafin,

[3]) Ebr. 1, 3: Hverr með því hann er ljómi hans dýrðar, ok rètt ímynd hans veru, setti hann sik til hægri handar Tigninni á hæðum. [4]) Milton meinar hèr en yztu takmörk vorrar sýniligu veraldar, eðr heila stjórnuhersins.

ok jafnvel eigi
afarstríðt sjálft
afgrunns gap
aptr halda;
Svo hefir hann sik
at heilu seldan
engu eirandi
ilsku hefndar,
sem honum sjálfum
sekan þrjótsku
hvirfil skal
hvolfast yfir.
Hann því hvervetna
hefir brotit
öflgar aptranir,
ok er upp kominn
ei lángt frá himni
til ljóss deildar,
horfandi stefnu
heim nýan á,
ok mann, mög jarðar,
af mèr þar settan,
at freist', ef fái
honum fyrigjört;
Hvort sem heldr tekst
með harðfengi
ok ofrefli,
eðr enn þá verr,
leyniligum með
lymsku hrekkjum,
hann í tjón tæla,
svo tapist fallinn.
Þat mun framgáng fá
því flærð ok lýgi
hans mun maðrinn
móti taka,
helzt til hlýðugr,
en halda lítt
eitt þat boðorð,
sem ek áskildi
einasta pant
hans undirgefni;
Mun hann falla svo
á misgjörð sinni,
ok hans ótrúir
afkomendr;
hvörs verða völdin?
ok við hvörn má,
nema sjálfan sik
hann um sök þrátta?
Allt fèkk hann af mèr
hinn óþakkláti
þat hann fá kunni,
fullt rèttlæti,
góðgirni, vizku
gaf ek honum,
ok styrk til at standa,
ef hann standa vill,
en þó fullt frelsi,
svo fallit getr.
Hefir ek svo hvern skapt
himins anda
ok öll yfirvöld,
þann eins, er stóð,
ok hinn fráfallna;
frjálsum vilja
stóð inn standandi
ok steyptist fallinn.
Utan frívilja
at öðrum kosti
hvat máttu þeir
at merki sýna
sterkrar trygðar,
stöðugrar ástar,
ef þeir nauðugir
eigi neitt gjörðu,
utan hvat ekki
umflúit varð,
af eigin vild
ótilknúðir?
Hvat væru mèr þeir
at hrósverðugri?
hve mætti hlýðni
mèr hugkvæm sú,
vili nær ok vit,
(sem til vals heyrir),
örend, ófrjáls
ok onýt væru,
þjónandi þvíngun,
en þegi mèr,

bæði við nauðsyn
bundin eina?
Því skóp ek þá svo,
ok þat með rèttu,
eigi megu heldr
þeir um kunna
skapara, sköp,
eða skapnað sinn
at rèttum rökum,
svosem ráð skorðat,
óræk ályktan,
ok alvizka
þvíngi fortakslaust
þeirra vilja.
Onei, ályktuð
af þeim sjálfum
er uppreistn þeirra,
en aldreigi mèr;
en þótt ek viti,
er mín alvizka
engin verkan til
at villist þeir,
villtust þeir víst
þótt vissa'k eigi.
Eins af örlögum
ótilknúðir,
sem því, fyrifram
þótt ek fall sjái;
sjálfir syndga þeir
af sínum völdum,
svo villum dómi
sem vali raungu.
Þannig ek frjálsa
hefi þá skapat,
frjálsir skulu þeir
ok framvegis,
unz þeir selda sik
sjálfir láta
undir ánauð
ok ófrelsi.
Ek hlyti ella
eðli þeirra
áðr úthlutat
um at skipta,
ok hvat frá eylífð
ályktat var
ónmbreytanligt,
aptrkalla.
Synd sína ok fall
hafa sjálfir þeir
fest ok fullráðit
einir fyrst nefndu
eptir eginlyst
ok áknýíngu,
sjálffreistaðir
ok sjálfspiltir,
en maðrinn af þeim
í mein tældr.
Hèr fyrir hann skal,
en hinir aldrei
nauð hefjendr,
eiga náðar kost;
svo skal voldug mín
í vægð ok rètti,
ofhæð ok handr,
helg skína dýrð;
þó skal löðrlig
fyrst ok síðarst
lángt yfirgnæfa
í ljóma náð."
Meðan Alfaðir
mildr ræddi,
fyllti hvervetna
fagran himin
ilmr af ambra,
ok í allra brjóst
anda enna sælu
ok útvöldu
niðr flóðu straumar
af nýrrar gleði,
meirr enn tala tekst,
tilfinníngu [5].

[5]) Þegar Hómerus ok hans fylgendr framfæra guðdóminn sem talandi, afmála þeir oss ógnarligt sjónarspil, himin, haf ok jörð leika á reiðiskjálfi, o. s. fr. Slíkt var nú nógu samkvæmt þeirra náttúrligu guðsþekkíngu, en samþýðr ekki svo vel enni

Sást þar Sonr Guðs,
án síns líka,
ypparstr allra,
öllum dýrðligri;
hans Faðir allr
í honum skein,
hèr var algjör hans
ímynd veru.
I mildri ásýnd
meðaumkan ræddi,
guðdómlig, grunnlaus
gnægð af elsku,
ok náð án mælíngar,
er nú streymdi
út í orðum hans
við æðstan Föður:
„Mildiríkt var orð
þat, er mæltir þú,
er þú endaðir
almáttka ræðu,
Faðir! fallnir menn
at finna skuli
á ný náð þína
ok neyðar lausn;
því skulu þitt nafn
með príhelgum
lofsaung upphefja
láð ok himin.
Ok þitt umhverfis
ærnsálma
hljómr hárr
heilagt sæti
ótöluligra
skal endrklíngja,
ó þú, eylífar
um aldir sæll!
Skyldi maðrinn,
á, skyldi loks!
eylífum farast
í aldrtíla,
sá er samdir þú
síðastan alls,
ok fyri skemstu
elskaðir svo,
yngstr arfi þinn,
unninn falsi,
en þótt ásamt
af egin heimsku?
Fjærri þèr, Faðir!
já, fjærri lángt!
sè, at svo breytir
sjálfr allsherjar
Drottinn dómvaldr,
sem dæmir rètt!
Skal vorr meinleitinn[6]
Meginfjandi
sína framit fá
fyrirætlun,
ok þinn ásetníng
at aungu gjört?
Skal hann framkoma
fólsku sinni,
en gæðsku þinni
geta hrundit?
skal hann drambfullr,
at drýgðri hefnd,
þótt til þýngra straffs
þaðan snúa
heim í helvíti
ok heilt kyn manna
með falsi fángat
í för draga?
Viltu sjálfr svo
sundrbrjóta
háleitt heiðrsverk
handa þinna,
ok í vil vondum
gjöra vettugi
þat, er þú sjálfr
þèr til dýrðar

hógværu, mildiríku ok velgjörandi ímyndun, sem vèr, eptir vorum kristnu trúarbrögðum, höfum um guðdóminn; því er mikit vel tilfundit af skáldinu, at hann lætr orð ens Almáttuga útbreiða ihn ok unaðsemd. [6]) Eptir Gen. 18, 25: Þat sè lángt frá þèr, at þú svo gjörir, ok deyðir þann rèttláta, o. s. frv.

banðst í öndverðu
upp at rísa?
Mun þá mildi þín
ok mikilleikr
skjótt í tvímælum,
ok at skimpi höfð
án afsöknnar
ok at ósekjn"
„Minn Son!" mælti svo
mildr Faðir,
„í hvörjum önd mín
hefir yndi stærst,
þú mikli mögr
af mínn skauti,
sem einn ert orð mitt,
afl ok speki!
þú minn gjörvallan
hefir þánka rædt,
allt hvat frá eylífð
er af mèr ráðit.
Eigi manninum
skal alglatat,
heldr hólpit þeim,
er hjálpast vill,
ekki einskostar
af egin vilja,
heldr fyri velvild,
er ek virðast mun
at sýna sekum
af sjálfs dáðum.
Eittsinn vil ek enn
endurnýa
fallinnu krapt hans,
þó sè fyrigjört,
af synd nauðnæmri
niðrkafinn
óstjórnaðrar
ok illrar girndar.
Eittsinn skal hann enn
af mèr reistr,
þeim, honum hel kýs,
með hreysti jafnri
fyri mitt megin
veita mótstöðu,
svo hann sjá megi,
hve sárveikr
hagr hans er nú
úr heiðri fallinn;
Svo hann sjá megi
ok sannfærast um,
at hann mèr einum
egi þakka
fengna fjörlausn
at fullu ok öllu,
anngum utan mèr
allt sitt frelsi.
Nokkra hefir ek
af náð minni
öllum útvalit
öðrum framarr;
af náð einstakri
útvalda'k þá
eptir velþóknun
ok vild minni.
Opt atvaraðir
í óhag synda
hinir hrópanda
skuln heyra mik,
er ek þá uppvek
við illu at sjá,
Guðdóm bistan brátt,
at blíðka megi,
meðan boðin náð
berst at höndum;
Af því manns ek mun
myrkri fyllta
skíra skilníngu,
ok skapstein harðan
bleyta til bænar
ok til betrunar,
ok til skyldugrar
undirgefni.
Hverki skal hlust mín
til heyrnar sein,
eðr auga mitt
aptrlukt vera,
viðr bljúgri bæn
ok við betrun hans,
ok við andsveipri
undirgefni,
sè at eins álagt
allshugar kapp.

Einnig innan brjósts
ek vil honum
setja leiðtoga
samdæman mèr,
sem er samvizka;
ef sætir henni
ok skipast vel við
hennar vegleiðslu,
skal hann ljós öðlast
á ljós ofan,
ok ef hann trúrr er
at æfilokum,
skal hann höfn lífsins
hólpinn ná.
En nema hann nýti
náðardaga,
ok lánglund mína
ef lítils virðir,
góða mun hann míns
þá á mis fara,
at sjá þá sælu
honum synjat skal.
Mun ek herðtra hug
harðara gjöra,
blindra blindara,
svo at bíði þeir
hvervetna hrösun
háskaligri,
æ dottnir dýpra;
þau dauðans börn,
en aungar aðrar
útilykja
mun ek manneskjur
frá minni náð.
En eitt er eptir,
sem skal áðr gjört,
því maðr meinsærr
hefir misbrotit
handfestar trygðir
ok við herradóm
minn gjört sekan sik,
ok sókt eptir
at líkjast Guði,
en svo látit allt.
Ekkert er þat, hans
sem afpláni
höfugt hlýðnisbrot;
hann með gjörvöllu
afkvæmi sínu
er undirlagðr
hels ok töpunar
harðastan dóm.
Deyja hlýtr hann,
eðr hins kostar
sjálfsagt rettlætif,
nema sá finnist
annarr einhvorr,
sem undirgángist
fúss ok fullveðja
fallgjöld hans
hel, en hörðu laun
fyrir hel manna.
Hermið, himins völd!
hvar vèr finnum
þvílíkt elsku afl
ósegjanligt;
er nokkr yðarr,
sá offr dauða
vili vita sik
vegna manna,
meingjöld misgjörðar
fyri menn bera,
ok sjálfr saklauss
seka frelsa?
mun í himni fást
meðaumkun slík?"
Hann frág þannig,
en himins stóðu
dróttir, sem dumbi;
nú drottnar þögn;
engi fannst þar manni
til athlynníngar,
ei til árnaðar
ok enn síðr
sá hugdirfð hefði
yfir höfuð sèr
at draga dauðligt straff,
dygðarofs gjöld.
Nú var fyrigirðt
frelsun manna,

dauða ok helvítis
svo dæmdra til,
utan Arfi Guðs,
sá er yfirbýr
guðdómligs kærleiks
gnægð enni fyllstu,
hefði hnleitrar
hafit þegar
meðalgaungu mál,
ok mælt þannig:
„Heitit hefir þú,
hjartkæri Faðir!
nauðfeldum manni
náðarkjörum;
mun þá eigi Mildin,
meðal þinna
sú eð skjótust er
sendiboða,
finna meðöl nein
til manns bjargar?
Hún, sem vissan veg
til verka þinna
hittir hvervetna,
heimsækjandi
allt at óvörn
ónnbeðin,
ok þótt ekki sè
eptirleitat.
Hvílík heill er þat
heill firtum manni,
at Náðin þannig
nálægir sik?
hann því aldrei kann
hennar leita
sjálfr tapaðr
ok í synd dáinn;
Gjald hefir hann eigi,
þat gildt metist,
eigi heldr offr
í þá ógnar skuld,
svo djúpt sokkinn
ok samntapaðr;
sjá! hèr em ek,
ok set til boða
mitt líf fyri manns,
svo maðr lifi.
Hellist yfir mik
þín heil bræði!
tel hann þar ek em!
ok ek yfirgef
faðm þinn, Faðir!
ok þann frumsóma,
at sitja nærstr
síðu þinni,
en dey manns dauða,
já, dey glaðr.
Lát á mèr einum
ægan dauða
gjörvallan brjóta
sinn grimdar styrk!
myrkvir múrar hans
munu lengi
eigi mega mèr
í mold halda.
Ek hefi líf
í mèr sjálfum
ódauðligt
af þèr gefit [7],
lifi ek fyri þik]
þótt fúss gángi
undir dauðans dóm,
ok hvat deyja kann
af mèr, honum háð
í hlutfalli.
Þá at gjaldi því
greiddu, Faðir!
Arfa þinn eigi
munt eptirskilja
liggjanda herfáng
í ljótri gröf,
ok í eylífri
ekki líða.
helrotnun haldist
mín heilög sál [8].

[7]) Jóh. 5, 26: Líka sem Faðirinn hefir lifit í sjálfum sèr, svo gaf hann Syninum at hafa líf í sèr sjálfum. [8]) Psálm. 16, 10: þú munt ekki yfirgefa mína sál í helvíti, ok ekki líða, at þinn enn Heilagi sjái forrotnun.

Heldr mun ek, með
miklum sigri
aptr uppstaðinn,
undirþvínga
þann mik þvíngaði,
ok þeim hann rænti
yfirlætis auð
endr ræna.
Þá mun lemstraðr
leiðr dauði
fullri banaben,
at blöskranda
foreyðslu fleini
frá honum tekinn,
ærulauss í aur
eptir liggja.
Draga mun ek sigrs
í dýru hrósi
herleiðt helvíti
um en háu lopt [9];
því til hugmóðs
ok til háðúngar,
ok til skoðunar
skal ek framleiða
hnepta myrkra makt
í meginbönd.
Þú munt af himni
háleitri sjón
venda niðr,
ok með velþóknun
brosa blíðliga
þegar brýzt ek fram
af þèr uppreistr,
ok alla mína
felda fèndr
undir fótum treð.
Svo skal dauðinn ok
at síðurstui
sjálfr í sigr
verða svólginn upp [10]
meðr magri grind
máðra beina,
grafargini
svo hann gjörlæsi.
Svo mun ek eptir
ærit lángan
fjærveru frest
með flokki keyptum
hverfa til himins,
ok hærsta þínu
aptr birtast
fyrir augliti.
Í því eigi mun
af óblíðu
meirr hit minnsta ský
mega líta,
heldr fastan frið
ok fullar sættir;
algjörð ánægja,
engin reiði,
mun ná at nálgast
þína náðar sjón."
Hann aflèt orðum,
en í ásýnd var
mildi mælandi
at munni hljóðum,
himnesk hugarást
við helseka menn,
ekkert sást ljóma
í öllum himni,
utan hlýðni hans,
henni fegurr.
Líkr lambi því,
er ljúft offrast,
fúst ok fegit
at þat fórn verði,
beið hann blíðgeðja
bjóðanda svars
voldugustu frá
vörum Föður.
Djúp fèll undran á
allan himin,
viljandi vita
hvat væri slíkt,

[9]) Ps. 68, 19: Þú ert í hæðina uppfarinn, ok hefir herleiðínguna at herfángi tekit. [10]) 1 Kor. 15, 26: Sá síðarsti óvinr, sem afmáðr verðr, er dauðinn.

hvat þat táknaði,
hvartil stefndi,
unz hinn Almáttki
svo undirtók:
„O, þú einasti
í uppbæðunum
ok á fold fundinn
friðr manna
óblíðu minni
undirverenda!
ó, þú unun mín
allra stærsta!
Velgjörla veiztu,
hvorsu verk mín öll
dýrmæt eru mèr
ok dátt elskut,
ei minnst maðrinn,
þótt hann myndaðr
sè af mèr
síðarr öllu.
Ek vil úr mínu
fyri manns sakir
þín um skamma stund
skanti sakna;
láta vil ek þik
um litla hríð
heldr hægri frá
hendi minni,
enn at allt tapist
ættarlið manns.
Samteng þinni þá
þess náttúru,
sem þú einn orkar
at endurleysa,
gjörstu jafnt sem hann
á jörð maðr,
af holdi skaptr
ok í heim borinn
í fyrirhugaðri
fyllíngu tíma
af meyjar sæði
til mesta tákns.
Einn vertu höfuð
í Adams stað
ættar mannligrar,
þó Adams sonr!
eins sem í Adam
allir fèllu
skal í þèr allt,
sem öðrum stofni,
þat er endrris
endr reisast,
ok alls ekkert
utan þín [11].
Svosem synd Adams
hefir sekt ollat
öllum örfum hans,
skal eins ámóti,
at vendtum dómi,
verðskuldan þín
fyri fordæmíng
frelsi setja;
Reiknast hún þeim til,
sem rækar meta
góðar ok rángar
gjörðir sínar,
hún skal þvo af þeim
á þik plöntuðum
alla egin skuld,
ok þá auðga með
í þèr lifandi
andligu fjöri.
þannig skal þá,
þat er sanngirni,
fyri mann maðr
misgjörð bæta,
dæmast ok deyja,
ok úr dauðans klóm
brjótast, reisandi
bræðr sína
með egin lífi
endrkeypta.
Svo skal himnesk ást
yfir helvítis
sárbeittum fjandskap
sigri hrósa,

[11]) 1 Cor. 15, 22: þvíat líka sem þeir dóu allir í Adam, svo verða þeir ok allir lifandi í Kristó.

í því at hún svo
ofrseldan
heilagan hörðu
lætr heli þik;
Er hún deyjandi
svo dýrt kaupir
með feikna fyrirhöfn,
þat Fjandans heiptir
at hraki hörðu
hægliga gjört,
ok gjöra síleldt
hjá þeim syndurum,
sem náð framboðna
eigi nýta sèr.
Eigi skal heldr,
þótt ofan stígir,
til at meðtaka
manns náttúru,
þín sjálfs minni
gjörast þarfyrir,
eðr á neinn hátt
auðvirðiligri.
Því en þótt egir
frá eylífð þú
sess hèr á hærstum
himins tróni,
Guði samglíkr
í gleði ok sælu,
er slíkt allt af þèr
yfirgefit
vegna veraldar,
sem vernda skalt.
Þarmeð þú arfa
þik Jehóvæ
vottar at vera
fyri verðskuldun,
framarr enn fyri
fæðíngar rètt,
ok sannmakligan
svo at nefnast
heldr af gæðsku,
enn af hárri tign,
ok mjök mektugum
mikilleik þínum.
Því þín góðgirni
guðdómligan
allan dýrðar auð
yfirljómar;
því skal auðmýkt þín
þinn upphefja
manndóm meðr þèr
á mitt sæti.
Þú skalt drottna hèr
með dýrð krýndr,
Guðmaðr getinn
af Guði ok manni,
smurðr allsherjar
einvaldskóngr;
allt vald ek þèr gef,
um eylífð rík!
tak þat ok njót,
sem fèkkst tilunnit!
Öll völd ok trónar
skulu undir þèr,
öll knè á himnum
ok ofan jarðar,
einnig undir jörð,
í augsýn þinni
hljúg skulu hljóta
at beygja sik[12]!
Þegar þjónandi
munu þèr fylgja
hirðir himneskar
í háum skýum,
þá er þú birtist
í þinni dýrð,
ok hvellir herlúðrar
höfuðengla
úthrópa munu
þinn ægja dóm.
Þá skal öllum af
áttum vinda
lifandi lýðum
ok liðnum híngat
sèrhverrar tíðar
safnat verða

[12]) Philipp. 2, 10: Í nafni Jesú skulu öll knè sik beygja, o. s. frv.

drottinligan
fyri dómstól þinn,
skjótarr fugls flugi
framkomendum,
svo mun voldug raust,
sem vekr þá.
A þann herradag
allra heilagra
vondir munu menn
ok myrkrs englar
stefndir framkoma,
en standast eigi,
heldr dífast djúpt
við dómstól þinn;
fær þá helvíti
at fyltri tölu
aptrlokun þá,
er eylíf skal.
Í því vetfángi
mun veröld öll
uppbrennast eldi
algjörliga,
en af úrkula
ösku þeirri
ný mun rísa jörð
ok nýrr himinn[13];
þar mun öld rèttlát
inni búa,
ok at reynslu tíð
afstaðinni
góðan gleðjast við
gyllini aldr,
gyllini dygðar
við góðan arð,
sannleiks ok dygðar
við sigrhrós.
Þá skal konúnglig
þinnar handar
verða niðrlögð
veldis spíra;
mun þengilsprota
eigi þörf gjörast,
ok Guð mun einn allt
í öllu vera[14].
En veitið vegsemd,
voldugir himins!
með djúpri dýrkun
þeim, er deyja mun,
til at fullkomna
framsagða hluti;
tilbiðið Soninn
ok tignið sem mik![15]"
Uttalat eigi
lèt alda Faðir
engla flokkum frá
fyrr enn öllum
hátt gall gleðihróp,
sem af grúa þeim,
er engri tölu
verðr ákomit,
ok svo yndisligt,
sem af öndum þeim,
er fögnuð lifa
fullsælir við.
Himins heil vídd
af hátíðligum
gall við ok glumdi
gleðisaungvum,
ok allt eylífðar
endalaust veldi
fyllti hljómr hárr
af Hósanna.
Með lotníng djúpri
allt á láð niðr
beygðu þeir sik
fyri beggja tróni,
sèrhverr ofan tók
sína korónu
alþakta gulli
ok með amarant.
Já, með amarant
ódauðligum,
er hjá eyk lífsins
í Eden stóð
ok bar blómstr, fyrr
enn varð burt tekinn
fyri fall manns,
ok fluttr aptr

13) 2 Pet. 3, 12-13. 14) Jóh. 5, 23. 15) 1 Cor. 15, 28.

til himins, hvaðan
hann var í fyrstu.
Þar hann blómfullr
breiðir skugga
lystiligan
yfir lífsins brunn,
ok þar sæluflóð
elýseiska
brunar fram þvera
blómstrvöllu,
veltandi ambra,
sem vatns bylgjum.
Flètta með þessu
fullsælir andar
aldrei visnanda
aðalblómstri
gullna hárlokka,
ok þar geislum við
innofnum láta
ásamt blandat.
Þykkt var þessu dreift
at því sinni
um gólf lystiligt
í lausum kröusum,
þat er jafnt mundi
sem jaspis glóa,
blíðt við brosanda
af þar breiddum á
hánum purpura
himinrósa.
Huldu þeir svo höfuð
helgum krónum
ok hörpu hverr einn
í hönd sèr tók,
hljóðfæri gullig,
sem hèngu jafnan
samstilt við síðu
sèrhvers þeirra,
eins ok alglæstr
örfamælir.
Upphófu þeir svo
með yndisligri
hljóða samblöndun
heilagan saung,
bæði var hann hárr
ok hugfángandi,
auðgr himneskrar
andagiftar.
Engi þagði raust
ólauðligra,
engi var, sem eigi
við yndisligan
saungkór blandaðist
með samhljóðum;
er svo eindrægnin
í upphæð stór.
„Þèr, ó, Faðir! lof"
var þá fyrst súngit,
„óbreytanligi,
þú hinn eylífi!
Kóngr alveldis
óendanligs!
almáttk uppspretta
allrar veru!
Fyrsta ljóssins lind,
sem í ljóma býr
dýrðligum, sjálfr
þó dulinn sjón,
hvar þinn hástóll er,
þeim hvergi má
neinn koma nærri
nokkru sinni.
Nær sjón sigrandi
sveipar geisla
skuggum þína þú
ok þik umkríng,
svosem ígegnum
sveimandi þoku
sjáum vèr óljóst
fyrir ofbirtu
at eins klæðafald
hinn yzta þinn,
blindast þó himin
af bjartleik slíkum!
Sjálfir fegrstu
meðal Serafim,
þeigi þèr nærri
þora at koma,
heldr vegligar
með vængjum tveim

ásjónur hylja
í augsýn þinni[16].
Þèr, ó, Arfi Guðs
þú hinn eingetni!"
honum nærst englar
heiðr sýngu,
„ó, þú frumburðr
allrar skepnu!
ímynd Jehóvæ!
í ásýnd hvers
alvaldr Faðir
auðsýniliga
skín, utan skugga
af skýi nokkru,
þann er án þín
lítr ekkert skapt[17].
Í þèr skín útbreidd
öll Föðurs dýrð,
ok hans úthelltr
Andi hvílir
auðgr yfir þèr
ok í þèr býr;
himnanna himnar
af honum eru
fyri þik gjörðir
ok þeirra makt.
Enir fráföllnu
furstar slegnir
fyrir hönd þína
af honum eru,
þann dag Föðursins
felmtrandi reiðir
lèztu ósparðar,
ok þinn logavagn
stöðvaðir eigi
á stríðu hlaupi.
Öll bygging himins
ævarandi
skalf við skothríð
af skruggum þínum,
er þú óvinum
veittir atgaungu,
ok fulla felmtrs
þá á flótta rakst.
Aptr kominn þik,
at unnu slagi,
heiðruðu helgum
með hróðrsaung
allir herskarar
himinveldis,
frumgetinn Sonr!
þíns Föðurs kraptr!
þeim er gaf hann
á grimmum fjöndum
teiku sinnar hefndar
at fullkomna.
En við manninn
ferr þú annann veg,
villtr fellr hann
at vondsku þeirra;
ó, þú miskunar
ok mildi Faðir!
eigi hreppir hann
svo harðan dóm,
heldr mjök mýktan
af meðaumkun.
Eigi var þat fyrr,
at Arfi nam
þinn enn eingetni
ok elskuligi
ásetníng þann þinn,
at þirma manni,
nè mátti merkja
til meðaumkunar
hrærðan huga þinn
af hjartagæðsku,
Fyrr enn sik fúsan
ok fullráðinn
sýndi hann sinni
til at sefa þitt,
at enda sterkt stríð
ens stránga rèttar
ok mjúkrar mildi,
þat er merkja lèt
alvöld ásján þín,
Aldafaðir!
Minna metr hann
þá miklu sælu,

[16]) Esaj. 6, 2. [17]) Jóh. 1, 18.

þèr í veg veldis
at vera nærst,
ok sitt egit líf,
er hann býðr
til sáttar samníngs
fyri synd manna;
O, hvílík elska,
sem er aldrei heyrð!
undarlig elska
á allar síður!
guðdómlig elska,
sú Guðs er eins!
heill þèr, Mögr Guðs!
manns Lausnari!
Ætíð skal nafn þitt
efni vera
ok lyst lífgandi
vorra lofsaungva;
aldrei skal ómynnst
þik at upphefja
af hörpum vorum,
ok heiðr þinn
aldrei atskilinn
frá Aldaföðurs!"
Þannig hðu þá
þessar stundir
farsælar fram
meðr fögnuði
ok helgum hásaung
á himnum uppi,
ofarr lángt
öllum stjörnum.
Þá var þó Satan
um þessar mundir
alls einmana
ok yfirgefinn,
reykandi á rölti
í ranmns lngar kvöl
hörðum ok föstum
á heims knetti;
Hvers it fyrsta hvolf
hvela neðri
enna lýsendu
var landamerki,
ok varnarvirki
fyri voligum
Óskapnaðar æ
yfirgángi,
ok gömlu Grímu
grimmligri sókn;
I augum álengdar
sem einn hnöttr,
fannst þó fast land
þegar fótr snart,
utan ummerkja
á at líta,
óljós öræfi
óskipulig,
þar sem Osorg ein
yfirráð hafði.
Lágu þau ok öndverð
fyrir áföllum
af síógrandi
ófriðarstormi
allt kríng-æðanda
Óskapnaðar
ok lotalausri
lopts óblíðu.
Þó var þögullra
á þeirri síðu,
er alheims inndrakk
útjaðar sá
lítit skýmu skin,
er skanzt tilbaka
lopti mýkra með
frá múr himins
svo lángar leiðir
sem hann lá þó frá,
var ok vægari
þar vindofsi.
Hèr um víðan váng
villr Fjandi
hraktist, sem haukr,
sá úr hreiðri skrapp
Ima fjalli á [18],
hvers umflakkandi
Tartari byggir
við topp snývinn,

[18]) *Imaus*, er orðlagt fjall í Asia.

fjarlægt foldum,
sem er fátt til ráns,
bráðsoltinn flýgr
í betri vonir;
  Stefnir hann á hæðir
hjörðum þaktar,
til at seðja sik
sjúgandi lamba
ok kiða kjöti,
með kappsamt flug
uppsprettum at,
þar er út vella
hraðr Hýdaspes
ok hinn Ganges,
elfr India
orðlagðar tvær;
  En á lángri leið
lèttir flugi
ok snarast niðr
snauðlendar á
Seríca slèttur [19],
þar seglum meðr
kænir velta fram
Kínabúar
reirvögnum sínum
yfir reginsand.
  Svo fór Satan hèr
um sjót storma,
sem sýndist ægir
sveimandi kríng;
ráfar hann einn
ok í rán sólginn
auðnir óbygðar,
þar utan hans
ekki vætta var,
at vart yrði,
lífs nè lífvana,
fyrr enn lángt síðarr;
  Þá í þyrpíngum
þángat flugu
mýmargir hlutir
frá manna bygð
fáfengiligir,
fjöld af hègóma,
líkt sem loptgufa
lèttvægasta,
þá er síðarmeirr
hafði synd fylltar
aldar athafnir
með ónytjuskap.
  Eigi þó at eins
einkisverðir
hittast þar hlutir
ok hègómar;
heldr þarmeð þeir,
sem á þvílíku
byggja vitlausa
von sèr um frægð,
upphefð ok æru
ódauðliga,
eðr um farsæld
ok fastar heillir
heimi þessum
eðr himm í.
  Allir þeir laun sín
á láði taka,
anmrar hjátrúar
illan gróða
ok sjónlausrar
siðavendni,
þeir at eins mæðast
fyri manna hrós;
þessir hitta hèr
hègómliga
umbun fánýtrar
fyrirhafnar.
  Öll náttúrunnar
ófullgjörð verk,
of ok vansköput,
ótímabær,
allt, sem er andstæð
eðli ok venju,
samansullat
er á sveimi þar,

[19]) *Ganges* ok *Hýdaspes*, tvö nafnkend vatnsfoll í Indíunum. *Seríca*, landspartr nokkr milli Kína at austan, ok Imafjalls at vestanverðu.

þegar fyrst á fold
er fullsundrat.
Gengr þat um geim þann
at gagnslausu,
hismi hègómligt
eigi hóts virði,
unz at endíngu
ekkert verðr,
en ekki svosem
hefir suma dreymt,
í hèr nálægu
hveli mána.
Þat er miklu meirr
í mál takanda,
silfrfoldir þær
at sèu bygðar
af helgum höldum
höfnum þángat,
elligar öndum,
eðr öðrum þá
meðalblendíngum
manna ok engla.
Fornaldar risar
komu fyrstir hèr,
sundrleitu sæði
sona ok dætra
uppsprottnir af
ósamkynja,
fullir af fordyld
fánýtra verka,
þótt í þann tíma
væri þjóðmær gjörð.
Þá komu þángat,
þessum nærstir,
Babels byggendr,
sem bjuggu til
stóran stoltarturn
starfa miklum
á slèttum Sínears,
ok slíkan mundu
brjótast um at byggja,
nema brysti þá
tól ok tilfaung,
unz tíð þryti.
En komu aðrir
einir í förum:
Empedocles,
sá í Etnu bál
meðr dáraskap
drambsemdar fullum
ganaði geyst,
svo hann guð vera
til himins hafinn
skýldu halda menn[20]
Kom þar hinn líka
Cleombrótus,
sá er hljóp í sjó
ok sèr drekti,
at hann því fyrri
Elýsió
eða Platónis
Paradís í
fullsæll kjör
fengi smakka[21].
En komu hèrtil
ótal fleiri,
þá er ollángt mun
upp at telja,
óburðir, fantar,
einsetumenn
ok múnka múgr
margvísligr,
grárr, hvítr, svartr,
þat gabbhjóm allt.

[20]) *Empedocles* var lærisveinn Pythagóræ, skáld ok náttúruspekíngr; hann steypti sèr leyniliga í Etnu eldsloga, svo menn skyldu halda, þá hann fyndist ekki, at hann hefði, sem Guð, uppnuminn orðit til himins; en járnskór hans, sem fjallit hafði með eldinum útspúð, uppljóstaði hans drambsemi, ok gjörði hann at athlátri. [21]) *Cleombrótus*, þá hann hafði lesit Platónis bók um sálarinnar ódauðligleika, ok hennar farsæld í hinu öðru lífi, steypti sèr strax í sjóinn, til at verða þeirrar sælu sem fyrst njótandi.

Hèr var þæla full
af pílagrímum,
er sik dýrliga
drógu á tálar,
lengi leitandi,
sem liðnum at,
meðal Golgata
grafardysja,
þeim sem æ lifir
í upphæðum.
Þar komu þeir ok,
sem til því meiri
pantvissu fyri
Paradís,
klæddust deyjandi
Domíníci
yfirhöfn
at eptirsuiði.
Einnginn þeir,
sem til enn meiri
fyrigreiðslu sèr
ok fararbeina,
á banadægri
lètu búa sik
múnka fatnaði
Franciskana.
Svo þeir plánetur
sjö ígegnum
fara framliðnir
ok fastar stjörnur,
ok þann kristals knött,
sem með kviklátri
hrínghræríngu
gjörir hristíng þá
ena alræmdu
efsta himins.
Nú er svo at sjá,
sem at standi
Pètr postuli
við port himins
með lykla sína,
til at ljúka upp
albúinn fyrir
atkomendum;
Ok nú ætla þeir
til uppgángu
at hefja fót sinn
á himinstiga,
en í því sama
kemr yfir þá
hvirfilbilr hvass,
sem hvatskeytliga
þeytir þeim mílur
frá þeim vegi
tíu þúsund
í en tómu lopt.
Þá mættir þú sjá,
ef þar kæmir,
fljúgandi flikr
í fokviðri,
hempur ok heklur
ok höfuðföt,
allt sundrrifit
í ótal parta
með seggjum sjálfum,
sem þat báru.
Synda sölur
ok saka skriftir,
ok reisugligir
rósakransar,
helgra líkleyfar
ok leyfisbrèf,
aflátsvarníngr,
opin boð páfa,
laungum eru vindum
þar at leikfángi.
Gjörvallir greindir
golu soppar
hvirflast hins vegar
at heimsbaki;
útstrandir dimmar
öllu slíku
viðtöku veita,
þær eð víðt skaga,
Narraparadís
nefndar síðan,
færstum ókendar
síðan fundust þær,
en nú auðar
ok utan fólks.

Fann nú fyri sèr
Fjandinn þessa
umvafða myrkri
alla kúlu;
lengi fór hann þar
á flækíngi,
unz skýma skotin
frá skini dags
bauð at hraða sèr
hrjáðum fæti.
Getr hann at líta
lángt í burtu
nokkra bygginngu,
sem var bísna há,
tók hún tröppum deild
tígugligum
upp at himins múr
alla leið.
Uppi sá hann þar
efst á toppi
dýrðligt verk,
svosem dyr væri
harðla háreistar
á höll tiggja,
en þó ærnum mun
ágætara;
Demant ok gull
skein á dyra bust,
glóuðu glæst þar
gimnegg foldar;
mángi megnar
undir Miðgarði
at byggja eptir því
annat slíkt,
engi má þess mynd
mála penni.
Lík voru stígin,
ok í stiga þeim
Jakobfor faðir,
forðum daga,
sá fjölfarinn
af flokkum himins
upp ok ofan
ok með engla vakt;
Er hann af ótta
fyrir Esaú
fór flýjandi
yfir foldir Lúts,
plaggalauss
til Padan-Aram,
ok naut náttblundar
á nöktu svæði,
þar hann draum dreymdi,
sem hann dýran mat,
hrópandi vakinn:
„sjá himins port!"
Hafði harðla björt
hver ein trappa
luktan í sèr
nokkra leyndardóm;
ekki stóð stíginn
í stað jafnan,
heldr hófst stundum
til himins upp,
af englum dreginn
ósýniliga;
Rann við rætr hans
röðulskærr lögr
af fögrum Jaspis
ok fljótandi perlum;
ferjast yfir flóð
þeir af fold komu
síðarmeirr
á siglanda fari,
ok hafa lið engla
til leiðsagnar;
Eða líða þeir
yfir lög þenna
í lygnu lopti
lèttfærum á
tignarvagni,
sem tveimr nærsta
eldfjörgum fákum
er fyri beitt.
Nú var niðri,
er Níðhöggr kom,
standandi stigi
til stríðs honum,
annarstveggja til,
at tælast skyldi

at freista uppgaungu
svo fýsiligrar,
ok svo handhægrar,
sem hún var nú;
Eða til at ýfa
undir sorgar
yfir hans egin
útilokun,
er hann sæi svo
sælunnar dyr
öðrum, en ei sèr,
opnar standa.
Einmiðt umgetnum
undir stiga
var lögð leið nokkr
yfir lystisess
prýðiligustu
Paradísar,
sú er greiðfær gekk
at grund jarðar;
Breiðari var hún
brautu þeirri
sem lá síðarr
at Sions fjalli,
breiðari þeirri,
sem bygð mundi
yfir fagri fold
fyrirheitis,
er svo ástfólgin
Alföður var.
Gengu götu þá
frá Gimli sendir
ypparligum opt
at eyrendum
himneskir andar,
þá er heimsóttu
frumstofna fólks
í farsæld þeirra,
einkum umhugat
sem var augum Guðs;
Allt frá Paneas [22]
útbreiddist hún,
þar sem Jórdan
upp af jörð sprettr,
inn til Bersaba,
þar bygð en helga
nær Egyptalands
eyðimörkum
ok unnarströnd
Arabiskri.
Svo breiðt sýndist hlið,
þar settar voru
myrkra geyms grindr,
var þat grindum líkt;
gjörðu þar umkríng
girðíngu trausta
ægis öldur
alla vegu.
Skimar nú Satan
frá skör neðstu
enna gulligu,
sem genguar voru
upp at hátt höfnu
himins porti;
fylltist hann furðu,
er enn fagra leit
nýskapaðan heim
nú viðblasa
allan í einu
augum sínum.
Nærsta líkr nú
njósnarmanni,
þeim er áhyggja
ok örðugt ról
hafa nauðþjakat
um nótt heila
eyðistigum á
ok utan ljóss,
en fær loksins,
at lýsanda morgni,
fagra þreyttan fót
á fjallsbrún sett;
Þar hann varr verðr
móti von sinni

22) Takmörk ens fyrirheitna lands setr ritníngin frá Dan til Bersaba; Dan var at norðan, en Bersaba at sunnanverðu, landamerki; staðrinn Dan nefndist líka Paneas.

hauðrs ókends,
er hafði fyrr
aldrei augum leiðt,
ok aðalborgar
með glæstri prýði,
hverrar gyltan turn
margan blánkar á
ok múrgafla
móti rísanda
röðuls geislum.
Slík fèll undrun á
Anda skemdar,
en þótt Aðalblik
hefði áðr sèt,
þó enn meirr öfund
óstillanlig,
horfanda fagrt
á heims smíði.
Skaut hann skimandi
skjáum sjónar,
(honum var þat hægt,
þar hafinn stóð
undir hrínghvolfi
af húmi nætr),
ok leit umhverfis
yfir allan heim.
Frá Metamerkis
morgunpúnkti[23]
allt at Hrút vestr,
þar sem hann dregr
í Atlants ægir
Andrómedu,
svo fjarlægt yfir
sjóndeildarhríng.

Hèr nærst horfir hann
heims yfir breidd
til annars gegnt
frá einum póli[24],
staldrar hann eigi
þar í *stað lengr*,
heldr flasfara
fleygir sèr nú
í hit lètta lopt,
línubeint niðr,
svo mært ok tært
sem marmara[25].
Vatt sèr vondr Arr
í hinn víðt þanda
stórflokk af stjörnum,
er at stærð þannig
álengdar sýndust,
en augum nærr
eins ok afgreindir
aðrir heimar;
Ok máske aðrir
afgreindir heimar,
farsælar eyjar,
ok fögrum mjök
görðum glíkar
í gamla daga,
svo höfnum hrósi,
Hesperiskum;
Farsælar foldir,
fagrir lundar,
dalir af blómstrum
dampafullir,
þrísælar eyjar,
hvar þesskyns allt

[23]) þ. e. austrpúnkti; Metin eru eitt af þeim tólf himinsmerkjum, sem standa andspænis á móti Hrútsmerkinu, þat er frá austri til vestrs, því þegar Metaskálarnar gánga upp í austri, gengr Hrútrinn undir í vestri; þat er kallat, at hann dragi Andrómedu, af því þetta himintúngl sezt fyri sjónir sem kvennmaðr uppyfir Hrútnum, ok sýnist þessvegna, þegar hann gengr undir, sem hann dragi hana svo fjarlægt í þat Atlantiska haf, þ. e. vestrhafit, yfir sjóndeildarhrínginn. [24]) þarnærst horfir hann yfir heimsbreiddina frá einum póli til annars, þ. e. frá norðri til suðrs, sem er kallat breidd; þareð hinum gömlu var meira kunnugt af jarðarhnettinum frá austri til vestrs, kölluðu þeir þat lengd jarðarinnar, en frá norðri til suðrs kölluðu þeir breiddina. [25]) Milton, eptir Virgilió kennir loptit við marmara, vegna þess hvítu ok hreinleiks.

skiptist um skemtun
fyri skoðendr.
Önnur lèt sèr annt
nú um eyrendi
Fjandi ferðóðr,
enn at forvitnast,
hvílíkum þær
ok hvernig væru
eyjar skipaðar
innbyggendum.
Gjörvöllu framarr
var en gullna sól
ærin augum hans
undrfurða,
hún gekk nærst himni
í háum ljóma;
lèt til hennar hann
hastat flugi,
ok fagra festíngu
með fjöðrum sló,
gullligum glæsta
geislum sunnu.
En hvort hann upp
eðr ofan stefndi,
ok hvort miðpúnkti
at eða frá,
hvort í austrátt
eða vestr,
oftorveldt er
á at gizka.
Fór prettvíss Púki
framhjá plánetum,
þær er frá röðuls
ríkjandi sjón
hvervetna í fjarlægð
hæfiligri
stíga stöðgan dans
kríngum stoltarljós,
er þeim il sendir,
ok ósýniliga
þrengir sèr með líf
ok þrótt verkanda
öll þeirra gegnum
innstu leyni.
At sèr þeim þannig
þráveltandi
hraðt á hríngskeiði
hreinan kríngum
lýsanda lampa,
sem lífgar allt,
mælast dægramót
mánaða ok ára;
Eða verðr þeim
velt ok snúit
af sunnu sía
segulsteins krapti,
er elskuligan
gefa öllu hýr;
skipar skírleitt goð
skínandi þannig
stund ok stað,
full af stórundrum.
Nú lendti Fjandinn
í fagrahveli,
ok hefir aldrei,
síðan heimr skópst,
stjörnuspekíngr
með stækkunargleri
blett sèt þvílíkan
í bjartri sólu.
Hann fann hèr þann stað,
sem hvergi má
líkja við neitt þat
fyri ljóss sakir,
sem storð vor geymir,
eigi stein nè málm;
en þótt partar hans
allir saman
fagrt skin
frá sèr gæfu,
einskonar efnis
voru eigi þeir;
Samt var serhverr einn
af sínum ljóss
gegnumgenginn
gjörsamliga,
jafnt sem glóanda
járn af eldi;
mæta gull sýndist,
ef málmr var,

ellegar silfr
sjón blindandi;
Væri steinn, var þat
vissuliga
Krýsólítus
eða Karbúnkull,
Rúbín ok Tópas
sem í röðli skein,
ok af *tólf fleiri*
tignarsteinum
Arons biskups
í brjóstskildi.
Máske þvita þann
þar megi finna,
er af *imindun*,
meirr enn augnasjón,
hefir vitríngum,
vorrar jarðar,
eptirleitendum
því er aldrei fannst,
fengit forgefins
fyrirhafnar.
Forgefins varð þeim
fyrirhöfn sín,
en þótt kviklátan
kyrrsett hafi,
ok konstar böndum
kraptafullrar
heptan með
Hermes látit [26].
Þótt þeir aldinn út
af ægis hyl
heimtu Prótenm [27]
ham breytanda,
ok með kúgun
honum kæmi til
íþróttarsaman
at umsnjúga
í mynd meðskaptri
málmbræðis kólf.
Hvern má furða
þó fjöll ok merkr
andi hèr hreinum
heilnæmis vökva,
þótt um röðul rètt
renni straumar
drekkanligum af
Drupnis sveita;
Með því en mesta
allra málmsmiða,
*Mundilfera* mær,
í myrkvu skauti
foldar vorrar,
sem svo fjarlæg er,
öflugri at eins
með ahræríngu,
*jarðneskan* vökva
þegar viðblandast,
svo mörg mæta þíng
at megni ok lit
fögr ok frábær
framleiðt getr?
Nú fann Níðhöggr
nógar furður
áðr ósènar
á at stara;
augum óglöptum
brá hann umhverfis
bæði breiðt ok langt,
því bægð engi
varð hèr víðsýni,
nè vart skugga.
Allt var hèr sólskin
ok einskært ljós,
*svosem þá sunnu*
um sjálft hádegi
bruna beint niðr
blikandi geislar
jafndægra miðjum
á merkihríng;
Því þar hófu þeir
sik þráðrètt upp,
með því af myrkum
mátti blutum

[26]) Goðatúlkrinn Mercúríus, öðru nafni Hermes, ljær hèr kvikasilfrinu þetta heiti sitt, eins sem hit fyrra, sem þat hefir í látínu máli lengi brúkat. [27]) *Próteus*, einn fjölbreytiligr sjóarguð.

engin áskyggíng
hèr at koma;
loptit skírt ok skært
at skoða leyfði
hluti fullgrannt
ena firnnstu.
Fèkk þar Ferðalángs
fordæmt auga
engils vart vorðit
vegsamligs mjök,
hvern ok síðarr sá
í sólu fagri
helgr Jóhannes [28]
fyrir hávitrun.
Snéri baki sá
við Bölverki,
þó var eigi tign hans
þarvið dulin,
engilligt kríngum
ennis veldi
sveigðist gullligr
geisla baugr.
Fagrir dúknðust
um fríðar mjök
hárlokkar herðar,
ok hæga kríngum
veifuðust vængi
svosem vatnsbylgjur;
hann var á at sjá
sem í umsýslun
höfugra hluta
ok hugsun djúpri.
Nú varð full Fjandi
fegins hugar,
er hann fundins hèr
til fyrigreiðslu
vænti vegvísis
í vandri för
til prýðiligrar
Paradísar,
sem var fyritti
lángferðar hans,
ok böls verkstofa
vors en fyrsta.
En hann lèt áðr
af sèr varpat
egin ásýnd,
sem ella mátti
honum háskalig
ok til hindrunar,
ok nú klæðist hann
í Kerúbs ham;
þó rannar ekki
raðar fyrstu,
en ásjáligan
ok úngligan svo,
at hýrt hvervetna
himnesk æska
mundi mynd hans á
móti hlæja,
unun ok siðsemd
bauð sèrhverr limr;
svo kunni hann hag'la
at hylja skálk.
Hèldt at lokkum hans
lítil króna,
en þeir vel hrokknir
um vánga lèku;
skjótfleyga vængi
skreyttu gulli
fágaðar fjaðrir,
ok til flýtis var
kyrtill knýttr upp;
en til kurteisi
í sinni gangu
bar hann silfrvöl.
Eigi nálgast Arr,
fyrr enn ávarp gaf;
en at heyrðu því
leit himinbúi
at honum ásýnd
alskínandi;
þekti Satan þá,
at þessi var
Uriel, engill
æðstu stèttar;
Einn af öndum sjö,
er Alvalds tróni

[28]) Opinb. b. 19, 17: Ek sá einn engil standa í sólunni.

standa nærstir,
ok stórvoldugrar
vænta skipunar
Skapara síns,
ok sem hans eru
yfirlítandi
himins hríng
heilan augu[29].
Einnig brnna þeir,
nær bendir hann,
jafnskjótt niðr
á jörð vora,
fær þeim engin hnekt
fyristaða,
eigi vott nè þurt,
vatn eða land.
Honum nær kominn
mælir Helvarðr:
„ó, Uríel!
þú sem útvaldra
stendr sífeldt sjö
meðal Seraphim,
helgum skínandi
fyrir hátróni!
Þú berr fyrstr fram
Föðurs alda
voldugan vilja,
sem víss túlkr
hvervetna himins
um heilt veldi,
hvers börn ávalt
meðr athygli
vænta boðskapar
af vörum þèr.
Hèr mun einnig,
at hyggju minni,
sama sýslun þín
ok sama tign;
eflaust vitjar þú,
sem auga Guðs,
þrátt um nýgjörva
þessa skepnu.
Knúðan hefir mik
frá Kerúbsveitum
þannig einnsaman
at þreyta för
ósegjanlig ein
eptirlaungun,
at sjá drottinligt
dásemdarverk.
Ok at þekkja þat
em ek þyrstr til,
en þó mest ok fyrst
manneskjuna,
nýtt eptirlæti
sem er náðar hans,
hverri til handa
er af honum gjört
forvirki þetta
eð furðu mikla
Skír mèr, ó, Andi,
þú enn skinfagri!
hvert af ljósum þeim
leiptrhvelum
bústaðr er manns,
sem hèr blasa við,
hvert hann æ er einn,
eða arkar hann
til eins frá öðrum
at egin vilja;
Hvernig færi fæst
til fundar hans,
at ek annathvort
honum ósèðr
til unnmettunar
mínum augum,
eða dularlaust
dásamandi,
fái fullskoðat
furðuverk þat;
Hverju heima
hefir gefit
æðstr Alfaðir,
ok yfir hvert
slíkum úthellt er
örleik náðar;

29) Zach. 4, 10: með þeim sjö, sem eru augu Drottins, hvör eð fara igegnum allt landit.

Svo vèr honum í
sem í hvívetna,
megum allsherjar
eptir skyldu
mildan Skapara
fá miklaðan,
þann er drambsama
drottinnsvika
rak af ríki brott
rèttiliga,
ok í neðsta djúp
þeim niðr hratt;
En nú hèr bætti
með nýu kyni
fullu farsældar
fenginn skaða,
meðr mannkyni,
sem miklu betr
honum hèr eptir
mun hlýðni tjá;
gjörvallir vísir
eru vegir hans."
Otrúr innti svo
yfirdrepskapr,
enn þá ókendr,
því englar hverki
nè menn megu
við munnflærð sjá,
sú er ein meðal
allra hluta
berr hulinshjálm
á himni ok jörðu,
engum sýnilig
utan Guði,
veit hann ok líðr,
at hún viðgángist;
Opt án andvara
sefr ílls grunr
viðr vizku port,
þá vakir sú,
ok sitt embætti
felr einfeldni;
einföld góðgirni
getr ekki
hjá sèr ílls on,
þegar ekkert sèr.
Svo varð Uríel
í einfaldleik
frómum vèlaðr
vörðr sólar,
hverjum hvatsýnni
himins engli;
svo hann einlægr
alvöru með
svika Frumkvöðli
gaf svar þannig:
„Eptirlángan þín,
Andi hinn fagri!
at þekkja Guðs verk,
svo göfga megir
því framarr þann,
sem þau gjörði,
eigi leiðir þik
lastverðrar til
hnýsni neinnar,
sem er hnjóðr við;
Miklu heldr hún
er hrósverðug,
ok þat því framarr,
sem þik hefir
hún knúðan híngat
frá himinbygð
einnsaman, svo
at þú sjá megir
með egin augum
þat, er annarra
fyri frásagnir
at fræðast um,
nægja láta sèr
næsta margir.
Ok vissuliga
eru verk hans öll
full af dásemdum
til forundrunar,
yndæl at þekkja,
ok með ánægju
allra verðugust,
at æ sè minnst.
En hver sköpt skilit
mun skynsemd fá

margfaldleik
hans miklu verka?
hvert mun hugskot þá
höndla speki,
sem þau framleiðt fèkk,
en þó fólgna lèt
yfrit djúpt
orsök þeirra?
Ek sá við orð hans
þegar ómyndat
hljóp saman deig þat,
sem heims var fræ,
heyrði raglan,
þegar raust hans gall;
þá stilltist styrjöld
sú en stjórnlausa,
ok fèkk endimörk,
þat engin hafði.
Mælti Alfaðir
öðru sinni;
þá flúði myrkr,
en framkom ljós;
óröð skipaðist
í orðu rètta;
fór þá fljótliga
útaf flækju hver
fjögra þúngfærra
frumtegunda,
láð ok lögr,
lopt ok eldr,
í þat umdæmi,
sem ætlat var;
Flaug þá upphimins
fimmta vera,
ætluð eldlopti,
í ýmsar myndir,
þær andi við var,
en þær veltu sèr
í hvolfd hvervetna
hvel ok böllu,
urðu þat allt stjörnur
ótöluligar;
Sèrðu hversu þær
sik umhræra?
sitt rúm hefir hver
ok hver sinn gáng;
allt hitt annat,
sem er innan heims,
ferr um heilan hann,
sem hafs öldur.
Líttu lægra
á hit litla hvel!
híngat horfir þat
með hèðan fengnu
ljósi leiptranda,
sem til láns er því,
ok þat út frá sèr
aptr sendir;
þat er jörðin,
ok þar byggir
mjök farsæll maðr,
sem þú mæltir um;
þat er dagr hans
þessi birti,
ella væri þar
einúngis nótt,
eins ok andfætis,
þat undan horfir,
hvolf þat it hindra [30]
at hveli því.
Þó er til nota
við miði grímu
túnglsins tilkoma
á tíma vissum;
nefn svo stjörnu þá,
sem næst er jörð,
forkunnar fögr,
þó fjærri skíni.
Lætr þat lokit
leiðar rás sinni,
ok tekit upp
undir annari
jafnan sama veg
jörð umhverfis
með mánaða
mótum hverjum.

[30]) *hindra*, sem er hinumegin, fjærr eða síðarr; hindri ok hinnsti í Hávamalum: ens hindra dags kvamo hrimþussar o. s. frv.

Fær þat fyllt ok tæmt
á fresti þessum
með ljósi, hèðan
sem því lánat er,
þrímótaða mynd[31]
um mánuð hvern,
beitandi veldis
bleikum sprota
móti makt
myrkrföru.
En blettr þessi,
sem ek bendi til,
er Eden sú,
þar Adam byggir;
þat eð hola hvolf
hárra skugga
af lauf eykum
er lundr hans;
far nú vegar þíns
svo viss orðinn!
ek hefir minn veg;
sem mik kallar."
Snèri sèr þá við
at svo mæltu
aptr Uríel,
en eptir honum
laut djöfla Drottinn
ok djúpt sik hneigði,
svosem á himnum
er siðr til
vegligri verur
sèr við at hegða;
Engi lætr þar
yfirboðnum
óveitta skyldu
nè undirgefni,
heiðrs lotníngu
meðr hæverskri.
Svo ferr Satan burt,
ok sínu stýrir
vængja veifgani
vonarfullu
hraðt á leið híngat
til hauðrs vors,
ok sveif óðfluga
með endilángri
dýra hríngs
deildarlínu
í lopthjól mörg,
ok ei lètti fyrr,
enn á Níphats brún[32]
náði stöðu.

31) Með vaxandi hornum til austrs, mínkandi hornum til vestrs, ok með fullri mynd. 32) *Niphates* er fjall á endimörkum Armeníæ, ekki lángt frá uppsprettu Tígrisfljóts; á þessu fjalli lætr skáldit Satan fyrst nema staðar, með því þat liggr í grend við Mesópótamíam, þar sem menn, eptir beztu ritum, meina Paradís verit hafa.

---

## Hèr hefr
## fjórðu bók Paradísar missirs.

O, hvar ertu nú
aðvörunar
ræðandi raust?
er röðli ofarr
postulligr heyrði
á Pathmeyju,
sjóna sjáandi,
er þú svo við gallst:

„vei fólki því,
er á fold byggir[1]!"
Er nú annat sinn
illr Dreki
hefir fastráðit
friði at spilla,
ok með ofsafeiku
ofan geysar,
harðsólginn hefndar,
yfir höfuð manns.
O, at fengi sèt,
meðan frestr er,
huliun háska sinn
hjón en fyrstu,
ok svo viðvörnt,
hans veiðisnörur
auðnu bæru til
at umflýja!
Af því ofan ferr
í afarbræði
til at freista fyrst
Fjandinn híngat,
ok at unnu því
til at áklaga
felda foldbúa
fyri Guði.
Nú munu bráðla
beiskar hefndir,
fyrir fall hans
ok flótta sneipu,
á manni veikum
ok án mótgjörða
nærsta níðsliga
niðr koma.
Þó var gleði nú
glapin honum
harðla hraðsóktrar
hættu farar,
en þótt alldælskr
ok óttalanss
fyrri fyndist,
meðan fjærri var.
Eigi var nú orsök
til yfirlætis,
er hans áformat
óhæfuverk,
ok alin illska
innan rifja,
var nú fullburða
til at framkvæmast.
Nú er atfram kom,
því hann ásetti,
brendi þat brjóst hans
brimsvellanda,
ok sem djöfulligt
dráps verkfæri
sókti viðsnúit
á sjálfan hann.
Hömuðust í hyggju
Heljarþengli
ógn ok efasemd,
með ólgu vall
heitast helvíti
í honum sjálfum,
æst ok uppblásit
allt frá botni.
Hann því hvervetna
berr helvíti
umkríng í sèr
ok umhverfis sik;
ei má heldr hann
fyrir helvíti
flýja fótmál eitt,
enn fyri sér,
hvar sem helzt
hann er staddr.
Nú lèt samvitskan
á ný vakta
örvæntíng djúpa,
sem í dvala lá,
ok þess óþýða
endrminníngu,
sem var hann, er hann,
eða verða kann;
Er hann óttaðist
at enn mundi

[1]) Opinb. b., 12, 12: Vei þeim, sem á jörðu búa, því Djöfullinn er ofan farinn til yðar, hafandi bræði mikla.

spillast hagr hans
við heipt aukna;
því á verri verk
ma víst ætla,
verri verka gjöld
at verði lögð.
Ymist á Eden,
sem yndisliga
lá þar glausandi
gagnvart honum,
brúna skaut hann skjám
skuggafullum,
ok yfirklæddum
með ángrsemi;
Eðr ok þaðan
öðru svifi
á háfan röðul,
er nú hafinn sat
meginskærum á
middags turni;
uppkvað hann þá loks,
með andvörpum:
„O, þú, dýrð meðr
dásamligri,
sem hákrýnd horfir
híngat niðr
einvalds þinni
frá yfirdrottuum,
veraldar nýrrar
sem værir guð!
Fagrar fyri þèr
er þú fram brunar,
en þèr ófegri,
allar hljóta
hylja höfuð sín
himins stjörnur,
orðum kveð ek þik,
en ei vinar!
Ok nú nefni þik
á nafn, þú Sól!
en við gullgeislum
gremst ek þínum,
þeir er minna mik
svo meinliga
á þat dýrðar stand,
er datt ek frá.
Hversu hátt hafit
ok heiðrsfullt
mundi þó ei þat
þínu framarr!
unz ek steyptumst
fyri stórlæti
ok enn dárligri
drottnunar girnd;
Er ek orrostu
illu heill
helzt til hugðjarfr
hefja þorði,
á hánum himni
viðr hæða Gram,
þann sèr engan á
annann jafnan.
En hví hóf ek þat?
var himna Jöfri
makliga þökk sú
af mèr goldin,
af hvers ek var til
til yfirburða
hárra skapaðr
handar krapti?
Engum varð hans goðvild
at umbríxlun,
þat var eigi þúngt
at þjóna honum,
hve mátti minna
honum móti greiðt?
hvert var. hægra gjald,
enn hann at prísa?
hverjum heyrði þökk,
ef honum ei?
En þó varð allt gott,
sem hann á mik hlóð,
í mèr at illu
ok at ílls undri;
at ek hnè hneigði
var hneisa mèr,
hverr í heiðri var
svo hátt lyptr.
Eitt stig ofarr
var mèr umhugat

setja mundi mik
á hans maktar stól,
ok í vetfángi
við mik losa
skuldar púnga þann,
er ei þolat gat,
at þagna aldrei
á þakklæti.
Þótti mèr íllt ok
á mik lagit:
öðrum án afláts
at inna skyldur,
alljafnt skyldugr
þótt skuld gyldi,
ok þagna aldrei
á þakklæti.
En ek gleymdi því,
at góðra hluta
ávalt naut
ek af honum;
lítt ek þekkta þat,
at þakklátt sinni
ei er skuldbundit
nær skyldugt er,
heldr greiðir skuld
í því gjörist hún,
ok er undir eins
við endrgjald.
lánaðra gæða
laust ok bundit;
hverr var púngi þá
at því gjaldi?
O, hefðu örlög
þau en allmáttku
látit mik engil
lægri vera!
þá hefð'ek heilum
heillum staðit,
ok ei stjórnlaus von
af stolti kveikst.
En, því ekki þá?
því eins tíginn
hefði máske mik,
þó minna sèr,
flekaðan fengit
í fylgd sína,
af þeim tilgángi,
sem tældi mik.
Þó voru önnur,
sem ei fèllu,
há völd á himni,
heldr standa
föstum fótum
gegn freistíng'allri,
hvert sem styrkr sá,
er styðr þau,
er þeirra eginn
eðr atfenginn.
Voru mèr ei vilkjör
veitt hin sömu
ok styrkr sami
til at standa svo?
var þat at vísu;
hverjum vil ek þá
skeðan skaða minn
at skuld gefa?
Eðr á hvat
skal ek ámæli
leggja hèr fyrir
ok löstunar orð,
utan elsku Guðs
ena einráðu
ok öllum jafnt
úthlutaða?
Formælt læt ek þá
hans frielsku,
því hún ok hatr
eru hjá mèr eitt,
ok mèr eylífrar
afla pínu.
Já, nei, bölvaðr
ek jafnvel sè,
er svo Guðs í gegn
geði valdi
fullu frjálsræði,
þat ek fyri má
at makligleikum
mik ásaka!
Vei mèr vesælum!
hve vil ek hans

undan komast heipt
óendanligri,
ok hjá eylífri
örvæntíngu?
sú mik eltir æ
með ofsóknum.
Hvert, sem ek hef mik,
þar er helvíti,
sjálfr helvíti
em ek sjálfum mèr;
finn ek í neðsta
niflheims djúpi
annat enn dýpra
í mèr sjálfum;
Þat er ógnar
opnu gini
megingrimt
mik at svelgja;
má hitt helvíti,
sem hegnir mèr,
heita hjá þessu
himnaríki.
Lát þá lítit eitt
loks til slaka!
eðr er ei rúm
fyrir yðrun meirr?
fær ei framarr stað
fyrigefníng,
nema ek neyðist til
at niðrlúta.
At ek auðmýktar
úrkost slíkan
meinar metnaðr
í mál taki;
ver því spèhræðsla
ok spott mèr búit
hinum öndum hjá
í helvíti.
Var þat allt annat
enn undirgefni,
sem ek lofat lèt
við lokkun þeim,
annat enn auðmýkt
var oflæti mitt,
sem lèzt Almættit
sigra mundi.
Vei mer vesælum!
þeir vitu lítt,
hverra rauna mèr
mitt raup aflar,
ok hvílíkt afgrunn
í mèr sjálfum
sárustu kvala
ek em sokkinn í!
Meðan miðt í því
múgr engla
tignar mik seztan
á trón í víti,
kórónu prýddan
ok konúngs sprota,
allan uppblásinn
af yfirlæti.
Ek em aumastr
allra þeirra,
at eins yfir þeim
í ógæfu,
þvílíka gleði
hefir gefit mèr
í minn ávinníng
ofmetnaðr.
En þótt ek gæti
af mèr fengit
at yðrast eptir,
ok mèr auðnaðist
enn á ný at ná
náðar vegna
ok fyrigefníngar
fornu standi;
Hversu skjótt mundu
skínandi dýrðir
háar hyggjur
aptr heim kalla,
ok halda eið þann
sem ósvarinn,
er vann yfirvarps
undirgefni?
Nei! þær lofanir,
sem í nauð gjörast,
verða vettugi
at vörmu spori,

ok missa mátt sinn
í meðlæti;
af því aldrei mun
ákomit verða
samtryggum sættum
þar, er svo hefir
djúpar undir gjört
dauðligt hatr;
Við þat viltumst ek
til verra falls
ok til enn stærri
óhamíngju;
helzt til dýrkeypt
væri hlèstund sú,
at taka tjón viðr
tvöfaldt meira.
Þat veit Hegnir minn
ok hèr fyrir
er ei fúsari
friðar boða,
enn ek em búinn
til at beiðast hans,
svo er mèr von öll
í vind horfin.
Hvat er þat vætta,
sem í vorn stað sè,
aptrkomit ek,
útlaganna?
maðr myndaðr,
hans munarhnoss,
ok í hag honum
heimr fagr.
Far nú vel, þú von!
ok með voninni
far vel ótti þú
ok yfirbót!
allt gott er mèr tapt
ok á enda kljáð;
þú skalt í þess stað
þá, hit vonda!
gjörast mèr jafnan
gott upp hèðan;
Með þèr mun ek
at minnsta kosti
halda hlut ríkis
mót himna Gram
ok meirr enn hálfu
máske stjórna,
mun sú bráðt manns raun
ok hins mikla heims."
Meðan mælti svo
myrkra Fyrsti,
varð hann litverpr
um leið þrisvar,
sortnar svipr hans
við sèrhverrar
ásvif geysandi
geðshræríngar.
Hann varð helblárr
af heipt í fyrstu,
en af öfund
í annat sinn,
ok at síðurstu
af örvæntíngu;
Hvar við ásýnd hans
en atfengna
um sik auglýsti
at uppgjörð væri,
ef Níðhögg nú
hefði nokkr sèt;
því af svo ljótum
lyndis meinum
eru hjörtu hrein
himinsinnut.
Þegar varð þess varr
Vèlárr slægr,
svæfir hann geðstorm
með svika logni
yfir ásýnd hans
utanverðri;
hann var frumkvöðull
þeirrar falskunstar,
at dylja hefndar heipt
undir helgiskán.
Þó var enn eigi
sú íþrótt honum
til þess töm orðin,
at tældan fengi
ítran Uríel
álfröðuls vörð

sem við hann áðr
hafði varr orðit;
Er með engilsjón
athugasamri
honum hafði fylgt
at hauðri niðr,
ok á hambrygðin
horft en miklu
uppá fjallinu
í Assyría;
Sá hann miklu meirr
hans mynd bregða,
enn sið gegnt gæti
góðra engla,
leit hann læti hans
en ljóugrimunu,
er hann einn staddr
hèldt engan sjá.
Nú hèldt hann áfram,
ok nam staðar
við Edens ummörk,
þar allnærri,
sem Paradís
en prýðiliga
grænnar girðíngar
var geymd í hring;
Líkr var hann landmúr,
sem lykr skóg
meðr þykkvöxnum
þakinu runnum,
mjök líkt margbreyttu
málverks flúri,
þó reglulaust
ok án ræktunar;
Skuggi var á bakvið
af skógar eykum
háreistum mjök
ok harðla þèttum,
af fögrum Cedrus,
furu, greni·
ok pálmatrjám
prýðiligustu;
Skemtinn leikskáli
fyri skógtýva,
sem lèt myndaðan
sjónarflöt
fyri framan sik
fagrlima,
skuggar víðt breiddir
skreyttu foldir,
var þar allt ágætt
um at litast.
Ofarr nokkut,
enn eyka toppar,
tók í Eden einn
algróinn hvolf;
af honum var tíðt
ok auðveldt næsta
manna Frumföður
um foldir neðri
ríkis at renna
röðlum sjónar;
Yfir garði þeim
var gjörr hríngr
eykum af
útvöldustu,
þær er þúngbúnar
þar tjáðu sik
allskyns yppurstu
með ávöxtum.
Mátti líta þar
meðal blómstra
bar margt glóanda,
sem á gull sæi,
fjölskreytt ok fágat
fögrum litum.
Miklu lífligarr
ljósum geislum
þrykti þar á sól,
enn á þokuský,
sem hún, kveðjandi
at kvöldi, gyllir,
ok skúrarboga,
sem skrautfágaðr
beltar hauðrs hjálm,
nær himna Jöfr
hefir dögg látit
drykkja jörðu.
Svo fann Satan nú
sveitarlag þetta

elskuligt ok fullt
unaðsemdar,
hreinu hreinna lopt
honum mætti,
sem í sál andar
sætu vori
gamans ok gleði,
en gjörir sorg
allskyns uppnæma,
nema örvýlnun.
Blèsu hvervetna
blíðir vindar
ángan ok unan,
eim af reykelsi,
heyrðust þeir hvískra,
meðan hjá þutu,
hvaðan bæru burt
balsam stolit.
Svo sem í sæför,
þá er siglt hefir
gnoð fyri gjögr [2]
góðrar vonar;
ok hjá Mósambík
á mar víðum
flytr norðaustan
flapr kára
Sabeiskan ilm
undan svasligum
unnarströndum
í Arabía;
Er þá lètt seglum
ok lötrar far
um margar mílur
fyri munaðs sakir,
ok Ægir gamli
við ilm hrestr
bregðr bárótta
brosi á grön.
Svo kunni Satan
sèr ei læti
sakir yndælis,
þá er inn kom hann
dægiligan þenna
í dampa hríng,
er at eitra þó
var hans eyrendi;
Bægði því eigi,
þó betr fèlli
ilmr honum sá,
enn Asmódæí
óhreinum nösum
ilmr reykjar
af fiskjar lifr
á funa lagðri;
Hvar með Tobíæ [3]
tvistri brúði
fjandi fúll
frá var rekinn,
útflæmdr allt
á Egyptaland
Medens foldum frá
ok fast bundinn.
Nú nálgast Satan,
þó nærsta seinn,
fullr áhyggju
fjalls uppgaungu,
var þat bæði bratt
ok brautvana;
fann hann hvergi fært
fram at komast.
Svo mundi þykkþyrpt
þèttu hrísi
ok viði smáum,
sem vörðslugarðr
meginmesti
fyri menn ok dýr,
er engi mátti
yfirstíga.
Hlið var eitt þar á
annars vegar,
austr vissi þat,
ei voru fleiri;
sá þat víst Satan
en því sinnti lítt,
ok virðti vettugi
veg rèttan;
hann stökk háðsfullr
yfir hærstan múr,

[2]) Góðrar vonar höfði. [3]) Tob. b. 8.

ok í einum rykk
var innan gerðis.
Eins ok útfarinn
í æta leit
sársolltinn vargr,
er sèr at kvöldi
hagsýnan hirði
hafa sauðnm
borgit í byrgi,
með bráðum stökk
varpar sèr þar inn
yfir vegg háan.
Eða sem þjófr,
sá er auðhirðslu
ríkum höldi hjá
hyggst at tæma;
en dyr ramgjörvar,
með digrum slám
ok lás tvöföldum
luktar, hrinda
öllum átökum;
innum þekju
smýgr glæpgan gáng
eða glyggs auga.
Svo stökk stelvíss
Stórþjófr fyrsti
inní Guðs hjarðar
geymslu kvíar,
ok leignliði
í líkan máta
hrakligr stelst
inní hans kyrkju.
Fór nú fljúgandi
Fjandinn þaðan,
ok setti sik
í sæhrafns líki
á meið lífsins,
sem í miðit stóð,
gjörvöllum öðrum
eykum hærri.
Samt komst Satan ei
at sönnu lífi,
heldr sat hann hèr
ok í huga spann
ljót banaráð
enum lifendu;
Leiddan lèt hann ei
líf eflanda
sagðrar eykar krapt
sèr í þánka,
heldr hafði
fyrir hliðskjálf sèr
þat, sem vel brúkat
verða mátti
ódauðligs eðlis
öruggr pantr.
Svo lítt kann nokkr,
nema lífsins Guð
góðs en gyldu met
ok göfgan sóma,
heldr vendt verðr
í verst enu bezta,
ok til margskonar,
sem minnst er verðt.
Nú leit Níðhöggr
fyri neðan sik
útbreiddar nýar
undursjónir
allskyns skilníngum
til skemtunar,
allrar náttúru
auðlegð heila
saman þyrpta þar
í þraungu rúmi,
já, í einu sagt:
á jörð himin;
því sæl Paradís
var plantaðr
aldingarðr Guðs
af Guði sjálfum
í Edens austri [4],
sú er Auran frá [5]
til Seleveíam [6]
sik útbreiddi;

[4]) Gen. 2, 8: Ok Guð Drottinn plantaði einn aldingarð í Eden mót austri. [5]) *Auran, Haran, Charran eða Charra*, borg í Mesópótamía við fljótið Evphrat. [6]) *Seleveía*, borg hjá Tí-

Bygðu síðarr sèr
sjólar Griskir
ágæta borg þá
til atsetrs;
áðr áttu þar
Edens synir
lánga tímatöf
í Tílassar.
A svo fagri fold
fegri miklu
gróðagarð sinn
hafði Guð bygðan,
uxu þar eykr
ágætastar
at ilm ok ásýnd
ok afbergíngu,
svo skóp Alhags orð
þar auðga jörð.
Miðt meðal þeirra
stóð meiðr lífs,
tók hann hátyppt
yfir trè önnur,
hlaðinn aldinum
ambrósligum
ok með lífligu
ljóma gulli.
Lífinu nærst
stóð þar líftjón vort,
skilníngs apaldr,
þeim skinbragð fylgdi
um þat it góða,
en ofdýrkeypt
þó með þekkíngu
þess ins illa.
A rann í Eden
ein frá suðri,
breið ok beinfara,
sem burtu hvarf
í þurran sand
undir þar settu
fjalli fermdu
með fagrlima.
Fjallit var þar fest
af Föður alda,
öblgr grundvöllr
fyrir aldingarð
yfir hörðum straum,
er holar gegnum
Ymis holds æðar
upp nam vella.
Af þeim uppsprettum
urðu lækir,
af þeim lækjum
ljúfir dampar,
af þeim dömpum
döfnuðu jurtir,
af þeim jurtum
jarðar ljómi.
Loks runnu lækir
í lög saman,
sem fór fossandi
fjallshlíð ofan
í hit neðra fljót,
er at nýu spratt
upp um dimmt auga,
ok útrann síðan
hlutat í fjóra
höfuðstrauma [7];
Ultu þeir ýmsar
í áttir þaðan
gegnum meginlönd
ok mörg ríki,
þau í þessum stað
ei þörf gjörist
til óðs lengíngar
upp at telja.
Æskta ek heldr,
ef íþrótt dygði,
at fá fráskírt,
hversu fram runnu
af Saffír ítrum
uppsprettu brunnum;

gris fljóti, bygð af Selevcó, sem var einn af eptirkomendum Alexanders mikla. [7]) Gen. 2, 10: Ok þar gekk eitt vatnsfall út frá Eden, til at vökva aldingarðinn, ok þar frá skiptist þat, ok varð at fjórum höfuðvatnsföllum.

eins ok hrokkit hár,
hríngaðir lækir;
Gengu þeir um gólf
af gullnum sandi
ok fögrum perlum
undir forsælu;
draup þar dýrðlig veig,
drykkr guða,
hvern ein hauðrbaðm
heimsækjandi;
Ol hún öll blómstr
á akri þessum,
voru þau ok verðug
at vaxa þar,
sælli Paradís
sambjóðandi.
Eigi hafði íþrótt
um örðng beð
ok ekrur yrktar
þeim upp klakit,
heldr nákvæm hönd
náttúrunnar
alit þau óspart,
eins á dallendi
hólum ok hæðum,
sem hauðri sléttu;
Engu síðr þar,
sem opnar foldir
álfröðull vermdi
með árdags ljóma,
enn þar skógskuggar
skærri byrgðu
hauðr, myrkvir mjök
fyri middags sól.
Svo var Eden einn
unaðstaðr
landsbygð lagin
til lystisemda,
sem at sjón ok raun
síbrosandi,
ok en auðgasta
allskyns kostar.
Sáust þar lundar
laufum þaktir,
hverra gölgu trè
grètu kvoðu
ok balsams tárum
blíðt ilmandi;
aldin hèngu hèr
harðla skrautfáin
með gullnum nytum
ok með gæða smekk.
Hèr eða hvergi
megu heimfærast,
svo sannar verði
sögur fornar,
helzt til ýktar
um Hesperiskra
ávaxtarsemi
aldingarða.
Mátti sjá þar ok
millum lunda
sigræn engi
ok sjálfala flokka,
sem úngrar ólu sik
urtar blómi,
um haga dreifðir
ok hæðir pálma.
Sást þar uppljúka
settr blómstrum
döggrakr dalr
djúpu skauti,
ok auð útbreiddan
með ilm sætum
blómstr alls litar
bauð at skoða;
uxu rósir þar,
en engvir þyrnar.
Djúp var hins vegar
ok dimm gjóta,
sú í svala deild
sundr karma,
vænum þakin var
víntrès greinum,
yfir hana sik
utbreiðandi;
Þar hèngu þrútnir
ok þúngir klasar,
lit sem purpuri
lagarfull ber;

en bisit bunaði
af bergi niðr
með glaðri hvískrun
í gryfju þessa;
Ok á bakka brún
beggjamegin,
krýnda með kögri
kostuligu
morberja meiða,
meginskygndum
kastaði mörgum
kristals spegli.
Saungkór fugla
safnaðist híngat,
ok vorvindanna
vængja þytr
samstillti sik þeim,
er þar sinn lèku
sí ok æ sætan
svasaðar dans;
þeir, er ilm anda
frá engi bornum
ok frá blómguðum
bjarkar lundi
gegnum blaktandi
blöð á greinum,
þægiliga þá
sem þýtr í;
Þar var í þyrpíng
af þokkagyðjum
ok Stundum stígum dans,
er enn stóri Pan[8]
ásamt þeim leiddi
yfir aldinin,
ævaranda vor
ok árgæðsku.
Engit í Enna,
þat hit orðlagða,
þar Prószerpína
plokkaði blóm,
ok sjálf it fegrsta,
þegar sízt hugði,
varð í burt plokkuð
af Plútóni;
mjök varð mæðusöm
móður tvistri
hennar eptirleit
um heim allan;
Dafnis lundr
enn dægiligi,
eða keldulind
hin Castaliska,
aldrei máttu sèr
Edens viðr
Paradís líkja
fyri prýðis skuld;
Ekki Trítóns ár
eyjan Nýsa,
þar Amaltheam
með úngum syni
fyri stjúpmóður,
fól Cham, Rhen,
heitinn Ammon
meðal heiðíngja;
Ok þá Amara
ekki heldr
þat hit fagra fjall,
þar fóstrut voru
Abyssínisk börn
öðlíngs niðjar,
ok eyddu fólgin
æsku dögum,
þótt nokkrir meini
við Níls uppsprettu
hafi Paradís,
hvítbjörgum lukt,
þíngmannaleiðar
at lengd fullrar,
línu miðjarðar
legit undir,

[8]) *Pan*, skóga ok hjarða goð, merkir hèr náttúruna; þokkagyðjurnar (*Gratiæ*), enar bliðu árstíðir, ok Stundirnar (*horæ*) gróandann; Miltons meiníng er, at í Paradís hafi öll náttúran haft sína fullkomna fegurð, ok sèrhver árstíð ok stund framleiðt eitthvat nýtt ok fullkomit.

aldingörðum frá
Assýrískum
margar mílur,
[er þat mjök svo rángt].
Sá með ógleði
Satan þessa
gjörvalla gleði
ok þá gæða fjöld;
allt var einskært líf
af allskyns skepnum,
er hann aldreigi
hafði áðr sèt.
Þó voru tvær,
sem af þeim báru,
gjörvöllum skapnuð
göfugligri;
rèttum líkhömum
reistar báðar,
gengu með hætti
guðdómligum.
Heiðr meðfæddan
höfðu at skarti,
hrósaði sèr hjá þeim
hátign nakin,
hafa sýndust þær
yfir hvívetna
vald ok verðugleik,
at væri svo.
Glæst þeim í ásýnd
guðdómligri
skein ens Hæsta mynd,
sem þau skapaði,
hafði sú í sèr
sannleik, vizku,
hreinan heilagleik
ok háa dygð.
Allt var þat strángt
ok með alvöru,
en samt á sönnu
ok sonarligu
frelsi fast byggt,
hvar af framkoma
mannsins rèttu met
ok meginkostir.
Eigi var þeim báðum
einn veg háttat,
sýndist hvert um sik
í sinn legg vera,
hann til hárra gjörr
hugleiðínga
ok stórra starfa
fyri styrkleik sinn.
En hún, til yndis
ok unaðsemdar,
hæverskra hátta,
ok til hæglætis;
guðdóm sjálfr sinn
í sèr hann bar,
hún sinn í honum
handa guði.
Breiðt ok fríðt enni
brúnum yfir,
ok hátt sjónasvif
sýndi gjörla
herradæmi hans
yfir hvívetna;
kríngum hvirfil hans
karlmannliga
hèngu hárlokkar
hrokknir, þykkvir,
jafnt atskildir,
ok jarpir at lit,
náðu þeir ei breiðum
neðar herðum.
Mjón gullligr
at miðti niðr
haddr hrundi víss,
sem hulda væri,
liðaðist í öldur
yndisligar,
lauss ok sjálfkrafa
án lystar neinnar,
eins ok velvaxinn
víntrès baðmr.
Hún lèt í ljósi
ljúfa hlýðni,
er hans herravald
hógværthrafði;
Eva með elsku
var undirgefin

ok Adam yfir
með elsku bauð.
Mjúklátri auðmýkt
hjá mætum svanna
með fylgdi hæverskt
mikillæti,
unaðs aukníng
ok ástar tendran
í því at fresta
ok færast undan.
Ei var heldr þá
í hlè dreginn
fríðleikr nokkr,
nè fólginn skýlu,
engi skammfeilni
við skuld bundin;
óærlig blygðan
var þá engi til,
ei var sín skammast
fyri sköpun Guðs,
nè af vanvirðu
virðíng tekin.
O, þèr afkvæmi
illrar syndar!
hversu hafið þèr
herfiliga
meingat manna kyn
megnu táli
yfirvarps æru
upplogiunar?
en gjört útlæga
frá eðli voru
mestu manns prýði
ok meginheill,
óspillt sakleysi
ok einlægt hjarta.
Þannig gengu þau
í þann tíma
berum líkhömum,
ok ei byrgðu sik
Guðs eðr engils
fyrir augliti,
af því ekkert rann
íllt í þánka.
Hèldust í hendr
hjón en beztu,
ok ástúðligust
allra þeirra,
sem nokkru sinni
hafa saman náð,
foreldraligum
meðr faðmlögum.
Adam var öllum
Adams sonum
fríðari sýnum,
þeim er fæðst hafa;
eins var ok allra,
sem í öld bárust,
dægiligust Eva
dætra sinna.
A fagran grasbekk
þau í forsælu
niðr settu sik
við svala lind;
rennandi lækr
ok runnr viðar
þuldu sitt hvorr sèr,
en þó samhljóða.
Hvíldu þau sik hèr
af hauðrs yrkju
erfiði lèttu,
sem var yfrit nóg
þeim kærkomnara
kul at gjöra
ok hvíldar hægð
því at hagkvæmri.
Leið nú ljúf at þeim
lyst til drykkjar
ok muni matar
mjök velkominn;
eru aldini höfð
í aptans verð,
sem eyk óbeðin
at þeim rètti
svo sitèndum
á sögðum bekk
ok dúnhægendi
dámjúkra blómstra.
Lögðu þau til munns sèr
lífsætan kjarna,

ok mjök munntaman
merg útsngu;
með gullnum berki,
nær gjörðust þyrst,
silfrlitan lög
af læk jusu.
Brast eigi blíðar
borðhalds ræður,
ei hýr elsku bros
nè æsku gaman,
sem hæfa mundi
hjónum slíkum,
nnvöfðum unun
í einveru
ok heillaríku
hjúskapar bandi.
Hjá þeim hoppuðu
hverskyns jarðar
dýr ok bestíur
með dansleik kátum,
þær er þareptir
í þykka skóga,
nrðir ok auðnir
hefir eltar burt
víggjörn vellysting
veiðimanna.
þar stökk leikfullt ljón
ok lambúnga
í hraustum vaggar
hramm at gamni;
áttu dans saman
ígultanni,
tígris ok lýnxdýr
ok leópardus.
Ekkert afl sparði
þeim til ánægju
furðumikill fíll
nè fimleiks rann,
vatt hann rana sinn
víkjanligan,
sem mest hann mátti,
at munum þeirra.
Fofnir enn fráni
ok flaðrgjarni
keðjuvöxnum kropp
kríngsveiflaði,
allr uppknýttr
í ótal hlykki;
virðtust vettugi,
þó vottnðust,
ófarsæl brögð hans
ok undirhyggja.
Fóðrfullir gripir
um fold lágu,
gnúðu kvöldjórtr,
göptu munnum,
því rás snarhallri
röðull flýtti
víðum ægis at
vestrsölum,
ok heiðar stjörnur,
þær er húm boða,
hófust hvervetna
á himinmetum.
Samt var Satan enn
í sömu spornm,
stóð hann ok starði,
sem steinn dumbi;
fèkk þó loksins mál,
þat hann mist hafði,
ok fleiprar þannig
fordæmdr Arr:
„Æ, helvíti!
hvat er ódæma,
er ek þarna sè
þríngina gremju?
ólíks eðlis
aðrar vættr
settar í vorn stað
sæmdar heillum;
Myndaðar skepnur
máske jarðar;
andar víst ekki,
sem ern vèr,
en ei at síðr
öndum himins
lítit eitt lægri
ljóma skrýddum.
At þeim dáumst ek,
þótt þær ofsæki,

ok þeim unnt gæti
ástar þokka,
svo er lífligum
ljóma fáin
Alföðurs mynd
á ásýnd þeirra;
svo hefir mund sú,
er þau myndaði,
útausit fegurð
ok unaðs gnægð
yfir skrautligan
skapnað þeirra.
Ó, þið hugljúf hjón
hvert við annat!
lítit viti þið,
hve liggr nærri
umbreytíng volig
á ykkar hag,
þá er þverra mun
þessi gleði,
ok þið sorg seljast
því sárari,
sem þið meiri nú
munað hafið.
Sæl þið at sönnu,
en hvat sæld ykkar
ótrygglig er
ok illa geymd!
ok hve varðveittr
veikum nærsta
ykkarr jarðhimin
umgirðíngum,
helzt til haldlitlum
himins vörnum,
er slíkan óvin
lètu ingáng fá!
Þó em ek eigi
fyrir ásetníng
óvinr ykkarr,
sem ek aumkat get
nú þegar tortýnd,
þótt ek tapaðr
meðaumkun engri
mætti sjálfr.
Við þik, ó, maðr!
er vili minn
sáttmál at semja,
ok svo fastliga
bundinn vinskap
á báðar síður,
at þú æ hjá mèr
uppfrá þessu
hafir hýbýli,
eða hjá þèr ek.
Vera má virðist
vitum þínum
minni munaðr
minna sala,
enn prýði þessarar
Paradísar;
en tak þá þvílíka,
sem þeir eru,
ok þinn Skapari
lèt skapta þá!
Svo gaf hann mèr þá,
ok ek gjarna vil
ykkr allteins þá
aptr gefa;
öllum portum skal
opnum hrynda
heilt helvíti
til at hýsa þik!
Ok allir furstar
út skulu sendir,
með mestu viðhöfn,
þèr til móttöku;
miklu meira rúm
mun þar verða
fyri fjöld þá,
er frá þèr kemr,
enn í þraungmældu
þessu gerði.
En, ef þykir þèr
eigi þat betra,
máttu þakka þeim,
sem þvíngar mik
til at hafa þik,
sem hann væri,
at höggstað hefndar
fyrir hrakníng minn,

en þótt síkn saka
sèrt með öllu.
Þótt þitt sakleysi
ok þelfrómt æði
smelti hjarta mitt
í smámola;
knýja þó fast fram
mína fyritekt
rök, sem ríðr á
mitt ríkis gengi,
heiðr minn ok hefð
ok herradæmis
vænlig víðkun,
nær ek við þat legg
hernuminn heim,
sem hèr er skaptr,
hverju fjandligu
mik fordæmdan
hroðaverki
mætti hrylla við?"
Svo mælti Satan,
ok sína vildi
niflheims níðíngs skömm
með nauðsyn helga,
sem er týrönnum
tömust verja.
Hefr hann sik ofan
af háu trè
þá í ferfættra
flokka leiki,
ok brá yfir sik
ýmsra dýra
húðar hömum
hins ok þessa;
Eptir sem mat hann
myndir þeirra
nytsamastar sèr
til at nálægjast
girnstu herfángi,
svo gæti þekkt,
sjálfr óþekktr
ok sjón dulinn,
kosti þess ok kjör
af kendu tali,
eðr öðru því,
er athefðist.

Nú í ljóns líki
ferr hann leikandi
augum eldlignm
þau umhverfis;
nú sem tígrisdýr,
þat er tveimr á
hefir hornauga
hyndar kálfum,
hoppandi í skógi
við skin sólar,
leggst ýmist niðr
eðr upp gægist;
Myndar þat sik til
margvísliga,
ok leitar lags,
sem listkænn maðr,
unz í færi kemst
fullrar vissu,
at skjótast at þeim
með skyndíngu
ok geta grimmum klóm
gripit báða.
Svo lá Satan nú
svikum þrúnginn,
ok varð allr þá
í eyrunum,
er hann fyrsta mann
við fyrstu kvinnu
heyrði svo nýu
hreifa máli:
„O, þú einasta,
sem átt í þessi
hlutdeild meðr mèr
miklu sælu!
ert sjálf einn partr
minnar ánægju,
ok ein ástkærust
af öllu mèr.
Eflaust er sú Makt,
sem okkr skóp,
ok víða veröld
til vorra nota,
auðug af gæðsku
óendanliga,
eigi minnr ör
til at útbýta

alls góðs auðlegð,
enn óendanlig;
þar hún dauða lèt
af dupti vakinn
ok í sælu gnótt
setti þessa
okkr, sem einkis
höfðum unnit til,
ok ei gátum gjört
henni gagn minnsta.
Æskir ok eigi,
sá er okkr skóp,
neinnar þjónustu
nema þessa,
at þat it eina
svo auðveldt boð
geymum grandvarla,
sem gaf hann okkr:
At af allri mergð
eyka þeirra,
sem í Paradís
sína rètta
okkr ávexti
ypparligustu,
einnar einasta
óábergðan
skulum skirrast,
sem er skilníngs três;
Er þat ítran nærst
við ask lífsins
hans enum högu
af höndum sett;
hèr er hvert öðru
harla nærri
látit liggja svo,
líf ok dauði.
Hvat sem dauðinn er,
hlýtr vera
eflaust eitthvat hann,
sem er ógnarligt;
gjörla heyrðir þú,
þat Guð sagði,
ef at neyttum við
nokkru sinni
af trè hèr hermdu
hèt hann dauða.
Krafðist hann þessa,
svo sem kennileikns
eins einasta um
okkar hlýðni,
meðal svo margra
maktar teikna
ok herravalds,
sem hann gaf okkr
yfir lands, lagar
ok lopts dýrum.
Látum okkr ei
auðvelds hlutar
svo lètta synjun
sára þykja,
hann eins einasta,
sem er svo hægt,
hverjum heimilt er
hvat eitt annat;
Ok sem egum frjálst
um at velja
meðal munaðar
svo margvísligs,
hvat, sem ljúfast lízt
til lystisemdar
ok sætrar sælu,
sem á himni.
Heldr viljum við,
vegsamandi
góðgirni hans,
okkar gjörvalt líf
honum til hlýðni
helgat láta,
er við yndælli
í okkar köllun
drýgjum dags yðjur
dyggiliga,
barplantna bjargir
ok blómstra rækt;
þótt í sjálfu sèr
þat súrt væri,
yrði þat yndælt,
þegar ertu með!"
Frummóðir kvað:
„ó, þú fyri hvern,

ok af hvers efni
ek em sköpuð!
hold hagla samit
af holdi þínu!
þú, án hvers ek
til einkis væri!
þú, minn handleiðir!
þú, höfuð mitt!
Satt er ok rèttvíst
þat, er sagðir þú:
dag hvern eru við
Drottni skyldug
um þökk ok lofgjörð,
en þó mest ek,
hverrar hlutdeild
er hálfu betri,
I því, Adam minn!
at á ek þik,
sem svo miklum mun
mèr ert æðri,
ok berr vissan vott
þíns verðugleiks,
alls þinn jafníngi
er á jörð engi.
Mjök er mèr sá opt
í minni dagr,
er ek við mik varð
vör í fyrstu [9],
vöknuð af svefni,
ok vissa ekkert fyrr,
enn á blómstrbekk
blíðum hvíldi.
Undraðist ek,
hvaðan at kæmi,
hver helzt ek væri,
ok með hvílíkum
híngat hefði ek
hætti borizt.
Vall af jarðholu
vatn þar nærri,
ok breiddist sjálfkrafa
um bera slèttu,
eigi var nú á því
ýfing minnsta,
lygnt ok tært leið þat,
sem lopt himins,
þá sèr helzt hrósar
heiðblámi þess.
Ovön, hvervetna
með úngum hug,
hvarf ek þángat þá,
ok á þröm græna
lagðist niðr
við lög skæran,
í hann horfandi,
þar himin mèr
eins fagr sýndist
annar vera.
Sem ek beygði mik,
svo í bif sæi,
beygði móti mèr
sik mynd nokkr
í tjörn tárhreinni
ok til mín laut,
sem hún gjörla mik
girntist skoða;
Hvarf ek henni frá
ok hún frá mèr;
enn kom ek aptr,
er yndælt þótti;
hún kom aptr eins
ok mèr yndælu
sem með samlyndi
sá í augu;
þeim er ek enn nú
ófrávendtum
stæði starandi
á stundu þessi,
þar af þarflausri
þreyngíngu kvalin,
nema raust ein
hefði rædt þannig:
„Þat ertu sjálf
í þessu bili

[9]) Bæði af þessum ok fleiri stöðum diktarins má þat ráða, at skáldit hefir verit þeirrar meiníngar, at Adam ok Eva hafi þó nokkrn tíma verit saman í Paradís, áðr enn þau fèllu.

fagra skepna!
sem fyri þik berr,
með þèr kemr þat,
ok með þèr hverfr;
fylg þú mèr eptir!
mun ek færa þik
þángat, sem einn er,
en engi skuggi,
sem fá vill fund þinn
ok at faðma þik;
Ertu af mèr gjörð
eptir honum,
þessi skal þín eign
ok þú skalt hans,
má ykkar milli
mángi skilja;
honum mikla mergð
eptir mynd þinni
muntu fædda fá,
ok frummóðir
ætíð ein nefnast
allra manna!"
Hve mátt ek annat,
enn eptir skunda,
er ek leiddumst svo,
en leit engan,
unz ek varð þín vör,
þar vænn sýnum
svo röskligr
ok svo rèttvaxinn
sazt, ok breiðblaða
við björk studdist.
Þó þótti mèr,
svo sem þú værir
ei svo hýrr hjarnar,
nè hug fángandi,
eigi eins blíðr
ok ástúðligr,
sem líkan þat,
er í legi sá.
Ek hvarf þá undan,
þú eptir rannst,
æstandi: „„við snú,
Eva fagra!
Eva! snú aptr!
undan hverjum
ferðu flýjandi?
þú forðast þann,
frá hveim í fyrstu
ertu framkomin,
hold ok bein hans
af holdi ok beini.
I tè lèt ek,
svo þú til værir,
líf veruligt
af veru minni,
síðu þessarar
hit sama líf,
ok sem nærst numit
neggi kviku,
svo at sífeldt þú
síðu minni
fylgin sèrt,
þínum fjörstofni
óslítanligrar
til unaðsemdar.
Þú ert megindeild
minnar sálar,
önnur helft
af mèr sjálfum;
til þín munar mik,
ek míns æski,
kom! aðhylst, Eva!
þinn aðalstofn!""
Mund þú mjúklátri,
meðan þannig
talaðir, þinni
tengðir mína;
en ek unnin stóð;
ok æ síðan
fundit hefi,
hvorsu fegurð víls
verðr vers alúð
ok vísdómi,
sem einn er fríðr,
af at sigrast."
Meðan móðir vor
mælti þannig
full af hreinustu
hjúskapar ást,

broshýr á brún
ok blíðu fángin,
hallaðist hún
með hæglæti
til hálfs faðmandi
uppvið föður vorn;
Mætti hans til hálfs
hennar brjóstum
bernm, mjök miklum
ok mjallhvítum,
þau í gullöldum
glæstra lokka,
haptlaust hrynjenda,
hulin flutu.
Hann af fegurð fljóðs
frá sèr numinn,
ok af yndisleiks
ofr megni,
brosir við brúði
með blíðu vers;
eins ok Júpíter [10]
við Júnó hlær,
gjörandi ský þau
skúrum þúngut,
sem mætum mála fold
Maí blómstrum;
þrykktust vífs varir
at vers munni.
Sárnaði Satan
at sjá þetta,
hann sèr af öfund
undan snèri,
ok af heiptar hug
hornauga gaut
útá hlið
til úngra hjóna,
unz við sjálfan sik
af svellu brjósti
tók at tauta
tölur þessar:
„Hvilík hatrsjón
ok hugar kvöl!
þessi tvö skulu
þannig leika
hèr í Paradís
hvort við annat
föst í faðmlögum,
fyri þau
eru hin Eden
yndisligri.
Þau megu njóta
nógrar sælu,
heill á heill ofan
skal hossa þeim;
en ek harðt haldinn
í helvíti
fálma, fast spenntr
af fordæmíngu;
Já, í helvíti,
þar hverki finnst
yndis nè ástar
hit allra minnsta,
heldr stríð laungun
ok sterkar þrár,
ok fýsn forgefins
þess, er fæst aldrei,
víst eigi vægust
vorra písla.
Þó er eitt þat,
sem af þeim ek nam,
ok mèr má eigi
úr minni falla:
eru þeim ekki,
svo ek eptirtók,
yfir öllu hèr
umráð gefin.
Skaðvænt skógartrè,
við skilníng kennt,
er þeim fastliga
fyriboðit;
þyki mèr kynligt!
þekkíng bönnuð?
varnat vitsmuna?
elr vondan grun.
Mun nokkut misunnt
fyri meinsemi

[10]) Þat er: eins ok himininn er blíðr loptinu á vortímanum, þegar hann gjörir skýin ok alla náttúruna frjófsama.

hafa þessa þeim
þeirra Drottinn?
mun þá manni synd
at meira viti?
mun þat manns dauði?
eða mun þeim ein
fengin fávizka
til fjörgeymslu?
Mun hún meginhnoss
manna sælu,
teikn þeirra hlýðni
ok trúskapar?
ágætt undirlag
fyrir áform mitt!
þeirra skal ek fall
á því byggja.
Ek vil uppkveikja
þeim innan brjósts
megna munarlyst
meira at þekkja,
svo birtu boði
láti burtkastat,
einúngis gefnu
af öfundar-hug;
Til at þvínga þau
þrældóms böndum,
ok með ófrelsi
at undirþrykkja,
sem hafizt hefðu
fyrir hyggendi
ok gjörzt Guði lík
fyri gnægð vizku.
Mun þeim táltafn þat
at tjóni verða,
eta munu þau
ok eflaust deyja;
víst mun slíkt vænligt
ok vel stofnat.
Þó vil ek áðr,
enn at því vík,
allan umskygnast
aldingarð þenna,
ok engan afkrók
eptirskilja,
ef ek einhvern
af öndum himins
máske finni hèr
við fagra lind,
eða sitjanda
í svölum skugga.
Af þeim enn framarr
með eptirgrenslun
auðit mundi mèr
máske verða
þeirri njósn at ná
nokkrskonar,
er aíl afspretti
fyrir áform mitt.
Lifið svo lengi,
eigi lengr, vel!
heillum vafin hjón!
ok hèr njótið,
unz ek aptr kem,
ykkar sælu!
njótið fagnaðar,
meðan færi gefst!
skammvinnr skal hann
ok skjótt snúinn
í eymd ok ánauð
yfrit lánga."
Hann at svo sögðu
sínum vendi,
fullr forsmánar,
fetum stoltum
frumhjónum frá
enum farsælu,
athugasamr
með undirhyggju.
Gekk hann á gægjum
gegnum skóga,
merkr ok dali
ok um margan háls,
á meðan alskírr
í yzt vestr
seig; þar haf hauðr
ok himin mætast,
ok skaut yfrit hægt
aptansgeislum
á austrport
Paradísar;

þat var fannhvítt fjall
fagrturnat
allt at skýnn
af alabastri,
lèt þat líta sik
lánga vegu.
Um eitt einstígi
mátti innkomast,
er uppgekk bugum
af undirlendi,
hitt var allt hábjarg
ok harla bratt,
hvergi fótum fært
ok framslútandi.
Beið hèr sitjandi
meðal bjargstólpa
Gabríel,
unz gríma kæmi,
voldugr stýrir
varðhalds engla;
voru kríngum hann
at kappa leikum
óvopnaðir himins
æskuflokkar.
Þó sáust uppheingd
allnærri þar
himnesk hertýi
hvers eins þeirra,
af dýru gulli
ok demantsteinum
skínandi skildir,
skjómar, hjálmar.
Þýtr til þeirra
þángat niðr
geisla glensbeðju
glerhálum á,
gegnum götur þær,
sem gengr kvöld,
Uríel, hraðr,
svo sem hrapstjarna;
Sú á haustgrímu
um höfugt lopt
af heitum dömpum
hratar niðr,
ok sýnir sannspá
sæfarendum,
hvörri átt þeir af
ákomunni
vinda vo
skuli viðbúast.
Mælti Uríel
miklum flýti;
þèr er, Gabríel!
þessa staðar
vandlig vöktun
ins vegligasta
meðr hlutfalli
á hendr falin,
at ei nokkut vondt
nálægist hann,
enn síðr fái
hèr innkomizt.
Hvarflaði í dag
at hveli mínu,
er þat efst mundi,
andi nokkr,
yfrit ákafr
at ytri sjón,
ok fýsnarfullr
at fá skynjat
enn gjörr Alhags verk,
einkum manninum,
sjálfs Guðs bílæti,
er hann síðarst skóp.
Lèt ek honum lýst
leiðarkynni,
ok gaf gætr at
ganförum hans,
sem ek glöggvast gat,
geysiligum;
En á fjalli,
þar hann fyrst setti
norðr frá Eden
niðr sín spor,
sá ek svip hans
ok svif augna,
harla ólík
enna himnesku,
grimmligum myrk
af geðshræríngum.

Fylgdi föst mín sjón
enum faranda,
unz hann loks leið
und lága skugga,
ok allr hvarf
augum mínum.
Uggir mik, at einn
frá undirdjúpum,
illum eiðrofs
af anda flokki,
dyrfst hafi at drýgja
híngat dular strok,
at hann afli fold
óhamíngju;
þú munt umsorgun
sakir embættis,
unz hann uppgötvast,
enga spara."
Anzar vænggöfgr
vopna stýrir:
„erat, Uriel!
undra verðt þat,
at algjör sjón
augna þinna
fjarlæga hluti
fullvel nemi,
er þú atsetr
í alskíru
hefir þitt
hveli sólar.
Ekki vætta kemst
innan ports hèr,
svo er vandliga
vörðr haldinn,
utan oss kunnir
andar himins,
þó hefir híngat,
síðan hádegi,
eigi nokkr einn
ofan stígit.
En ef einn andi
annars háttar
hefir garð, gjörvan
af grjóti foldar,
egins eyrendis
yfirstokkit,
veiztu vel sjálfr,
hve veitir þúngt
líkhamligum
með læsíngum
andligum verum
inngángs varna.
En hafi sá sik,
er sagðir þú,
hulit hvinnsliga
í hríng þessum,
íklæddr egin
eðr annars mynd,
skal þat uppskátt,
þá er skín dagr."
þessu heitir hann;
en með hastri för
Uríel hvarf aptr
at önn sinni
á glaðt glóanda
geisla skíði,
enn sama
ok ofan rendi;
Nú af uppvendri
endrstefnu
rann þat skáhallt skeið
á skírleitt goð,
er þá við eyjar
Azórisku
gengit víðum
inn at vers dyrum;
Hvert heldr fyrsta
himinskífa
flyzt hèr fljótari
með ferð um kríng,
eðr ok máske
minnr löguð
vor jörð til veltu
verðr eptir
skemri umrás á
austrleiðar;
Fýsti fagra sól
at fá í vestri

prýðt með gulli
ok með purpura
þau en stiltu ský,
sem um stól hennar
kríng þokast, þegar
hún þar sitr.
Nu kemr kvöld
ok kufli steypir
heldr húmleitum
yfir hvatvetna,
fylgdi þögn því,
ok þegar vorn
dýr í foldarflet
ok fugl í hreiðr
til nætr næðis
niðr komin.
Einn hèldt vökum vörð
vanaligum,
blundskirr náttgali
með blíðu saungum,
undi þar við einslig
allsherjar kyrð,
hlýddi hljóm þann á
hljóðlát gríma.
Nú skein hátt ok lágt
himins rjáfr
sísett lifandi
saffírsteinum,
ok nú sem glaðast
glóa mundi
fögr kvöldstjarna
foríngi þeirra.
Hèr nærst í hátign
himins drottníng,
túnglit, skýskygðri
skundaði fram,
unz hún, fullfagran
færð í glansa,
breiddi silfrserk
yfir svartnætti.
Adam snèri þá
til Evu sèr,
ok orð astúðlig
uppkvað þannig:
„minna okkr á,
yndæl beðja!
dimm draumnjórun,
ok dýr sèrhvert
nú í kyrð komit,
at köllum eins
við til okkar værð
í vöku stað.
Hefir Skaparinn
svo skipat til,
at reglu rèttri
skuli ró ok störf
skiptast eins um
hjá okkar kyni,
sem í náttúru
nótt ok dagr.
Kvöldlig dvala dögg,
dropin snemma,
þýngir dotthöfga
dásætum með
okkar nú þegar
augnahvarma.
An starfs ok yðnar
hin önnur dýr
hvarfla hèr ok þar
heila daga;
minni þörf er því
þessum hvíldar;
þarámót mundi
fyri manna hvern
daglig sýslan sett
sinns ok lima;
Vottar þat meira
verðugleik hans,
ok hærri himins önn
fyrir hans vegum;
annara skepna,
þær allan dag
gánga gálausar
gjörða neinna,
gáir Guð eigi
at gjörða lagi.
Aðr nýrr morgun
ens nærsta dags
geislum fyrstu ljóss
gyllir austr,

hljótum við vöknut
vera gengin
okkar hressanda
erfiðis til;
Okkar aldintrè
um at hirða,
ok miðdags gángveg
í meiða skugga,
nú við greina mót
gróin saman
af þraung ofvaxtar,
at endrrýma;
Sá er ofveikum
okkar starfa
gjörir gis at,
því svo gerr þroski
átektar fleiri,
enn okkar handa,
krefr, til hlýtar
ef kefjast skal.
Einnig aldini,
ok ýmsæt þessi
drjúpandi kvoða,
sem dreifð liggja
óhirðt, ósèlig
ok óhreinsut,
heimta hönd okkar
til hagræðis,
ef allhægt skal
um at gánga;
nú býðr náttúran
ok nóttin hvíld."
Honum, fángandi
með fegurð prýdd,
anzaði Eva:
„Þú, minn uppruni!
skjöldr! leiðtogi!
nær skipar þú,
ótreg er af mèr
auðsýnd hlýðni.
Vildi vorr Drottinn
svo vera láta:
Guð er þitt lögmál,
þú lögmál mitt;
vettr annat,
enn vita þetta
farsælust er fræði
ok fljóðs sómi.
Sèrhver tíð gleymist
í sambúð þinni,
árs tímar allir
ok umbreytíngar
eru jafnan eins
til yndis mèr.
Blíðr er árblærr,
blíð er dags koma,
fylgja henni tónar
töfrafullir
árvakra fugla,
sem er eyrna lyst.
Blíðr er röðull,
þá er breiðir hann
austan árgeisla
á unaðs foldir,
yfir grös, eykr
ok aldini,
sem þá deig glanza
fyri döggfalli.
Blíðr er sá ilmr,
sem upp af jörð
eptir regn rakri
rauk í blóma;
blíð er kvöldkoma
í kælu mildri,
ok hljóðlát gríma,
með helgum sèr
fagrröddnðum
fugli þessum;
Ok með mána þeim,
er svo mildt lýsir,
meðr gimsteinum,
er glóa svo
hvervetna himins
á hvelfíngu,
stjarna fjölfylktu
föruneyti.
Þó er eigi morguns
enn mjúki blærr,
nær eð tónar þeir
töfrafullir

árvakra fugla
cyrum dilla;
eigi sæl sunna,
þá er sendir hún
austan árgeisla
á Eden þessa,
yfir grös, eykr
ok aldini,
þótt þau deig glanzi
fyri döggfalli;
Eigi hýrr ilmr
á eptir skúr;
eigi kvölds koma
með kælu sætri,
nè heldr nóttin
til náða vígð
með henni helgum
hana þessum;
Eigi gólfgánga,
þó glaðvær sè,
sælligu mána
í silfrskini;
eigi blikandi
bjartar stjörnur;
ekkert er mèr yndælt,
utan þín!
En hví munu ljós þau
látin skína
endilánga nótt
alla gegnum?
hverjum ánægja
þær undrsjónir,
nær allar brár
eru luktar?"
Anzaði elztr
allra Faðir:
„ágæt Eva!
þú en algjörva,
dóttir Drottins,
ok dóttir manns!
Egu blis þessi
til annars kvölds
skunda kríngum jörð
skreiðhríng fullan;
ok svo þau öldum
er alast skulu
land af landi
ljós útbýti,
upp gánga ok undir
orðuliga.
Mættu víst ella
um mund nætr
myrkr ferlig fá
sitt fyrra vald,
ok láta lokit
lífi hvervetna
ítrar náttúru
ok allra hluta;
Slíkr hægr hýrr
himintúngla
fær þeim ei at eins
upplýsíngar,
heldr ok með hita
hagkvæmum mjök
aðskiljanligrar
áverkunar,
vermir þá, nærir
ok viðhressir;
Einnig nokkrupart
niðrsenda
þau á storð vora
sinn stjörnu krapt
yfir allskonar
ávöxt hennar,
hèr af gjörist hann
hæfiligri
til at fullfrjófgast
til fagrahvels
meira megnandi
maktargeisla.
Þat er þarfyrir
ei at þarflausu,
at skín á himni
skari stjarna,
þótt ei lítum hann
um lágnætti;
þeink ei heldr þú,
þó at væri
mángi til
undir miðgarði,

at skorti himin
þá, er skoði hann,
eða Guð brysti
sína göfgendr.
Otal þúsundir
andligra skepna,
huldar hauðr
heimsækja vort,
eins hvort vökum við,
eða vært sofum,
ok utan afláts
hans undrverkum
dáðst at, dýrkandi
dag ok nótt hann.
Berast okkr þrátt
frá bergmáls hæðum
ok runnum þykkvum
raddir himneskar
miðt um mið nætr
gegnum norðr lopt,
ýmist sem í eins,
eðr umskiptra
kóra, samsaung,
er sinn upphefja
háfan Skapara
með helgum prís.
Opt heilum hópum,
þegar halda vörn,
eðr umfljúga
andar þessir,
sakir aðgæzlu
um Osorg dimma,
við hreim gullharpna
þeir hljóm blanda
vel stilts varasanngs
á varðmáls skiptum,
hefjast þá til himins
hugir okkar."
Hêldust í hendr
hjón en sælu,
ok gengu rakleiðis,
meðan ræddust við,
at lystiligum
lundi sínum,
helguðum hagsæld
ok hýrri ró.
Þat var staðr einn,
af stærsta ok fyrsta
valinn plöntunar
Verkmeistara,
afbrugðinn öllum
öðrum gjörðr,
þá er allt skóp hann
til yndælis,
ok mesta gagns
fyri menn alla.
Þakinn var sá skáli
skuggaflækjum
þètt saman þyrptra
þroska greina,
lár- ok mórberja-
af mörgum-trjám;
ok hver hærri kann
hauðrs baðmr
ilmandi laufum
á sik hlaða.
Gróinn var í girðíng,
sem græna veggi,
bjarnar hrammr [11]
til beggja hliða,
ok lýng allskonar,
sem ángar bezt;
þá skutu upp höfðum
þar ámeðal
ýmislig blómstr
yndisligustu.
Ox þar íris
með öllum litum,
rósir ok jasmín,
ok reista veggi
fengu fjölskreytt,
sem þær flæktust í,
eins ok með íþrótt
inngreipt smíði;
Fáguðu gólfit
fióla, saffran
ok mætt marzíblóm
mörgum litum,

[11]) *Bjarnarhrammr*, er ein fögr planta.

er sem glerhúð glæst
glóa mundi,
meirr enn af mestu
mæta steinum.
Ekki þorði vætta
þar at koma,
utan dávæn hjón,
eigi dýr nokkrt,
eigi fugl, ormr,
nè annat kvikt;
feilaði sèr allt
fyri manni.
Aldrei heilagri
sèr til hýbýla,
eða blundstofu,
nè betri vígðan
rósemd höfðu rum
regin fornu,
skógum tileinkut
í skröksögum,
Pan ok Sylvanus,
nè prúðar gyðjur,
eða fulltrúi,
Faunus, bænda.
Hèr prýddi Eva,
nær í hjúskap gekk,
ein í afviknu
ok auðu rúmi,
brúðarbeð sinn
með blómstra krönsum,
ok mæta jurtum
mest ylmandi.
Hèr lètu helgir
himins kórar
hljóma hjóna saung
hátíðligan,
þann dag, er engill
Evu leiddi
fyrstu til faðmlaga
við föður vorn.

I fegurð naktri
var en fyrsta brúð
elskuverðugri
ok ærit betr
prýdd, enn Pandóra [12]
píka forðum,
gjörvöllum gáfum
sem goð sæmdu;
oflíkar urðu þær
í óhöppum;
Þá hún af Hermes
til ens heimskara
Japhets sona
á jörð var flutt,
ok með tilliti
töfrafullu
alla færða fèkk
í fallsnöru,
í hefnd við hinn,
sem hafði stolinn
æðstan Júpíter
eldinum helga.
Nú við náttlund sinn
numu staðar
væn virðtahjón
ok sèr viðsnèru;
bæn sína gjörðu
þau bæði samt
til ens hærsta Guðs
und himni berum.
Þess Guðs, er himin
ok hauðr skóp,
lopt ok leikanda
ljóshvel mána,
einnig stjarnaher
ótöluligan,
er nú allt blasti
við augum þeirra.
„Einnig hefir þú,
enn Almáttki!

---

12) *Prómetheus*, sonr Japhets, hafði stolit eldi himinsins; í hefnd þarfyrir sendi Júpíter honum Pandóram með Hermes, eða Merkúríó; en hann tók ei við henni, heldr bróðir hans, Epímetheus, sem var heimskari; hann olli því með forvitni sinni, at hún lauk upp öskjum þeim, sem allskyns ólukka var innilukt í.

draumnjórum gjörða,
sem daginn skópst,
hvern við höfum nú
í handiðn okkar
yfrit sæl
útendaðan,
atstoð ok elsku
fyrir innbyrðis;
Þat er kóróna
þeirrar sælu,
er þú okkr hèr
yfirdreifir
á svo auðngum
unnar stað,
en þótt ofstórr sè
okkr tveimr;
Því slíkt ógrynni
þinna gæða,
er hèr útstreymir
alla vegu,
vantar nóga mergð
til at njóta sín,
ok fellr fáhirðt
á fold niðr.
En þú hèzt okkr
í öndverðu
ótöluligri
afspreyngis fjöld,
sú er fold alla
fylla skyldi;
Ok ásamt okkr,
þú, enn Almáttki!
göfga grunnlausa
gæðsku þína,
hvort, sem vökum vær,
eða viljum svefns,
svo sem nú, njóta,
er af náð veittir."
Svo sögðu bæði
með sömum hug,
ok leiddust lengst inn
í lund fagran;
varat varit til
viðhöfn neinni,
utan auðmjúkri
áköllun Guðs,
honum hvervetna
hugkvæmastri.
Eigi þurftu þau
þíngum klæðum
af at færast,
sem arfar þeirra;
hvort um sik hvíldi
við hins síðu.
Ætlar ek eigi,
þat Adam hafi
snúit baki
við brúði sinni,
ei heldr Eva
undan skorast
hjónabands hegðun
heimugligri;
Hvat sem hræsnendr
um hreinlífi
ok um sakleysi
siðavandir
hjala hegómla
ok helgi staða,
þeir, er álasa,
sem óhreinu,
því sem hreint hermir
enn hærsti Guð,
lèt nokkrum boðit,
en leyft öllum.
Guð vill fjölgun fólks,
en fráhald hennar
hverr mundi bjóða,
nema Bölverkr,
andskoti Guðs
ok allra manna?
Heill þèr, en helga
hjúskaparást!
lögmál leyndarfullt!
lind en sanna,
hvaðan fjölgun fólks
er flotin öll!
eina sèrlig eign,
sem Eden geymdi,
þar sèrhvat annat
var sameginligt.

Viðr vist þína,
vor á meðal,
er í útlegð dæmd
frá Adams blóði
hórlig lausúng,
til at hvarfla villt
hjá skepna skörum
enna skynlausu.
Skírt á skilum byggt
ok á skynsemi
meðal ertu til,
at menn vitu
ítran ættargáng
ok afsprengi
af feðrum, sonum
ok systkynum.
Fjærri sè ek segi
þik synd vera,
nè leggi last á,
eða lítt sæma
haldi svo hánm
ok helgum stað,
hverskyns húsgleði
hrein uppspretta!
Heiðarlig er sæng þín,
ok var helg metin
æ af forfeðrum
ok frómhjörtuðum;
gullörvum einum
skýtr ástin hýr,
tendrar ljóslampa
lángvinnastan,
veifar purpura —
vængjum sínum
skemtir sèr, danzar
ok drottnar hèr;
En ei í keyptum
kaldahlátri
ok látalátum
lausa kvenna,
ei í ástlausum
ófyrisynju
ok svip-samhlaupum
at sið dýra;
Ei heldr hálum
hofgarðs ástum,
margmengum danzi,
miðnættis leik,
víkivökum
ok vísna kjassi,
sem stórlát friðla
verðr stunduð með
barmanda biðils,
sem betr væri
at fullu forsmáð
ok fyrilátin.
Þannig þágu værð
þessi bæði,
eitt vafði annat
örmum berum;
náðu dillandi
nætrgalar
með sætum saungum
at svæfa þau.
A nakta limu
niðr fèllu
rósir frá rjáfri
ríku blómstra,
sem þeim sofendum
gáfu sætan ylm,
en í þeirra stað
aptr setti
nærsta morgunskin
nýa prýði.
Sofið nú! sofið
þið, sælu hjón!
hve sæl þið værnuð,
ef sælli kjöra
ekki æsktuð,
enn egið nú,
ok ei fengjuð fýsn
fleira at vita!
Nú hafði nóttin
frá neðanverðu
mælt hit mikla hvolf
miðja vega
und skírum mána
með skugga völ;
þá á varðmáls stund
venjuligri

fram af fílabeins
fóru porti
helgir Cherúbim,
sem herfylkíng,
ok stóðu alklæddir
stríðsbúníngi.
Orðum Gabríel
við engil þá
at makt sèr nærstan
mælti þessum:
„far þú, Uzzíel!
með flokk hálfan
vaktar vorrar,
ok sem vandligast
leita sveimandi
um suðr allt;
hinir skulu norðr
njósnum halda,
unz mætist vegr vorr
í vestri fullu."
Flaug strax fylkíng sú
í fljótu svifi,
sem bráðir logar,
á báðar síður,
hálf á skjaldar
ok hálf á sverðs;
nú nam hann anda
þá, er nærst stóðu,
tvo án tafar
til sín æsta,
kröptuga ok kæna,
ok kvað þeim boð:
„Far, Ithúríel![13]
ok þú, Zephon!
fljúgandi flýti
full-ransakið
allan þenna garð
innan múra,
látið engan krók
óleitaðan.
Leitið fyrst ok fremst.
þar en fögru hjón
atsetr egu,
sem eru nú
máske sofandi,
ok sízt ona
minnst grunr mun
um mein nokkurt.
Einn frá álfröðli
undirgengnum
kom hèr í kvöld,
sá er kunngjörði
nýliga nokkrn
niflheims anda;
hverr sèr hefði slíkt
í hyggju leidt?
Hafa hlaupit út
af helvíti
ok lagt á lóð þessa
leiðir sínar,
eflaust ílls hugar
með eyrendi;
hann, ef hittið þèr,
höndum takið,
festið forsjálir
ok færið mer!"
Hann, at hermdu því,
með her sínum
lagði strax á leið,
en ljómi þeirra
gjörði mánaskin
myrkri líkt;
hinir hèldu tveir
at hánm lundi
á vit ens vonda,
er vildu finna.
Hitta þeir hann ok
hjásitjanda
Evu eyra,
sem allra nærst,
eius at ásýnd
ok eitrpöddu;
var hans vili þat
ok viðleitni,
at með Djöfuls dul
hjá drós fengi

[13]) Nöfnin svara til þeirra embættis; *Ithúríel*, þýðir uppgötvun Guðs; en *Zephon*, leyndardóm, eða leyndardóms leitanda.

atkomizt gögnum
ímyndunar;
Til at mynda þar
missýníngar,
geta grillur,
gjöra drauma,
læða launcitri
í lífs andana,
er af ósaurgu
Evu blóði
gengu upp, sem gufa
af góðum straum;
Ok þá þaðan af
þar at vekja
háfar hyggjur,
hègóma von,
fýsn fánýta,
fárligar girndir,
uppbelgda þánka
með innbirlíngar,
sem eru mæðr
at metnaði.
Satan, er hann sat
við sýslun þessa,
atkom óvörum
Ithúríel,
ok snart húð hans
himnesku spjóti;
himinstæltra styrk
eigi stendst vopna
fjandligt fals,
svo felast kunni,
strax er þat uppskátt
í egin mynd.
Bilt varð Bölvaldi,
ok brá við skjótt,
sik vofeifliga
er vissi þannig
uppvísan orðinn
ófyrisynju.
Sem nær eldneisti
niðr óvörum
í djúpa dettr
dýngju af púðri,
er tilreidt liggr,
svo í tunnur hellt
fylli vígs mót vo
vopna skemmu,
en skýzt skjótt upp
í skyndi blossa,
ok lýstr loptit
loganda slagi.
Eins spratt Satan upp
í egin mynd;
hinir hrukku frá
helgir andar,
er ógrligan
fyrir augum sèr
niflheims Niflúng
svo nærri litu;
þó ebldist þeim skjótt
þor í huga;
yrktu þeir á hann
orðum þessum:
„Hverr ertu anda
fyrir upphlaups skuld
háðra helvítis
úr höptum sloppinn?
hví þú hýmdir svo
í ham torkendum,
líkr lymskum dólg
í launsátri,
ok til vonds vita
um völd skaðræðis
vaktir höfði hjá
hèr sofendra?"
„Þekkið," kvað Satan
með þrjózku forsi,
„þekkið þið eigi
nú þenna mik?
þið, sem þekktuð mik
þó fyri skömmu,
er ek hvorigs var
ykkar líki,
ok sat þekktr þar,
sem þið aldrei
fenguð nè þorðuð
fót at setja.
Þat mik hlæir helzt,
at hvorgi þekkir;

þat er þess vottr,
at þið sjálfir
eruð óþekktir
ok undirlægjur
allra aumastar
í ykkar hóp.
En ef gest þenna
gjörla kennið,
hvat á hvatvís spurn
um, hverr ek sè?
ok hví hefið þið
svo hègómliga
óþörfum orðum
eyrendi þat,
sem ykkr tveimr
er trúat fyrir,
ok eins endast mun
til ónýtis?"
Honum með heiðrun
hvergi meiri
svaraði Zephon,
ok í sama tón:
drag ei dul at þèr,
dælskr Eiðrofi!
þeirri meiníng með,
at munir þú
nú eins auðkendr
af ásýnd fagri
eðr óskerðum
uppheims ljóma,
sem þá hreinn ok heill
á himni stóðst.
Þá, er fèllstu frá
frómleik þínum,
yfirgaf þik öll
sú ágæt dýrð;
svo sem synd þín er,
ok sortafullr
ok stuggvænn staðr
þinnar ströffunar,
allteins ertu nú
orðinn sjálfr.
Kom þó, ok þik sýn
þeim oss sendi!
skaltu honum skil
ok skírslu greiða;
er hans embætti
yfir stað þessum
at hafa vakandi
vörð ok gæzlu,
ok heilla hjónum,
sem hèr búa,
at þeim ekkert mein
til ama sè."
Svo mælti Zephon
en sögð alvara
Níðhögg niðruðum
um nasir gnúð
engilsligum af
æskublóma
gaf afl orðum hans
ok yndisleik,
allri andstöðu
ósigranligan.
Þar stóð Skaðvaldr
ok skammaðist sín;
fann hann, hve falslaus
fróms hugar gæzka
knýr til at hræðast
ok heiðra sik,
ok hve dygðin er
elskuverðug
í tign óbreyttrar
egin myndar.
Þetta Satan sèr,
ok sinn harmar
skaða skeðan,
en þó skar hann mest,
at hans áfallinn
ærumissir
ok ljómalát
svo ljóst sæist;
þó bar Bölvaðr
sik borginmóðla
ok slík ærulaus
orð um kvað:
„Sè mer stríð stofnat
svo stríðum þá;
en ek stríði helzt
við enn sterkasta,

ei við sendisvein,
heldr sendanda,
eðr ok við yðr
alla samt;
sú er sæmd meiri,
ef ek sigr fæ,
minni vanvirða,
ef ek vinn ekki."
„Okkr ótti þinn,"
aptr svarar
hugprúðr Zephon
hreystiliga,
„firrir fyrirhöfn
at freista þess,
hvat ens minnsta vorr
mundi duga
aleins orka
gegn orku þinni;
þú, sem ert þrjótr
þrotinnar dygðar!
af því æ fylgist
hjá óguðligum
at vera dáðlauss
ok dygð horfinn."
Stóð nú í Satan,
svo hann starglápti,
gekk honum ekkert
orð um kverkar,
svo var hann reiðr,
at rèð sèr eigi;
heldr svo sem fákr
fjölmóðugr
frísar ok góblar
freiðanda mèl,
ólmr afsast hann
undan hinum.
At freista flótta
ok fleina rimmu
áleit hann sèr eins
ónýtt mundi;
hafði öblug ógn
upphæðum frá
slegit hofmóð hans
enn höflausa,
sem ekkert ella
gat yfirbugat.
Nálguðust nú,
þeir Níðhögg fluttu,
vegsmark í vestri,
sem við mættist
hvorutveggi helft
hríngflugs vaktar.
Stóðu þegar þar
þessir flokkar,
í fasta fylkíng
færðir saman,
ok biðu búnir
eptir boðorði;
þá fyri broddi
brýnum staddr
hátt kvað Gabríel
hersforíngi:
„Heyrir ek, vinir!
hlym af sporum
harðla hvatfættra,
sem híngat stefna;
ok gegnum skugga,
fyri skin stjarna,
eygir ek Zepon
ok Ithúríel.
Þar er ok enn þriði
í þeirra för,
at tign, sem tiggi,
til at líta,
þó með mjök bleikum
ok máðum glanza,
forsugt fas hans
ok framgángs offsi
virðist, sem hann sè
Sjóli vítis.
Hann mun víst eigi,
þat af hegðun sèzt,
án vaktra vopna
við oss skilja;
standið sterkliga!
því stríð dælska
ok fíflsku fjölmógr
framknýja hann;
allt hans augnaráð
boðar áskorun."

Urðu tæpt orð þau
á enda mælt,
þegar þessir tveir
voru þar komnir;
hermdu þeir sem hraðast,
hvern þeir flyttu,
hvar hann hittu,
í hverri sýslun,
hvílíkum hamsi
ok háttalagi.
Bistr Gabríel
í bragði kvað:
„hví dirfðist þú
útaf dýblissu,
Satan! settri þèr
fyri synda straff,
til at raska ró
rètt starfendra?
Þeirra, sem eigi
láta þínu fylgt
dárligu dæmi
drottinnsvika,
en hafa rök til
ok rètt fullan
at krefjast ansvars
um innbrot þitt
harðla djarft híngat
ok heimildarlaust.
Sýnist, sem hafi
í sinni búit,
at svíkja saklaus
í svefni hjón,
hverra bústað
í beztri sælu
hèr enn hærsti Guð
hefir plantat."
Aptr Satan
með enni stæltu
ok foraktsfullu
fann til svara:
„haldinn varstu víss,
ok ek virðti svo,
Gabríel! glæstum
á Gimli fyrri;
nú leiðir spurn sú,
er þú spinnr mèr,
mik um meiníng þá
mjök í efa.
Mun við kvöl kætast
kvikr nokkr?
eða mun einn sá,
er eigi vill,
fáist færi til
flýja víti,
þótt hann sè
þángat dæmdr?
Þú mundir sjálfr,
ef þar værir,
hvarfla hvattr dyrfð
í hvern þann stað,
sem lægi lengst frá
logandi pínu,
ok þèr von virðtist,
at veitt yrði
kyrð, fyri kvalir,
ok kæti, sorg.
Þetta er ok þat,
sem í þessi för,
ek hèr einúngis
eptirleita;
en hvat unnt þú þèr
af því skipta,
er ekki kennir
annat, enn gott,
en hefir aldrei
til ílls fundit?
Hvat villtu við mik
um vilja ræða
hans, sem helvíti
hefir múrat,
ok þat samansett
oss at sjálfheldu?
Lát hann læra fyrst
at læsa betr
koparportum þess
ok kænligarr,
ef í dýblissu
dimmu þeirri
kýs hann oss kreppta,
svo ei komumst út.
Samt var sögn þeirra

sönn at vísu,
þar fundu þeir mik,
ok með þeim hætti;
en þar alls ekkert
ofríki var,
engin áreitíng
undir falin."
Svo mælti Satan,
ok svall af forsi;
en hinn, hervaskr
himins engill,
annsar orðum hans,
ok innir svo,
hálfhlæjandi
ok heldr kýminn:
„hvílíkr harmr
vildi himni til,
at sakna, síðan
Satan steyptist,
eins, sem um vísdóm
veit at dæma!
Hans, sem í djúp datt
fyri dáraskap,
kemr upp aptr
ok með ákefð spyrr,
hlaupinn úr höptum,
hvert halda skuli
vísan vera þann,
eða vanhygginn,
sem frètta fýsist:
hver fífldyrfska
utan orðlofs
hafi uppknúð hann
híngat helvítis
úr harðkreppu.
Svo stórt vísdóms verk
virðist honum,
með hverjum hætti
sem helzt verðr,
ádæmdum kvölum
at komast frá,
ok strafli strokinn
at stelast undan.
En dæm þú, Dælski!
sem þèr dugir þor,
unz sjöföld hefnd
þik sóktan hefir,
ok flengir flýjanda
flæmíngs vizku
aptr neðst niðr
í niflheims kvöl;
Hverr þik híngat til
helzt til lítit
fræddan hefir,
at fár ekkert,
nè vesæld nokkr
nær at jafnast
endalausri heipt
almáttigs Guðs.
En hví arkar þú;
öðru vanr,
einförum svo?
hví? er undarligt!
hví er gjörvallr
grúi vítis
ekki farinn út
at fylgja þèr?
Eru píslir þess
plága minni
þeim, enn þèr?
ok var þessvegna
meiri þèr, enn þeim,
þörf á flótta?
Eða mundir þú
minnr herkinn
til at þola þær,
enn þeir eru?
heyr þú, hugrakkr
Hersforíngi!
þú, sem fyrstr flýr
ef finnr sviða!
Hefðir her þínum
í helvíti,
sem skildir eptir,
þíns skyndiflótta
tjáð þat tilefni,
sem nú telr þú,
værir eigi svo
vissuliga
þú, alls einhleypr,

undan strokinn."
Satan nú með svip
sorta fullum
ok harðra heitínga
honum svarar:
„erat mèr minnr,
meinhvepsinn þú!
lagit þor nè þol
þraut at bera;
þvíat vel veiztu
at vígdjarfastr
stóð ek ígegn þèr,
þá er striddum vær.
Þá er þeyttust fram
þèr til hjálpar
fullþrútnar þrumur
í þráveltu,
ok dugðu dör þínum,
deigum ella.
Enn nú, sem áðr,
án íhugunar
reynist ræða þín,
nè á rökum bygð,
lýsir hún laungum,
at lítt þú skinjar,
hvat trúr hertogi
sèr telr skyldt.
Þá, er hefir hann
háska reyndan
ok ýft áræði,
sem óheill spillti,
honum hvergi berr
herlið sitt allt
voga með á veg
voðafullan,
er hann aldrei lèt
áðr farinn.
Því hefir einn ek
öllum framarr
djarfr, dáðrakkr,
of djúp svamlat,
til at verða víss
um veröld þessa,
nú nýskapta,
því í niflheimi
hefir einnig heyrst
hennar getit.
Fýsti mik farar
sú en fagra von,
hýbýli at hitta
hinum betri,
ok her minn setja
á hauðr þetta,
eða miðt í lopt,
meiðslum hrjáðan.
En þótt áform slíkt,
ef aptrat skal,
gildi nokkra raun
á ný gjörða,
hvat þinn hoskr herr
ok hraustleikr
orkar móti mèr
ok mínum skara.
Vera má verði
eigi vopn mín svo
auðsókt yðr,
sem önnúngs saungar,
þeir, er miklið með
Mildíng himins,
ok á keingkrepptum
knjám at skríða,
fyrisettri þó
í fjærstöðu."
Annsar orðhraðr
engill rómu:
„at þú eitt áðr,
ok annat strax,
hermir tvítýngdr,
er tjáðist flúinn
vel ok vísliga
úr víti fyrr,
en nú nefnir þik
á njósn kominn;
Þat sýnir, Satan!
at þú sèrt eigi
hæfr hertogi,
heldr fundinn
líka sjálflystr
lyga smiðr.
En, hve getr þú

á athöfn þína
tildrat trúskapar
tignu nafni?
því er heiti þitt,
þú, en helga trygð!
þannig vanhelgat
viðbjóðsliga?

Trúr tjáist þú,
en trúr hverjum?
Satan! sveit þinni
svikafullri,
heilum her djöfla,
hæfiliga
líkum líkhama
við líkan hans.

Hvert er hèr trygðin,
sem þèr handfestuð?
hvert er hlýðnin þat,
sem hètuð þèr,
maktar stærstu Stjórn
at stelast undan,
eitt sinn játaðri,
eitt sinn hylltri?

Ok þú, falsfullr
Flærðar smiðr!
sem nú sýnast villt
af sögu þinni
frelsis forsvari
fylgisamr,
hverr var á himni,
sem hneigði sik
auðvirðiligarr
enn þú sjálfr?

Hverr skreið skárr enn þú,
ok skelfiliga
dásamaði dýrð
Drottins himna
tíðari ok dýpri
með tilbeiðslu?
hverr þènti þýligarr,
enn þú? Satan!

En í hverri von,
ok hvar fyrir?

utan einungis,
at þú mundir
fá af stóli steypt
Stilli himna,
ok í staðinn hans
stjórnat sjálfr.

En gef gætr at
því, ek greini þèr!
haf þik hèðan burt,
ok hverf aptr
strax á stöðvar þær,
er straukstu frá!
ok ef þú optarr
uppfrá þessu
hèr vígðum veum
þèr vogar at,
mun ek draga þik,
dróma reirðan,
í neðstu niðr
niflheims kvalir;

Ek mun innsigli
á þik setja [14]
þvílíkt, at þurfir eigi
þaðan af,
at hafa háð við,
helvítis portum
helzt til linliga
at lokat sè."

Þessu hótar hann;
en Heljar-þengli
hvarf eigi hugr
við heitingar,
óx meirr æði hans
ok ofsageys,
svo hann forsfullr
fleiprar þannig:

„Þá er fyrst tíð til
at tala um hlekki,
er þú hefir mik
höndum tekinn,
stolti garðs gætir!
en gjör þik fyrst
búinn til at bera
böl enn þyngra

14) Opinbb., 20, 3.

af megni miklu
minnar handar:
En þótt voldugr
á vængjum þèr
Ræsir röðulheims
riði sjálfr,
ok fullstórr flokkr
þinna fèlaga,
alvaur oki,
oflætis vagn
hans með þèr
yfir himinsins
stræti, stjörnum lögð,
stoltan dragi"
Svo mælti Satan,
en sveit engla
gjörðist glóandi,
glíkt sem eldr,
ok sèr nýa nú
niðrraðar
hornfylking í,
sem hálfr máni.
Lukti liðit sik
kríngum Lúcifer
með feldum fölum,
svo fast ok þykkt,
sem fold á hausti
fullþroskaðra
skeggjaðan beygir
skóg kornpúnga
bifuðum bylgjum,
fyri blástri vindar;
Berr þá kvíðboga
bóndi hngginn,
at stór ok vænlig
stánga bindini
eigi muni annat
at sèr gefa,
þá er þreskt verða,
enn þurt hismi.
Olmr Andskotinn
annars vegar
stóð, ok strax heimti
sinn styrk allan,
óbifanligr ok útbreiddr,
svo sem Atlas einn [15]
eða Píeó.
Við nam vöxtr hans
en vindgu ský,
ok sat alfiðrnð
ógn á hjálmi:
ei spörðu at spenna,
þat er spjót sýndist
ok skjöldr, skortlaust,
Skaðvalds hnefar.
Skaðar hefðu sket
skelfiligir,
ei at eins Edens
viðr uutærnun,
heldr heil máske
hvelfíng stjarna,
eðr hvervetna
höfuðskepnur,
ofsterkum hefðu
fyrir áflognm
gengit til grunna
gjörsamliga;
Nema enn Eylífi
á augabragði
hefði heingdar út,
til at hepta strið,
á glæstum Gimli
enar gullligu
metaskálar,
þær, er Skorpíóns-
ok Meyjar-merkja
milli settar,
enn í dag
er at líta.
Þar á hefir hann
frá heims byrjun
vegit vettna hvat,
ok vora jörð
heingt á met þessi
móti lopti;
vegr hann svo afdrif
allra hluta,
tilburða, kífa

[15]) *Atlas* ok *Píeó* eru fjalla heiti.

ok kóngaríkja.
  Nú voru lagin
í nefndar skálir,
sem höfgar tveir
hvorr mót öðrum,
afdrif undanhalds
ok orrostu;
sást hin síðari
með svifi skjótu
oflètt allt at staung
upp at hefjast.
  Varð þess Gabríel
varr, ok mælti:
krapt þinn kenni ek,
þú kennir minn,
sem ei er, Satan!
af sjálfum okkr,
heldr er hann gefinn
hvornmtveggja.
  Hvílík heimska þá,
heipt ok þrjózku
at vilja voga
í vopna trausti?
meira megu eigi
megna þín,
eigi mín heldr,
enn himin leyfir;
nú þó treysti mín
tvöföld orka
til at þrísta þèr,
sem þrekk, niðr.
  Lít upp, svo sjáir,
at ek satt mæli!
horf þar á hlut þinn
í himinteikni,
hvar þú veginn varst
á vog rètta!
lít, hvè lèttr ert
ok lítt orkandi,
ef þú myndar þik
til mótstöðu!"
  Brá upp Bölverkr
brúna skjánm,
ok leit lètta skál
lukku sinnar
mót hinnar höfga
svo hátt flogna;
drýgði hann þar ekki
dvalir lengri,
nöldrandi hvarf hann,
ok nóttin með.

---

## Hèr hefr
## fimmtu bók Paradísar missirs.

Nu nálgaðist
viðr nætr hvarf
í risátt röðuls
rósfættr morgun,
ok drjúgum dreifði
yfir dýra sæ
Austrálfunnar
ítrum perlum.
  Vaknar þá Adam
at vanda sínum;
hans var loptlígr
ok lèttr svefn,
mjök heilnæms matar
af meltíng hreinni
ok hægum dömpum
honum laginn.
  Honum hèr fyri
var harðla nóg
efni blundbrygða,
ef í blaði þaut,
ok lágt látandi
lækjar buldr,

árhýru blæblak
ok á blómkvisti
fagrhljóða fugl,
er fyrstr gól.
Þess at kynligra
þókti honum,
er hann Evu sá
óvaknaða,
með úfnum lokkum,
eldheitum kinnum,
eins ok órórr svefn
angrat hefði.
Reis hann til hálfs upp
á handlegg sèr,
ok hèldt ástkindtum
ennis ljósum
yfir fegurð fljóðs,
ok með forundrun
virðti fyri sèr
vænleik hennar,
sem bæði gegnum
blund ok vöku
út skaut unaðsemd
hana allt um kríng.
Hann þá með hýru
hjartanligri,
sem á blómstr blæs
blærr af vestri,
með tæpitúngu
talar þannig,
ok snart hægt ok hægt
hennar mund:
„Vaknaðu, vina!
þú en vænsta mín!
fundin brúðr blíð
fyrst ok síðarst!
helzta, seinasta
himinsins gjöf!
ó, þú allt mitt!
ánægja mín!
æ því nýrri,
sem þín nýt lengr!
Mál er at vakna,
morgun ljómar,
kallar okkr út
aldöggvuð mörk;
við firrumst færi
fyrst á degi
at sjá útspringa
aldini þau,
hverra vexti við
væntum eptir;
Sætra skóg at sjá
citrónu blómstra,
hversu mær drýpr
myrra af grein,
ok rignir balsam
af reir niðr,
náttúran liti
hve nett málar,
ok hve bífluga,
at blómstrum iðin,
sitr ok sýgr þar
sætan lög."
Slíku vakti verr
víf með hvísli;
en hún uppleit
ok á hann starði,
brá um hann örmum,
ok innti svo:
„o, þú einasti,
sem alhugi minn
finnr unun í!
þú æra mín!
algjörleikr minn
ok ágæti!
Fegin em ek orðin,
at aptr sè
auglit manns míns
ok morgun kominn;
draum dreymdi mik,
döpr var mèr nótt,
átti ek aldrei fyrr
aðra slíka.
Daprt dreymdi mik,
ef drauma var,
ei um Adam minn
eptir venju,
eigi þat, er framfór
enn fyrra dag,

nè nm nytja verk
nærstkomanda,
heldr ángr eitt
ok ónáðan,
í nótt ákend,
en aldrei fyrr.
Einhverr þókti mèr
eyra mínu
sem nærst liggja,
sá er nefndi mik,
ok mjúku máli
með sèr kvaddi;
þókti mèr raustin,
sem þín væri.
„„Eva!"" sagði sá,
„„hví sefr þú?
nú tíð fótferðar
er en fegrsta,
en kælasta
ok en kyrrasta,
utan þar at eins,
sem áhlýðandi
nætrþögn víkr
fyri náttgala,
er einn ósofinn
gelr elskuljóð.
Einnig drottnar nú
með dýrð fullri
of heiðan himin
heiðr máni
auglýsir hann ásýnd
allra hluta
skamtligri í skuggum
með skini þægra,
en til ónýtis,
ef engi sèr.
Öll hefir opin
sín augu nú
himin vakandi,
en hvern at skoða,
alheims óskahnoss!
utan þik?
hverrar háleit sjón
hvatvetna gleðr,
sem, fángit furðu
þinnar fegurðar,
gleymir gjörvöllu,
nema gá at þèr!""
Þóktist ek þá,
sem af þèr kölluð,
á fætr fara,
en fann þik eigi;
lèt ek leitandi
lengra gengit
ein á ferð
at mèr sýndist.
Varð mèr í skyndi
vikit þangat,
sem stóð fróðleikstrè
hit forboðna,
mjök leizt þat fagrt
mínum augum,
ok í innbirlíng
af mèr miklu
dæiligra dæmt,
enn dags við sjón.
Undraðist ek ask
ok augum leiddi;
varð ek þá vör eins,
sem við hann stóð,
at vexti, vænleik
ok vængja búníngi
sem þeir, opt sjáum
senda af himni,
draup ambrosíu
dögg af lokkum.
Stóð hann, ok sem ek
á eyk horfði,
mælandi: „„meiðr
þú enn mjök fagri,
ítrum alþakinn
ávöxtum með!
virðist engi til
viðhángandi
þúnga þeim
af þèr at lètta?
enginn epli þín
ypparligu
gjöra gómi kunn
Guð nè maðr?

Er þá vizkan virð
vettugi svo?
er öfund, eðr hvat,
sem at bannar?
hamli hverr, sem vill!
nú hèr eptir
skal mèr alls enginn
afneyzlu þíns
framboðins forða
fyrimuna;
eðr hvar til helzt
ertu hèr settr?""
Tók hann án tafar,
er talat hafði,
ósvífinn epli
ok át af trè;
hryllti hjarta mitt
af hræðslu kaldri
við stolt stóryrði,
þau er staðfestust
með eins drambsfullu
dælsku verki.
Enn, sem ölvaðr
af ölteiti,
gall hann: „„ó, gróðr
guðdómligr!
at sönnu sætr
í sjálfum þèr,
en samt sætari,
nær svo plokkast!
Sagt er, forboðinn
at sèrtu hèr,
sem gjörr ok geymdr
guðum einum,
þó er þèr laginn
þessi kraptr,
at geta gjört
guð af manni.
Ok því eigi þat?
þar hit góða
margfaldast því meirr,
sem þat meðbítist;
skerðist eigi þar við
Skaparans dýrð,
heldr verðr heiðr
hans at meirri.
Kom þú, en krýnda
kjörnu sælu
Eva! engilslig
ok afbragðs fríð!
tak hlut þinn hèr,
ok hirð at bergja!
sæl ertu at sönnu,
en þú sælli mátt,
ei elskuligri
enn ert, verða.
Kom, ok mata munn!
muntu upp hèðan
gyðja gjörast
meðal guðanna,
eigi föst á føld;
í fögru lopti
muntu opt uppi,
eins ok vèr;
Ok upp til himins
mun þèr opt farit
eptir verðskuldun,
sem víst er þín,
þar múntu líta,
hve lifa guðir,
líka lifa sjálf
lífi guða.""
Svo gekk hann nærr mèr,
at sögðu þessu,
ok mèr epli bar
uppat vörum,
sem af tèðu trè
tekit hafði;
svo fèkk sætr þess
sigrat mína
ylmr átlystíng,
at eigi gat
bundizt bergíngar;
ek barg af því.
Þyrja þóktumst ek
þá til skýja,
ok sá undir mèr
útþanda jörð,
afar víðt liggja
ómælanliga,

ok á ýmsan hátt
útlítandi.
Full af forundrun
yfir flugi því,
ok hve hagr minn
hófst svo bráðla,
leit ek mèr horfinn
leiðtoga minn;
seig ek svo niðr,
ok sofnaði.

En æ, hvat em ek nú
allshugar glöð,
er þat vakin veit
verit hafa
draum, sem mæddi mik,
en meirr ekki!"
Eva sagði svo
frá sinni nótt;
en annsar Adam
þannig ángraðr:
„þú, mitt bílæti!
mín betri helft!
stórum sturlar mik
stríðr ami,
sá er í svefni
hefir sinni þitt
ángrat ok ýft
um ósorg þessa.

Líka lyndir mèr
lítt þinn draumr
ærit kynligr,
ok onar mik,
at af rökum sè
runninn illum;
en hvaðan eru
þau en illu rök?
í þèr ekkert kann
íllt at búa,
sem ert hrein sköpuð
í hvívetna.

Þó voru vissir
vorum sálum
inngefnir kraptar
atgreinds háttar,
þeir er skör lægri
eru skilníngi,
ok sem höfðíngja
honum þjóna;
ein þeirra meðal,
ímyndunin,
á þrátt eptir hann
embættisgjörð;
Hún af útvortis
öllum hlutum,
sem ná færi fimm
formerkíngar,
málar sèr myndir
í manns huga,
ok fær loptlíkun
þar lagat mörg,
sem vor skilníngr
síðan lætr
sundrskilin,
eða samantengd.
Af þeim byggir hann
atkvæði sín,
allt hvat játum vèr,
eða neitum,
þekkíng ok meiníng
vèr þat nefnum.
En nær náttúran
nýtr hvíldar,
gengr óðr eins
í afhús sitt;
er þá optsinnis
ósofandi
marglát innbirlíng;
eptir honum
apandi, fjölfim
í hans fjærveru.
Saman setr hún
sundrleitar
margar myndir,
ok með því skapar
aplafóstr opt,
einkum í draumi;
tíðum tvinnar hún
tilburði forna
ærit öfugt við
orðræður nýrri.
Finnst mèr í draumi,

sem fram barst þú,
nokkut glíkt því,
er í gærkvöldi
fyri svefn okkarn
saman ræddum,
þó varaverðum
með viðrauka.
Vert þó eigi þú
þar af hnugginn!
getr víst í geð
Guða ok manna
illt uppstígit,
ok aptr vikit,
sè því ei samsinnt,
ok sýndt fylgi,
engan þat í önd
eptir skilr
flekk, eðr efni
til ásöknnar.
Vekr þat mèr vissa
von í brjósti,
at aldrei munir
ógjörníng þann
vinna vakandi,
sem við þannig
hryllir huga þínn
at hafa dreymt.
Lát því hrygð hrundit,
en hreggský engin
slá fölska fyri
þín en fögru ljós,
æ vön at vera
vafin gleði
ok umskrýdd unun
æskiligri;
enn mildr morgun
þegar móti hlær
yfir jörð
okkar sjónum.
Reisum okkr upp
til yðju nýrrar
í skemtnum skógi
ok við skæra lind,
eða blíð blómstr,
sem breiða nú
öll skaut opin
með ylmsætum
nætrleifum,
svo at njótir þú!"
Adam ángraðan
innn fagrar
hresti hug,
svo hún huggast lèt,
en þó fèll eitt
af auga hvorju
ljúflyndis tár,
sem lokkar þerðu.
Dýrendis dropar
dvöldu eptir tveir,
at kæmist út
af krístalls díkjum,
en þá greip, áðr
ofan fèlli,
Adams munnr með
mjúkum kossi,
sem vott verðugan
viðkvæms trega,
ok ástríks ótta,
at afgjört hefði.
Svo var gjörvallt græðt,
þat er græzt hafði;
flýttu þau sèr út
á fagra mörk,
ok hán leiddust
undir lunds þaki
allt í opit lopt,
utan dyra.
Þá ljóma litu
ljós dags brúnar,
ok röðul risinn
yfir ránar þröm,
er jók jafnt skin
með jarðar deigju,
ok alla Paradís
austanverða
við blasanda váng
víðt útbreiddan
með yndisligum
Edens slèttum,
beygðu þau sik djúpt

ok báðust fyrir.
Upphófu andvörp
auðmjúks hjarta,
sem at sið höfðu
sèrhvern morgun,
svo sem skylduskatt
sínum Skapara,
umbreyttum orðum,
ei æ sömu.
Eigi nýtt orðtak,
nè andagift
skíra, skorti þau
til Skaparans lofs;
sögðu þau ok súngu,
svo þeim streymdi
orðgnótt óumþenkt
útaf vörum,
sundrlausar ræður
ok samstillt ljóð
meiri mentar,
enn at meðþyrftu
til hljóðs fegrunar
hörpustrengja.
Hófst hróðr þeirra,
sem hèr segir:
„þetta eru verk þín,
ok voldug dýrð,
æðsti Aðvaldr!
alls góðs Faðir!
þín er heims bygging
heil ens mikla,
undarliga fríð
af þèr sköpuð.
O, hvat þú munt þá,
sem þeirra verka
alsmiðr ert,
yfir öll þau fram
undrunarverðr,
ósegjanligr!
þú, sem hæð hafin
himins ofarr
æ ert ósèðr
augum vorum!
Eða sèzt, at eins
óglöggliga,
í ennm lægstu
þinna lofsverka!
þó skín ok í þeim
yfir þánka lángt
gnæfandi gæzka
ok guðdóms kraptr.
Börn ljóss! birtið þèr,
sem þat bezt kunnið,
segið fram, þèr englar!
er sjáið hann
um dag eýlífan
utan nætr,
kríngum kóngstól hans
kórum saman,
hann með dans ok saung
dásamandi;
Fylgizt allar at,
sem einn skari,
himins ok hauðrs
hver ein skepna!
hann fyrst, hann síðarst
ok hann í mið,
ok án enda hann
at upphefja!
dásamið Drottinn
ok dýrkið hann,
þann enn Almáttka,
þann enn Eilífa!
Ok þú fegrsta
af flokki stjarna,
sem af sveit nætr
stígr síðarst upp!
meigi menn ei þó
morgunfylgju
heldr heita þik,
sem hýrrar ert
vottr dagsbrúnar
enn vissasti;
Er þú með kransi
klárra geisla
prýðir morgunmynd
mildt brosanda,
dæiligá þú
viðr dagskomu
heiðra hærstan Guð
á hríngskeiði!

Einnig þú, auga
alheims þessa!
sól! ens fullkomna
forvirkis sál!
viðrkenn hann vera
þèr voldugri,
eins um morgunris
ok middagshæð,
sem nær náttbúin
niðr stígr,
lát ævarandi
í umrás þinni
hljóma lofsaunga
Lávarðar þíns!
Ok þú, mærr máni!
við mót sólar,
sem nú flýtir för
með föstum stjörnum,
er í afbngi
ákvarðaða
fara flýjandi
fyrir henni.
Ok þèr, eldar fimm
umreykandi!
sem heimugligum
með helgidanzi
eigi ókvæða
umhverfis rennið,
kunngjörið lof hans,
sem kalla rèð
skínandi ljós fram
af skauti myrkra!
Heyrið, hála lopt
ok höfuðskepnur!
móður náttúru
megir elztu!
fjölbreyttu formi,
þèr sem ferhyrnt mál
hlaupið umkríng æ
utan hvíldar,
samblandið sèrhvat
ok sínærið;
Yðuglig yðar
viðr umskipti
æðstan Alföður
umskiptum með
heiðrið hvervetna
hróðrsaungum!
Svo ok, þoka þú!
ok þèr dampar!
hálsum ýmist af
uppstígandi,
eða víðum ver
í voð grárri
eða dimmleitri,
unz en dýra sól
litar loðfeld þann
líkt purpura.
Hefizt til heiðrs
þeim, er hanðr skóp,
hvort ský um heiðan
himin málið,
eða drykkið jörð
daggar legi,
eins hvort ofan
eða upp stígið,
ellið æru þèr
almáttigs Guðs!
Andið þèr, vindar!
Alföðurs lofi
heims skautum fjórum
sem hvæsið af,
hvort sem hægt þèr
eðr hvast blásið!
Beygið þèr bustir
blómhrokaðar,
græn grenitrè!
þèr, grös ok plöntur!
honum til heiðrs
ok til hlýðni teikns!
Lækir ok lindir!
sem líðið fram,
sem með saunghljómi
sífvískrandi,
látið lofgjörð
yðar Lávarðar
birta, buldrandi
nær bifizt þèr!
Ok þèr, sem andið,
allar skepnur!

látið lagðar samt
yðar lofraddir!
ferðhvatir fuglar!
sem færið saung
upp at hátt höfnum
himins portum,
látið flug yðar
ok fagrar raustir
vera vagna
fyri vegsemd hans!
 Þèr, sem lög syndið!
þèr landfarendr!
hvort sem stígið storð
stoltar fetum,
eðr umskríðið
auðvirðiliga!
 Verið mèr vitni,
ef ek við þegi,
kvöld ok morgunmund
máli dala,
fjalla, fljóta,
forsælu lunda,
sem minn hróðr hreim
hækka tíðum,
ok á lofgjörð Guðs
fá lærðan mik.
 Heill þèr, Einvaldr
ok alls Drottinn!
vert oss æ góðgjarn,
þau þú gjört hefir;
gef okkr aldrei
annat, enn gott!
 Hafi draumnjórun
dregit saman
nokkut, þat íllt er,
í óljóst skaut,
lát því, Drottinn! dreifst,
drif þat sundr,
sem nú dýrr dagr
dreifir myrkri!"
 Svo í sakleysi
þau samt báðu;
kom þá kær aptr
kyrð at vana,
ok gleði stöðug
í geð þeirra;
fóru þau svo fram
á fagra mörk,
til mjök mundtamra
morgunverka,
deigra meðal blómstra
af döggfalli.
 At varna óuýtri
umspenníngu,
ef þeim einhver röð
af aldintrjám
hafði gángþranng gjört
með grein ofllángri
skagandi þeirra
yfir skemtibrant,
sem heimti handtök
til hagræðis.
 Viku þau víneyk
vararhendi
álmviði at
hennar unnusta,
sú er hegðun með
hjúskaparligri
spennir sjálf sik
um sinn maka;
 Með sèr hefir hún
í heimanmund
við honum átta
vínberja klasa,
þá er hún hengir,
sem heiðrs skart,
ófrjófsamar á
álmtrès greinir.
 Aleit alvaldr
engla Drottinn
Adam ok Evu
við yðnir þær;
mjök svo hrærðist hann
af hjartagæzku
til meðaumkunar
við menn sína;
 Ok fylgifúsan
fyri sik kallar
engil Raphael,
er úngum síðarr

tjáði Tobíæ
svo trausta fylgd,
ok gætti gæfu hans,
er gekk at eiga
meyju þá, er menn
hafði mista sjö!
„Veiztu, Raphael!"
hann ræddi svo,
hvílík náða spell
í nótt gjörði
Satan, hlaupinn út
af helvíti
yfir dimmt afgrunn,
Edens hjónum?
Hvílík áreitíng
illrar freistni
er þeim óvörum
af honum sken,
er hann ásetr
í einum stofni
öllu kollkasta
kyni manna!
Fyri því far nú
á fund Adams,
ok dvel hjá honum
dags þessa helft,
sem hjá vin vinr,
þar hann vera mun
seztr undan sól
í svölum lundi,
at mýkja megnan
miðdegis hita,
ok sik máltíð með
eða makendum
eptir erfiði
at endrnæra.
Skaltu vinar tal
við hann eiga,
ok vekja huga hans
um heilla kjör
ok sælu sinna,
er ek sett hefi
í hans vald ok vild,
at vísu frjálsa,
en sem ætíð er
umbreytanlig.
Hann því vara við
vegsemd slíka
at eigi missi
fyrir uggleysi;
inna skaltu ok
einkanliga,
hver honum vond sè
vo fyri dyrum,
einninn af hverjum
sú on standi;
Ok um óvin þann
í umsátrum,
er fallinn sjálfr
fyri skömmu
burt frá heill himins
hyggst at steypa
öðrum eins sælum
ok áðr var.
Hvert með harðebli
ok háum styrk?
ónei! aldrei
skal því ákomit,
heldr með lygum
ok launsvikum.
Lát honum þat ljóst,
svo líðist eigi
manni fráföllnum
af frívilja
afsökun sú,
at í synd hafi
án viðvörunar
fyri vèl fallit."
Svo kvað eylífr
alda Faðir,
ok allt rèttlæti
uppfyllti svo;
en vængjum búinn
vegsamligum
drýgði dýrðlíngr
eigi dvöl lánga.
Af birtu boði
brá hann snöggliga
sèr til flugfarar
af flokki þúsund

himins háloga [1],
hverra meðal
vænni vafinn stóð
vængja prýði.
Fljúgandi fór hann
í fljótu svifi
miðt ígegnum glæst
Gimla veldi;
skiptu sèr þá skjótt
skarar engla
til beggja hliða,
svo bráðri för
fengi fullrúmt
án fyristöðu,
öllum aðalblíks
eptir strætum.
Nú kom hann háu
at himins porti,
sem sèr án dvalar
sjálfkrafa upplauk,
gekk hurð frá gáttum
gullhjörum á,
guðdómligt smíði,
þat er gjört hafði
æðstr Alsmiðr
egin höndum.
Sèr hann þá þegar
yfir þessa jörð,
skygðu hvorki á
ský nè stjarna,
leizt hún lítil mjök,
en lík öðrum,
sem lèku í lopti,
leiptrhvelum.
Einnig aldingarð
alda Föðurs
síkrýndan sá hann
með cedrustrjám
yfir hám hálsum
á henni standa,
glíkt sem glerpípa
Galíle smíðis
minni vissu með
mönnum sýnir
í mána meintar
myndir landa;
Ok líkt sem lagar
leiðsögumanni
hinar hærstu
meðal Hríngeyja [2],
Deley ok Sámsey,
úr djúpi sèr
skjótandi sýnast,
sem skýflókar.
Hann með fallflugi
fleygist niðr,
ok allt eldlopts rúm
ofan siglir
milli heims ok heims,
hvers af öðrum,
hverra snarfara
snúnings vindar
skutu honum fram
með skyndisvifi.
Tvöfaldt tíðara
tók hann vængjum
dampabang blaka
kríngum búk Ymis,
unz á hæðir þær
ofan kom hann,
sem örn ölligr
upp fær stígit.
Undruðust allir,
ok ástörðu
fuglar, faranda,
sem Phœnix væri [3],

[1]) Milton meinar hèr fyri háloga: Seraphim, eptir orðsins þýðíngu, sem er dregit af loga. [2]) Hríngeyjar Cyclades. [3]) Þat er alkunnug skröksaga um fuglinn Phœnix, at þá hann sè orðinn 5 eða 6 hundruð ára gamall, byggi hann sèr hreiðr af ennm kostuligustu ávöxtum, sem sólin kveiki eld í, ok uppbrenni, ásamt með honum sjálfum; síðan kvikni upp af öskunni úngr Phœnix, ok fljúgi úr ösku sjálfs síns inní sólarinnar musteri í Thebis á Ægyptalandi.

sá er síns kyns er
sjálfr einasti,
takandi flug sèr
at Thebis borg,
svo í sólar hof
sínar flyti
ösknleifar
meðal Egyptskra.
Nú í vetfángi
niðrskaut sèr
þrúðr Raphael
á Paradísar
austrfjall, sinni
í egin mynd,
sá var Seraph einn
með sex vængjum[4];
Gjörðu þessir
á guðdómligan
skyggja skapnað hans
skrautligir mjök,
tveir um brjóst brugðnir
breiðar herðar
klæddu, sem kyrtill
koníngligr.
Mundu aðrir,
þeir í mið voru,
sem fagrt belti,
fullt af stjörnum,
hans um lif lagit,
ljósu dúngulli
mjaðmir ok miðti
megingirða,
dífðir himins lit
dýrðligan í;
Þeir enir þriðju
þöktu fjöðrum
fagrar fætr hans
fáunm himins
prýðiliga
meðr purpura.
Æskiligum stóð hann
í yndisleik,
sem Maju sonr,
ok sínar hristi
fjaðrir fimliga,
en flaug um kríng
ilmr himneskr
yfrit víða.
Skjótt náðu skærir
skarar engla,
vörðhaldendr,
við hann kannast,
ok vegna vegligs
valds ok tignar,
einnig-eyrendi
til æru hans,
reistu þeir sik bráðt
fyri Raphael.
Skynjuðu þeir skjótt,
at sken mundi
för hans af himni
fyri háfa skuld;
gekk hann gegnum tjöld
en glæstu þeirra,
ok kom á foldir
enar farsælu.
Lá þá leið hans
um lystiskóga
af myrrumeiðum,
mætum ylmblómstrum,
þeim, er Cassíu
kostuligri
balsami ok nardus
um breiða mörk
af allskyns ángi
útdreift lètu;
var þat fyri vitum
sem völundarhús.
Gjörði sèr at gamni
í garði þeim
nýfædd náttúra,
nú sem lýsti
meðr marglæti
meyjarligu,
sjálfráð síns munar
hún í sætum ylm
öll sèr úthelltı
utan kunstar.

[4]) Esaj. 6, 2.

Bar nú um balsams
bjarka runna
engil nokkut nær,
er nam hann líta
Adam frumfaðir,
er í forsælu
dyra sinna sat [5]
á svölum lundi;
Með því mjök heitum
miðdags geislum
röðull niðr
rèttlínis skaut,
at hann il gæfi
yðrum jarðar,
yfirgekk þá hitinn
Adams þarfir
Innarr Eva stödd
eptir venju
í tœkan tíma
var at tilreiða
mætan miðdags verð
munntams gróða
góm gleðjanda,
gamans augum,
einnig virðta veig
af vínberjum.
Adam æstandi
við Evu kvað:
„Far híngat! flýt þèr!
ok fagra sýn
skunda til at skoða!
skemt hèr augum!
er sú víst þess verð,
at vilir sjá.
Mynd er í austri
meðal cyka
nærsta nýstárlig,
er nálgast oss,
dýrðlig, dæilig,
sem dags morgun
nú um hádegi
nýrr upprenni.

Megum máske við
mikilvægum
eyrendum í
einn frá himni
sendiboða sjá,
sá er virðist
í dag at okkar,
sem elr fold,
himinborinn hann,
hèr at gista.
Far því! flýt þèr!
ok fær híngat,
hvat helzt heimsafnat
hefir vista!
reið fram rífliga
með rausnar mund
til heiðrs háfum
himingesti!
Vel megu við
okkar veitendum
veita þær vistir,
sem veittu þeir,
ok með örlæti
endrbýta
því oss útbýtt er
með örlæti.
Unnum eykr sik
ðr náttúra
hèr í hám gróða,
ok hefst því meirr
í fagri frjófsemd,
sem framarr hún
ítrum ávöxtum
af sèr lèttir,
er þat okkr boð
um örlæti."
Eva kvað: „Adam!
ó þú jarðar
helg ok dýrmæt deild
af Drottni lífguð!
hèr má harðla smátt
heimsafn nægja,

[5]) Svo sem Abraham sat í dyrum tjaldbúðar sinnar, þá dagurinn var sem heitastr, er þeir þrír englar komu til hans, Gen. 8, 1.

þar gróði grúir
á grein hverri
frjórr ok fullvaxta
til forða vors,
út ok inn allar
ársins tíðir.
Hitt er hússafn eitt,
sem heim borit
fær við búgeymslu
betri festu,
ok eyðir af sèr
ofmegni vessa.
En, ek fara mun
ok fimum höndum
tína saman
af trè hverju,
af hverri lýngkló
ok laufgaðri jurt
ágæt aldini
en útvöldustu
fyri engilgest
okkar þann,
svo hann sjáandi
sanna megi,
at sitt gæzku góz
hefir Guð látit
á jörð úthlutat
eins sem himni."
Eva snèri sèr,
at svo mæltu,
við í vetlángi
ok vendi sínum,
hagsýn hvervetna,
húsmóður augum,
fullum af framkvæmd
ok fyrisjón,
eptir aldinum
ágætustu.
Velja gjörði víf
þat, er vissi bezt
at sjón ok smekk
saman ega,
at ei tegundum
óhentuliga
sundrleitum
skyldi samblandit,
heldr einn smekkr
öðrum breyta
æ með ánægju
endrvaktri.
Sízt var hún seinhendt
at samanlesa
aldinstaungum af
enum ítrustu
hvat helzt framreiðir
hvorutveggju
almóðir Fjörgyn
í Indíum,
á Pontverskum
ok Púniskum ströndum,
ok þar átti stjórn
Alcinóus [6],
allskyns ávöxtu
í ýmsu hýði
húðslèttu, eða
með hýúngi.
Þeim lèt rausnar hönd
rìstils nægum
kappkúfat borð
með kosti þegar,
veig spreyngir hún
útaf vínklösum,
ómeingan drykk,
ok allskyns berjum.
Kreisti ok af kjörnum
kostuligum
ráðsvinnr svanni
sætan rjóma,
eigi var ítra
íláta fátt;
sáð var á gólfit
svasilmandi
rósum ok jasmín
ríkugliga.

6) Alcinóus rikti á eyju þeirri í enu Jóniska hafi, sem nú kallast Corfú, en forðum Phæacía, Corcýra; hún liggr í Feneyjafirði.

Móti gesti gekk
guðdómligum
frumfaðir vorr
með fagurri lotníng,
fylgdi honum enginn
förunautr,
utan hans egin
ypparlig tign.
Viðhöfn hans gjörvöll
var hann sjálfr,
en þó var hann
einn ypparligri
leiða lostinni
látadýrð fursta,
þá af reiðskjótum
raðir lángar
ok geysi grúi
gyltra sveina,
allt þá umhverfis
ok útfrá lángt,
blindar alþýðu,
sem á þat glápir.
Nú kom Adam nærr
ok niðr laut,
eigi sakir ótta,
heldr auðmýktar,
hæverskri hegðun,
hærri veru
atkominn augsýn
ávarpar svo:
„Hafinn af himni!
því himin einn
kann at veita vist
vegsemd slíkri;
nú er þóknast þèr,
frá þeim tróni
hèr at stíga á storð,
ok um stund missa
foldar farsællri,
svo fáir veitt
þessari sóma
með þinni komu;
þá gæð ok einnig
góðvild þeirri
okkr, sem erum
ei nema tvö,
eigendr þessa
yfrit víðlenda,
ok af gæzku Guðs
gefna, staðar;
Hjá okkr heima
hvíld at taka,
at sitjum saman
í svölum lundi,
ok neyta nokkrs
af nytjum beztu
okkar aldingarðs,
unz í vestri
sól, at mildumm
miðdagshita,
koma lætr kul
ok kvöldroða."
Aptr anzar mildt
engilkraptr:
„hèr fyrir, Adam!
ek híngat kom;
svo ertu saminn
ok setr þetta,
at jafnvel andar
frá upphæðum
virða sèr at vellyst,
at vitja þín.
Leið þú mik þá heim
at lundsal þínum!
ek á tímatóm
til þess í kvöld,
á hauðri hjá þèr
hèr at dvelja!"
Hèr nærst hèldu þeir
heim at lundi,
er þeim ilmandi
í augu hló,
líkt sem Pómónu[7]
lystisalr,
búinn blikanda
blómstra skrúði.
Allsber stóð Eva,
með engu prýdd,

[7]) *Pómóna*, eplagyðja.

utan sjálfri sèr,
þó síðr eigi
guðmeyjum skógar
var hún girnilig,
fegri forngyðju,
enni fegurstu
þeirra þriggja,
sem þreyttu naktar
sigrkapp saman
um sína prýði
á Idafjalli
forðum daga.
Hèr stóð himneskum
hún svo frammi
gesti fyrir,
ok gekk um beina,
engrar æskti þörf
andlits huldu,
ei var kraunk hugsan
til kinnroða.
„Heil sèrtu!" hermdi
sá enn himneski,
henni fagnandi
með helgri kveðju,
er enni seinni
var Evu greidd,
Maríu meyju,
miklu síðarr.
„Heil sèrtu manna
móðir allra!
fylla mun með fleirum
þitt frjófsamt skaut
heilan heim sonum,
enn hèr eru
margslags ávextir
af meiðum Guðs
á hit breiða borð
bornir saman."
Mundi borð þeirra
byggt af torfi,
mjúkr var um kríng
mosabekkr;
fannst á flötum þeim
ferhyrníngi
heimum haustgróða
hlaðit saman,
en þótt danzandi
án afláts þar
hèldust þá í hendr
haust ok vor.
Sátu þeir um stund
ok saman ræddu,
óhræddir um,
at yrði kaldr
dagverðr sinn
fyri dvöl slíka;
mælti þá mesti
manna faðir:
„Lát nú þóknast þèr
af þessum bergja,
gestr himneski!
gæðakosti,
er í okkar hönd
bauð at útdeila
eldis til ok yndis
örlátri jörð
Fóstrfaðir vorr,
þeim er frá kemr
algjörðs ágætis
ómæld gnægð.
En máske eigi
andligri sè
náttúru, slíks
at neyta, lagit,
en þótt ek viti,
at oss öllum þat
gefr Alfaðir
einn ok sami."
Svaraði Seráph:
„með því sá hefir
einn, þeim æra sè
eylíf súngin!
þetta gjörvallt gott
gefit manni,
sem ok andligr
er at nokkru,
þá má eins anda
ómeinguðum
eigi vera át þess
með öllu í gegn.

Eins er vera vor
viðþurfandi
uppheldis, andlig,
sem yðar, skynug,
hefir hvortveggi
háttu lægri
skilníngarvita
ok skapnaðarlags,
sem þær heyra með,
sjá ok lukta,
finna til, smakka
ok fæðu melta,
svo snýst líkhamligt
í lag anda.
Allt hvat er skapat
þarf uppheldi,
hvervetna meðal
höfuðskepna,
þèna þykkgjörðar
þynnri verum:
jörð elr ægi,
en ægir lopt:
Hanðr ok lopt
ala himintúngl,
næra þau fyrst mána
neðstan þeirra,
koma þar af blettir
á kríuglu hans,
eru þat dampar[8]
ókláraðir,
eigi snúnir enn
til eðlis honum;
Líka löndum af
lagar ríkum
sendir túnglit sjálft
frá sèr dampa,
hvaraf haldast við
hærri knettir;
einnig álfröðull,
sem ítrum ljóma
elr allan heim,
endrgjald fær
í raka dömpum
þeim, er reisa sik
upp af hvívetna,
nus at kvöldi
eta þau alskírr
ok ægir saman.
At sönnu gefa
eykr himins
af sèr ávöxtu
ambrosliga,
víntrè veita þar
veigar dýrðligar;
mæta morgun hvern
af meiða greinum
strjúkum himindögg
vèr himneskir,
ok finnum perlufræ
um foldir sáð.
Þó hefir góðgjarn
Guð einnig hèr
útbýtt ánægju
ýmisligri,
geta gjarnan
orðit gáfur þær
settar við himins
í samlíkíngu;
því em ek eigi
þessum kosti
ofmatvandr til
á at bergja."
Nú settust niðr
til nautnar þeir,
settist engillinn[9]
ok eins neytti,
eigi var þat ofsjón
nè yfirvarp
eptir grublgötvun
guðfræðismanna;
Heldr munarfull
matartekja,
til at umbreyta
etinni fæðu

[8]) Likligra sýnist þó, segir Newton, at blettir túnglsins sèu stórvötn ok höf, því væru þat dampar, kynnu þeir ei ætíð at vera í sama stað. [9]) Gen. 18 ok 19 kap. segir, at englarnir hafi sez til borðs, ok etit.

fyri fjörhita
fortæranda,
svo honum sjálfum
yrði sameðlis;
en hjá öndum
þat, er afgengr,
út ferr í dömpum
ómerkjanliga.
Eigi eru undr,
þótt umskapi
óklárs eldsneytis
ofni stórgjörðum
gullgjörðarmaðr
í grjót Rínar
minnsta gyldis málm,
eða mögulígt
ætli þat vera
íþrótt sinni.
Frammi stóð Eva
fyri borðum
í naktri fegurð,
ok með nægum drykk
lystiligs lagar
lèt á barma
skeinktar streymandi
skálir þeirra.
O, þat sakleysi,
er sambauð rètt
prýði heilagrar
Paradísar!
nú var at virða
til vorkunar,
ok aldrei ella,
þótt ástargirnd
kviknat hefði hèr
í hugskoti
sjálfra ljóss sona
við sýn þessa.
En hèr í hjörtum
hreinum ríkti
elska lostalaus,
ok lángt var burt
þess vandlæti,
sem er vítis kvöl
unnustum, orðnum

fyri órètti.
Þá er voru þeir
þannig saddir,
matar ok drykkjar
at munarþörf,
eigi átu þeir sik
ofmetta,
hvarf í hug Adams
einn hárr þánki;
Greindrar gestkvomu
við gott færi,
um ókend efni
fyrir ofan heim
at öðlast fróðleik,
um anda verur
himinbyggènda
ok háttu þeirra.
Með því sínum svo
sá hann þeirra
æðri ypparleik
ok atgjörfi,
útflot Guðs geisla,
sem gengu lángt
í klárum krapti
yfir kjör manna.
Hann því himneskan
hæverskliga,
svo segjandi, sendiboða,
vandaðri varúð
viðr ræðir:
„O, þú, hjá Guði,
sem átt heima!
sèr ek góðgirni
gjörla þína
af sóma þeim,
er sýnir manni,
at þú virðist til
inn at gánga
undir þak þetta,
sem þó er lágt;
Ok eta aldini
orrar jarðar,
eigi sköpt
til engla fæðu,
en þó eins þegin

af þèr ljúfliga
ok glaðast Gimla
væri gestaboð,
yfrit ólíkt
ok æðra þessu."
Svarar vængjaðr
sendiboði:
„einn er, Adam!
enn Almáttugi,
hann, sá er hefir
hvatvetna skapt,
hverfr ok hvat eitt
til hans aptr,
nema fordjarfist
ok firrist gott.
Allt var algjört svo
af honum skapat,
eitt var frumefni
fyri öllu,
sem fèkk margskonar
myndir síðan
eptir ýmisleik
undirstöðu
ok lífsmegni
í því, líf hefir.
Allt var því hreinna
ok því andligra,
sem skipat skyldi
nærr Skaparans stól,
eða kepptist meirr
at komast þángat,
sem þat í fyrstu
var frákomit.
Málhríng settan sinn
hefir sèrhvat eitt
egin atorku,
eptir mældri
takmarka tröppu
fyri tegund hverja,
unz lángsamliga
líkhamanna
eðlismunr upp
til anda kemst.
Þannig þýtr upp
af þúngri rót
lèttari leggr
með lit grænum,
þá enn loptligri
lauf á honum,
unz at síðurstu
algjört blómstr
blæs frá sèr blíðum
balsams anda.
Einnveg ávextir,
sem ala mann,
af trjám ok jurtum
tröppuin saman
mýkjast ok myndast
eptir manns eðli,
unz þeir lyptast loks
í lífsanda,
dýrum skaptan skamt
ok skilèndum;
Fá þeir formerkíng
ok fjör gefit,
óðs krapt efla þeir
ok ímyndunar;
hèr af hefir sál
hyggendi sín,
(eru hyggendin
hennar vera)
annathvort í skoðun
eðr ályktun;
Varð en fyrri grein
vor at mestu,
en hlutdeild yðar
er en seinni,
báðar eins eðlis
en ólíks vaxtar.
Undrast því eigi
þó óforsmáð
af mèr einnig sè,
þat ykkr hefir
Guð sjálfr gefit
ok gott metit,
nè þótt, sem ykkr,
þat næri mik.
Kannske tími sá
komi síðarr,
englum maðr með

at matar neyti,
ok hann ei finni
oflèttan sèr;
ske má tímalengd
skíra gjöri
ykkar líkhami,
svo í lopt fljúgið,
andar verðin öll,
ok eins sem vèr
eptir ykkar vild
ýmist dvelið
hèr, eðr hjá oss
í himna sælu.
Ef þið farið fram
fastri hlýðni,
ok í Guðs elsku
geymið ykkr,
hvers þið ætt eruð,
óumbreyttri;
njótið þá nægta,
sem nú hafið,
af fullum fögnuði
í farsæld ykkar,
unz meiri megið
móti taka."
Svaraði prúðr Patríarki:
„gestr göfugi!
góðfúss andi!
víst hefir þú vel
okkr veg kendan
þann, er framleiðir
þekking vora
til náttúrunnar
tröppugángs,
allt at yzta hríng
í frá miðpúnkti.
Borizt fáum við
um braut þessa,
stig fyri stig,
til Stillis himna,
við skíra skoðun
sköpunar hans
okkr umhverfis
alla vegu.
En herm mèr, fræðir
þú enn himneski!
hvat vörum þýðir,
sem þú við knýttir:
„„ef þið farið fram
fastri hlýðni;""
getum við Guði
gjörst óhlýðin?
Kann þá at kólna
okkarr kærleikr
til hans, sem okkr
af hauðri skóp,
ok í samastað
setti þenna,
þar er farsældar
en fyllsta gnótt
umkríngir okkr,
ok allt hvat maðr
óskat getr sèr
ok um skynjat?"
Enn svarar engill:
„ó, þú sonr
himins ok hauðrs!
hygg at ok merk:
þat, at þú ert sæll,
þakka Guði,
en sjálfum þèr,
at þú sæll verðir,
þat er at þakka
þinni hlýðni.
Haldtu henni fram,
ok hvergi skeika!
var þat vörun sú
ek veitti þèr,
gættu glöggt hennar
ok gleym eigi!
Guð víst fullkominn
hefir gjörðan þik,
en frá umbreytíng
ekki fríau;
góðan gjörði hann þik,
en at góðr sèrt,
setti hann þèr samt
í sjálfsvaldi.
Fríau skóp hann þik,

með frjálsum vilja,
engin föst forlög
fá þik bundit
í því, er sjálfr
útvelr þú;
viljuga vill hann
vora þjónkun,
kúgut kergjuverk
hann kýs eigi;
  því, hve má rannsakat
ok reynt verða
hjarta hlýðanda,
nema hafi sá
fullkomit frelsi,
hvort fúss þjóni,
eða þvíngaðr
með þvernauðúng,
ef hann vill at eins
þat, er eigi má
fyri forlögum
framhjá gánga,
af egin vild
ótilknúðr?

  Ek, ok allir þeir
engla skarar,
sem standa kríngum
stól Alföðurs,
fáum framhaldit
farsæld vorri
eins, sem ykkar þið,
eigi lengr,
enn vèr framhöldum
fastri hlýðni;
  Hún, ekkert ella,
er oss festa,
at vor velgengni
vara skuli;
ljúfir þjónum vèr,
því ljúfir elskum,
at elska, ok ekki,
eins sjálfráðir;
svo stöndum vèr,
eða svo föllum.
  Fallinn er fjöldi
fèlaga vorra,

fyri óhlýðni
eru fallnir þeir
frá dýrðar himni
í dýpst helvíti;
ferligt var fallit
úr farsæld æðstri
í afgrunn eymdar
ógnarligustu."
  Nú mælti enn mikli
manna faðir:
„orð þín hefir ek
með athuga
gaumgæft, ó, fræðir
guðdómligi!
ok eyrum numit
unnarfyllri,
enn nær nálægri
um nótt á hæð
skeðr okkr skemtan
skærra saungva,
kórum saman,
af Cherúbim.
  Gjörla var mèr kunnugt,
at Guð oss skóp
alfrjálsan vilja
með athöfnum;
hitt var mèr hugfast,
sem held ek enn,
at ek aldreigi
muni afláta
Skaparans elsku
ok skyldu hlýðni
við hans eina boð,
sem er svo rètt.
  Þó hefir þat mèr,
sem þú greindir
um ófall atborit
á upphæðum,
einskonar ugg
ok efa vakit,
en þó öblugri
eptirlaungun,
at fá fulla sögn
frá því efni,
væri þèr ei óljúft,
at veita slíkt.

Er þat án efa
utan venju,
ok heyrnar verðugt
með helgri þögn;
er ok einnig dags
eptir mikit,
hefir röðull
til hálfs varla
skundat skjótfara
skeiðboga sinn,
ok nú hit fyrsta
naumliga byrjat
aðra vegar helft
á víðu belti."

Svo bar Adam upp
sína eptirspurn;
en af Raphael
var ræðu hans,
eptir litla þögn,
andsvar gefit:

„Mikil eru mál þau,
manna fyrsti!
er þú eptirspyrr,
ok yfirmáta
hryggilig ok hörð
at herma frá.

Hve má ek skíra,
fyri skilníngum
holdligum hulin,
herverk anda?
hve má án hrygðar
frá hruni sagt
svo margra ok hárra
maktar engla,
ok stórrar dýrðar,
meðan stóðu þeir?

Eðr hve má ek
frá öðrum heimi
leynda hluti
ljósa gjöra,
þá, er máske mèr
mundi bannat?
þó er þèr til góðs
mèr þetta leyft.

Ok hvat óðkrapt þinn
yfirgengr
vil ek með sæmri
samlíkíngu
andligra efna
við eðli jarðar,
er þau birtir bezt,
sem á bílæti
leitazt við at láta
leidt fyri sjónir.

Hvat þá? en ef er
yðvart hauðr
skuggi einn
ens skínanda himins?
ef með hlutum hèr
ok hinum efri
er meiri líkíng,
enn menn hyggja?

Varat enn veröld,
þá villr rikti
Óskapnaðr einn
í því rúmi,
sem nú framvelta
fagrir himnar,
ok rær jörð þessi
á jafnvigt sinni,
sköpuð ok skorðuð
af skipun Guðs.

Viðbar svo dag einn,
(því vita skalt,
at allt varanligt
í eylífðinni
teiknar tímamál
í hans tilsvifum,
eptir því er, var,
ok á at skc).

Einn dag, á þann hátt,
sem ár berr fram
hit mikla himins,
voru herskarar
allir engla
á aðalbliki
gjörheimtir saman
at Guðs boði.

Strax kom at stóli
Stillirs hærsta

óteljandi mergð
frá öllum himnum,
tíu þúsunda
þúsund fánur
blöktu milli brjóst-
ok bak-vaktar,
hverjar frá öðrum
helgidóms stèttir,
orður, ærustig
atgreinandi;
Svo ok sýndu þær
sumar fögr
minnismerki
mörg innofin
forðum framinna
frægðarverka
fyri kjærleiks skuld
ok af kostgæfni.
Sem þeir svo í hríng
saman stóðu
ósegjanligrar
ummáls víddar,
hèr var ok hríngr
um hríng utan,
hóf hærstr Faðir,
hvers við síðu
Sonrinn sat
í sælu jafnri,
svo upp sína rödd,
sem af fjalli
ljómandi loga;
fyri ljóss sakir,
var hit efsta þess
ósýniligt:
„„Heyrið þèr, englar!
þèr, arfar ljóss!
þèr, trónar! furstar!
ok tignarvöld!
heyrið mitt áform
ok eylíft ráð,
þat er standa skal
stöðugliga
í öllum himnum
óbrygðanligt:
I dag ól ek[9]
minn enn Eingetna,
er ek arfa minn
yðr votta,
hefir ek hann smurt
á helgu fjalli,
hann, sem þèr sjáið
sitjanda hèr
til hægri handar
hátign minni.
Hann hefir ek
fyrir höfðíngja
útkjörit yðr,
ok eiði bundit,
já, svarit hefir ek
við sjálfan mik,
at fyrir honum
skulu framvegis
öll himins knè
sik auðmjúk beygja;
hann skal herra sinn
hverr einn játa.
Verið æ undir
hans yfirdrottnun
allir, sem ein sál,
sameinaðir,
allir farsælir
at eylífu!
Sá honum synjar
svarinnar hlýðni,
sami synjar mèr
sjálfum hennar,
ok vort uppslítr
einíngar samband;
sá skal sama dag
sælufullri
skúfaðr út
frá skoðun minni

[9]) Milton er hèr, sem allstaðar, þar sem hann framfærir nokkra ræðu undir Guðs persónu, þarí sèrdeilisliga athugasamr, at brúka þartil einasta ritníngarinnar egin orð; þessi ræða Föðursins er útdregin af Psálm. 2, 6. 7, Gen. 22, 16. ok Phill. 2, 10.

í afgrunn eymdar
ok yztu myrkra,
eignast inni þar
en aunga lausn." "
Eru þessi orð
ens Almáttuga,
er sýndust allir
ánægðir með;
þannig sýndist þat,
sem þó var eigi;
svo leið sá dagr
með saung ok danzi,
sem hinir aðrir
hátíðligu,
umhverfis hæð þá
ena heilögu.
Hulinn var danzinn
í helgan máta
ok leik líkastr
lopthvelanna,
sem fremja farandi,
ok fastar stjörnur,
með margbugóttum
misjöfnum gángi,
sem liggr út ok inn
um annars hríng,
en þó reimrètt
ok regluliga,
þá, er sízt sýnist
hann svo vera.
Fylgdi svo himnesk
hræríngum þeirra
ok sæt samhljóðan,
at sjálfs Guðs eyru
hlýddu hljóm þann á
með hárri gleði.
Nú kom at kvöldi,
(því kvöld ok morgun
höfum einnig vèr
himinbúar,
til yndisligrar
umbreytíngar);
hætt var þá danzi,
ok hverr einn gekk
til bezt búinnar
borðhalds veizlu.
Reist vóru borð
í raðar hríng hverjum,
ok engla rèttum
áhlaðit þar:
nektar rúbínrauðt
rann í kerum
af drjúgu gulli
demant, af perlum.
Sæt á vínviði
vaxin gæði,
himins hlunnendi,
hvílandi þeir
á blómstrbeðum,
búnir krönsum,
átu nú ok drukku
allir samt.
I fögrum fèlagskap
fæðu neyttu,
aflandi yndis
ok ódauðleiks,
algóðum Jöfri
inntu þakkir
fyri forsorgun
fagnaðarríka,
sem hann mildri mund
meðbýtti þeim,
ok gleddist sjálfr
við glaðværð þeirra.
Eigi var at óttast
fyri ofneyzlu,
með því mælislok
mestu nægta
ekkert ákvað,
nema óhófit.
Svo bráðt soralaus
í sætum ylm
ósorg, ásamt með
uppstígandi
frá fjalli Guðs
fylgiskýum,
kemr þaðan ljós
ok kvöldskuggi,
breiddi blíðt rökkr
yfir blik himins,

berr at gríma þar
blæju dimmri.
Ok róslit rakadögg
ró með blundi
augum allra bauð,
nema Alföðurs,
þeim er aldreigi
atkemr svefn [10];
sínum skutu skjótt
skarar engla
hópum harðla dreift
um himins slèttur.
Tóku tjöld þeirra
en tölulausu
stærra stöðurúm,
enn storð er þessi;
öll þótt einn væri
eggjafn flötr,
svo er furðustórr
forgarðr Guðs;
Við lög skæran
meðal lífseyka
stóðu þau í röðum
reist at skyndi;
þar í sváfu þeir,
ok þeyblæ af
nærsta kærkomnum
kælu þáðu.
Allir sváfu þeir,
at undanteknum
skikkuðum skörum
til at skiptast um
sæta saungva
ena sömu nótt,
eptir tiltölu,
við trón Alföðurs.
Varat svo varit
vöku Satans,
nefn hann svo nú,
því nafn hit fyrra
heyrist eigi hermt
á himni meir;
Einn var hann engla
hinna ypparstu,
ef ei ypparstr
at yfirburðum,
ok at makt mikill,
en meginhatrs
ok öfundar fullr
við Alföðurs Son;
þann, er hans hafði
hærstr Faðir
öllum yfirlýst
á þeim degi
einn at eylífu
erfíngja sinn,
allsherjar kongúng
af sèr smurðan.
Stóðst eigi Satan
fyri stolts sakir
at líta slíkt,
ok lægíng meinti
skena sjálfum sèr
sinnar tignar,
svo gat hann þaraf
sèr í brjósti
forakt feiknadjúpt
ok fár vonzku.
Þá, er mið mundi
myrkrfara,
ok hvíldi hvatvetna
í hljóðri kyrð,
staðrèð hann með sèr
at strjúka þaðan i:
með heilan her þann,
sem honum var
yfirbjóðanda
undirgefinn,
án þess at akta
Alföðurs boð,
at tigna trón hans
með tilbeiðslu.
Vekr hann þá upp
vildarfursta
sinn, er síðu hans
svaf hit nærsta,

[10]) Psálm. 121, 4: sá, sem varðveitir Israel, sefr ekki, ok ekki syfjar hann.

honum nærstr ok
í hám völdum,
ok heimugliga
hermir þannig:
„„Sefr þú? frægsti
félagi minn!
hve fær brár þínar
blundr luktar?
nema gleymt hafir
þeim í gær heyrðir
orðum útflognum
af Alvalds munni.
Vanr varstu mik
vísan at gjöra
meiníngar þinnar,
ok ek minnar þik,
ein sál vorum við,
þá vöktum báðir,
hve má þá svefninn
sinni þitt gjöra,
framarr nú, enn fyrr,
fráhorfit mèr?
Nýtt lögmál sèr þú
nú álagit,
ný lög hefir hann,
sem hátt drottnar,
uppfundit, oss
at undirlúta,
er því nýtt efni
til umhugsnnar.
Reist eru rök ný
til ráðagjörðar
fyrir oss alla,
sem undir þjónum,
um hvat eitt uggvænt
þat, er áhorfist,
at herma fleira hèr
er ei hættulaust.
Hverf nú, sem hraðast,
ok heimt saman
gjörvalla fursta
ok fyrirliða
alls þess englahers
óteljanda,
sem stjórn vorri
stendr undir.
Skír þeim; at eptir
skipun gjörðri,
áðr enn ósorg
hefir af sèr rudt
skugga skýum,
mun ek skjótliga
halda hèðan burt
heim í norðr,
þar er egum vèr
umdæmi vort,
ásamt þeim öllum,
sem undir mèr
láta ljós merki
í lopti blakta.
Vil ek verðuga
vorum jöfri,
miklum Messíæ,
búa móttöku
ok hans skipunum,
sem ske munu,
er hann innan skams
allar himins
hyggst at heimsækja
helgar stèttir,
sem sigrherra
ok at segja lög.""
Svo kvað Svikarinn,
ok sál óvara
félaga fyllti
fölskum þánka;
sá öll yfirvöld
undir hann gefin
heimti saman hraðt,
ok hermdi þeim
slíkt, sem fyrimælt
Satan hafði;
At, eptir hærstu
herraboði
skyldi, áðr skipti
skugga nætr,
hafit it helga
höfuðmerki
ok herinn allr
halda burt þaðan.

Einnig innir hann
orsök logna;
tvíræðt var hans tal,
ok með tálfullum
vandlætis blandit
vafamálum,
til at freista
þeirra trúskapar,
eða flekkunar
at fá honum.
Þó fylgdu allir,
með fullri hlýðni,
veittu vegferðar
vana teikni
ok maktar kalli
mikils Foríngja,
hans var herrligt nafn
ok hátt veldi;
Af hans ásýndar
ítrum glansa,
sem morgunstjörnu,
þá er margfjölda
fagra loptknatta
fyrirennr,
urðu þeir blekktir,
ok eptir sèr
dróg hann með lygum
til drottinnsvika
heilan þriðjúng
himins engla.
Horfði niðr
af háu fjalli,
meðal ljóslampa [11],
sem loga um nætr,
augat Eylífa,
hvers alskygn sjón
lítr leyndustu
lyndis þánka,
ok af sjálfu sèr
sá, án ljósa,
áformat upphlaup,
ok af hverjum.
Leit hann hversu þat
meðal ljóss barna
vaxanda vondskap
víðt útdreifði,
ok hve mikil mergð
til mótstöðu
hans háu ráði
hafði svarizt;
hann þá brosandi
við Bur sinn kvað:
„„O, þú, Son minn!
þeim, er sèr ek í
mynd fulla skína
minnar dýrðar,
ok minn erfíngi
at allri makt!
víst er varðanda,
at vors sèum
einvalds öruggir
ok almættis;
Ok at af oss sè
yfirvegat,
hverjum vopnum vèr
varinn fáum
þenna gamla rètt
til guðdóms vors,
ok hærstu stjórnar
yfir himninum.
Af því Ovinr
ofsafullr
ýfir óspektir
oss í gegn,
viljandi vorum
veldis tróni
setja jafnsíðis
sinn í norðri.
Er hann ok eigi
þar með ánægðr,
heldr hyggr hann
með hernaði
ok opinberum
yfirgángi,
at reyna rètt vorn
ok rómu styrk.
Látum því reista
vora ráðslögun

[11]) Opinnb. b. 4, 5. 7: Blis með eld brunnu fyri stólnum.

ok köllum skara þá
í skyndíngu
alla, sem eptir
eru, saman;
höfum framsýni
til forsvars oss,
at fyrr enn varir
verðum eigi
horfnir hásætis
helgu fjalli.""
Svarar hýrt ok hægt,
með himinskærri
ásýnd, Arfi Guðs,
ósegjanliga
glaðvært gefandi
guðdóms skin:
""Óvinum þínum,
almáttki Faðir!
máttu makliga
mjök at kýma,
hæða fánýt ráð
ok fors þeirra;
Hverir með heipt
ok hatri sínu
munu mína dýrð
meiri gjöra,
þeirra þegar ek
mun þrjózknfár,
klæddr konúngs makt,
kefja, þinni.
Þá, er málalok
munu sýna,
hvort ek em nógr
til at miðrslá
ribbalda þá,
er rísa þèr gegn,
eðr hafi þeir
hjörvi sóktan
einhvern á himni
enn óvaskasta""
Svo kvað Sonrinn;
en Satan var
lángt með lið sitt allt
á leið kominn,
óteljandi her,
sem aptans stjörnur,
ok daggar dropa
þá er dreifir sól
á blöð ok blómstr
blikandi perlum.
Fóru þeir um fjöld
furstadæma
ok mýmörg ríki,
þeim er mektugir
stýrðu Seraphim
ok stórherrar,
svo víðlend veldi,
at viðr þau
er þinu, Adam!
eins at líkja
gjörvöllu ríki,
sem garði þessum
við heilt hauðrs hvel
með hafs belti.
Loksins ná þeir nú
norðrmerkjum[12],
kóngs setri sínu
veik Satan at,
harðla var þat fagrt
ok hátimbrat,
glansandi lángt frá
ok glíkt at sjá,
sem á fjall ofan
væri fjalli hreykt.
Af höggnum demant
voru háturnar,
ok klettum hlaðit
af kláru gulli;
hèt þat Lúcifers
hof ens mikla,
svo mælist nafn þess
á manns túngu.
En bráðt þar eptir,
þá er brauzt hann í

[12]) Esaj. 14, 11: Þú þenktir í þínu hjarta: ek vil uppstíga í himininn, ok forhefja mitt tignarsæti yfir stjörnur Guðs: ek vil setja mik uppá fjallit samkundunnar, viðr þá hliðina, mót norðrinu.

jöfri Jehóvæ
jafn at verða,
hèt hann setr sitt:
Samkundufjall,
sem hitt it helga,
þar er himni var
öllum auglýstr
ásjáanda
Messías mikli
af munni Föðurs;
Því at nú þegar
þángat öllu
safnaði Satan
sínu liði;
bar hann fyri boð,
sem birt væri,
at halda ráðslag
um hyllíngu
ens nýútkjörna
Engla-konúngs.
Með römmum brögðum
rægikunstar,
ok með lyga list,
líkra sannindum,
hóf hann svo ræðu
fyri her sínum:
„„Þèr trónar! furstar!
ok tignarvöld!
ef slík há heiti
hèðan af eru
nokkut meira, enn nöfn,
þeim er neitt fylgir,
með því metorð vor
ok makt alla
hefir, eptir heyrðu
Herra boði,
annar undir sik
af oss tekit,
ok dýrð vora alla
at dimmu gjört.
Gjört hafa hèr nú,
fyri hans sakir,
næsta bráð umsvif
nætrferða,
ok svo svakafull
samkoma vor,
til at ráðgast um;
Ræsi nýum
hve vèr með háum
heiðrs teiknum
megum makliga
móti taka;
Knjátolls krefjandi,
þá er kemr hann,
áðr ógoldins
af oss honum,
smánarligs framfalls,
sem fyrir einum
er oss of mikit,
en óþolanda,
at vèr föllum fram
fyri tveimr;
Fyrir einum fyrst,
ok fyrir öðrum
síðan, er segir hann
sína mynd;
en ef úrræði
önnur betri
fengi hafit upp
hagi vora,
ok lært oss loks
at láta þessu
ánauðaroki
af oss varpat!
Hirði þèr honum
yðar háls beygja,
eðr hnèbnoknir
honum lúta?
veit ek fyri víst,
þèr vilið eigi,
ef at ek eins kann
yðar sinni,
eða sjálfir þèr,
synir himins!
þess, er einkis fyrr,
enn yðar, var.
En þótt ei sèuð
allir jafnir,
frjálsir eru þèr
þó fyri því;

allir eins frjálsir,
þvíat yfrit vel
hvervetna orða
ok heiðrs munr
fá með fullkomnu
frelsi staðizt.
Hverr fær þá rökum
eða rètti með
yfir þeim tekit
einvaldsdrottnun
undir sjálfan sik,
sem með rètti
honum at frelsi
eru fulljafnir,
en þótt at makt
ok æru lægri?
Ok hverr fær á oss
ódauðliga
lagt ný lagabönd,
sem lögmáls án
megum ei við rètt
á mis fara?
ok hve getr hann
af guðum krafizt,
at hann þeirra sè
yfirherra,
tignaðr af oss
ok tilbeðinn?
Er þat hnjóðr
vorum hátitlum,
er þó auglýsa,
at yfirdrottnan,
en ei þjónusta,
sè vor ákvarðan."''
Hann fèkk híngattil
hindrunarlauss
dregit dælu fram
dælskufulla,
enginn andæpti,
en allir hlýddu,
utan Abdíel,
sem uppstóð nú,
sá var Seraph einn
í Satans liði.
Fannst sá engi,
sem framarr honum
dýrkaði Drottinn
með dygð fastri;
enginn allshugar
alúð heitri
hlýddi, meirr enn hann,
Herrans boðum.
Brann í brjósti hans
beiskt vandlæti,
gegn hann setti sik
sögðum straumi
ofsafulls æðis
ok ofstopa,
ok svarar svo
Satans máli:
„,,O, hvílíkt gingeys
guðlöstunar,
drambsemdarfullt,
ok drottinssvika!
þat er alls enginn
á upphæðum
mun hugsat hafa,
at heyra mundi,
af þèr einna sízt
óþakkláti!
sem framarr öðrum
þínum fèlögum
ert svo hátt hafinn
á heiðrs stig.
Amælisorðum
óguðligum
dyrfist þú dæma
Drottins hærsta
rèttvísa skipun,
sem raung væri;
þá er bauð hann
ok batt með eiði,
at Syni sínum,
þeim er sjálfr hann
hefir rètti veittan
ríkissprota,
öll hnè á himni
skuli hnegja sik,
svo viðr kennist
með virðíng þeirri

Kóngr eylífr
ok kjörinn rètt.
Orètt segir þú
með öllu sè,
at frjálsir bindist
föstum lögum,
ok at jafn yfir
jöfnum drottni,
einn hafi óskipt
yfir öllu vald.
Viltu, Fífldjarfr!
voga at setja
Alföður lög
til eptirbreytnis?
viltu um frelsis rètt
við hann þrátta,
þann er gjörði þik
at þeim, sem ert?
Þann er myndaði
maktarvöld himins
eptir velþóknun
ok vild sinni,
ok veitti takmörk
verum þeirra?
Vitum vèr ei þat
af vorri raun,
hversu han er góðgjarn
ok gjörsamliga
elr umhyggju
fyrir allra vor
vissri velgengni
ok verðugleikum?
Ok at svo lángt sè
frá sinni hans,
miðrdrep oss
í nokkru gjöra,
at hann ástundar
öllu heldr
varanligan vöxt
vorrar sælu?
Nær et nánari,
enn vèr nú erum,
sameinumst sífeldt
sjálfum honum,
ok lifum allir
und einu höfði.
En lát nú vera;
sem órètt sè,
at drottni jafníngi
yfir jafníngja,
þorir þú þá allri
með þinni dýrð,
eða gjörvallir
engla kraptar,
at jafna þèr
við Jöfr hærsta
ok við Arfa hans
enn eingetna?
Fyrir hvern, orð sitt,
Faðirinn hefir
alla hluti skapt,
ok einnig þik
ásamt með öðrum
öndum himins;
hefir hann þá hánn
heiðri krýnda;
Ok svo sæmd þeirra
sè at meiri,
nöfnum nefnda
nærsta stórum:
tróna, háfursta
ok tignarvöld,
ens stóra stjarnheims
sterku krapta.
Oss því aldrei hann
ódýrðligri,
heldr hærri í dýrð
hyggst at gjöra;
með sinni stjórnun,
þá er sjálfr hann
fyllir flokk vorn,
sem fyrliði.
Eru lög hans
eigi líka vor?
ok hvort mun heiðr,
sem honum veitist,
ei á oss sjálfa
endrskína?
Aflát því ofsa
óguðligum,

ok svík ei sveit þína
í svaðilför,
heldr stefn strax heim,
ok stygðan Föður
með misgjörð þinni,
mýk til sætta!
ske má, í tíma
ef tilleitat er,
fáist umbeðin
fyrigefníng.""

Voru þessi full
af vandlætíng
Abdíels orð;
en engi studdi
mál hans nè meiníng,
möttu allir hann
at síðr sæman
þeirra samkomu,
sem fífl fjölmálugt
ok framhleypit.

Þessa varr vorðinn,
ok við þat gladdr
illr Oddviti
upphlaups dólga,
fyllir hug hroka
hálfu meiri,
ok því forsugri
fleiprar þannig:

„„Samdir, segir þú,
at sèum vèr
af honum, gegnum
annars höndr;
hárr hermir þú,
at hafi Faðir
umboðit verk þat
Arfa sínum.

Þat er fáheyrð fregn,
ok ei fyrr numin!
er mèr ærin fýsn
enn at vita,
hvaðan kenníng sú
er komin þèr;
hverr sá þá sköpun,
er hún skeði oss?
máttu muna þat,
er þèr meðdeildi
þróttkr skapari
þína veru?

Enga vitum vèr
verit hafa
tíð þá, nè tíma,
er ei til værum,
eins ok nú erum,
ok engan þann
vitum, fyrir oss
sem verit hafi.

Aldir erum vèr
af oss sjálfum,
sjálfir urðum vèr
af oss sjálfir til,
þá er fullfarit
forlög gömlu
höfðu hríngskeið sitt,
himins synir
framkomu frjófir
á fæðíngar stað,
þann vèr egum enn,
uppheim þessum.

Vorr er kraptr vorr,
ok vèr skulum
láta hönd þessa
hægri fremja
sterklig stórvirki,
ok í stríði skal
vopnum verða deilt,
hverr vor sè líki.

Þú skalt þá líta,
hvert þessi knè
beygjum biðjandi,
ok bráðt heyrist
auðmjúkt ákall,
eðr agg rómu,
umhverfis hástól
ens Almáttuga.

Berr nú boðskap þann
Bur hans smurða,
ok haf þik hèðan
hröðum fótum,
áðr áfallin
óhamíngja

fær þèr flýanda
farartálma." "
Svo mælti Satan;
en snða varð,
svosem megn niðr
mikilla vatna,
er engla skarar
ótöluligir
lètu samsinníng
sína birta.
Eldligr Seraph
ei at síðr
óskelfdr stóð,
þótt hann einn væri,
ok innilnktr
í óvina hríng
þormóðgr þannig
þá hann mælti:
" "Fordæmdr Andi!
Guði fráhorfinn,
ok yfirgefinn
af öllu góðu!
ályktat ófall
sèr ek yfir þèr,
ok í óhæfu
illra svika
með þèr flæktan finn
flokk þinn allan!
Bæði þín ódygð
ok búit straff
hafa dreift sèr út
sem drepsótt, gegnum
allt þitt undirlið
ógæfusamt;
þarftu eigi þrá
fyri því bera
framarr meir, hvernig
frá þèr varpat
Guðs vors,] Messíæ,
getir oki.
Muntu eigi meirr
mildra laga
af honum virðtr,
því annat ráð
er nú yfir þèr
ásett þegar,
þat er aldrei mun
aptrkallat.
Vægr gullsproti,
sem þú varpar burt,
Jöfrs verðr þèr
at járnkylfu,
til at mýlja með
móðhroka þinn,
ok þrjózku þína
um þvert brjóta.
Vel hefir þú mèr
at vísu ráðit,
en hvorki fyri ráð,
nè hótun þína,
flý ek fljótt þessi
fordæmdu tjöld;
heldr at heitr
hefndar blossi,
er yfirvofir
yðar höfðum,
nær hann skellr á
at skyndíngu,
eigi hrífi mik
í yðar tjón.
Því skamt mun biðar,
at skruggr Guðs
eldi eyðanda
yfir þik steypi;
lær þá með hrygð
ok harmakveini
loks at þekkja þann,
sem þik gjörði,
ok þik aptr fær
at engu gjört!" "
Sú var Abdíels
Seraphs ræða,
er einn fannst dyggr
í ódyggum sæg;
alleinn trúfastr
hjá ótal fölskum,
óbifanligs
ok öruggs hugar,
stóð hann í traustu
stöðuglyndi,

ást ok umvöndun
fyrir æru Guðs.
Engin orknðu
eptirdæmi,
engi múgamergð
mótstríðandi
vegi sannleiks hann
at villa frá,
nè hans rígföstu
ráði breyta,
en þótt einn væri
ok atstoðarlauss.
Miðt gekk hann veg sinn
meðal þeirra
segnum gis ok spott
guðlausra fènda,
fór hann fyrna lángt,
ok fullr af
hárri hugprýði
bar háð þeirra.
Við ekkert ofríki
óttasleginn
galdt hann forakt þeim
við forakti,
ok brá baki við,
er hann burtu fór,
stoltar turnum þeim,
er stóðu dæmdir
undir allskjóta
eyðileggíngu.

---

## Hèr hefr

# Sjöttu bók Paradísar missirs.

GJÖRVALLA grímu
gekk til enda
Engill óskelfdr
án eptirfarar
harðla víðar um
himins foldir,
unz hýran vöktu
í hríng farandi,
rósamundum með,
morgunstundir,
ok lètu lokit upp
ljóss dyrum.
Eitt er op þat
á Alvalds fjalli,
nærst við hástól hans,
þar húm ok ljós
gánga út ok inn
æ til skiptis;
hèr af um heilan
himin gjörist
yndæl umbreytíng
ok ýðuglig,
sem er nærsta lík
nótt ok degi.
Þá er um einn veg
útgengr ljós,
ferr inn um annann
auðsveip gríma,
unz mál er aptr
at húm útgángi,
ok hyli himin
með húmblæju;
má þó myrkrit þar
ok meginnótt
á hauðri hèr
heita rökkr.
Gekk svo á Gimli
gulli skrýddr
aðalbliks morgun
alskíru fram,
en hans á-sendum
anstangeisla
fór nótt flýjandi
fyrir örvum.

Sèr þá Abdíel
alla slèttu
herskörum hulda
harðla björtum,
vögnum ok vopnum
víðt skínandi,
fjörugum fákum
með fögru skrauti;
skaut þat glógeislum
gegn hvat öðru.
Sèr hann rómu nú
ráðna þegar,
ok augljós orðin
öll tíðendi,
þau er hugðist hann
herma mundi
fyrstr allra,
eigi fyrri merkt.
Gaf hann sjálffúss sik
ísveit vina,
en þeir viðtöku
veittu glaðir;
helgrar kæti hljóm
hófu þeir upp,
at af þeim ótal
engla grúa
fyri týnda trygð
sem í tjón fèllu,
ótapaðr einn
aptr kæmi.
Færðu þeir, fullum
meðr fögnuði,
hann fram at háu
helgidóms fjalli
ok standa lètu
fyri stóli Guðs;
en, sem gullglæstu,
gekk útaf skýi
mildimikil raust,
ok mælti svo:
""Þú hefir velgjört,
þjón ens Hæsta!
barizt baráttu
betri, enn hinir,
er þú einnsaman
ótöluligum
meinsæris múga
í móti stóðst,
ok mál síknsaka
sannleiks varðir.
Voru voldugri
vopnum hinna
orð þín ein,
ok almenniliga,
sakir sannleiksins,
svívirðíngu
hefir þolat þú,
sem er þýngra lángt,
enn með makt gjörðar
misþyrmíngar.
Ein var sú önn þín
öllu framarr,
at fyrir augsýn
almáttugs Guðs
studdr sakleysi
standa mættir,
virðtr verðugr
hans velþóknunar,
en þótt veraldir
villt af heimsku
reiknuðu ráð þitt
ok rángsnúit mjök.
Skal því annat sinn
auðsóktari
sigr þèr
með sveitum vina
þessara, þegar
þrjózku dólgum
hinum heldr þú
herför í gegn
með meiri vegsemd,
enn mættir áðr,
er þá yfirgafst
ausinn spotti.
Muntu þvínga þá
þreki maktar,
er undir játast
eigi vildu
vísdóms rèttendi,
sem verðug lög,

nè Messíam
at mildíng hylla,
sá er vissan rètt
fyri verðskuldun
tilberr tignaðr
á trón at ríkja.
Far þú, Michael!
fyriliði
himins herskara!
ok honum nærstr
at hetjumóð
ok hreysti vopna,
Gabríel! farið
ok frestið eigi,
hefið herstjórn
minna heilagra!
Leiðtogið börn mín
út til bardaga,
ósigranlig,
alvepni skrýdd,
færið þau í flokkum
fjölskipuðum
mergðum þúsunda
ok millíóna,
illum upphlaups her
engu færri.
Látið eld ok egg
á þá geysa
óhlífnir atgángs
ok öruggs hugar;
eltið þá himins
at yztu rönd,
Guði flæmda frá
ok fagri sælu,
í þeirra straffs stað,
hit stóra djúp,
heitit helvíti,
sem hruni þeirra
lætr gap gína
glóanda móti.""
Röddin allmáttka
ræddi þannig;
en hit fagra fjall
falst í skýum,
hnykladist reykr
í hnetti dimma,
blossandi börðust
bál á flugi,
vottar vakinnar
vandlætíngar.
Eigi voru minnr
ógrligar
beljanir himins
básúnum af,
fjallshæðum frá
er frambrutust;
því hershreifíngar
háu teikni
gegndu gjörvallir
Gimla skarar;
I flokk ferhyrndan
fylktu þeir sèr,
svo þètta þyrpíng,
at þróttr engi
gat hörðu hrundit
hennar megni,
engi múga mergð
mótstaðit því.
Hún tók hergaungu
með hvers munns þögn,
leidd af guðligum
liðsforíngjum;
en furðu fagr
fyllti hlustir
hljómr himneskum
hljóðfærum af,
ok stælti stoltar móð
til stórvirkja,
Guðs ok Messíæ
fyri málefni.
Fóru þeir svo fastri
fylgdar keðju,
at lið ei mátti
frá lið skilja,
eigi raðar reim
gat raskat neitt;
hverki hindraði
hæð nè dalr,
eigi flóðstraumr
nè fagrlimi.

Gekk grúi sá
fyri grund ofan,
ok trað flugfarar
fetum lopt;
eins ok þá, Adam!
allt kyn fugla,
fram fyri þik
í fyrstu kallat,
yfir Eden svam
í orðu rèttri,
ný af þèr gefin
nöfn sèr at fá.
Svo hèldt herr þessi
yfir hèröð mörg,
lángar landsálfur
ok lýða ríki,
stærri tíufaldt,
enn storðar þessi
allr hnöttr er
yfirferðar.
Loksins litu þeir,
lángt í norðri,
bera sjóndeildar
við baug yzta
eldbelti eitt,
sem enda milli
virðtist vopna skin
víðt útbreiða.
Nú sjá þeir, nokkru
þegar nærr koma,
urmul af spjótum
ótöluligan,
harðt saman hnepptan
hjálma grúa,
reistan skjóma skóg,
skjöldu þètta,
mótaða myndum
af mikillæti.
Sást hèr Satans herr
saman allr,
fóru þeir með flasi
ok flýti mesta,
óðir, uppvægðir
af ófriðar hug,
ok hugðust skyldu,
með hernaði,
Drottins dýrðar fjall
dag þann vinna.
En Ovin hans,
af öfund fullan
ok af drambofsa
djöfulligum
harðsólginn himins
hástól at ná,
sjálfir þá þegar
þángat hefja;
en sú ráðagjörð
ok raung ætlan
mislukkaðist þeim
á miðri leið.
Sèrligt sýndist oss
at sönnu þetta
ok vèr undruðumst
í öndverðu,
at englar ófrið
á engla færðu,
ok at illskipti
þeir ættust við,
er svo samhuga
sín á milli
hátíðligum á
himins dögum
faðmast höfðu fyrr
með fögnuði;
Ok þeir banaspjót
bærust eptir,
sem ást innbyrðis
áðr báru,
svo sem eins arfar
Alvalds mikla,
þeir með lofsaungum
lotníngarfullum
eylífan Föður
höfðu æ tignat.
En strax reisti sik
stríðs hávaði,
ok agg atlögu
með ofsa hvin
öllum fyrifór
friðar þánka,

hvarf burt hugsan mild
úr hvers brjósti.
Upphafinn, sem Guð,
öllum hærra
sat í miðjum her
meginstoltr
Aðalciðrofinn
á alglæstum,
svo sem sól væri,
sínum vagni;
Sem goðbílæti
guðligrar tignar,
eldligir hann
á allar síður
kríngum skipaðir
Cherúbim
gjörðu girðíngu,
ok gullnir skildir.
Nú stökk hann glæstum
niðr af tróni;
hers var á milli
hvorutveggja
alllítit eitt,
en óttaligt bil;
frumröð hvers vegar
frumröð mætti,
ein röð annari
stóð andspænis;
ferlig var fylkíng
ok feikna laung.
Fyrr enn flokkar þeir
fèllu saman,
stórefllis stigum
stoltr Satan
frámgekk fylkíngar
fyri brodd;
sem turn, með týum
af tæru gulli
ok demant, stóð hann
við dimm hildar port.
Stóðst eigi sýn þá
ok stærilæti
Abdíel, einn
meðal ypparstra,
lán hyggjur hans
til hárra dáða;
hann við huga sinn
hræðslulausan
ráðslögun hèldt
ok ræddi þannig:
„„O, hvílík undr
eru þat, himin!
at líkíng slík
við Lávarð hærsta
sè þar enn eptir,
sem æra ok trú
eru gengnar burt
gjörsamliga.
Skyldi þá eigi,
þar er skortir dygð,
afl ok atorku
einnig skorta?
skyldu þeir eigi,
ef þá skeði rètt,
máttar minnstir,
er mest dramba,
en þótt ætli sik
ósigranliga?
Almættis hjálpar
efldr trausti
vil ek afl hans
ok orku freista,
eins sem ek áðr,
eigi lángt síðan,
freistat hefir hans
um hyggendi,
en þau fölsk fundit
ok firna veik.
Er eigi rèttvíst,
at rymmu vopna
vinni sami sá,
er sannleiks stríð
vann fyri skemstu,
svo verða megi
seinni sigr hans,
sem hinn fyrri?
Þat er dælskufullt
ok dárligt stríð,
at rángt vald berist
mót rèttri vizku;

er þar eigi nú;
þar svo ástendr,
rètt vizka verðug
at vinna sigr?""
Svo yfirvóg hann
sagða hluti,
ok úr vopnuðum
vinaskara
gekk fram fullhuga,
fetum röskvum,
móti dælskum Dólg,
er drjúgum nærsta
þrútnaði af þjósti,
er hann þetta sá;
En með heils hugar
hán transti
Abdíel þannig
á hann skorar:
„„hvort ek hitti þik,
enn helzt til Djarfi!
er drógst dul at þèr
dárligs þánka,
at án mótstöðu
mundir geta
haft þik hiklaust upp
á hit helga fjall,
er þú öllum hug
eptir stundar;
Ok at Einvalds trón
óvaktaðann,
ellegar hlið hans,
hlífarlausa
fyrir arms þíns ógn
afli vopna
ok stæltrar túngu,
mundir strax hitta.
Leiddir þú ei þat
þèr í huga,
fávís Fauti!
hversu forgefins
er, at áherja
almáttkan Guð,
sem er megnugr
af minnstu hlutum
at æsta herlið út
ótölnligt,
til at hegna með
heimsku þinni.
Hann, sem án hjalpar,
með handar sinnar,
er nær allstaðar,
einu slagi,
getr, sem gnfu,
gjört at engu
þik, ok með þínum,
þrjózku flokkum,
hvenær helzt sem vill,
heygt í myrkri.
Þó sèr þú eigi
þínum spornm
illfúsum eptir
alla fylgja;
enn eru nokkrir
þeir eptir hèr,
sem heldr kjöru,
himna Drottni
at tjá sik trausta
í trú ok hlýðni.
Öfug-sýnum í
augum þèr
en þótt væru þeir
ósýniligir,
þá er í villtri
veröld þinni
sýndist þèr einn ek
ærr ok villtr.
Sjá hèr mína þú
siðananta,
ok nem nú loksins,
þó nærsta seint,
at þegar villir
þúsund gánga,
kann einn optliga,
eða fáir,
hyggnari hinum
at halda rètt.""
Honum svaraði
Höfuðfjandi,
ok atgant augum
óvirðíngar:

„„Þèr til ógæfu,
þverbrotinn andi!
en á happastund
fyrir hefnd mína,
sem ek fýsnmst fyrst,
ok fyri mik,
ertu af flótta
aptr kominn;
Maklig málagjöld
til at meðtaka,
maktarmerki fyrst
minnar handar,
af þèr áreittrar
með ofdyrfsku
túngu þinnar,
sem er tendruð upp
af þrætusömum
þvermóðs anda.
Er þú þorðir þik
þriðja parti
megtugra guða
móti at setja,
þá er ráðstefnu
röksamligri
saman sátu þeir
sjálfráðir á;
Til at framfylgja
fornum rètti
guðdóms síns
göfugasta,
þess er þeir, meðan
þrek ok orku
ódauðligt
í sèr finna
öðrum tileinkun
almættis síns
aldrei megu,
nè munu, leyfa.
En þú allvel komst
öðrum þínum
fèlögum fyrri
á fund við mik,
yfrit gírugr
æru þeirrar,
at einni fjöðr
megir af mèr ná,
svo at sveit þinni
sýndan fáir
veg, ef þèr vel tekst,
til vors skaða.
En lát mik, fyrifram
svo fáir eigi
stærðan þaraf þik,
at þèr skyldugr
um svör ek sè,
lát mik segja þèr,
at mín ætlan var
í öndverðu,
himin ok frelsi
at himinlyndum
æ mundi vera
eitt ok sama.
En nú finn ek
at flestum yðar
laungum lyndir,
fyri leti skuld,
þýlig þjónusta
þrældóms öndum,
við saung sívönum
ok saltaraspil.
Svo hefir þú nú
saungkór himins,
ok hörpuslagara,
hertýum klædt;
þú hefir þrældóm
partil brynjat,
at hann frelsi stríð
færi á hendr;
þeirra mun einnig
þessi dagr
glöggvan greinarmun
gjörðan láta,
þegar herverkum
hvorutveggju
sín á milli
verðr saman líkt.""
Abdíel, stuttr
í andsvörum,
ok með bista brún,
bar á móti:

„„ætíð ferr þú villt,
ok enn er svo,
þú enn Fráfallni!
ok fram úr villu
getr aldrei þik
greiddan fengit,
síðan sjálfkrafa
frá sannleiks stig
afsaðist eitt sinn
algjörliga.
Þú villt rángliga
með þrældóms nafni
þeim veittri þjónkun,
er þjóna buðu,
Guð ok Náttúran,
niðrun gjöra;
Nú er þat Guðs boð
ok Náttúrunnar,
þegar sá drottnar,
sem þar til hefir
mestan makligleik,
ok at makt er þeim,
hvers hann er herra,
hærri miklu,
ok at verðskuldun
vegsamligri.
Þat er þrældómr,
at þjóna dára,
ok þeim, af drambi
drottni rèttum
móti setr sik,
svo sem þjóna
skarar þínir þèr,
þegi frjálsum,
heldr þín sjálfs þræl
ok þinnar vondsku;
en samt þorir þú
vora þjónustu,
ok oss, illgjörnu
at ausa spotti.
Haf þú herravald
í helvíti!
ríki þitt er þat,
en mik þjóna lát
hèr á himninum
hærstum Guði,
ok gegna boðum hans
guðdómligum,
ok vel verðugum
vorrar hlýðni.
En vænt ei ríkis,
heldr refsingar
ok harðra hlekkja, þèr
í helvíti!
meðtak á meðan
af mèr komnum
aptr flótta frá,
sem fyrst sagðir,
á þinn heiðinn haus
heilsun þessa!" "
Meðan svo mælti,
mæki bjartan
Abdíel örmum
öflgum reiddi
tvíhendtan hátt upp
ok harðla geyst,
en hann í lopti
hèkk eigi lengi;
Heldr, sem hastr
hvirfilbilr,
hrapaði svo harðt
á hjálm Satans,
at hvorki hratt auga,
nè hugarsvif,
enn síðr skjöldr
skyndiliga
fyriborinn,
gat forðat höggi.
Hèr við hrökk Satan
hræðilig fet
tíu til baka,
en við tíunda
svignuðu hnè hans;
ok hnekkti spjót.
Eins ok jarðvindar
inniluktir,
ok stemmdr straumr
stríðra vatna,
ryðja sèr til rásar;
ok rífa burt

fjall, sem fyri varð
svo feikna háum,
sèzt með trjám sínum
sokkit til hálfs.
Fylltust felmtrs
ok forundrunar
eiðrofar allir,
þó ofsa meirr,
er þeir sáu svo
at sinna skara
enn maktar mesti
bar minna hlut.
Fullir fagnaðar
flokkar vorir
sínar upphófu
sigurspáar
raddir rómhvellir,
ok rymmu vopna
fýstust fastliga
fullhugaðir.
Bauð þá Michael
blása skyldi
hvellum herlúðri
höfuðengils;
strax gall hljómr hans
hátíðligr
hverja firnustu
um himins álfu,
ok há hósanna
voru himna Gram
af hans elskendum
öllum súngin.
Eigi voru heldr
yðjulansir
hatendr vorir
hinsvegar at,
meðr vargæði
viðbjóðsligu,
eyrðu þeir engu
fyrir ofstopa,
ok vöktu voliga
með vopnum hríð.
Hófst þar hávaði
hræðiligr,
ofsafullt æði,
ok agg rómu,
áðr aldrei heyrt
í upphæðum;
skjómar ok skildir,
nær skullust á,
öskruðu ófrið
ok ógna deilur.
Frýstu friðleysi
framoltin hjól
koparvagna víðt
um váng himins;
ógnarligt var arg
ok orrustu þrusk,
heyrðust hvínandi
hátt í lopti
örvar glóandi,
sem eldlig ský,
hvolfdust yfir her
hvorutveggja.
Undir þaki því
þustu saman
bardaga flokkar
báða vegu;
ógnarligt var arg
ok eggjan þeirra,
ok æði grimdar
óslökkvanligt.
Gall þá glymjandi
gjörvallr himin,
ok þessi jörð,
ef í þann hefði
tíma tilverit,
titrat hafa
mundi mjök sínum
í miðpúnkti,
við svo harðsókta
hildar óra.
Ok hverr vill undrast
yfir slíku!
þar englar áttust
ótal þúsund
ólmir, óðs hugar,
orrostu við;
af hverjum einhverr
enn orku minnsti

hafði hreysti til
höfuðskepnur
þessar at þvínga,
ok með þeirra sik
öllum allra styrk
at útbrynja.
Ok hvat þá heldr
herlið þessi
tvö, sem ei tóku
tölu neinni,
mundu styrk hafa
stríðs blossa með
fæðíngarstað sinn,
þenna farsæla,
tjón ok óorðu
í at færa,
en þótt ei til fulls
eyðileggja!
Utan eylífr
alda Faðir,
almættis armi
útrèttum með
festíng sinni frá
enni fullsterku,
hefði makt þeirra
markat skorður.
En þótt stríðsöld sú
svo stór væri,
at hverr einn hópr
var, sem herr mikill,
ok hverr einn armr
alvopnaðr
sýndist fjölskipuð
fylkíng vera.
Hèr gengr hverr fram,
sem hertogi,
ok veit, óskipat,
hvat at skal hafast,
fara, eða standa,
fylkíng breyta,
opna, eða lykja
orrostu röð.
Hèr hvarflar engum
í hug flótti,
nè á hæl hopa
fyri harðri sókn;
engi gaf hèr grun
um geig minnsta
með athöfn einni,
sem eigi væri
há ok hreystilig,
ok hetju sæm.
Sèrhverr studdi sik
við sjálfs hreysti,
gjörvöll sigrheill
svo sem væri
at eins örmum hans
undir komin.
Unnust afreksverk
eylífrar frægðar,
en óendanlig
til at útskýra,
því mjök var margbreytt
málma senna,
ok tók undir sik
afarvíðt rúm.
Stundum stríðendr
stóðu á velli;
stundum flugu þeir,
ok flengdu lopt
voskeittum vængjum,
svo sem væri þat
eldlogar einir
í áflogum.
Jöfnum lengi lèk
laufa hríð metum,
uns sjálfr Satan
Seraphima
rugladar raðir
ruddist gegnum;
sýndi hann þeim
svo sókn á degi,
ok afl ofboðsligt
at engan fann
jafnan sèr
á járna þíngi.
Sá hann um síðir,
eptir sókn harða,
hversu Michaels
mistilteini

harðla stórhöggum
heilar raðir
fylkínga sinna
fyri hnigu;
Hafinn hátt í lopt
höndinn báðum
fleygðist hann niðr
svo feikna geyst,
at öld óvina
fèll undvörpum;
En til tálmunar
tjóni slíku
varpaði Satan
í vetfángi
flatri fjallskífu
at fótum hans,
þat var tíubyrgð
tjarga af demant,
ómælanligrar
ummáls breiddar.
Hætti þá höggum
höfuðengill,
ok fylltist fagri von
með fögnuði,
at aleyðandi
innbyrðis stríð
mundi hratt hèr við
á himni lykta,
er hann öblugan
Erkifjanda
fengi feldan,
eða fjötraðan.
Ohýrr í augum
ok yfirbragði
mælir hann móðs orð
við Megindólg:
«„heyr þú, Frumkvöðull
ok Faðir ílls!
þess, er æ ókennt
var í upphæðum
fyri fráfall þitt,
en fullþekkt nú.
Hve þat orðit er
ávaxtarsamt,
sèr þú sjálfr vel
af sárleiðri
ófriðar athöfn,
sem allir sjá,
en mun, sem mest ferr
at makligleikum,
verða þèr þýngstr,
ok þinni sveit.
Hversu hefir þú,
harðr þrjótr!
farsælum himins
friði raskat,
ok með nauðum nídt
náttúrnna,
ósköptum, áðr
enn upphlaup hófst!
Hversu hefir þú
harðla skæðri
eitrat þúsundir
illsku þinni,
tállausa trú
þær er tjáðu fyrr,
en nú af falsi
fullar eru!
Eigi þenkja þó
þarfyri skalt,
at vor æ muni
uppfrá þessu
rösknð heilög ró
af ráðum þínum;
útaf öllum þik
endimörkum
sínum hárr himin
hrakinn lætr.
Eigi sælunnar
aðalsetr
ofríki þvílíkt
ok orrostuverk,
kíf ok kappdeilur,
kann at líða;
haf þik hèðan
ok hitt, sem fæddir,
alkvæmi þitt
hit illa, með,
ok þinn gjörvallr
guðlauss skari

til alls ens illa
aðalbygðar,
í afgrunn vítis,
öll saman burt!
Brugga þar upphlaup,
áðr bitr minn
falr færir þik
í fordæmíngu,
eðr önnur
fra enum Eylífa
harðvængjuð hefnd
ok hastarligri,
mjök margfaldaðri
meðr pínu,
steypir þèr strax
í hit stóra djúp!" "
Svo kvað öflugr
engla fursti,
en hans andspyrnir
gaf aptr svar:
„.„hugsa hvergi þú,
at hræða munir
þann með stóryrðum
ok stærilæti,
nè með heitíngum
hègómligum,
er þú aldregi
meðr orku raun
hefir getat geig
gjört í brjósti.
Hefir þú nokkrn
neydt til flótta
máttar minnstan
af mínu liði?
eðr, ef feldir, var
eigi sá
óðar uppstaðinn
ósigranligr?
Hvernig hyggr þú,
at hægra verk
muni mund þinni
mik at sigra,
eintómri skipun,
eðr orðum með
harðra heitínga,
hèðan reka?
Villist þánki þinn,
er þú meinar,
at ens illa stríð,
er þú nefnir,
hjá oss hvervetna
kallat heiðrsstríð,
muni sætta sik
við svo búit.
Vèr egum vissa
von um sigr,
annars ætlum vèr
at umhverfa
heilögum himni
í helvíti þat,
er þú skapar þèr
með skröksögum.
Munu vèr þá mega,
at minnsta kosti,
búa frjálsir hèr
ok fullveðja,
ef jafuvel ekki
öllu stjórna.
En heimt nú saman,
hvat sem er til
í þèr af orku,
ok tak Almættit,
þat svo þið kallið,
þèr til hjálpar!
hvergi flý ek fet,
því fjærr ok nærr
hefir ek þín leitat
með lángsemi!" "
Báðir þögnuðu,
ok bjuggust til
at heyja harða
hjörva deilu
ósegjanligri
meðr áfergju,
því hvert orðfæri,
þótt engla sè,
getr fulla grein
gjört á slíku?
Hverr kann með myndum,
þeim er maðr sèr,

ok sem hugr hans
höndlat getr,
á slíkt reginrið
at reisa sik
þessa guðdómligs
geysikraptar?
Því þannig sýndust
þessir báðir
guðum glíkastir,
þá er gengu þeir,
eða stóðu,
fyri styrks sakir,
vaxtar ok viðmóts,
ok vopnaburðar
skaptir til at skilja
skjóma þrætu
um himins æðstu
yfirdrottnun.
Nú skutu skini,
ok skelfiliga
sveifluðust beggja
sverð í lopti;
skærir sendust á
skildir geisla,
sem breiðar sólir,
á sinn veg hvor,
en Eptirvænting
óttaslegin
stóð á meðan,
ok sem steinn þagði.
Brugðust til baka
á báðar síður
áðr alþèttir
engla skarar
rómu rann þeirra
til at rýma völl;
óhætt ella sèr
eigi meintu
allnærri slíkum
æðigángi.
Því eins ógnarlig
voru umbrot þar,
at ek stórt stiki
með stíl smáum,
sem ef aleðlis
eining brysti,
ok stykki stjörnur
til stríðs saman;
Omildum tvær
ef frá tilsýndar-
púnkti hleyptu sèr
plánetur fram
gegnt hvor annari,
grimmiligar,
ok mættust miklum gný
á miðjum himni.
Kappar sagðir svo
sína uppreiddu
bitra branda
báðir í senn,
örmum hátt höfnum,
ok at hreysti nærst
eptir arms styrk
ens Almáttuga,
til svo höfugs höggs,
at hefði vorðit
endað orrosta
ok óþörf fleiri.
Afls ok skjótleiks
sá hèr engi mun,
en mækir Michaels
mundi tekinn
af vopnahúsi
Vísirs eylífa
með herzlu himneskri
hvatbeittr svo,
at hvorki harðt neitt,
eðr hvasseggjat,
mátti höggi hans
hót viðstanda.
Steyptist stál niðr
stefnu beinni
ok hitti höggstað
á hjör Satans;
tögg þat hann í tvennt,
en tafarlaust
æddi í öðrum rykk
á hann sjálfan,
ok hjó holund
á hægri síðu.

Fann nú Fjandinn kvöl
it fyrsta sinn
svo af vigrspors
verkjum sárum,
sundr ok saman
sik hann eingði,
svo varð honum skjóminn
skeinuhættr.

Þó var eigi andlig
uppheims vera
af sögðu sári
sundruð lengi,
heldr at heilu
sik hratt lukti,
samt vall úr voben
vessa straumr;

Nektari líkr
nokkrskonar,
blóðblandinn, þannig
sem blæða kann
himneskum öndum,
hildar skrúða
makaði Satans,
svo minnr skein.

Oðum flykktust at
alla vegu
honum til hjálpar
hraustir englar,
ok til at verja
Oddvita sinn
slógu hríng um hann
harðla margir.

Aðrir hófu hann
úr háska þeim,
ok bak við fylkíng
báru á skjöldum,
þar, sem vagn hans var,
ok veittu honum
þar niðrlögðum
næðis veru.

En hann öskraði
af ógnar pínu,
ok gnísti tönnum,
fyrir grimdar skuld
ok sárt svellandi
svívirðíngar,
er hann sínum sá
af sigrbrygðum,
at hann eigi var
öllum meirri.

Sá hann með snöggvu
sneipu falli
drambs þánkadóm sinn
svo djúpt lægðan,
at hann einn væri
Alföður jafn,
ok sik eptir því
auðvirðari.

Þó varð hann hratt heill
heilsu sinnar,
af því óblandin
anda vera
getr eigi,
nema gjöreyðist,
ok verði at engu,
útaf dáit.

Þareð eru þeir
með þrótt gæddir,
sem lifir æ
í limum öllum,
en, sem menn, ekki
eðlisveikir
inníblum í
at eins ok hjarta,
hölði, nýrum
ok heitri lifr.

Fær ok bannvæn ben
bifligan þeirra
ok léttan lima
liðugra vef
eigi meirr undir
áverka lagt,
enn hit lausa lopt,
sem ljúft rennr.

Þvíat þeir lifa,
þannveg skaptir,
heilir hjarta,
höfuð allir,
heilir heyrnar-tól,
heilir auga,

heilir skilníngr
ok skilníngarvit.
Þarmeð geta þeir,
þá er líkar,
lit ok limu
ok lögun myndar,
þykkva eða þunna,
sem þènar bezt,
eptir egin vild
á sik tekit.
Eins voru ágæt
til eptirmynnis
unnin afreksverk
annarstaðar,
þar er Gabríel
gegnum þrengjandi
fánu með ok makt
inní Mólochs her
rammþèttan ruddist,
ræsis grimma.
Sá með fáryrðum
forsmánarligum,
hótaði festan
hann at draga
við vagnhjól sín
um váng himins;
einníg Alföður
ósæmdan lèt
heitum háðsyrðum
hrakmálug túnga.
En hjörr hefnandi
hastarliga
klauf hann miðjan
í mjaðmir niðr;
strauk hann ýlfrandi
strax á flótta
óvenjuligri
fyrir eymstra kvöl,
lágu víðs vegar
vopn hans snörut.
Ruddust Uríel
ok Raphael um
fast ok fimliga
í fylkíng hverri,
dreissuga dólga
djúpt særandi,
andstygðar árann
Adramelech,
ok Asmódeum
engu betri,
svo vond viðundr,
sem voru þeir,
ok hörðum demant
hertýaðir.
Þótti tèðum tveim
tignarfurstum
lítilmótligt
at lúta Guði,
þeim, er þeir eigi
þóttust neinu
miðr metandi,
nè möttu sik.
En þeir lærðu loks
lægri þánka
nú í nálægri
nadda sennu,
þá er brjósthlífum
ok brynjum með
sundrsöxuðum
sárir flýðu.
Eins var óvægin
Abdíels sókn
á grimman grúa
guðníðinga;
sigrsælum hans
fyri sverðs eggjum
hnigu Aríel ok Ariok;
einnig Ramíel,
íllsingar dólg,
lèt hann logandi
lauft feldan.
Margir mættu
meðal þúsunda,
aðrir uppteljast,
ok eilíf nöfn
þeirra gjörast
á þessi foldu;
en þeir algjörvir
andar himins
ánægðir una

við orðstýr hans,
ok sèr lítt leita
lofs hjá mönnum.
Hinir at hæð
ok hreystiverkum
engum mun minni
en þó miklu verr
á góðs lundlægnir
lofstýrs gengi,
með því nú eru
nafna tölu
hinna heilögu
himinbýa
útiluktir af
at eylífu,
mega meltast
í myrkri gleymsku.
Afl ok atgjörfi
þegar í missa
rèttvísi ok sannleiks,
þó at rembist við
at hreppa hrós
með hroðaverkum,
verðug eru forakts
ok vanheiðrs.
Því skulu þessir,
þeim til smánar
ok fast skorðaðrar
fordæmíngar,
niflheims níðíngar
eigi nefnast meirr.
Nú voru at velli
voldugustu
af her helvítskum
hetjur lagðar;
kom þá bilbugr
á bardaga lið;
óðvill umturnan
ok óregla
illúrlig álits
innþreyngdu sèr
í rómu raðir,
sem runnu á flótta.
Sáust víðs vegar
vellir þaktir
hverskyns hertýum
högguum í smátt,
vagnar molbrotnir,
verðir þeirra,
ok fákar freiðandi,
fölum stúngnir;
allt, hvat á annat
ofan kastat,
hrúgaðist hrönnum,
eins ok hráviði.
Aðrir, sem enn nú
uppi stóðu,
hörfuðu hraktir
gegnum her Satans,
varla vopnfæran
at verja sik,
sem nú felmtsfullr
fyrsta sinni,
þarmeð þjakaðr
af þúngri þínu,
rammsneiptr rann
á ragan flótta.
Svo illan ávöxt
óhlýðni sinnar
báru bófar þeir
úr býtum fyrst,
er af ótta fyrr
ekkert vissu,
aldrei skynjuðu
skammar flótta,
ok engra eymstra
höfðu áðr kent.
Allt var annann veg
efnum varit
hers ens heilaga
ok háttalagi;
sá í sexstrendu
sína leið fór
fastrar fylkíngar
formi beina,
ósæranligr,
með alvepni,
þat engar eggjar
máttu ávinna.
Gaf þeim heilshugar

hlýðni þeirra
yfirburði þá,
framarr óvinum,
stöðugt stóðust þeir
við styrjar dyn,
óbugaðir, ok án kvíða,
at meiðast mundu
mækja sporum,
en þótt stöðu stað
fyri styrk rýmdu.
Nú fèll ósorg á,
útbreiðandi
húm yfir himin;
en hildar snerra
ofsafull aflèt
fyrir æsktri ró;
sóktu sigrendr
ok sigraðir
hvíld í hlèskugga
hvorutveggju.
En á vígvelli
viðlendum sló
sjálfr Michael,
ok sigrenglar
honum fylgjandi,
herbúðum sínum,
ok sik umhverfis
allan girðti
her með hálóga,
sem hríngr var
af kríng skipuðum
Cherúbinum.
Djúpt hvarf í dimmu
dólgr, Satan,
með heilan her
sinna heitrofa;
órórr æstar hann,
meðan allt var hljóðt,
á stríðs ráðstefnu
stórfursta sína.
Síðan, at sæg þeim
samankomnum,
gekk hann geiglauss fram
með geystum hug,
ok þuldi þannig
fyri þíngheimi.
„„O, þèr, fast fylgnir
föruna utar!
í voða viðlögum
nú vel reyndir!
þèr, sem svo eruð
saunfærðir um,
at einkis ofbeldi
nè afl vopna
undirþvínga kann
yðar hreysti!
þèr, fræknar hetjur
ok fullmakligar
eigi frelsis eins,
(þat er oflítit,
of auðvirðiligt
yðar kröfu)
nei, allrar æru
yfirdrottnunar,
alls ágætis
ok orðstýrs þess,
sem vèr stríðandi
stundum eptir!
Yðr hafið þèr
um einn dag nú,
hví ekki eins þá
eylífa daga?
tvísýnu tafli
týrshríðar í,
meðr hetjumóð
móti setta
hermakt himna Grams
svo harðsóktri;
þá, er hefir hann
harðla skeknu
sæti sínu frá
sendt oss móti,
ok honum treyst til,
sem hann trúir víst,
at beygja brjóst vor
til hljúgrar hlýðni.
En at villu varð
von sú honum,
ok, þat sýnist svo,
hann sjálfr er

ei at fullu frjáls
fyri villu
í áðrvitund
ókomins hvers,
en þótt alvitr
æ til þessa
hafi himnum á
haldinn verit.
Satt er þat,
at sveit vor þessi
minnr vopnuð,
enn mótstríðendr,
hefir höllun mætt
heldr enn ekki,
ok nú eymstra kennt,
en aldrei fyrr.
En vèr lærðum fljótt,
eymstr þessi
at virða vettugi,
því vottar raun,
at vor, eginlig
aðalbliki
at ætt ok eðli,
undirstaða
ólífis undum
aldrei særist.
Eðr, en þótt sè
undum lostin,
græðir hún sjálf sik
af sínum krapti
eginligs eðlis;
svo er óhapp þat
lítilsverðt ok lètt,
sem liðit höfum.
Máske eins auðveldt
sè, at uppgötva
meðal móti því;
ok mætti ske,
at með sterkara
stríðsbúnaði
ok vænni vopnum
verði meiri,
þá er eigumst við
í annat sinn,
vinníngr vorr,
ok vansemd hinna;
Með því svo jafnast
at minnsta kosti,
þat oss ójafna
hefir áðr gjört;
en eptir eðli
eiginligu
er þeim ekki meirr,
enn oss lagit.
En ef þeir urðu
fyrir aðra sök,
enn nú af vitum,
yfirsterkari,
þá mun þat
á þessum fundi
af oss, ókrenktum
at andar styrk
ok skírum skilníngi,
með skoðun djúpri
ok föstu fylgi
fundit verða.""
Hann settist niðr,
en hóf sig upp
Nisrokk næst honum
í nefndu ráði,
fyrstr af furstum,
ok frammi stóð,
sem einn frá flúinn
fleina rymmu,
at eins ódauðr
ok örmagna,
ok með hverja hlíf
höggna sundr,
sortafullum svip
svarar þannig:
„„Frá nú tilnefndum
nýum Drottni
þú, sem oss frelsar,
ok færir til
vors forna rèttar
frjálsra nota,
þann vèr æ egum
eins ok guðir,
Slíkt er eigi greiðgjört
þat er guðum þúngt,

oferfiðt stríð
ok ójafnt nærsta,
misjöfnum vopnum
með at berjast,
ok með meiðsla kvöl
ímóti þeim,
sem engi sjálfir
finna sárendi;
má víst makliga
af meini slíku
eyðilegging vor
algjör spretta.
Hvar til hjálpar oss
hraustleikr vorr,
ósigranligr
en þótt væri,
nær af neyð ok kvöl
niðrþrykkist,
er sigrar sèrhvat,
ok með sárendum
megni sviptir mund
ens Mektugasta?
Máske, þótt mistum
munaðar vors,
ánægðir lifðum
án umkvörtunar;
laungum róligast
er lifit svo,
en vesöld verst
er verkja pína,
algjörð ólukka,
ok engi slík,
því hún þolhörku
þá ena stærstu,
ef ofhátt geysar,
yfirstígr.
Virðíngar verðr,
sem vor leysir,
er því af oss sá
allt eins stórrar,
er svo öflug fær
uppfundit vopn,
at með þeim megum
meiri skaða
vorum vinna
viðstríðendum;
þeir, er öll enn
hafa umflúit
meiðsla mein
af mækjum vorum;
eða makt megi,
at minnsta kosti,
stríðsher vorn
styrkja jafnri,
oss til varnar við
vopnum þeirra.""
Satan svaraði
með svip kyrrum:
„„þetta, sem þannig
þú með rètti
heldr svo höfugt
fyrir heill vora,
er nú uppfundit
af mèr þegar.
Hverr er sá, af oss,
sem með athygli
lítr litskæra
lóð á himni,
þenna víða váng
veldis efsta,
er vèr á stöndum,
ylmsætum mjök
plöntum prýddan með,
pentaðan blómstrum,
ítrum alþakinn
með ávöxtum,
glóanda af gulli
ok af gimsteinum?
Hverr svo lausliga
lítr þetta,
at eigi viti,
hvert efni sè,
undir yfirhúð,
augum fólgit,
ok enn óprófat,
sem allar slíks?
At óljóst frumfræ
fullt af skúmi,
eld ok anda
sem í sèr hefir,

snortit himinljóss
hýrgeislum af,
ok af sömu seyðt,
sik fær opnat
lifganda ljósi,
ok leidt fram slíkt?
Þetta frumfræ
skulu framreiða
oss djúp dulfylsni,
enum dimma þess
frá stað fæðíngar,
fullt af eldi
þeim, er elr jörð
sèr undir húð.
Hvert, nær í holar,
harðla lángar,
pípur sívalar
pressat höfum,
ok eldi snortit
eitt ígegnum
lítit loptgat,
mun leita fram,
ok sik útbreiða
með ofsa hlaupi;
Mun þat lánga leið
um lopt senda,
með skruggu skruðníngi
skelfiligum,
vorum óvinum
þat veizlu boð
illrar ólukku,
sem allt knosar,
öllu umbiltir
oss gagnstæðu.
Æðrast munu þeir
ok af ógn titra,
þar um helzt hræddir,
at höfum vèr
sjálfan Þrumandann
sinum mikla,
felmtr færanda,
flegi rændan.
Skalat starfi sá
standa lengi,
uppfyld skal ósk vor
áðr enn dagar;
fullir at nýu
fjörs ok vonar
rekið ræðslu burt!
ráð ok styrkr
ef á eitt leggjast,
er aldrei neitt
oftorveldt eðr
örvæntanda." "
Hann hætti tali;
en hinum öllum
lifnaði móðr
ok látin von;
allir undruðust
yfirmáta
fundit fremdar ráð,
sem furðanliga
leizt öllum auðveldt,
uppgötvat nú,
en ómöguligt
áðr flestum.
Samt máske síðarr,
ef siðaspillíng
ok örg illmennska
yfirhönd fá,
at nái nokkr
niðja þinna,
alinn óheillum,
til ílls laginn,
eptir duldrætti
djöfulligum,
ótól, eins ok hitt,
at uppfinna.
Mun þat mönnum ske
til meins ok stralls
fyri syndar sök,
er þeir sinn hnegja
hug til hernaðar
ok heiptar morða.
Skunduðu skarar
skjótt af þíngi
talarlaust at
tèðum starfa;
ei voru úrtölur,
nè undanskot,

óðt voru á lopti
ótal hendr.
Umrótuðu þeir
á augabragði
himins jarðvegi,
harðla víðt rúm,
ok djúpt þar undir
fengu uppgötvat
nokkrt frumefni
náttúrunnar,
en í getnaði
ótilreiðt hjóm',
burt af saltpètri
ok brennusteini.
Lipri lètu þeir
með list blandat
tèðum tegundum
tveimr saman,
þat síðan soðit,
ok sýat hreint,
var at kolsvörfum
kornum orðit,
sem þeir steyptu strax
í stórdýngjur.
Aðrir þar æðum
eptirgrófu,
mjök svo djúpt,
málms ok steina
(þvílíka þarma
berr ok þessi jörð)
þaraf táltól sín
til at steypa,
böls sendiboða,
bissur ok högl.
En þá var öðrum
annt at semja
pípur at lögun,
sem pálmastikur,
er, at eins snertar
at eldneista,
blossa úr sèr bana
ok bráðu tjóni.
Allt var þat unnit
undir skýlu
dymmrar ósorgar,
áðr dagr rann;
allt fór yfrit hljóðt,
utan njósnar;
var ok þannig því
með þöglum vara
forsjálliga
fyrikomit.
Varla vottaðist
á veldi Gimla
mild morgunbrún,
þá enn mikli herr
vakinn sýndi sik
sigrengla,
æstar árdags horn
öld til vopna.
Sást þar standa strax
stríðsherr búinn
harðla björtum
hildar skrúða,
blikandi brynjum,
bifelds skjöldum,
fastar skipaðr
í fylkíngar.
Nokkrir sproguðu
nærsta víða
fjallatindum frá
við frumskin dags,
var líka af liði
lèttvopnuðu
átt hver skjótt skunduð
ok skygnst eptir
fèndum í fjarska,
hvar fyribærust;
Hvar þeir hefðu sèr,
hildar órum
þegar frá flúðu,
fylsnis leitat;
hvort aptr kæmu
með ófriðar hug,
eða kúrðu þeir
í kyrrsátri.
Skjótt sáust skæðir
skarar þeirra,
en í atsígi,
ok ekki fljótt,

fljúgandi fánum,
ok fylkíng luktri,
sjá þá njósnendr
í nánd komna.

Snèri Zóphíel,
einhverr snarastr
af kappa flokkum
Chèrúbima,
aptr óðfluga,
ok æpti svo,
harðla hvellt,
hátt í lopti:

„„Takið vopn yðar,
vaskar hetjur!
vopnið yðr vel
í vetfángi;
mjök svo er við mund
mótpartr vorr,
þann á fyrnendi
flúinn hugðum.

Vill hann víst í dag
við því sporna,
at vèr aptr nú
skulum elta sik,
er ok óhræddr,
at ekki flýi;
þat er sem þykkt ský,
þar hann kemr;
sèr ek í svip hans
sinnis hörku
ok ásetníng
einskorðaðan.

Hverr einn sjái sik
sinni spenntan
sem duganligast
demants brynju!
hverr bindi hjálm sinn
at höfði fast!
haldi hverr sem hraustast
hörðum skildi,
brjósti til bjargar,
eða brúna sal!

Því þessi dagr,
ef ek þenki rètt,
mun ei mildri skúr,
nè meðalhrolli
yfir oss ausa,
heldr illviðri
storms ok stórhagla
af stæltum pílum,
ok fjölfiðruðum
með fáreldi.""

Slíka viðvörun
hann veitti þeim;
skipuð var fylkíng
í skjótu svifi,
ekkert aptraði;
án órósemi
var týrsèls teikni
tekit móti,
luktu fylkíngar
sik framanverðt.

Eigi allfjærri
sáust óvinir,
þokuðust þeir at
þúngum fetum,
ófrínlig öld
á at líta.

Fengu þeir fram
í ferhyrníngi
holum ok höfðum
heimugliga
dregit dráptól sín
djöfulligu;
skygðu þar á raðir
ríðanda liðs,
til at hylja hrekk,
í hríng settar.

Hèr stöðvast herinn
hvorutveggi;
en Satan sinna
stóð í sviptíngu
fylkínga framan
fyri broddi,
ok hóf hárri rödd
herboð slíkt:

„„Far, opin fylkíng,
framanverð þú!
til hægri, vinstri,
at hverr einn sjái
hatenda vorra,

hversu gjarnan
fýsumst vèr spektar
ok friðarmála;
Ok hve vèr erum
með opnum brjóstum
tilbúnir þeim
at taka móti,
svo framt þessa þeir
þekkjast opnun,
ok ef þeir eigi,
sem ek óttumst þó,
venda með vèlum
við oss baki.
Ver, himin! vitni,
himin! vitna þú,
at þeim vora vèr
vafalausa
friðar skilmála
fáum opna.
Þèr, settir þeirrar
til þjónustu!
gjörið þat, er yðr
var umboðit,
áhrærið atriði,
sem allra styttst;
meiníngar vorrar
merkiligustu,
en þó svo upp hátt,
at allir heyri!" "
Svo fèkk Satan oss
með sínu spjáð
tvíræðu tali;
en sèr tafarlaust,
meðan varla var
vörum lokat,
hliðruðu hjá
til hægra ok vinstra
fylkíngararms
þeir fremstir voru.
Nokkut nýstárligt
nú vèr sáum,
kynligt þókti þat,
þrísetta röð
hárra pilára,
sem hjól báru,
ei var annann veg
á at líta.
Hèr var helzt því líkt
ok holum stofnum
undan eykitrjám
eða greni,
sem allir ángar
eru afhöggnir,
feldum á fjalli
eða fögrum skóg.
Nema hvat hèr var
holr kopar,
járn, eða steinn,
úr jörðu neðan,
ok gin geigvænligt
gegn oss þandi
svipljótan svelg,
er sviksamliga
götóttum griðum
gjörði heita.
Stóð Seraph einn
bak við stólpa hvern,
ok hèldt í hendi
hýrkveiktum teini,
en sem vèr einnig
umþenkjandi
stóðum stundarkorn
ok störðum á,
rèttu þeir reyr sinn
at rauf smárri
með eld á oddi
allir í senn.
Allr himin
á augabragði
stóð í stórbáli
ok stækum reyk,
sem gaus grandtóla
úr ginsvelg djúpum,
með þeim skrugguskell,
at skarst í sundr
allt þat, sem inust var
í andfari.
I því at útspjóst,
þat er uppsvolgit
djöfulligt hafði

dráps-gin þeirra,
þètt saman þrykktir
þrumu fleygar,
fylgdi þeim haglhríð
af hörðu járni;
Sem svo sterkt streymdi
á stríðsher vorn,
at sá alls engi,
sem áskall þruma,
en þótt fótfastr
sem fjall væri,
gat staðit rèttr
við því rammefli.
Heldr þeyttust þar
þúsundum saman
kappar, ok keirðust
um koll niðr;
hèr ultu hverir
höfuðenglar,
ok enir lægri,
fyrir afli því,
þúsund ok þúsund
um þveran annann.
Ok þat því heldr,
at þessir svo
vopnum ok verjum
voru þýngdir,
þar er þeir ella
hefði þvílíkum
hrakníngum hjásneidt
hægligana,
andar lèttfærir
utan vopna,
með því sjálfa sik
at samandraga
ok sèr umsveifla
á augabragði.
En nú umturnan
óstillanlig
ok kúguð kollvarpan
kom á eptir,
varð ok vettugi
voru liði,
þó raðir rýmdust,
til ráðs bóta.

Hvat var atgjörða,
þó hefðum vèr
áræðst atlögu
öðru sinni?
máttum vèr óttast,
at mundum verða
hálfu harðari
fyrir háðúng nú,
af nýum nauðum
niðrslegnir,
tvöfaldt meira tjóns
meðr tilstofnun
illum óvinum
til athlátrs.
Með því enn önnur
andspænis stóð
röð af Seraphim,
reiðubúin
at skjóta af skruggum
yfir skara vorn
annat sinn
ofsa hlaupi.
Hvert átti herr vorr
at halda á flótta?
verri viðrstygð
hann virðti þat.
Þegar Satan svo
sá oss þreyngda,
vindr hann sèr við
til vina sinna,
ok spyrr spottfullr
með spèglotti:
„„Fyrir hví forðast,
ó, þèr fèlagar!
stoltir sigrendr
at stíga nærr,
þeir er þó fyrri
svo þormóðugir,
nærri nösum oss
náðu gánga?
Er vèr öndverðum
ásjónum með,
hve vèr máttum meirr?
þeim til móttöku
stóðum staðbúnir,

at stórvægustu
sáttasamnings vors
sendum boðum.
Sèst þeim snöggliga
snúinn hugr,
er þeir óðum nú
undan flýja
ok fara fásèðum
fótaburði,
stökkvandi stórum,
sem stígi danz;
þó sýnast þessi
þeirra læti
helzt til drussalig
fyri dansendr.
Kannske taki köst
af kæti þeir,
vegna friðarboðs
frá sèr mundir;
þó ef vèr aptr
ítrekuðum
sömu sáttarboð
ok sendum fyrr,
mundum vèr máske
um mál vor skjótarr
ályktunar orð
af þeim kúga.""
Spottsvar spètoga
spann af sama
illr Belíal,
ok innti svo:
„„harðt var ok höfugt,
ó, Hersforíngi!
sáttmálans inntak,
er vèr sendum þeim,
ok, sem vèr sjáum,
sínum hefir
kostum komit fram
kröptuliga.
Hnykkti þeim svo við,
at hnant margr;
sá rèttum rökum
vill þat ráðit fá,
allr skaptr skal
af skilníngi
frá efsta toppi
á tær niðr;
En ef skyn skortir,
til at skilja rètt,
er þat áfengt nóg,
oss at sýna,
hvort óvininnir
gánga upprèttir.""
Þannig gjörðu þeir
með þúngu spotti
káta sjálfa sik
sín á milli;
ok þóktust þegar
í þánka stoltum
vera vissir um,
at vinna sigr.
Treystu þeir til þess
*tálarsmíði*,
at þá gæti gjört
Guði jafna;
skimp eitt skáru þeir
at skruggum hans,
ok hlón at her hans
enum heilaga,
stöddum stund
í stríðum vanda.
Þó stóð þat eigi
þannig lengi,
heldr hömuðust
helgir englar,
hvattir grimmis hugar
hvössum broddum,
ok fundu verkfæri,
fullhæfilig
morðskeytum himna
til at mega við.
Hygg at, hvílíkum
hefir gædda
Guð, o, þú Adam!
engla sína
yfirburða styrk
ok atgjörvi.
Vörpuðu þeir vopnum
í vetfángi,
ok svo sem eldíng

óðir þutu
til fjallanna,
þvíat fold þessi
hefir eptir himni
bæði hæð ok dal,
til yndisligrar
umbreytíngar.
Þángat flugu þeir,
ok þegar sèr
ruddu til rúms
um rætr fjalla,
rifu þau öll upp
með undirstöðum,
ok með öllu því,
sem á þeim var,
hömrum, fljótum,
ok háum skógum,
ok hófu hátt í lopt
með handafli
á hvirfiltoppum,
sem þeir hèldu í.
Skelkr ok skelfíng
skyndiliga
yfir dólga datt
drottinnsvika,
er þeir sáu svo
sèr ámóti
ok í koll koma
kynjastór fjöll,
at undirstöðum
upphorfandi;
Er þeir sáu svo
sokknar í grunn
undir þúnga þeim
þrennar raðir
hinna helvítsku
hrekkjatóla,
ok þar ásamt
sína alla von.
Urðu þeir ok sjálfir
fyrir áföllum,
hraut margt eitt hábjarg
í höfuð þeim;
drjúgt dymdi í lopti,
dyngjur fjalla
heilum herflokkum
hèldu í fargi.
Ærit ájuku
eymstra kvöl þeirra
hörð herklæði,
því harðla sárt
læstust þau lömut
inní liðamót;
hèr af þoldu þeir
þúnga pínu,
bárust illa af,
ok emjuðu.
Meiddir máttu þeir
mjök svo lengi
brjótast um ok brölta
undir bjarga þýngd,
fyrr enn fengi þeir
úr fángelsi
slíku með slisum
sloppit lausir;
Allt at einu
þótt andar væru
tærasta ljósi
tilbúnir af,
þat er í fyrstu
þannig mundi,
en af synd síðan
sora meingat.
Hinir aðrir,
af her Satans,
sama bísnaráð
til bragðs tóku,
ok rifu reginfjöll
frá rótum upp,
harðla hamstola,
þau er hjá stóðu.
Slóust í lopti
slaungur stórar,
bjarg við bjarg,
á blöskranda flugi,
skilmuðust skarar
í skugga niðri
fleygðra fjalla
fram ok aptr;
helvítligt var hark

ok hærra skrugguin.
I hjá ósköpum,
sem þar ágengu,
væri vopnahríð
voðamesta
sem látalæti,
eða leikspil eitt,
hrúgaðist þar hrun
á hrun ofan.
Nú hefði himin
hrapat í grunn,
með aur ok ösku
yfirstreymdr,
utan almáttkr
alda Faðir
hefði frá hástól
enum helgasta,
ok frá óhultri
atsetrsborg,
þar hann afdrif sèr
allra hluta,
grimmum grandofsa
í gegn litit;
Ok veitt vísliga,
at hann viðgengist,
fyrirætlun hærri
til framkvæmdar,
heiðrs ok hefndar,
fyrir hans Smurða,
yfir illgjörnum
óvinum hans,
svo angljóst yrði,
at Arfa sínum
vald allra hluta
væri gefit.
Til hans, við hægri
hærstum Föður
síðu sitjanda
á sjálfs hans stóli,
sèr hann venda vann,
ok við hann mælti:
„„O, þú Arfi minn,
ástkærasti!
mynd ok meginskin
af minni dýrð!
þú, í hvers ásýnd,
ósýniligt
gjörist sýniligt,
guðdómligri!
Þú, sem sýnir allt,
þat ek sjálfr er
eptir gjörvöllum
guðdóms rètti!
fyrir hvern sèrhvat
framkvæmt verðr,
þat sem áðr ek
hefir ályktat!
annat Almætti,
þó eitt með mèr!
Tveir eru himins
at tölu dagar
síðan liðnir,
at sitt útdróg
herlið Michael,
hinum móti
dólgum þverbrotnum,
til at dempa þá.
Hörð mundi hríð sú,
ok hlaut at vera,
er tveir óvinir
svo öflugir
börðust saman,
því ek báða lèt
fara sínu fram
í frjálsræði.
Þú veizt ek þá skóp
at þrótt jafna,
en síðan hefir
þeim, er syndguðu,
minkat máttr,
þó merkist eigi,
því ek dreg dvöl á
at dæma þá;
þessvegna þrotlaus
þeirra milli
vopna viðreign
vera hlyti.
Stríð hefir gjört þat,
er stríð mátti:
framhleypt frekustu

fárheipt lausri,
ok fárheipt fengit
fjöll til vopna;
fjöll hafa himin
hroðit því nær,
allt var atkomit
eyðileggíngu.
Þannig tókst þeim til
í tvo daga,
skal hinn þriði þinn,
því ek hefi
hann þèr hugaðan,
ok hèr af leyft
laufaþíng svo grimmt
ok lángvaranda,
at þín sè æran,
þat einn hafir
himins stóra stríð
stytt ok endat.
Orkar eigi því
utan þú,
slíkt afl hefir ek þèr
inngefit
ok endalausri náð
þik yfirhellt,
at á himni hverr,
ok í helvíti,
vald þitt guðdómligt
viðrkenni.
Leið ek svo lengi
þetta ljóta stríð,
svo þat sýndi þik
sannmakligan
at vera erfíngja
allra hluta,
allsherjar herra,
eptir heilagri
smurníngu þeirri,
er ek smurða þik,
vel áttum rètti
ok verðskulduðum.
Gakk, voldug Hetja!
í guðdómligri
makt Föður þíns,
enn Mektugasti!
vind þèr á vagn minn,
hvers vökru hjól
hrista himins grunn
harðla fastan.
Hyl þik með heilum
mínum herskrúða;
þríf þú boga minn
ok þrumur með;
girð þik allri ógn
míns almættis;
bind þèr við sterka
brand minn síðu.
Gakk, ok gjörvallan
gegnum himin
rek þá miklu mergð
myrkra sona;
lát þá barða burt
frá bygð sælu
í hit yzta djúp,
allra neðst.
Lát þá læra þar
í landi pínsla,
makligu mjök
þeirra misverkum,
Guð ok hans Smurða
at smá ok spjá.""
Svo sagði Faðir,
ok á Soninn skein
gjörvöllum guðdóms
geislum sínum;
allr Alfaðir
ósegjanliga
stóð útþrykktr
í ásýnd hans.
Hèrnærst þannig
með hlýðni djúpri
svarar Guðdómr
sonarligr:
„..o, enn Ypparsti
meðal allra! þú,
himins hátróna
heilagi Faðir!
fyrsti, helgasti,
hæsti ok bezti!
Ætíð er þèr annt

at auglýsa,
ok mikla mína dýrð,
sem mèr þína;
hvat ok æ rètt er,
því upphafníngu
æru, met ek mèr,
ok mesta gleði,
at þú velþóknun
á mèr hefir,
ok vottar vilja þinn
vera fylltan,
þat æ mestr mèr
er munaðr.
Tek ek móti makt
ok Mildíngs sprota
glaðr, sem gáfum
gæzku þinnar,
ok enn glaðari
mun aptr skila
við þrot veraldar,
þá er verðr þú
allt í öllu,
ok ek í þèr,
ok í mèr allir
eylífliga,
þeir enir sömu,
sem þú elskar.
At hatri hefir ek
þá sem hatar þú;
ek em í öllu
þín eptirmynd;
eins get ek skrýdt mik
þínum skelfíngum,
þú enn Eylífi!
sem ek á mik tek,
Faðir! mjúkustu
mildi þína.
Hertýaðr ek
þínum háa styrk
mun enum mörgu
mótstríðendum
bistr bráðt sópa
burt af himni,
ok þá eigi mjúkt
ofan keira
í fúlt fángelsi,
þeim fyributit;
Ok í hlekkjahald
heljar myrkra,
illan ormagarð
eylífkvikra,
maklig málagjöld
fyri móðhroka,
ok þvera þrjózku,
sem þèr í gegn
reistu þeir í stað
rèttrar hlýðni,
sú er sönn var heill
sjálfra þeirra.
Þá munu þínir,
frá þeirra skildir,
helgir herskarar,
hópum saurgum,
hèr kríngum hæð
þína heilögu
fremja fagran
fagnaðar danz,
með hallelúja
hræsnislausu
vegsamandi þik,
Voldugasti!
ok af öllum þeim
ek hinn fyrsti."
Svo kvað Sonrinn,
ok sik hneigði
yfir gullligum
Alvalds sprota;
stóð síðan strax upp
enni sterku frá
hægri hendi
hærstu Tignar,
viðr hverja var
hans veldis sess.
Þá tók þessu nærst
þriði at skína
helgr morgun
á himni glæstum;
þusti þá fram
með þyt svo miklum,
sem hvass hvínandi

hvirfilbilr,
ógrligastr
Almættis vagn.
Brunnu kríngum hann
blossar þykkvir,
en hjól hans voru
hvert í öðru;
ók þeim engi fram,
af egin krapti,
ok af anda þeim,
sem í þeim var,
veltu þau sjálf sèr
sínar leiðir.
Þó voru fjórar,
sem fylgdu þeim,
líkar Cherúbim
lifandi myndir;
undarligs háttar
andlit fjögr
hafði hverr þeirra,
ok huldir augum
voru líkhamir
ok vængir þeirra,
eins ok með stjörnum,
alla vegu.
Lík voru augun,
at líta, hjólum
af berýlsteini,
enn í bylgjum rann,
milli myndanna,
mikill eldr;
hèkk krýstalls himin
yfir höfðum þeim.
Hátt uppá honum
stóð hafinn einn
trón af saffír
enu tærasta,
inngreiptu prýddr
með agati,
ok með úrbogans
ýmsu litum.
Sat þar Sonr Guðs,
sínum prýddr
háleitum himins
herbúnaði;

hann í Urímshyr
heilögum skein
fullkomnu Guðdóms
fagrsmíði;
Öflugum búinn
arnarvængjum
sat á hægri hans
hendi sigr;
hèrmeð hèngu ok
honum við síðu
álmr hans,
ok örvamælir
þreföldum þrútinn
af þrumufleigum.
Streymdu kríngum hann
stríðir reykir,
reykblandnir blossar,
blossandi eisa;
frábær var för hans
ok í fjarska sást,
gegnum geysivíðt
Gimla veldi.
Tíu þúsundir
þúsundsinnum
hinna helgu Guðs
honum fylgdu,
ok tvennar tíu
(þvíat tölu þá
hefir ek heyrða)
hervagna Guðs,
á hverja hlið
hann umkríngdu.
Þannig fór hann fram,
fluttr hraðla
vængjum Cherúbims
vindugum á,
undir klárasta
krýstalls himni;
sást hann, sitjandi
á saffírtróni,
lángar leiðir
fyri ljóma skuld.
Þó fengu fyrstir
för hans merkta
hans sjálfs herenglar,

ok hjá þeim spratt
yfirvættis stór
ok óvænt gleði,
er ljóma litu hans
í lopti teikn:
bylgjum blaktandi
borna af englum
Messíæ mildíngs
mikla fánu.
Heimti Michael
harðla víðt dreifðan
stríðsher saman sinn,
ok sèrhverr stóð
yfirhöfðíngjans
undir boði,
allir af honum
óslítanliga,
sem síni höfði,
sameinaðir.
Hafði greiða gjört
Guðdóms kraptr
veguleið honum hans,
því hvert eitt fjall,
áðr upprykkt
í engla stríði,
hvarf bráðt við boð hans
í bólstað fyrra;
orðum hans auðsveip
þau öll hlýddu.
Nú fèkk himininn
á ný sína
umbreyttu ásýnd
endrrètta,
hæðir ok dalir
nú hýrt brostu,
ok báru bjartari
blómstra skrúða.
Gjörla hinir þat
gátu at líta
yfirgefnir
óvinir hans;
þó stóðu þeir fast
á þverúð sinni
ok fólskufullri
forherðíngu.

Heimtu þeir í hóp
herskara sína,
enn á ný alla
til orrostu;
drógu dárar þeir
sèr dælska von
útaf eintómri
örvæntíngu.
Hví gat hugarfar
svo harðla spillt
haft svo háða sèr
himins anda?
en hver fá unnit
til undanláts
teikn ok stórmerki
á stoltan huga?
fyrir hverri feykn
vægir forherðíng?
Þat, er þeim sem fyrst
þrísta mátti
til endrvitkunar,
ok aptrhvarfs,
fèkk þeim fastari
forherðíngar;
æðisfull öfund
yfirfèll þá,
þegar tign litu
Tilkomanda.
At ná hæð hans
var þeim hugat um,
ok nú strax stóðu
til stríðs búnir,
í dul dreymanda
dælskrar vonar,
at þeir með makt,
eða meinsvikum,
mundu sigrat fá
at síðurstu
hærstan himna Gram
ok hans Smurða,
en eyðast ella,
ok ekkert verða.
Nálguðust þeir nú
til nýrrar rómu,
sú er leidt lèti

til lykta mál;
eitt var allra samt
áform þeirra,
hvorki at flýja
nè fyri vægja.
Snèri sèr þá við
ok snjöll mælti
slík orð Sonr Guðs
til sinna skara:
„„standið, stríðshetjur!
í stilltum röðum;
haldið kyrru hèr,
enir heilögu,
öruggir englar
í alvepni!
látið dör í dag
dreira bindast.
Traustir hafi þèr
með trúlyndi,
ok sem atgeðjast
æðstum Föður,
rekit rómu hans
fyri rèttvíst mál;
ok, svo sem yðr
var umboðit,
athafst afreksverk
ósigrandi.
En þó hefir hann
hegníngu fulla
hinna helvítsku
heitrjúfenda
annars, enn yðar,
armi hugat;
því hans er hefndin,
eðr hins, at eins,
þeim, er hefir hann,
hefnd umboðit.
Mikillar mergðar
ok múga liðs
hefir þeigi þörf
þessi dagr;
haldizt hèr kyrrir,
ok horfið á,
hvernig ek mun einn
alla þessa
dólga drambláta,
drottinnsvika,
harðslegna hrekja,
fyri hefndar skuld
ens almáttuga
alda Föðurs.
Ei hafa yðr,
heldr einn mik, þeir
álagit öfund
ok óvirðíngu;
einn mik áhrærir
ofsi þeirra,
fyri því, at fèkk
Faðir eylífr,
hverjum heiðr berr
ok hærsta vald,
mèr veitta vegsemd
eptir vild sinni.
Því hefir hann mèr
hefndar ströffun,
einum umboðit,
allra þeirra;
hreppa skulu þeir,
þat er helzt æsktu:
styrkleik vorn
í stríði at reyna;
Hvort meira megi
múgr þeirra
allr mèr einum,
eða ek móti
einn þeim öllum samt,
þareð einúngis
eptir aflsmunum
þeir allt mæla,
einkis ágætis
annars leitandi;
skal ek ok eigi
með öðru þá
virðast til
við at stríða.""
Svo kvað Sonr Guðs,
sinni þegar
ásýnd til ógnar
umhverfandi;
stórum strángari,

enn at stæðist neinn
á hann at horfa,
ok henni snèri
í fáng fjandenglum
fullr grimdar.
Oðt umsveifluðu
alstirndum vængjum
fjórir Cherúbím
með fælu skuggum;
ultu eldvagns hjól
með ofsa gný,
sem stórra fossfalla,
eða feykna hers.
Dökkr ok dimmr,
sem drápæg nótt
geystist hann fram
á fèndr sína,
svo nú nötrnðu
til neðsta botns
Gimla gjörvallar
grunnfestíngar,
einn stóð óskekinn
Alföðurs stóll.
Nú var hann við þá
í vetfángi;
þreif tíu þúsund
þrumur í hönd,
ok þeim undan sèr
á þá hleypti
með svo miklum styrk,
at af megni því
særðist innsta hvat
í sálum þeirra.
Bófar við boð þau
blikuskelfdir
mistu allan móð
ok mótstöðu,
hrutu úr höndum þeim
af hræðslu vopn.
Ok hann óðfluga
eyðandi hjólum
yfir skjálda skóg,
skæra hjálma,
sterka Seraphim
ok stórherra,
sem láu reiðslegnir,
roknir um koll,
ok æsktu, yfir sik
at enn hryndu
fjöll firna stór,
svo at feldust þeir
fyrir augsýn hans
afarreiðri.
Blès eigi minnr
á báða vegu
stríðr stormr
hans sterku skeytum,
eins ok illviðri,
andlitum frá
fjögra mynda
enna fjöleygðu,
ok lifandi hjólum,
sem líka voru
eldligum öll
með augum þakin.
Einn ok enn sama
fyrir anda þau
hrærðust ok lifðu
hyorutveggju;
ullu eldíngar
ógnarligar
útaf sèrhverju
auga þeirra.
Blöskruðu bál þau
enum bölvuðu,
svo þeir mátt mistu
ok megin allt;
stóðu þeir styrðir
ok steindofnir,
nýddir ok nistir,
ok niðrslegnir.
Þó hafði hann ekki
helft síns kraptar
voldugr viðhaft,
heldr veiktan lèt
ramman reiða styrk
á rás miðri;
hann því hèr ekki
hafði í sinni,
at eyðileggja

með öllu þá,
heldr hrekja burt
frá himins merkjum.
Reist lèt hann lið þat,
sem lá fallit,
ok rak reiðskelfda,
sem ragar geitr,
eða felmtrat fè;
en þeir flýttu sèr,
ok þreyngdust hverr
um þveran annann
undan augsýn hans
af ofboði,
keirðir, kúgaðir
at krýstalls múr
ljóss lýritta,
sem lykr himin;
Velti hann sèr við,
ok víða gjörði
á sèr opnun at
innanverðu;
rataði rauf sú
til regindjúps,
sem gein grunnlaust við
gegnum hana.
Svo brá við sýn þá
Satans liði,
at hrökk af hræðslu
hraðt til baka;
en hefnd harðari
kom á herðar þeim;
sjálfir þustu þeir
af þröm himins;
steyptu sjálfir sèr
í sína töpun;
en elds ógnanir
eylífrar reiði
eptir þeim brunnu
til yzta djúps.
Helvíti heyrði
hark ok dunur,
sem þrumur þúngar,
af þeirra falli,
sá þat hversu himin
af himni datt;
flúit hefði þat
felmtrs vegna,
hefði eigi forlög
þat svo fast skorðat,
ok grafit grundvöll þess
svo geysidjúpt.
Niðr hrundu þeir
níu daga;
en fann öskrandi
Óskapnaðr
traðk ok umturnun
tíufalda,
yfir allt veldi
sinnar óstjórnar,
at því ofbeldi
ofanfalls þeirra.
I sik at lyktum
með opnu gini
svalg heitt helvíti
her þann allan,
ok luktist aptr
eptir honum
helvíti hrokfullt
með hefndar eld
óslökkvanligan,
ángistar hreisi,
hæfiligast hús
til handa þeim.
Feginn varð himin,
er hann frelsaðist
af þúnga þeirra,
ok þegar lèt
samgróna sundrun
sinna múra;
snarir snèrust þeir,
ok snöggliga
viku þángat,
sem verit höfðu.
Sá einn yfirvann,
ok einn barðist,
Sonr Guðs, sínum
sigrvagni
heimleiðis aptr
hèr nærst snèri,
eptir Fjanda fall,

á Föðurs stól;
en með frábærum
fagnaðar danzi
gekk enn helgi herr
honum ámóti;
Staðit hafði hann,
meðan hinum var
refsat með rekstri
af reiðarslögum,
ok athafst ekki,
heldr áhorft kyrr,
svo sem nálægir
sjónarvottar,
almættis undr
öll þar framin.
Prúðir súngu þeir,
með pálmaviðar,
ítrum áskygðir
æruteiknum,
sigrhróss sálma
í sinni gaungu;
sèrhver orða saung
um Sigrkóng
Arfa, Erfíngja
ok Yfirherra,
þeim, er Guðdóms vald
er gefit allt,
ok valds drottnanda
er verðugastr.
Með heiðri slíkum,
ok hrósi sigrs,
harðla víðlendar
himins álfur
ok Guðs forgarða
gegnum fór hann
inní musteri
ens mikla Föðurs,
sá sínum háfa
sat á tróni.
Tók hann móti Mög
í maktar skaut,
ok við síðu sèr
setti hægri,
þar hann nú drottnar
í dýrð hærstu
ok í sælu hans
sívarandi.
Mælt hefir ek svo
manna fyrsti!
himneska hluti
með hauðrsköptum
eptir ósk þinni,
ok þèr augljóst gjört
margt þat, er mundi
manna kyni
æ dulit ella,
svo at ófall sket
vitir, ok varist
voða slíkan.
Hefir þú nú heyrt
herfiligustu
tvídrægni talda,
ok tíva stríð
háð á himnum,
sem ok hrun dára,
er jafnast vildu
við Jöfur hærsta,
ok með Satan sik
í sveit gáfu;
Sá er sèr þik,
ok þín sælu kjör
íllshugar augum,
öfundsjúkr,
bruggandi í brjósti
beiskar vèlar,
hvernig hann megi,
frá hlýðni þik
flekaðan, fella,
svo farsæld missir,
en hreppir með honum
hörmúng eylífa.
Virðir hann sèr víst
fyri vænstu hefnd,
þik fá í fèlag
fordæmíngar,
til háðs ok hugmóðs
við hærstan Guð;
en ljá aldregi
eyra hlýðit
fölskum freistíngar

fortölum hans,
ok gef viðvörun
þinni veikari!
Nýt þèr, svo nemir,
nýheyrt dæmi,
hvílíkt óhlýðni
fær endrgjald!
óbifanligir
í enu góða
staðit gátu þeir,
en steyptust þó;
haf þèr þat hugfast,
ok hræðst at syndga!

---

## Hèr hefr
## Sjöundu bók Paradísar missirs.

Stíg af himnum
á storð niðr,
Uranía![1]
ef ek ávarpa
þik rèttiliga
þessu nafni,
hverrar guðdóms raust
ek geng eptir.
Lið ek leiddr svo,
lærdóms fjalli
ofarr lángt
Olympisku,
miklum mun hærra,
enn máttu forðum
Pegas, fleygan fák,
flytja vængir.
Eigi heiti þitt,
heldr veru,
ákallar ek
til óðs djörfúngar;
því þú ert ekki
ein af tölu
enna fornfrægu
fróðleiks gyðja,
nè átt atsetr
á Olymps toppi;
Heldr á hærstum
himni borin;
fyrr enn fjöll risu,
ok fram rann straumr,
þú með eylífri
umgekst Speki,
sem er systir þín,
ok samlynd þèr.
A hörpur himins
þú með henni lèkst
fyrir almáttkum
alda Föður;
hafði hann á hljóm þeim
ok hljóðstillíngu
sjálfr geðþekkni
guðdómliga.
Aðr dyrfðumst ek,
af þèr leiddr,
at stíga gagngjört,
gestr af jörð,
allt uppí himins
innstu sali;
inndrakk ek þar þá,
at þínum skamti,
af þèr byrlat
aðalbliks lopt.
Leið mik eins aptr
óhultan nú,

[1]) *Uranía*, en himneska lærdómsgyðja; *Olympus*, lærdóms-gyðjanna fjall; *Pegasus*, hestr þeirra með vængjum.

til míns upphafligs
eðlis staðar,
at ek eigi,
mèr til aldrtjóns,
falli flasliga
nè farist villr.
Sem af baki datt
Bellerophon[2]
júngi loptfara
á lægra flugi;
orkaði hann ekki
essi at stýra,
ok fórst einmana
á Aleusmörk.
Helft er ósúngin
hróðrar mála,
en þótt opit hvel
fyrir augna sjón,
þat er deila má
dagr jarðar,
skorður marki mèr
miklu þreyngri.
A storð dauðligra,
þar er stend ek nú,
ok hvergi hærra
himinskautum
þeytast þorngir
þánkar mínir,
gel ek óhultr
með gumna rödd;
Hás hygg ek eigi
at hún verði,
eða þegjandi,
þótt á hitti
ek ok óðr minn
illar tíðir.

A illar tíðir
hittir óðr minn,
umkríngdr em ek
af illum túngum,
af megnu myrkri
ok mörgum háska,
alls yfirgefinn
ok einmana.[3]
Eigi einmana
með öllu þó,
meðan mín vitjar
millum dúra,
um húm ósorgar
ok árdegis,
þegar purpuri
prýðir austr;
Send enn, sem áðr,
Uranía!
líf ok anda
ljóðum mínum,
veit þeim verðuga,
þótt verði fáir
meðal tíginna,
tilheyrendr!
Burtrek Bacchúsar
barbariskt org,
skrípa skríl hans
ok skassa sonu,
sem á Rhódópes
rifu sundr
skáldit Thraciska[4]
skógi forðum.
A hvers hljóða hljóm
hlýddi skæran
fullt af forundrun
hvert fjall ok trè,

[2]) *Bellerophon* var einn vaskr ýngismaðr; þá hann vildi ríða Pegas upp til himna, fèll hann af baki, ok týndist í Aleus eyðimörk. [3]) Fögr ok liflig afmálan Skáldsins eymdarliga ástands, hverr eð, sviptr sjóninni, átti mjök marga óvini af þeim þáverandi konúngs-flokki, ok hlaut þessvegna at leyna sèr. Hvílík andagipt! sem undir þvílíkum kjörum gat leidt slíkt meistaraverk til lykta. [4]) *Orpheus*, nafnfrægt skáld í Thracía, var rifinn í hel af kvennskrípum víngoðsins Bacchí á Rhódópe fjalli; Callíope, móðir hans, megnaði ekki at verja hann.

unz vargahrynúr
ok vond læti
gjörðu rómlausar
raust hans ok hörpu:
Mátti móðir hans
eigi mög verja,
en þú mèr þannig,
sem á þik heiti,
bið ek bregðist ei,
borin á himni!
dýs hin var draumr
ok diktr einn.
Inn þú mèr, Gyðja!
hvat á eptir kom,
þá er hermt hafði
hugarmildr
engill Raphael
Adam föður
ókunn tíðendi,
um uppreistarstríð
hinna hrekkvísu
himins valda.
Ok með ílls dæmi
óttaligu
vakit honum vara,
svo við sæi
slíku sorgligu
slisafalli,
fyri sjálfan sik
í sælustað,
ok enn ófædda
afkomendr.
Ok at hann aldrei
yfirtræði
Alvalds eina boð,
auðveldt geymslu,
at bindast bergíngar
af bannnáms trè,
heldr mettaði
matarlyst sína
ok gómfýsn gnægtum með,
sem gefnarvóru
ágætum öðrum
af ávöxtum.
Adam hafði hlýdt
ok hans kvinna
engils sagnir á
með athygli;
stóðu þau fángin
af stórri furðu,
ok með ígrundun
ærit djúpri
hugleiddu hluti,
eigi heyrða fyrr.
Nýúngar háar,
er svo naumliga
tóku trúnaði,
sem tvídrægnis agg,
heipt ok hatr
á himnum uppi,
dramb ok darra kíf
hjá Drottins friði,
brot ok biltíngar
í bygð sælu,
ok svo allnærri
Alvalds tróni;
Hver ókjör, útflæmd
ok aptrrekin,
streymdu, sem fossfall
ok flóð mikit,
heim á höfunda,
sem hófu þau;
með því slíkt mátti
minnr enn ekki
við sanna sælu
samanblandast
ok við hreinustu
himins gleði.
Hratt því Adam óðt
efa sínum,
en greip hann girnd,
at grenslast eptir,
öblug, af engli
öðrum hlutum,
er hann meirr
umvarðaði:
Hvernig heimr vor,
himin ok jörð,
upptök öðluðust
í öndverðu,

hvenær hófust þau;
hvar af urðu,
hvert var hugarmið
hans, er þau skóp,
ok hvat í Eden,
sem utan hennar,
áðr viðbarr
enn Adam kjæmi.
Sem þeim, er þyrstr
af þúngri gaungu
saup á svalalind,
með sínu vekr
lífligu hvískri
lysting straumr,
til at teyga meirr,
ok töf augna,
svo spyrr Adam enn
sinn engil-gest:
„Framtalit kvað hann,
fræðir himneski!
hefir þú okkr
hluti stóra
ok fært frásögu
fulla af býsnum,
ólíkum öllum
hèr undir sól.
Sjálf sendi þik
af sælum himni
náð ens Eylífa
niðr híngat,
okkr í tíma
at taka vara
fyri því, sem fár
færa kynni,
ef eigi vissum,
en er utarr lángt
okkar þekkíngar
endimörkum.
Því erum við
um þakkir skyldug
eylífri Gæzku,
óendanligar,
fyri viðvörun
okkr veitta svo,
ok rækjum ráð hans
reiðubúin.
Okkr þat áform
einsetjum við:
ens alvolduga
Yfirherra
vilja frá
at víkja hvergi,
hverr at er heill vor
ok it háa mið,
vegna hvers við
vorum sköput[5].
En með því metit
mildiliga
okkr hefir þú
uppfræðíngar
með auglýsíngu
efna stórvægra,
óð jarðneskan
fyrir ofan lángt,
hver at þekkja þó
þarfligt nærsta
okkr áleit
eylíf Speki;
þá lát svo lítit
lægra at stíga
einu fótmáli,
ok okkr seg
hluti, sem sýnast
síðr eigi
nytsamligir
at náum vita:
Hvernig fyrst uppkom
himin þessi,
í feykna fjarska
sem frá oss er,
prýddr eldligum
púnktum allr
ótöluligum,
þeim er æ hrærast.
Líka lær þú oss
um lopt þetta,
allt hvat rúm heitir
uppfyllanda

[5]) Sjá Jóhannesar opinber. kap. 4, 11.

ok sem ollir því;
þat er útbreiðist
umhverfis alheim,
ok í sèr luktan
fagran foldarhnött
flytr um kríng.
Skír mèr, hvat hræði
Skapara vorn,
í helgri kíngra
hvíld eylífða,
heim svo nýliga
nú til at byggja
í auðn óskaptri,
en ekki fyrr.[6]
Hvenær hann hóf upp
heim at skapa,
hve fljótt forvirki
var fullgjört þat,
bið ek birtir þú,
sè bönnut eigi
eptirlátsemi
við okkr slík.
Stundum við eigi
með straffsverðugri
forvitni at fíkjast
inní fólgin Guðs
ríkis eylífa
ráð ok dóma,
heldr at heiðr
hans við aukum
æ meirr við aukníng
okkar vizku.
Enn er ófarin hin
önnur helft
af stigum stórljóss,
er stýrir degi;
seinkar þat sinni,
frá sèr numit,
rás um rjáfr lopts
viðr raust þína.
Ok lángar eptir
á at hlýða,
er þú innir frá
uppruna þess;
ok hvernig vatt sèr
útaf vatnsdjúpi
náttúran ný
þegar miðdimmt var.
Eðr ef skundar
aptanstjarna
með sèr handgengnum
mána híngat,
til fræðifullrar
frásögu þinnar,
þá mun hin þögla
ok en þæga kyrð
með nætr-skuggum
nálgast líka.
Svöfninn mun vaka,
ef at segir þú,
eðr, ef bönnum,
ekki koma,
unz þitt útsúngit
efni ræðu
endar dvöl þína
fyri dags komu."
Þannig fór á flot
fyrsti maðr
atspurn við uppheims
erindsreka;
en gestr guðligr
gaf án dvalar
mildilig annsvör,
ok mælti svo:
„„Einnig skal ósk þín,
uppkveðin svo
vel ok varliga,
veitast þessi;
en þótt með orðum
ekki megni
at fá útmálat
Almættis verk
sú en snjallasta

[6]) Opt hefir þeirri spurníngu hreift verit, hvar fyrir Guð ekki fyrri hafi skapat heiminn; eptir Miltons meiníngu skóp hann hann fyrst eptir fall Satans ok hans engla, til at fylla þeirra auða rúm með öðrum skepnum.

Seraphs túnga,
manns hjarta gripin
miklu síðr.
Þó skal þèr eigi
þaraf synjat
þess, sem megnar þú
móti at taka,
ok til Guðs dýrðar
má gagna þèr,
henni framfylgja
ok farsæld þinni.
Er mèr umboðit
hèr uppi svo
þrá til þekkíngar
þinni at svala,
svo framt hvergi hún
yfir hóf gángi,
máttattú meira
mik um frètta.
Drag ei dul at þèr,
at duga muni
egin uppgötvan
nè annsvör mín,
at opna efni þau,
sem enu ósèni,
sá einn er alvíss,
Yfirherra
hefir eylífu
hulit myrkri,
hverjum á himni
ok á hauðri leynd.
Hèr er handa þèr
á hauðri þvísa
ærit nóg annat
til at umgrenslast;
viðlíkt er varit
viti ok fæðu:
hófsemin hlýtr
at hafa stjórn
fyri fræðigirnd,
sem fýsn matar;
Skal hún skilníngi
sinn skamt mæla,
hve miklu megi
móti taka,
ofþýngdr ella,
þat um er hóf
getr hann sèr eigi
til gagns verkat;
verðr svo, viðlíkt
ok at vindi nautn,
hóflauss vísdómr
at heimsku tónni.
Vit þá, at þegar
meðr þúsundum
Lúcífer sinna
logandi skara
(nefn hann þann veg þú,
því með englum
skein hann skærara,
enn skír stjarna,
heitin svo
með himintúnglum)
í djúps díblissu
datt af himni;
Heim aptr hèldt
með helgum sveitum
sælum Sonr Guðs
sigri hrósandi;
en almáttugr
eylífr Faðir,
er hann voldugum
frá veldis stól
leit þær ótöldu legíónir,
við sinn mikla Mög
mælti þannig:
„Mjök hefir missèst,
at minnsta kosti,
öfundsjúkum
Ovin vorum,
með því hann meinti,
at mundu víst
allir, eins ok hann,
eiðrjúfendr;
Ok at hann mundi
með engla styrk
enna fráföllnu
fullöruggan
geta gripit
þenna guðdóms stól,

at oss af honum
ofan hrunduum.
Hann í sveit með sèr
at sönnu hefir
alla þá tælda,
hverra auð sæti
hèr eigi þekkjast
á himni meirr;
þó er mergð þeirra
miklu stærri,
er sitt (þat sèr ek)
sáttmál hèldu.
Enn er fjölfylktr
fagr himin,
eigi skortir hann
innbyggendr,
eigi heiðrendr
þenna helgidóm,
sem heilagliga,
at hárri skyldu,
fremja dýrkun hèr
drottinnliga.
En svo hjarta hans
hrokist eigi
af tèðu tjóni,
svo sem tæmdr sè
allr uppheimr
at innbyggendum,
nè gleðist geð hans
af glópskum þánka,
at skarði skeðu
hafi skaðat mik.
Þá er mèr auðveldt,
at endurbæta
missir fenginn,
ef at missir er,
þeim at tapa,
sem þrjózkufullir
meðr syndum sèr
sjálfir tapa.
A augabragð
vil ek annann heim
skrautligan skapa,
ok í skarð hinna,
ótal menn
af einum manni;
þar, en þeigi hèr,
skulu þeir búa,
unz með verðskuldun
vel æfðrar hlýðni,
eptir lánga raun,
at lyktum þeir
vinna sèr opinn
veg upp híngat;
þá skal hauðr
at himni verða,
himin at hauðri [7],
ok ein hilmis stjórn
allsherjar ríki
í ævaranda
fagnaðar eining
farsælt gjöra.
Búið heilagir
hèr á meðan,
þèr, himins kraptar!
í þessu rúmi,
ok þú, Orð mitt!
þú, minn Einka-son!
at þèr verkanda
vil ek þessi
öll fyritæki
framkvæmd láta.
Sèrhvat ske skal,
þat er skipar þú,
ok hann Andi minn,
yfirskyggjandi
krapti mínum með,
mun þèr fylgja;
bruna fram! bjoð þú
birtulausu
hyldýpi, at verða
himin ok jörð
sínum tilteknum
í takmörkum.
Bjóð dimmu djúpi!
því ek Drottinn einn
er, sem uppfylli

[7]) Englarnir munu optliga vitja jarðarinnar, ok manneskjurnar fluttar verða í himininn.

hit endalausa,
ekkert er auðt rúm
eptirskilit,
en þótt ek, sem er
utan takmarka,
innibyrgi mik
í mèr sjálfum ;
Ok eigi ansi
til engra þarfa
út minni gæzku
guðdómligri,
sem er fullfrjáls
til at framkvæma,
ellegar ekki,
at egin vild.
Af nauðsyn einni
nokkrs hlutar
framkemr ekkert,
fortakslausri;
eigi forlög nein,
nè föst þvíngan,
mega nálga sik
at mínum tróni;
forlög eru,
þat ek framgengt vil!" "
Innti svo Faðir
almáttugr,
ok, hvat hann innti,
var af Orði hans,
guðdómi Sonar,
gjörsamliga
fært til framkvæmdar
í fljótum svip.
Utan umsvifa,
á augabragði,
ern algjörvar
athafnir Guðs,
hraðara enn tíð
ok hræríng nokkr;
en með orða röð
útmálaðar
verða þær at eins
fyrir eyrum manns,
ok sem skyn skilr
skapt á hauðri.

Stór hófst fögnuðr
strax á himni,
ok sætt sigurhrós,
þá er svo lýsti
ályktun æðstri
alda Faðir;
heiðr hárr súnginn
enum Hæsta var,
velþóknan mönnum,
sem verða mundu,
ok beðit friðar
bygðum þeirra.
Lof var Drottni þeim
ok dýrð súngin,
hvers rèttvís reiði
rekit hafði
út frá augum sèr
upphlaups dólga,
ok frá herbergjum
enna heilögu.
Heiðr var súnginn
ok enn hæsti prís
enum Eylífa
ok Almáttuga,
honum, hvers hugat
hafði at skapa
voldugust vizka
af vondu gott;
Ok ens illa flokks
auðar stöðvar
bygðar at láta
betra kyni;
at hann án afláts
ómælanligri
sinnar gæzku gnægð
yfir gjörvallar
aldir ok heima
úthellt fái.
Allar inntu svo
engla stèttir;
en í því sama
kom fram Arfi Guðs,
til ens stóra verks
þá strax búinn,
stóð hann umgirðtr

með almætti.
Allt var höfuð hans
hulit kransi
glóanda geisla
ok guðdóms tignar;
speki ok eylíf ást
af honum lýstu,
allr Alfaðir
skein í augum hans.

Var vegsamligan
vagn ens Smurða
sveitum ótal
af Seraphimum
ok Cherúbimum
kríngum ausit[8];
fylgdu þar furstar,
fljúgandi andar,
vagnar með vængjum,
af vopnahúsi
eylífs útteknir
alda Föðurs.

Þvílíkir, sem þeir,
hafa þar staðit
frá alda öðli
millum eirfjalla;
himnesk hertýi,
þeim haldit er
staðbúnum æ
til stórhátíða.

Runnu þeir nú fram,
reiðubúnir,
at eginn vilja
(því anda lífs
hafði hverr þeirra)
honum móti,
gefandi gætur
at Guðs boði.

Hratt þá himin upp
háum portum,
ok at eylífu
óbilandi;
gjörvum af gulli,
gall í hjörum
samhljóða hljómr
ok harðla skærr.

Afarvíðt opnut
útgaungu veg
greiðan gjörðu þau
fyri Gram dýrðar,
er í Orði kom
alvoldugu',
ok í öblugum
Anda sínum,
nýar veraldir
nú til at skapa.

Þar stóðu þegar
á þröm himins
ótal englar,
ok ofan horfðu
í hit auða djúp
ómælanligt,
án botns, án birtu
ok án byggenda;
óskipan var þar,
en engi stjórn.

Harðla líkt hafi,
því er hærst brúsar,
þar er vostormar
velta frá grunni
öldum upp,
sem ögra skýum
rísandi í lopti,
sem reginfjöll,
er hóta himni,
at hræra saman
mön ena yztu
við miðpúnkt hans.

„„Þegi þèr, bylgjur!
sem brúsið svo;
still þik, stóra djúp!
er stríðt æðir!""
Orðit innti svo
allt skapandi,
„„endut skal ósátt
ykkar á milli.""

Lèt hann þar eigi
lengr dvalit,
heldr Cherúbims
hafinn á vængjum

8) Talsháttr Virgilíí: circumfusa juventus.

fór hann í fullum
Föðursins ljóma
yfrit lángt ofan
í afgrunn tómt,
alheim, sem ekki
var enn fæddr,
hlýddi orðum hans
Oskapnaðr.

Forkunnar fögru
með farar skrauti
fylgdu honum eptir
flokkar engla,
Almættis undr
til at áhorfa,
ok skoða sköpun,
meðan skeði ný.

At bíða, bauð hann
brennandi hjólum,
ok greip gullsirkil [9],
sem gjörðr var
í Guðs auðæfa
geymslu húsi,
alheims endimörk
til at afskamta,
ok enn yzta hríng
allra hluta.

Nú lèt hann stöðugt
standa í miðju
sirkils annann arm,
en öðrum snèri
í dimmu djúpi
dregnum um kríng,
ok mælti: „„mörk þín
mátut þessi
hefir ek, heimr!
skaltu híngat ná,
hèr læt ek stað þèr
ok stærð skipat.""

Svo skóp Guð himin,
ok svo skópst jörð;
en þau auð voru,
ólagat stykki;
lá dimm ok daglaus
yfir djúpi nótt;

en þó útbreiddi
yfir kyrra
vatna víðáttu
voldugr Andi
frjófgunarfulla,
sem fugl, vængi.

Inngaf hann efni,
því í óröð svamm,
liðuga krapta
lífs ok varma,
en lèt kollkastat
köldum ok svörtum
helvítis dreggjum,
sem hrynda fjöri.

Nú gaf hann návist
með nýrri mynd
hlutum, sem áttu
hverr við annann,
en hinum öðrum
á ýmsa staði
skipat fèkk hann sèr,
ok skildi á milli
með þöndu lopti,
ok þar hèkk nú
jörð á miðpúnkti
í jafnvigt sinni.

„„Verði ljós!""
sagði voldugr Guð,
ok skjótt spratt upp
af skauti nætr
etheriskt ljós,
hit allra fyrst'
ok aðalítra
af öllum hlutum.

Austri, fyrstum frá
fæðíngar stað,
hóf þat upphlaup sitt
hátignarfullt
yfir lánga leið
loptsins dimma;
þó bar þat blæju
af björtu skýi,
því alskírr eigi
var enn þá sèn;
skýldi skugga tjald

[9]) Orðskv. b. 8, 27.

skæru ljósi.
Guð sá gjörla þat,
at gott var ljós,
ok lèt atskilit
ljós ok dimmu;
nefndi hann þat dag,
en nótt myrkr;
svo varð at aptni
ok ítrum morgni
fullkomnaðr
enn fyrsti dagr.
Hátíðligr
af himins englum
var hann víst haldinn,
ok vanta lètu
eigi andar þeir
ærusaunga,
er nú ljós litu,
líkt sem dampa,
dýrðliga spretta
útaf dimmum geym,
þann dag fyrst fæddust
fold ok himin.
Varð hit hola hvolf
heims byggíngar
fullt með fegrstu
fagnaðar hljóð;
gullu gullhörpur,
göfgnðu sálmar
eylífan Jöfr,
sem alheim skóp,
eins at fyrsta dags
aptni ok morgni.
Enn kvað Alvaldr
öðru sinni:
„„verði við festíng
vatna milli,
sú er bif láti
frá bifi skilit.""
framkom firmament,
þetta fagra lopt
gjörþanit, glætt
ok gegnumskinit.
Sem í samíleittum
sirkilbaugum
allt umhverfis
ávallt rennr
útat yzta hvolfs
endimörkum,
fullörugg festíng
til at fráskilja
þau en hærri höf
hinum neðri.
Jafnt sem heim allan
skóp Guð jörð þessa
umkríng beltaða
bifi kyrru,
krýstalls klárum sæ
ok kynja víðum;
en lèt æðigáng
Oskapnaðar
rekinn lángt niðr
í regindjúp,
at skemdi skurk hans
sköpun eigi.
Festíngu þessa
Frumsmiðr alls
ena nýgjörvu
nefndi himin;
ok nú annars dags
engla síngu
kórar með kæti
kvöld ok morgun.
Mindnð var nú jörð,
en marði í kafi,
sem fóstr ófædt
eigi fullburða;
svamm hún sæ hulin
ok sást ekki,
heimshafit mikla
yfir hana flant,
En enganneginn
þó til ónýtis;
heldr lífguðu
hlýir vökvar
allan hennar hnött
með hýrum il,
ok fullt af fræjum,
svo frjófsamt yrði,
mýktu móður

ennar miklu skaut.
Þá kvað enn aptr
enn Almáttugi:
„„víkið án dvalar
vötn und himni,
andsveip öll,
í einn stað saman;
látið þurrlendit
í ljós koma!""
Stigu þá strax upp
stórvaxin fjöll,
hreykjandi í skýin
hryggjum nöktum,
harðla breiðbökut,
en bratthöfðaðir
tóku hátt í lopt
toppar þeirra.
Svo hátt sem hófust
hryggir fjalla,
svo lángt lægðu sik
lautir holar,
breiðar ok djúpar,
svo beðr rúmr
verit gæti
fyri vatna safn.
Fegin flýttu þau
sèr í flet þetta,
fram sèr veltandi
viðstöðulaust,
sem daggar dropar
af dupti þurru
hrynja, sem hnyklar,
ok hnappast saman.
Kúfut stóðu sum,
eins ok krýstalls múr,
önnur ultu
með ákefð stórri
rakleiðis fram
í rèttum línum;
alvoldug skipan
þeirra Skapara
hafði flugfæri
þeim fengit slík.

Líka sem herlið,
þá lúðr gellr
(því þú heyrt hefir
um hernað rædt)
flykkist at fánu
foríngja síns;
eins flýttu flóð sèr
ok fèllu í öldum,
einni eptir aðra,
sem eltar væru,
þángat sem farveg
gátu fundit sèr.
Fleygðu þau fossum
feykna stórum
yfir brekkur
ok brattar hæðir,
en liðu lygnt fram
leiðir slèttar;
hvorki háls nè bjarg
gat hindrat þau;
Grófu þau sèr gaung
undir grund þurri,
ellegar undu
sik í ormsbugðum
gegnum mosajörð
ok mýra fen,
hvar þau hægliga
holat gátu
rennur djúpar
fyri rás sína.
Unz at Skaparans
skipun hárri
leðju löðr varð
at landi þurru,
utan at eins
milli árbakka,
þar er stríðir nú
straumar renna,
ok utan afláts
draga eptir sèr
lagarfelds löf[10]
í laungum slóða.
Guð sá þat var gott,

[10]) Vatnsföllin afmálast sem mikilsháttar persónur í síðum klæðum, sem dragast eptir þeim.

ok greindi framarr:
„„jörðin framleiði
jurtir grænar,
ok fjöld af grösum
fræ hafandi,
einnig allslags trè
ávaxtarsöm,
þau í sjálfum sèr
sæði bera!"”
Naumla var þat mælt,
áðr nakin jörð,
auð ok ósèlig
á at líta,
þángat til óprýdd
ok þakin engu,
ilmandi grösum
varð yfirklædd,
ok öll yndislig
ásýnd hennar.
Jurtir ótal
uppaf jörð spruttu,
búnar margskonar
blaða skrúði,
þær er skjótliga
skutu blómstrum,
litum ok ángi;
þegar lukust upp
þeirra skærn skaut
skemtunarfullum
önduðu í eim
ok útlits brosi.
Varla var þat sket,
áðr víntrèt stóð
klösum purpura
klyfjat rauðum,
þrútnar melónur
þá framskriðu,
hèrmeð hreykti sèr upp
hornótt sef,
rètt eins ok runnar
af reistum spjótum.
Í egglágar hríslur
ok lýngrunnar
sýndu sik með hári
samanflæktu;
loksins tèðu sik
með tign fullri
stoltar stórtrè,
svo sem stígi dans.
Rèttu þau frá sèr
nærsta ríkilát
lángt útí loptit
laufgaðar greinir,
ýmist svignaðar
af ávöxtum,
eða berandi
blómstrkransa.
Krýndu hálsana
hávaxnir lundar;
voru dala skrúð
viðarkyn smá;
allt var kögri klædt
kríngum læki,
ok elfa bakkar
endilángir.
Leizt nú lík jörðin
ljómanda himni,
svo guðir gjarna
getat hefðu
átt hèr atsetr
til yndis sèr,
ok haft umgengni
með ánægju
í helgidóma
hennar skugga.
En Guð eigi
hafði enn látit
yfir fold falla
frjófganda regn,
nè væri nokkr,
sem nú kynni,
engum enn bygða,
at yrkja hana[11].
Rauk þá af jörð upp
rakafull þoka,
sú er alla fold

[11]) 1 Mós. b. 2, 56: Því Guð hafði ekki látit rigna á jörðina, ok þar var enginn, sem hana yrkti; ok þar uppstè þoka, o. s. frv.

yfirdöggvaði,
hvert eitt aldini
ok engja jurtir,
Guð sem hafði gjört,
áðr getit var
í sjóði jarðar
sæði þeirra,
ok fyrr enn fengi
fagrgrænn leggr
höfði hrósat
með háu blómstri.
Guð sá at gott var,
þat hann gjört hafði;
þá varð af kommum
kvöldi ok morgni
þessi fullgjörðr
þriði dagr.
Enn mælti aptr
almáttug raust:
„„verði ljómandi
ljós á hárri
himins festíngu,
sem halda skulu
æ deildum degi
frá dimmri nótt!
Tímanna takmörk
skulu teikna þau,
ár ok missiri,
mánuði ok daga,
á fagri festíngu,
svo fold lýsi,
skulu þau skína!""
ok þat skeði svo.
Myndaði Guð þá
tvö mikil ljós
(mikils manna gagns
mikil vegna);
skyldi þat stærra
stjórna degi,
en hitt it minna
myrkrförum,
ok skunda æ jafnan
til skiptis svo.
Stjörnur skóp hann,
ok þeim stað veitti
á fagri festíngu,
svo fold lýstu,
ok fyrirêðu,
eptir fastsettri
niðrskipun,
nótt ok degi,
deilandi dimmu
frá dýru ljósi.
Guð sá þat var gott,
ok gjörði fyrsta
allra líkhama
ofarr hauðri
mektuga sól,
þann enn mikla hnött,
er var utan ljóss
í öndverðu,
en þótt af eldlopts
undirstöðu.
Mynd gaf hann þar næst
mána hveli,
ok skóp stjarna stærð,
er strax sáðust
útum allt himins
afar víðt hvolf,
sem gras er þèttast
á grónum velli.
Þar eptir þreif hann
útaf þoku búð
himins mikla ljóss
meginhluta,
þar sem þángat til
hafði þat dvalit,
ok svo setti þat
í sólar hvel,
sem til ljóss lagit[12]
fyri lopthólur
inndrakk útflot þess

[12]) Milton sýnist hafa dregit þenna þánka af því, sem sagt er um hinn Bólognesiska stein, at þegar hann sè við ljós lagðr, innsjúgi hann þat, ok haldi í sèr um tíma svo miklu, at hann geti þar við upplýst einn myrkvan stað.

atstreymanda.
Þó gat þarfyri
þessi hnöttr
sínum fagra feng
föstum haldit,
ok er æ síðan
fyrir alheims ljós
höll ok hofgarðr
harðla rúmr.
Hèraf handa sèr
hinar stjörnur
allar uppausa,
sem aðalbrunni,
fegurðar glansa,
ok fylla sínar
gylliniskjólur,
sem þær gánga með.
Hèr makar gulli
morgunstjarna
horn sín harðla björt,
ok hinar allar
auka hèr lítinn
egindóm sinn;
þó miklu minni
mönnum sýnist
álengdar hèðan,
enn eru þær.
Fyrst skein í austri
fagrbúin
ok dýrðlig drottníng,
dags ráðandi;
ok með glógeislum
gjörvallan prýddi
sínum sik um kríng
sjóndeildarhríng,
hefjandi hlaup sitt,
sem hetja glöð.
Undan röðli rann
roði morguns
sem í sigrdans,
ok sjöstjörnur
skutu híngat
úr skauti niðr
maktar meðverkun
enni mildustu.
Var þá í vestri
viðblasandi
glæstum röðli
gagnvart settr
minnr lýsandi
mána hnöttr,
fagrahvels spegill
í fullri mynd;
Laungum at láni
fær hann lampa sinn,
þess hann þarf eigi
þannig staddr,
ok frá ferð sólar
í fjarska svo
dvelr hann dag hvern,
unz dimma kemr;
þá er tími til,
at túngl í austri
fagrbleikan feld
láti framkoma,
er þat umhverfis
aflokit hefir
hjólás himins
sinni hríngveltu.
Ferr þat fram húmstjórn
í fèlagsskap
meðal mörg þúsund
minni ljósa,
mörg þúsundsinnum
þúsund stjarna,
er skreyta himin
skínandi doppum.
Svo kom fyrstr fram
fjórði dagr,
mildum með krýndr
morgni ok kvöldi,
er með ljómandi
voru ljósum prýdd,
er upp á víxl
ok undir gengu;
hljómuðu þá saungvar
ok hljóðfæri.
Enn mælti raustin
almáttugs Guðs:
„„full verði flóðin

fiska lifenda,
ok fjölbreytt fuglakyn
undir festíngu
veifi vængjum
í vinda rúmi!" "
Hrærðust þá í hafi
hvalir stórir,
ok allt hvat andar
ok elst í vatni,
sèrhvat, er syndir,
í sinni tegund,
ok fleygt fuglakyn,
sem ferr um lopt.
Sá enn Eylifi
þat allt var gott,
ok lagði blessandi
boð þat yfir:
„„frjófgizt ok fjölgið,
ok fyllið vötn,
stór höf ok strauma,
ok stöðutjarnir!
fyllist lopt ok land
með lið fugla!" "
I sömu svipun
sund ok straumr,
flóð ok firðir,
vorn fiskum kvik;
ótalinn urmull,
með ýmsum litum
spilandi á hreistri
ok með spegilhúð,
flokkum saman svamm
í sæ grænum,
sem stundum sýnist
vera sandgarðr;
Ymist einferðum,
eða stórum
hjarðar hópum í
á hafs botni,
í þykkvum þara
næra þessir sik;
aðrir fara þar,
sem flakkandi,
gegnum kvistótta
kúríels skóga[13].
Skemta sumir sèr
í sólskini,
ok bregða við því
brynjum sínum,
spila gullspreklur
í sprikli þeirra;
en aðrir bíða
uppheldis síns
í skelja skála
af skærum perlum,
utan ómaks;
en undir klettum
brynjaðir sumir
eptir bráð lúra.
Sívalr selr,
á sundi lèk,
ok bogin hnísa
í bifi lygnu;
böltúngs biltíngar
ok busl stórra
ferlíkis fiska
flóð uppæstu.
Liggr í djúpi
dýra stærstr,
líkt sem fjall væri,
levíathan;
þegar syndir hann,
eða sofandi
tjáir sik teygðan,
er til at sjá,
lángan leiðar spöl
sem land hrærist;
Heilt haf sjóar
í hvomteyg einum
hann inn um eyrun
í sik slokar,
ok lætr annat,
ekki minna,
úr gini gjósa

[13]) Enn lærði Kirker, var þeirrar meiníngar, at af kúríelum (marmennilssmiðum) gæfust heilir skógar á mararbotni, hvat er rèttlætir þetta Skáldsins orðatiltæki.

geysiligu.
Vattst fram með sama
frá volgum gjótum,
útaf árbökkum
ok uppaf mýrum,
urmull af úngum,
gegnum eggjaskurm,
er sik opnaði
við ástuðníng
nýrrar náttúru,
nú útklöknum.
Fyrst voru fuglar
fjaðralausir,
en þær uxu skjótt,
ok þeim upplyptu,
svo hátt hljóðendum,
at horfðu þeir
með fyrirlitníngu
á fold niðr.
Strax bygðu storkar
ok stórir ernir
hreiðr á hreyktum
við en háu ský
Cedrus trjátoppum
ok tindum fjalla;
margir einstakir
mundu fljúga
lángar leiðir
loptit gegnum.
Hinir hygguari
hópum saman,
eins mynduðum
ok oddafylkíng[14],
leggja í leiðángr
lopt kljúfandi,
kunnug árstíð
þegar kallar þá.
Halda þeir ferð fram,
ok fljúga á víxl
yfir land ok lög
til leiðar enda;
er þeim því athöfn
auðveldari,
er þeir athjálpast
allir samt.
Arliga þannig
óheimsk trana
sína fremr för,
flutt af vindum;
ljær loptit rúms,
ok lætr undan
óðum áslætti
ótal vængja.
Hoppandi flögtu
fuglar smærri
á kvist af kvisti,
ok kátir súngu;
klíngðu dalirnir
við klið þeirra,
flugu fjölskreyttar
fjaðrir um kríng
allt at aptni fram,
unan skógar.
Hvergi heldr þá
hætti saungvum
enn nátthelgaði
nætrgali,
ósorg til enda
sem áhlýddi,
hvirflaði hann háum
hljóðum töfra.
Sumir í vatni
silfrkláru
böðuðu brjóst sín
búin dúni;
stoltar siglíngu
stýrði enn prúði
saungvari, svanr,
með sveigðum hálsi,
viðhafnar vængjum
ok vel hvítum lit,
ok fótum fitjuðum
fyrir árar;
Margopt skilr hann
við marhálms vötn,

[14]) Enir stærri farfuglar, svo sem tranan ok aðrir fleiri, fljúga optarst í frammjóum flokkum, hverr eptir öðrum.

ok uppí miðlopt
mektuga vængi
lætr lypta sèr,
meðan landfastir
enn fleiri fuglar
um fold vappa.
Með þeyttum lúðri
þöglar stundir
kambi krýndr
kennir hani;
annar stærir sik
af stèli fögru,
úrbogans litum
sem er útflúrat,
ok alsett augum
eins ok stjörnum.
Nú var flóðfiskum
ok fuglum lopt
uppfyllt orðit
alla vegn;
svo gjörði kvöldkyrð
ok klárr morgun
þann hinn fimmta dag
frumtíðar heims
með helgum saungum
hátíðligan.
Ok nú sköpunar
skínanda sik
sjötti ok síðarsti
sýndi dagr,
háum hljómi með
hörpustrengja;
ræddi þá alhög
raust enn þannig:
„„Landit framleiði [25]
lifandi sálir,
ýmsrar tegundar
ótal dýr,
fènað ok orma,
þeir um fold skríði,
líka villidýr,
sem lifi á jörð,
sèrhvat sundrgreint
í sínu kyni!""
Hán hlýddi jörð

[25]) Gen. 1, 24.

Herrans boði,
ok strax opnaði
sitt ólètt skaut;
ól hún í einu
ótal skepnur,
fjörug fóstr
ok með fullri mynd,
líkhömum ok limum,
sem til lífs hlýddu,
voru þau fullvaxin
í fæðíngu.
Utaf hauðrs húð
hèr sik rífn
varglynd villidýr,
sem af venju stað,
hvar nú halda sik
at hvers eðli,
meginskógum,
myrkvu hrísi,
búskum ok holum,
ok bleytukeldum,
stukku tvö ok tvö
meðal trjánna þau.
Þau en gæfari
grænar foldir
völdu sèr til vistar
ok væn engi;
ýmist örknðu
þau einstök sèr,
eðr hèldu sèr
um haga víða
í stórum flokkum,
ok stallbræðraskap,
rètt sem runnu þau
af rótum fyrst.
Nú fæddi foldin,
ok framkom hálft
ljónit, gult at lit,
laust at framan
krafsaði þat strax
með klóm beittum,
unz enn aptari
uppkom hluti;
Fann þat eigi fyrr
sik fulllosat,

enn þat uppstökk
á augabragði,
eins ok væri þat
úr viðjum sloppit,
ok hristi hraustliga
sitt hrokkna fax.
Lýnxdýr ok tígris
ok leópardus
rótuðu jörð upp,
ok jusu fram
í miklar dýngjur,
eins ok moldvarpa;
skjótfættr hjörtr
skaut upp höfði
marghyrndu, meðan
í mold var enn.
Miklu bágara
veitti behemot[16],
stærstum dýranna,
sem storð fæddi,
liðastyrðan sinn
at losa kropp
frá miklum moldarhnaus,
móður skauti.
Jarmandi hjarðir
uppaf jörð spruttu
í loðnum reifum,
likt sem jurtir;
en bifhestrinn,
ok enn brynjaði
krókódill, stóðu
storðar milli
ok unnar, bil beggja,
hvar búa skyldu.
Allt kom í einu,
þat eptir jörð
dregr sik ógegnt
í dýraríki:
allir skriðormar
ok skorkvikendi;
breiddu út en seinni
blökur grannar
með ýmsum litum,
eins ok vængi;
Smávaxna limu
ok smíðis netta
sína sýndu þau,
eins ok sumarit
prúðbúna pentum
með purpura lit,
grænum, himinblám
ok gullfágum;
En enir fyrri
drógu eptir sèr
lánga líkhami,
sem lóðarstrengi,
ok með krókaföá
klíndu hauðr;
þat er slaungu slóð
hvar slæpast þeir;
ei eru ormar
allir smælki.
Nokkrir naðar kyns,
í nærsta þètta
hlykki hríngvafðir,
hlutu vængi;
voru viðundr
fyri vaxtar skuld,
at lengd ok digurð,
linnar þessir.
Spratt ok skreið fyrstr
sparsamr maur,
ok önn alandi
fyrir ókomnu;
undir ytri ham
auðvirðiligum
hylr hann hjarta,
sem er harðla stórt;
máske síðarmeirr
munstr verði
rèttvíss jafnaðar
hans ríkisstjórn,

---

16) *behemot* ok *leviathan* eru tvö dýr, hverra getit er í Jobsbók; fyri þau hafa enir eldri útleggendr skilit fílinn ok lýngbakinn, en enir nýrri hafa leitazt við, at sýna, at behemot sè vatnshestrinn, en leviathan krókódillinn; Milton fylgir enni fyrri meiníngu.

frjáls fèlagskapr
hvar eð festir allt.
Því nærst kom á kreik
kvennbífluga,
ok fór fljúgandi
með fjölskyldu,
elr hún ver sinn
yðjulausan
vel ok vandliga,
ok vaxhús gul
hvervetna fyllir
meðr hunángi.
Hverr getr talit
hinar tegundir?
Þekkir þú þær vel,
ok þeim gafst nöfn;
sem þèr bezt eru
sjálfum kunnug.
Einnig þekkir þú
þar ámeðal
höggorm, slægari
hverju dýri
því, er fæðir fold,
frammúr teygðan,
með augum eldrauðum
ok ógnar faxi;
þó skaðligr eigi
þèr er hann,
heldr boðorði
hlýðinn þínu.
Nú skein festíngin
í fullum glansa,
ok höfðu hræríngu
hennar knettir,
þá, sem þeim setti
þess ens Mikla
hönd, sem hrærði þá,
nær hófust fyrst.
Hýrt brosti heimr
nú í háskrúði
svo fagrliga
fullmyndaðr;
lopt, vatn ok land,
var af lifandi
fuglum, fiskum
ok flokkum dýra,
fjölflogit, syndt
ok fótum gengit.
Þó var drjúgt eptir
dagsins sjötta;
en brast aðalmið
alls ens skapta;
Guðs máttku mundar
meistaraverk
enn var óskapat
hit ypparsta.
Enn skorti skepnu,
þá er skyn hefði,
eigi sem aðrar
án óðs ok máls,
nè meðr höfði
niðrlútu
hefði æ atvendt
augu hauðri;
Heldr gengi hún
með hæð reistri,
heilagri skynsemd
í hjarta gædd,
ok með alskíru
yfirbragði,
sjálfs síns þekkíngu
ok sinni prúðu,
himnesks samneytis
hluttakandi;
En þó æ þakklát
þekki ok játi,
at hafi gott allt
af Guði þegit,
hug sinn ok hjarta
til himins upp,
orð sín ok augu,
láti æ hafin,
hærstan heiðrandi
heims Skapara,
sem henni vald veitti
verka sinna.
Sagði því svo
við Son eingetinn
eylífr Faðir,
alls skapari:

(hverr er, sá staðr
at hann eigi,
sem er allstaðar,
sè einnig þar?).
„„„Látum oss,"" kvað hann,
„„þann oss líkr sè
eptir mynd vorri
manninn skapa,
sá er flóðs fiskum,
ok fuglum lopts,
drottna skal yfir,
ok dýrum jarðar,
ok öllum ormum,
sem þar um skríða!""
Svo kvað Almættit,
ok, Adam! þik,
þegar skapaði,
þik, ó, maðr!
já, þik Jehóva
skóp af jarðar leir,
ok blæ lifanda
blès þèr í nasir.
Sjálfs hann samdi þik
eptir sinni mynd,
Guðs mynd þik hann lèt
gjörðan eptir,
svo at lifandi
sál ert vorðinn;
karlmann skóp hann þik
ok þèr kvenmann gaf.
Mælti hann þá blessun
manna kyni,
ok sagði: „„Aukist
ótalfaldist,
fyllið frjófsamir
fold gjörvalla,
ok hana yðr
undirleggið;
fiskum flóðanna,
fuglum lopts,
ok dýrum jarðar
drottnið yfir.
Þik þannig skaptan
frá þeim stað hann,
þá hvergi heitnum,
híngat flutti [17],
sem þú sjálfr veizt,
ok setti þik
inní aldingarð
þenna ágæta;
Inní lund þenna,
ljómanda blóma,
ok alsettan
með eyknm Guðs,
svo sætt lokkanda
fyri sjón þína,
sem gómsmekk þínum
girniligan;
Alla ena ítru
ávexti hans,
svo mikla, mæta,
ok svo margskonar,
er jörð, almóðir,
af sèr gefr,
svo sundrleita
sín á millum,
gaf hann þèr til gagns
góðfúsliga.
En af einu trè,
hvers ávöxtr
gefr greind, ètinn,
um gott ok íllt,
máttu öldúngis
ekki bergja;
á hverjum degi,
sem drýgir þú
misgjörníng þenna,
muntu deyja.
Þat er þá dauðinn,
sem þar af fylgir;
tem því lyst þína,
ok tak þèr vara,
at syndin eigi
vaði uppá þik

17) Gen. 2, 15: „Guð Drottinn tók manninn, ok setti hann í aldíngarðinn Eden;" þetta sýnist ávísa, at Guð hafi skapat manninn á öðrum stað, ok flutt síðan inní Paradís.

með sínum svarta
sveini, dauða!
Endaði verk sitt
enn Almáttugi;
leit hann yfir allt,
sem unnit hafði,
var þat algjört allt
ok yfrit gott;
svo kvöld ok morgun
fèkk sjötti dagr;
Eigi var hann allr,
fyrr enn aflèt Guð,
utan þreytu þó,
þessu verki,
ok sem sigrandi
á sjálfan vendi
himin himnanna,
sinn háa stól.
At horfa þaðan
á sín handaverk,
viðbót veldis síns,
veröld skapta,
hvort at sýndist sú
svo í fjarska
fögur ok fullgóð,
ok fyrisettu
áformi samkvæm
algjörliga.
Guð steig í hæðir,
ok gleðihróp
himins hákóra
honum fylgdu,
heilagra harpna
hagl'a stilltu
tíu þúsundir
tóna saman,
ok sèr úthelltu
við engla ljóð.
Klíngdu lopt ok jörð
móti klið þeirra,
sem þú sjálfr manst,
er slíkt heyrðir;
gjörvalt himinhvolf
ok hver stjarna
sungu samstillt lof
um sína sköpun;
háar plánetur
hlýddu kyrrar,
meðan uppsteig
sú en mikla dýrð.
„„Uppljúkið yðr,
þèr eylíf port!""
svo sætt hljómandi
súngu kórar,
„„látið lokit upp
lifandi portum
þèr, himnar! fullir
af fagnaðar saung;
Allsherjar smiðis
svo at innum þau
mikill Meistari
megi gánga,
aptr komandi
frá undra sköpun,
sex daga verki,
sömdum heimi.
Opnið yðr nú,
ok opt síðan,
því enn Eylífi
mun þrátt vitja
bólfestu manna,
þar er bygð egu
enir rèttlátu,
sem elskar hann.
Þrátt munu þarmeð
fyri þeirra skuld,
af æðstu Mildi
ofansendir,
í hám eyrendum
frá uppheimi,
vængjaðir sveinar
verða híngat.""
Svo kvað háleit hirð,
þess til himna steig;
gekk hann greiðan veg
gegnum þeirra
öll port opnut,
afar rúm stræti,
allt at eylífu
atsetri Guðs.

Allt dupt strætanna
var einskært gull,
þau voru gjörvöll
þakin stjörnum;
eins ok þèr virðist
um vetrarbraut[18],
sú er sýnist þèr
svo sem belti
um húm, á himni,
þar er hvítu sè
dreift yfir dupti
dýrra stjarna.

Kom nú sjöunda
kvöld yfir jörð,
því glæstr röðull
gekk til viðar,
en rökkr rakasamt
rann frá austri,
sem er ósorgar
undanfari.

Þá hærst á himni
uppá heilagt fjall,
á sjálfs Guðdómsins
göfugt sæti,
þat um eylífð er
óbifanligt,
kraptr Sonarins
sèr klárr lypti;

Nærst sínum Föður
hann niðrsettist,
sá er viðverit,
þá veröld skópst,
ósýniligr
einnig hafði,
en þótt sitjandi
á sínum tróni;
ein hefir slíka
yfirburði
allstaðar nálægð
almáttugs Guðs.

Hann, upphaf allra
ok endir hluta,
nú hvíld hafandi
eptir háleitt verk,
at heims framleiðslu
fullkomnaðri,
dæmdi sjöunda
dag til helgar;
Herrann blessaði
sinn hvíldardag[19].

Þó var hann þá sízt
með þögn einni
haldinn heilagr,
heldr saungum;
hljómuðu hörpur,
ok hvíldust eigi;
lètu lífliga
lúðrar ok horn,
hátt gall hljóðpípa
ok hátíðliga.

Vel súngu saman
silfr ok gull
í stilltum strengjum,
ok sterkum röddum
samblönduðu sik,
er sálma kváðu,
ýmist einstakar,
eðr í flokkum.

Gusu gufuský
uppaf gullkerum,
brennt var reykelsi
ríkuliga,
huldist heilagt fjall;
heiðraðist þannig
Drottins sex daga
dásemdarverk:

„„Stór eru verk þín,
þú, enn sterki Guð!
mikil er þín makt,
ok mælist ekki;
hve fær skilit þik
skaptr þánki?
eðr útmálat
orðum túnga?

Aptr heim kominn

---

18) Mjólkrvegrinn (á íslenzku: vetrarbraut), er ótal litlar stjörnur, sem með sjónpípu verða skírliga atgreindar, þótt eigi sjáist með berum augum. 19) Þessa orsök tilgreinir Móses, Gen. 2, 23.

ertu meirri
frá för þessi,
enn hit fyrra sinn,
þá er þussenglum
þeyttir niðr;
gjörðu þrumur þinn
á þeim degi
allrar ógnunar
augljósan krapt;
stærra er at skapa,
enn sköptu at eyða.
Hverr er eins ok þú?
eylífi Guð!
ó, þú Konúngr
kröptugasti!
hverr má hindra
þitt herradæmi?
hverr má tign þinni
takmörk setja?
Utan umsvifa
ok allrar mæðu
illfúsar lèztu
at engu verða
anda rángiátra
ráðagjörðir,
forgefins varð þeim,
at freista þín.
Með því þeir þenktu,
at á þinni dýrð
takast mundi þeim
tjón at vinna,
ok at tæla oss,
sem þik tilbiðjum,
at falla frá þèr
í flokk með þeim.
Onei! hverr sem hyggst
hátign þína
guðdómliga
at gjöra minni,
verða hlýtr víst,
móti vild sinni,
mesta meðal
til at mikla þik.
Veröld nýsköpuð
er vottr þessa,
himin annar,
eigi hèr lángt frá,
bygðr bjarta-glers
á bláhafi
(eptir áliti)
óendanligu,
þat er ótal er
alsáð stjörnum;
Máske heimr sè[20]
hver ein þeirra,
þó litlar sýnist
lángt til at sjá,
ætlaðar skepnum
til ábúðar;
þèr eru tíðir
þeirra kunnar.
Heyrir ok einnig
til hóps þessa
böllótt jörð,
þar er búa menn,
umhverfis lukt
öllumegin
af nærsta víðu
neðra hafi.
Þrí-farsælir
eru þessir menn,
ok þrí-farsælir
þeirra synir,
sem af Guði svo
eru sæmdir náð,
ok hans skærri mynd
skaptir eptir;
At þeir eigi jörð
fyrir atsetr,
tignendr hans
ok tilbiðendr;
ok til umbunar
yfirdrottni
lopts, hafs ok hauðrs,

[20]) Milton lætr engilinn hèr segja: „máske," því á hans dögum var meiníng manna, um fleiri veraldir, ekki svo algengin, som nú á vorum.

hverri skepnu.
Ok svo ætt heilög
útbreiðist þar,
sú er göfgi Guð,
grúi manna,
ó! þá prísæla,
ok þaðan af meirr!
ef rètt þekkja þeir
þessa gæfu,
ok eru stöðugir
í því góða!"'"
Engla súngu svo
sælir flokkar,
allr himininn
kvað: hallelúja!
svo voru siðir þar
ok sabbatshald.
Birt hefir ek svo
eptir bón þinni,
ok til fullnustu,
þat er frèttir at:
hvernig heimr skópst
ok hlutir allir,
ok hvat viðbarr
áðr varstu til,
svo at kynnist þat
í knerunni,
örfum þínum,
ótal-marga.
Ok ef týsir þik
fleira at vita,
þat er þekkst getr
á þessi jörð,
máttu þat mæla
at mínu leyfi."

---

## Hèr hefr
## Attundu bók Paradísar missirs.

Her lauk Raphael
ræðu sinni;
en eptirklíngdi
fyrir Adams heyrn
fángandi raust hans,
svo at fannst honum,
engill þagnaðr
sem enn ræddi.
Sat hann gaumgæfinn
ok grundaði;
voru þánkar hans
þar við festir,
unz uppvaknaðr,
eins ok af blundi,
þakklátu þeli
hann þannig kvað:
„Hvílíka umbun,
ok hverja þökk,
get ek goldit þèr,
guðligi fræðir!
fyri framlestr
svo fáheyrðrar,
ok svo ypparligs
efnis, sögu?
Þareð þorsta minn
eptir þekkíngu
þú með slíkri gnægð
slökktan hefir,
ok virðt viðtals,
svo sem vinr, mik,
lítilátr
ok ljúfr nærsta.
Til þess at tjá mèr
tíðendi þau,
er ek ella þekkt
aldrei hefði,

ok nú fyrst hefi,
til forundrunar
með höfnum huga,
heyra fengit,
ok til skyldugrar
við Skaparann,
þann enn almáttka,
þakkar ok lofs.
Þó er enn eptir
innan brjósts mèr
efi nokkr,
sem þú einn getr
með fullri fræðíngu
frá mèr tekit.
Þegar af undrun
upptendraðr
himins bygging u
ok hauðrs þessa[1]
skæra skoðar ek,
ok skírt reikna
allra þeirra stærð
ok ummáls vidd,
ok ek þessa jörð
þar ámóti
álít einasta
svo sem ögn ok púnkt,
dálítit sandkorn
eða dupt-morku,
í líkíng saman
við ljósan heim;
Ok við allar þær
ótal stjörnur,
sem á festíngu
sýnast hlaupa
umhverfis hrínga
ómælanliga,
(svo sem af feyknum
þeirra fjarlægðar
er at álykta,
ok aptrkomu
sífeldri hvern dag,
í sama mund).
Sem at eins sýnist
til at senda ljós
degi ok draumnjórun
dimmrar jarðar,
þar sú geysistærð
til gagns virðist
nær því eigi neins,
nema þessa.
Þegar ek þetta
meðr þaunkum veg,
undrast ek allopt
ójöfn skipti
vísrar náttúru,
hve valdi skakkt,
hún í hvívetna
hagnaðarsöm;
En hèr með atferð
eyðslusamri
hve til eins þessa,
sem oss virðist,
lèt hún líkhami,
lángtum stærri,
sjálfri jörð vorri
samda þannig;
Ok þeim svo hraðt hlaup
kríngum hríng víðan
sett æ nátt ok dag
á ný hit sama,
þá er þrumir kyrr
þessi hnöttr,
miklu lèttari
ok minni þó.
Skundat skjótara
ok á skemri tíð
hann kríngum hina
hèr fyri gæti;
en honum ótal
æðri stjörnur

[1]) Hèrmeð gefr Adam englinum tækifæri til at framfæra meiníngar Ptólómeí ok Cópernící, um heimsins byggíngu; en Skáldit brúkar hèr þá varsemi, at höfuðengillinn segir hvoruga útþrykkiliga vissa; hefði Milton lifat nú á dögum, hefði hann máske hiklaust látit engilinn fallast á meiníngu Cópernící.

þó eru settar
til þjónustu.
Fær hann fullnað sinn
án fyrirhafnar,
ok án hræríngar
allt, hvat hann þarf;
tekr hann grafkyrr
móti tolli þeim,
honum lokinn er,
ljóss ok hita.
Heimsækja þau hann
hversdagsliga,
feykna flóðstraumr,
með fljótri rás,
meir' enn líkhömum
er mest lagin,
ok svo ímyndun
einnig sjálfa
brestr tölu til,
at teikna slíkt."
Svo kvað forfaðir
enn fyrsti vorr;
sást af ásýnd hans
auðveldliga,
at í hugskoti
voru huldir djúpt
alvöru þánkar
ok ígrundunar.
Eva varð þess vör,
ok vèk úr sæti,
því, er haft hafði,
meðan hlýddi til,
eigi allnærri,
en þeim andspænis;
hún harr hæversku
hátignarliga;
Svo var furðanlig
fegurð hennar,
at sá, at eins
hana augum leit,
óskaði með sèr
inniliga,
at virðast vildi
til, at vera kyr;
Til at umskygnast
eykr ok grös,
sem henni tíðt var
ok tamt at rækta,
gekk drós dæilig,
hve þau döfnuðu,
hvort blóinstr bæru,
bar ok knappa.
Blíðligarr brostu
móti brúði þau,
ok breiddu betr út
blöð ok greinir,
er' þau fundu sik
fíngrum hennar
ástúðligum af
áhrærð vera.
Þó gekk hún eigi
fyri þá skuld burt,
at röksamligar
ræður hinna
um höfga hluti
henni væru
óskemtiligar,
nè ofháar.
Heldr handa sèr
hugðist svanni
ánægju þá
at eiga geymda,
þartil síðarmeirr
at saman þau,
Adam ok hún,
væru í einrúmi.
Mætara mat hún
af munni vers,
en þótt innt væri
af engils túngu,
fróðligri at taka
ámóti frásögu,
ok heldr hugljúft
hann at frètta.
Gjörla vissi víf,
hversu verr hennar
sínu vanr var
at venda tali
ýmisliga
til unaðsemdar,

ok, hvat óð hennar
ofhátt sýndist,
geðfeldu gamni
at gjöra ljóst.
Var þat víst fleira
frá vörum hans,
enn orð einber,
sem Eva vænti,
ok var þóknanligt
at þeim fylgdi;
ó! hvar sjást nú svo
með sóma ok ást
sæl hjón sameinut
sín á milli?
Greiðt gekk nú Eva,
svo sem gyðja, fram,
frábær at fegurð,
eigi fylgdarlaus,
heldr umkríngd
af iðugliga
henni þjónandi
þokkagyðjum.
Dýrkuðu þær drós,
svo sem drottníngu,
ok umkríng hana
á allar síður
skutu örfum út
eptirlaungunar
í eins ok sèrhvers
augu ok hjarta;
allir óskuðu sèr
Evu at sjá.
Adams eptirspurn
um efamál
Raphael, mildr
ok reiðubúinn,
gaf nú síðan svar
svo látanda:
„Eigi lastar ek
atspurn þína,
því bjartr himin
er sem bók nokkr,
sem þèr setti Guð
sjálfr opna,
lofsverð stórmerki
svo lesir hans;
ok til at tjá þèr
tíma, stundir,
eyktir, mánuði,
ár ok daga.
Ok til at ná nú
nytsemi þeirri,
varðar vettr um,
at vitir þú,
hvort jörðin hrærist,
eða himin einn,
ef þú ratar rètt
með reikníngi.
Allt annat hefir
alheims Smiðr
vísliga viljat,
at væri byrgt
engla sem manna
fyrir umvitund,
ok lukt þeim sína
leyndardóma.
At þeir ályktun
eigi skyldu
hans um handaverk
háleit fella;
þareð skyldugra
þeim er miklu,
dázt at ok undrast,
enn at dæma þau.
En ef dyrfast þeir
dýpra at grufla,
ok með getgátum
götva þau upp,
þá er himinsins
heila smíði
opit ok öndverðt
áflogum þeirra.
Dylst hann eigi við,
at dátt næsta
hann muni hlæja
at hofmóð þeirra,
ok heimskuligum
heila-grillum,
þá eptir þetta
þeir ákvarða

mælíngu himins
enni miklu vídd,
ok rembast við,
at reikna stjörnur;
Þá hann varr verðr,
veraldar öllu
hversu stýra þeir
stóru smíði,
byggja ok brjóta,
sem þeim bezt sýnist,
allt upphuxandi,
til at umbæta
himinhnattanna
hegðun ok gáng.
Hve þeir hvervetna
mála hvel þeirra
bísna bendluðum
baugakerfum,
ýmist innan
eða utan miðju,
hríngr hríngar sik
um hríng utan,
ok sem dægra-dvöl
dregst hverr í annann.
Þínum þat ek ræð
af þánka dómum,
at muni arfar
koma útaf þèr,
þeir er þèr verða
parí líkir.
Er þín ályktan,
at ættu sízt
líkhamir stærri,
sem um lopt skína,
enum myrkvari
ok minni þjóna,
nè heldr himin
hljóta at renna
þvílíkt lángleiði,
meðan liggr jörð
ávalt óhrærð,
ok ein þess nýtr.
En gef fyrst gaum at,
at glansi ok stærð
eigi votta víst
vegsemd stærri;
má svo makliga
þó mjök sýnist,
hauðr þetta
móti himni smátt,
ok án eigin ljóss,
auðngra vera,
enn sólin sjálf
at sönnum gæðum;
Ofrjófsöm er hún,
þótt alskír sè,
eigi ornast hún
eld sinn viðr,
heldr frjófsöm fold,
sem fyri verðr
afllitlum ella
hennar ilgeislum,
ok þá fyrst finnr
framkvæmd þeirra.
Er þat þó ekki
eginliga
foldin, sem fögr
festíngar-ljós
þjóna sífeldt svo
með sinni birtu,
heldr ertú þat,
sem þar á býr.
A ok himins vídd
ómælanlig
hátign Skaparans
at herma þèr,
er rúma byggíngu
svo reist hefir,
ok takmörk sköpunar
teygt svo lángt;
Svo sjái maðrinn,
at sè hann eigi
aleinn eignar hans
ábúandi,
heldr at honum
sè heimr þessi
alltof-stór
upp at fylla.
Með því at megu
þar af minnstan hlut

ábúðar ráð hans
yfirgrípa;
en allt þar umfram
er til annarar
nytsemdar gjört
ok niðraðat,
er sá bezt þekkir,
er bjó þat til.
Og hans almætti
einu saman
skaltu tileigna
skjótleik knatta
enna ótöldu,
þú uppi sèr;
sá er lagiun lèt
líkhömum þessum
hartnær andligum
hraða skunda.
Halda muntu mik
eigi mjök seinan,
fór ek at heiman
fyrst í morgun
af hærstum himni,
þar er Herrans trón,
ok var hèr kominn
fyrir hádegi;
en at útmála
þann óra-veg
erat tala til,
sem tekr nafni.
Segir ek þetta,
til at sýna þèr,
at sè rás himins
ráð fyri gjört;
eru efamál
þín óðarr fallin;
þó er því eigi
fyri þá skuld játt,
at þeim sýnist svo,
sem hèr búa.
Vegu duldi drótt
Drottinn sína,
ok hóf himininn
frá handri lángt,
svo foldskapt auga,
sem af forvitni
ofhánm hlutum
horfir eptir,
villist í gátum
án vissu neinnar.
En, ef miðpúnktr
er alheims sól,
ok hin himintúngl,
af hennar krapti
ok sínum egin
svo sem upplífgut,
dragast ok danza
í deildum hríngum
umhverfis hana
ýmisliga?
Sèrðu sex af þeim
sína gánga
stefnu, stundum hátt,
en stundum lægra,
byrgja þær ok stundum
bauggáng sinn,
gánga ýmist áfram,
eða til baka,
stundum standa þær
í stað kyrrar.
En, ef jörðin er,
þó alkyr sýnist,
með sex plánetum
ein hin sjöunda,
ok, þóat ekkert
á því beri,
hefir ýms háttar
hræríngar þrjár?
Nema þú ella
vilir neyðast til,
ýmsum öðrum þær
at eigna hnöttum,
þeir er um þvert sik
ok í þrábugi
hræra, hríngafá
hverr í annars.
Svo máttu spara
sólar starfa,
ok jafnframt honum
(ef at jörðin snýst)

hjólit hraðfara[2],
hærra stjörnum,
þat er efst hnatta,
ósýniligt,
harðla snörum
meðr snúníngi
ollir umskiptum
óljóss ok dags.
Þó er eigi þörf,
at þenkir slíkt,
ef jörðin sjálf
er umreykandi,
ok sèr sækir ljós
frá sól í austr,
fær þá húm helftin,
sem frá henni veit,
meðan upplýst er
en athorfandi.
En, ef ljós þat,
sem svo lángan veg
nær gegnum glæan
geym lopts híngat,
skín jafnt um daga
yfir jarðligt túngl,
sem á þessa jörð
þat um nætr;
svo þannig þjóni
þau hvort öðru
á víxl, ef eru
einhverir þar
bústað egendr,
björg ok vellir?
Bletti sýnir þèr
bleikr máni
skýum áþekka[3],
ok ske má sèu
dampar döggfullir,
sem deigja land,
at þat ávöxtu
af sèr gefi,
þeim til þarfa,
sem þar búa.
Ske má síðarmeirr,
at skerptri sjón,
fundit fáir þú
fleiri sólir
með þeim fylgjandi
mána hvelum,
sem, með samblöndnu
sínu ljósi
karlkyns ok kvennkyns,
megu kveikt láta[4]
fjör ok frjófsemi
fyrir allt.
Því tvö kynferði
þessi miklu
öllum heimi
gefa eðlis fjör;
sá, í serhverjum
sínum knetti,
er með einhverjum,
sem egu líf,
margskonar skepnum
máske fylltr.
Mjök er efanda,
svo mikit rúm
auðt sè ok óbyggt
af öllu lifi,
til skins eins skapat,
þareð skýmu ljóss
sendir jörð at eins
sèrhvörr hnöttr

[2]) Svo nefnir Milton primum mobile ennar gömlu stjörnufræði; þetta var eitt hvolf, sem menn ímynduðu sèr yfir öllum öðrum hnöttum pláneta ok fastra stjarna, at í sèr hefði ena fyrstu upphafs hræríngu, ok meðdeildi hana með skjótleik sínum öllum öðrum hnöttum. [3]) Þat sýnist, sem Skáldit hafi haldit bletti túnglsins at vera ský, eða dampa, en líkligra sýnist, at þat sèu stór vötn ok höf, því væru þat ský, mundu blettir þess ekki ætíð sýna sik í sama stað. [4]) Eptir enni gömlu stjörnufræði, þá menn tilenkuðu sólinni eitt karlkyns, en túnglinu kvennkyns ok kraptaminna ljós.

um svo lánga leið,
er hún lætr þó
af sèr til baka
endrvarpat.
Sè þetta þannig,
eða þá ekki,
hvort röðull renur,
sem ræðr mest,
hvervetna kríngum
hauðr þetta,
eða kreikar þat
kríngum röðul;
Hvort en sama sól
síveltandi
skundar skriðloga
skeið frá austri;
eða veltir sèr frá
vestri jörð,
svo hógt ok hógt,
sem hana syfi,
umhverfis ás sinn
úrtöku jafnt,
ok berr þik líðandi
með loptinu;
þá er engi þörf,
at þaunkum djúpum
um hulda hluti
mæðir huga þinn;
heldr skil eptir
Skaparanum
önn ok umsorgun
fyrir öllu því.
Inn honum ætíð
ótta ok hlýðni!
lát hann annara,
at egin vild,
skipa til háttum
skepna sinna,
hvar sem helzt eru
af honum settar.
Gjör þik glaðan
við þat gefit er,
við ypparliga
Eden þessa,
ok Evu þína,
sem er enn fegri;
hitt at vita,
sem á himni sker,
er þèr ofhátt
ok utan þarfa.
Vertu með auðmýkt
víss, ok grunda,
hvat þèr viðvíkr
ok veru þinni;
um aðra heima
lát þèr ekkert dreymt,
hverir haldi þá,
hvílík sèu
kjör þeirra, vegr,
ok verðugleikar.
Lát þèr nægja,
þat er nú hefir
fengit fregnat
af frásögn minni,
ekki einasta
þat á er jörð,
heldr á hærstum
himni líka.''
Adam, efa síns
at öllu lauss,
aptr englinum
annsar þannig:
„hversu hefir þín
hugarmildi,
þú, hreinn ok hógværr
himins kraptr!
uppfyllt ósk mína
algjörliga,
ok þúngum efa
mèr af þaunkum lètt.
Kennt hefir þú mèr
kyrð í geði,
at eigi raskist
fyrir ofdjarfar
eptirgrenslanir
inndæli lífs,
hvaðan ángist öll
eylífr Faðir
bauð lángt í burt
at búa skyldi;

En einkis ama,
nè órósemi,
okkr afla,
nema æstum sjálf
fáfengiligri
meðr forvitni,
ok með hvarflandi
heilaköstum.
En vor ímyndan
ok andagipt
eru gjarnar á
at gana um of,
nema taumhaldi
tamdar sèu,
ok hvíla hvergi
hvarflanda flug;
Utan aðvaran,
eða reynsla,
leiði þær loksins
til at læra þat,
at sè sönn vizka
síðr enn ekki,
þótt offjarlæga
þekkjum hluti,
oss ofóþarfa
ok yfrit myrka,
heldr hvat nærst er
fyrir hvers dags líf.
Allt þar umfram
er eintómt ryk,
hjóm ok hègómi
ok heimsk dyrfska;
þat er oss at eins
óhæfiliga
til greindar gjörir,
at grenslast um
þat, sem mönnum er
mikilvægast.
Látum okkr því,
at lægðu flugi
frá svo hátt höfnum
hugleiðíngum,
um hluti ræða,
þá sem hèr eru
fyrir augum oss,
ok einkanliga
mèr megu þèna
til meira gagns.
Máske mèr gefist
með því færi
til at frètta þik,
fróðleiks vegna,
um margt merkiligt,
sem mik stoðar,
ok þitt ljúflyndi
gefr leyfi til.
Hefir þú hermt mèr
hluti skena
áðr ek var til
fyrir utan mik;
lát mik nú skíra
þat mik sket hefir,
ef þat máske fyrr
eigi heyrðir.
Enn er dags eptir,
ok þú allvel sèr,
hve ek leita lags,
at lengr megi
draga dvöl þína,
þar er dyrfist ek
þik um áheyrslu
þóknanliga
svo at biðja
sögn minnar.
Djörf væri bón sú
ok mjök dælskufull,
ef hún eigi því
at eins skeði,
at ek andsvars þíns
uppá hana
efalaust
aptr vænti.
Því svo þikki mèr,
meðan þú dvelr,
sem ek í himni
sjálfum væra;
ok yndisligri
fyrir eyrum mèr
reynist ræða þín,
enn ríkugligr

kjarni gleðr góm
af greinum pálma.
Sá er fljótt seðr,
allt hvat sætr er,
mína matarlyst
ok mun drykkjar
eptir erfiði,
þá æstar tíð
okkr nærandi
at neyta fæðu.
En guðdómligar
orðræður þínar,
svo lystiliga
sem þær lynda mèr,
mega mèr aldrei
metta gjöra
heita hugargirnd
til at heyra þær."
Með himinhýrn
hèr til svarar
vinar viðmóti
vorum föður
Raphael engill,
ok ræddi svo:
„Mjök eru líka,
manna faðir!
viðunanligar
varir þínar,
eigi fara orð
þèr illa um munn;
hefir Alfaðir
æðstum gáfum
inn ok útvortis
á þik hlaðit,
þú veglig mynd hans
vís ok fögr!
Eins hvort orð mælir,
eða þegir,
býðr þokka þú
af þèr ok ást;
orð þín ok atlot
unan prýðir,
allt er sómasamt
siðferði þitt.
Eigi heldr ert þú
af oss á himni
minnr metinn,
enn meðþjón vorr,
í skylduhlýðni
við vorn Skapara;
líka vilju vèr
um vegu Guðs
í meðferð mannsins
sem mest fræðast;
Af því vèr sjáum
þat hann eins hefir
harðla háum þik
heiðri gjæddan,
ok lífgat jafnri ást
jarðneskan mann;
lát mik nú heyra
þína lífssögu.
Var ek ekki við,
þegar varðstu til;
örðugs eyrendis
var ek útsendr
með miklum skara,
myrkvar leiðir,
lángan villuveg
at vítis portum.
Hátt boð höfðu vèr
at halda vakt,
at enginn óvinr
þaðan útslippi
af flokkum fjanda,
meðan framkvæmdist
háleitt stórvirki
heims sköpunar;
At eigi reiðr
Ræsir himna
af svo fífldjörfu
fyritæki
eyðileggíngu
ok ófriðar stygð
við skæra sköpun
skyldi blanda.
Ei þat, at þyrðu
þessir djöflar
án hans orðlofs
at áræða slíkt;

heldr sendir hann
hátignar vegna
oss þrátt einasta,
ok at eyrendum
mikillar maktar
merkiligum;
At hann reyni svo
reiðubúna
honum til handa
hlýðni vora,
honum, sem einn er
alstýrir vorr,
ok einn allsherjar
yfirdrottnari.
Fastliga vítis
vèr fundum geymd
þau en ljótu port
lásum sterkum,
en heyrðum lánga leið
læti þar inni
heldr hávör
ok hark mikit.
Voru þeigi þat
þægir saungvar
nè dýrir danzar,
sem þar dunuðu,
heldr vein ok væl
ok vond öskr,
ergi ok æði
með argafasi.
Fegnir fóru vèr
frá þeim aptr,
ok sóktum sólstrandir
fyri sabbats kvöld,
svo var fyrilagt
um ferð vora.
En hef nú, Adam!
þat er hèztu mèr,
at tjá tilburði
tíðar þinnar!
vit, at allteins er
eptirlæti
mèr þik at heyra,
ok mik er þèr."
Svo hermdi helgr
himins kraptr;
en vor frumfaðir
fann til svara:
„mjök er manni bágt
at mæla slíkt,
hvernig hans sjálfs líf
hófst í fyrstu.
Hverr má sín egin
upptök vita?
þó þrístir mèr til
þess at freista
eptirlángan
svo áköf mín,
at teygja tal okkar
ok töf lengr.
Eins ok af dýpstum
dvala-svefni
uppvaknaðr ek
vissi af mèr fyrst,
þar sem á blómbeð
í balsams sveita
lá ek löðrandi
svo ljúft ok hægt.
Drógust upp dampar
frá deigri jörð,
sem glyn gufa
af geislum sunnu;
óðt brá ek augum
undrunarfullum
upp til himinhvolfs,
ok horfði kyrr
útí loptit blátt
lángan tíma.
Var sem í brjóst mèr
blásit væri
af sterkum anda,
svo at stökk ek upp,
sem til föðurlands
fljúga vildi,
ok stóð upprèttr
strax á fótum.
Ek sá allstaðar
umhverfis mik
hæðir, ok dali
harðla fagra,

skóga með skuggum
ok skæra mörk,
ok bif rennanda
með buldursuðu.
Lèku lifandi
um lagar bakka
með ýmsu móti
margskonar dýr,
fljúga sá ek sum,
en sum gánga,
ok fugla sýngjandi
á fagrlima.
Allt var móti mèr
sem mildt hlæi,
ok háleit unan
mèr um hjarta rann,
skoðanda sjálfs míns
skapnað gjörla,
lim fyri lim
ek leiddi sjónum.
Stundum stóð ek kyrr,
en stundum hljóp,
lèttr ok lipr
í limaburði,
eins ok innvortis
eðlis kraptr,
ok hit frækna fjör,
framknúði mik.
En hverr ek væri,
hvaðan kominn,
ok hverr helzt þannig
mik hefði skapt,
var mèr öldúngis
óvitanligt;
reyndi ek nú til,
hvort rædt gæti;
strax tók at tala
túnga hlýðin,
ok nefndi sèrhvat,
er sá ek, skírt.
Fyrst kvað ek: „„sól!
þú hit fagra ljós!
ok þú íklædd jörð
ítrum blóma,
er svo yndislig
brosir allt umkríng!
fjöll, dalir, flatir,
flóð ok skógar!
Ok þèr, lystilig
lifandi dýr,
sem hèr hvervetna
hrærið yðr!
segið, ef sáuð,
ó, segið mèr!
hvernig varð ek svo[5]?
hvaðan kom ek?
em ek orðinn til
af mèr sjálfum?
Onei! efalaust
hefir einhverr mik
myndat skapari,
af makt ok gæzku
frábærr ok frægr
framarr öllu;
hermið mèr, hvernig
ek hann fæ þekt,
hvernig tignat hann
ok tilbeðit.
Hann, af hverjum ek
hefi þegit,
at ek hrærumst svo,
er ok lifi;
sá er lætr mik
sjálfan finna,
at ek færsælli
er, enn ek veit."''
Æflanda þannig
varð eitthvat mèr
fram reykat, fullum
forundrunar,

[5]) Enginn partr af öllum diktinum kann at hræra lesarann til stærri íhugunar, enn þessi frásaga vors frumföðurs, ok ekkert getr þægiligar inntekit geðsmuni vora, enn at heyra hvílíkir þánkar runnu í huga enum fyrsta manni, þá hann allra fyrst kom nýskapaðr frá höndum síns Skapara.

án þess ek vissa,
hvert ek ætlaða
frá þeim fyrsta stað,
er ek fann mik lífs,
ok leit ljósgeisla
lukkusælan.
En sem ekkert kom
annsvar móti,
settist ek niðr
undan sólskini
á einn blómstrbekk
bisna fagran,
drap ek mèr niðr
í djúpum þaunkum.
Hěr hit fyrsta sinn
heimsókti mik
sætr svefnhöfgi
sínærandi,
valdi mjúku með
yfir mínum hann
skilníngarvitum
þá skjótt ríkti,
máttu þau magnlaus
eigi mótstanda.
En þótt ek þenkti,
at þegar mundi
ek í aungvits stand
aptr á ný
falla til fulls,
þat er fyrri var,
ok vilja vera mín
verða at engu.
En í vetfángi
við mitt höfuð
dreyma mundi mik
at mynd stæði;
fann ek innvortis
af því fyribar,
at ek enn var til
ok enn lifði;
þótti mèr þá,
svo sem þar kæmi
einn í glansa mynd
guðdómligri,
innandi: „„Adam!
upp nú ok vak!
bíðr eptir þèr
þinn bústaðr.
O þú, enn fyrsti
allra manna!
ætlaðr faðir
ótal þjóðum!
kom ek híngat,
því mik kallaðir,
til at flytja þik
í fagran garð,
inni aldingarð
unnunarfullan,
bygðan handa þèr
til at búa þar.""
Þannig mælti mynd,
ok með þat sama
tók mik við hönd sèr
ok hóf mik upp,
leið ek í lopti
ljúft með henni
yfir grund ok geym,
en gekk eigi.
Loksins lèt hann nú
lendt á fjalli,
var þat fjölskrúðugt
af fagrlima,
jafn var toppr þess
ok jarðvegr,
allr umhverfis
eykum prýddr
ágætustu,
sem eru til.
Gángrúm voru gjörð
ok grænir lundar,
skuggafullir
ok skemtiligir;
varla virðtist mèr
svo vegsamligt
þat, er ek fyrst sá
á þessi jörð.
Akaft freistaði
augna minna
ein ok sèrhver eyk,
alsett blóma

ok með ávöxtum
ypparligustu,
ýfði ílaungun
at eta þá.
Við þat vaknaðr,
í veru ok raun
fann ek sèrhvat svo,
sem mik dreymdi;
tekit hefða ek þá
til af nýu
at hvarfla hugsandi
híngat ok þángat;
Nema sú sama,
sem mik flutti,
hefði birzt mèr
meðal bjarkanna
guðdómlig ásýnd;
en glaðr mjök,
ok þó með ótta
yndisligum,
bljúgr fèll ek fram
at fótum hans.
Rètti hann mèr hönd
ok mik reisti hægt,
mik viðmælandi
mildiliga:
„„ek em hann, Adam!
sem þú atleitar,
ek em sá eini,
sem allt þat skóp,
er þú yfir þèr,
umhverfis þik,
ok undir fótum,
augum lítr.
Þèr til eignar
ok til atsetrs
góða Paradís
gef ek þessa;
eig þú hana ok yrk
at eginn vild!
neyt, ok njót sem bezt,
nægta hennar!
Fullu frjálsræði,
ok með fögnuði,
et þú ávexti
af öllum trjám,
sem gefst gnægð af
í garði þessum;
ber ei kvíðboga
fyri bresti hèr.
Þó er ein sú eyk,
sem um íllt ok gott
þèr fær þekkíngar,
ef þar af neytir,
lèt ek hana næsrt
við lífstrèð standa,
miðt í Paradís,
at pantr sè
hollustu trúar
ok hlýðni þinnar.
Vaktaðu varúð,
sem ek veiti þèr,
eigi skaltu eta
ávöxt hennar;
forðastu fárit,
sem þar flýtr af,
þvíat þann hveru dag,
sem þar af neytir,
yfirtroðandi
mitt eina boð,
skal þèr óbrygðult,
at þú deyir.
Dauðligr skaltu
uppfrá degi þeim,
ok jafnsnart horfinn
jarðneskri sælu,
sem þú hèr hefir,
hèðan rekinn
til eymdar-innis
ok til armæðu."„
Strángr varð hann,
ok með stríðum svip
lèt hann boð þat birt,
svo mèr blöskraði;
er sem eyru mín
enn sèu skelfd,
en þótt sè mèr þat
í sjálfs valdi,
at varast voða-straff,
sem viðliggr.

Bráðt tók hann aptr
sína blíðu mynd,
ok mildu máli
við mik sagði:
„„eigi einasta
unaðstað þenna,
heldr gjörvalla
þèr gef ek jörð,
ok öllum þínum
afkomendum.

Egið drottinvald
yfir henni;
allt sè yðar þat
henni álifir,
ok allt, sem andar
í unn ok lopti,
foldar-dýr, fiskar
ok fuglakyn.

Til teikns um þetta
skal tegund hver
dýra, sem fugla,
drífa híngat;
fram fyri þik
vil ek færa þau,
svo þú sèrhverju
sitt nafn gefir,
en þau auðmjúk þik
yfir sik hylli.

Viðlíkt skal vald þitt
yfir vatns-fiskum,
en þótt æstist þeir
eigi híngat,
með því þeir ekki
megu skilja
við sín vot-hýsi,
nè í vindfari
þessu, svo þunnu
ok þurru, lifa.""

Sem hann svo mælti,
sjá! at komu
í feykna flokkum
fuglar ok dýr;
fylgdist par ok par
inní Paradís;
dýrin beygðu sik
ok djúpt lutu,
fuglar böðuðu
fyri mèr vængjum.

Nefnda ek sèrhvert
sínu heiti,
eptir sem atkom
ok þau umgengu,
alkunnugt var mèr
um eðli hvers,
svo skjótan skilníng
gaf mèr Skaparinn.

Þó fann ek ekki
þar ámeðal
þat, er þótti mèr,
sem ek þyrfti fá;
fannst mèr æ einhvers
í fátt vera;
gjörða ek mik djarfan,
ok guðdómliga
svo við sýn
segja þorði:

„„O, hverju nafni
(því nærsta mjök
ert þú æðri víst
öllu þessu,
meiri manninum,
ok meiri enn allt
þat, sem miklum mun
mann er hærra),
með hverju nafni
skal ek nefna þik?

Þvíat mjök gengr
þinn mikilleikr
yfir öll nöfn
óendanliga;
tign þína hversu
skal ek tilbiðja?
ó, þú Skapari allra hluta!
grunnlausra gæða
gjafari þú!
sem þú manninn
hefir með sæmdan.

Þú í hvívetna
fyrir hagsæld manns
svo ríkugliga
sorgat hefir;

en ek sèr engan
meðal alls þessa,
sem þess meðr mèr
megi njóta.
Er nokkr auðna
þá í einveru,
ok hvort mun nokkr
geta notit einn?
ok þótt alls nyti,
mun í því vera
nokkr ánægja
at njóta svo?'"
Svo var ek djarfr,
at segja þetta;
en Guðdóms ásýnd,
sú í geislum skein,
var sem viðbrosti,
ok varð enn fegri,
mælandi þannig
mildum rómi:
„„Hvat er einveru,
sem heitir þú?
eru þó eigi
uppfyllt grúa
lifandi skepna
lopt ok hauðr,
sem bíða búnar
þinnar bendíngar,
at skunda til þín
ok at skemta þèr?
Skilr þú eí skírt
allra skepna mál,
ok veizt vel gjörla
vegu þeirra,
hèr þik umhverfis
sem halda sik?
vit hafa þær þó
ok þekkíng nokkra,
eigi með öllu
sem er at smá;
Máttu umgángast
meðal þeirra,
ok drottna yfir þeim
með dóms valdi;
ærit mikit er
umdæmi þitt.""
Eru þvílík orð
ens Almáttuga,
ok þat sýndist sem,
hann svo þyði;
bað ek nú um nýtt
náðar leyfi
at mega mæla,
ok meðr djúpri
allshugar auðmýkt
inuti þannig:
„„Stór himins Kraptr,
ok Stýrir minn!
mikli Skapari
minn ok Faðir!
lát þèr eigi orð mín
óþekk vera;
ljá máli mínu
þína milda heyrn!
Hefir þú eigi
á hauðri þvísa
sett mik í stað þinn
fyri stjórnara?
ok öll önur dýr,
óæðri mèr,
ærit lángt neðarr
undirgefit?
Hvert má samfèlag,
hver sönn gleði,
hver má samhljóðan,
er sómi vel,
mína tegund
ok þær mállausu,
svo sundrleitar,
saman binda?
Hvert öðru hlýtr
hèr at svara,
allt metum jöfnum
ok at mælíngu
bítt ok meðtekit
á báðar síður;
en hvar mismunr
svo mikill er,
verðr eitt öðru
til amasemdar,

ofherðtr strengr
ok annar slakr
láta aldrei vel
í leik saman.
Fyri því er þat
ek þrái svo,
at fá þat fèlag,
er fullan kunni
taka meðr mèr
munaðar hlut
í hverri skemtun
skynsamligri.
Hèr til fullfenginn
finnr maðr
engan jafnoka
meðal jarðdýra,
skemtir sèrhvert sèr
við sína tegund;
hefir siðbleudni
við sitt kyn hvert.
Ljónit leikr sèr
við ljónsinnu,
vísliga hefir þú
þau valit hjón.
Svo lítt, sem lagin
til lífs saman
eru ferfætt ok
en fleygu dýr,
fuglar ok fiskar,
eða frálcitir
uxar ok apar
í eðlisháttum;
Svo lítt kann einnig
ok síðr miklu
maðr munaðar
mök at hafa,
eðr umgengni
inniliga,
neðri náttúru
við nokkrt dýr."
Eigi ósáttr
með annsvar mitt,
aptr innti svo
enn Almáttugi:
„„hrein er heill sú
ok hugljúf nærsta,
sèr ek þat, Adam!
sem þú hefir
fyri þik hugsat
í fèlags vali
æskir engrar þú,
miðt í ánægju,
ánægju at njóta
fyrir einan þik.
Hverja þánka þá
hefir þú um mik,
ok um ástand þat,
sem ek hefi?
sýnist þèr, sem ek
muni sæll vera,
elligar ekki
ánægjanliga,
ek, sem er einn
í frá eylífu?
Engan þekkir ek
mèr annann nærst,
engan áþekkan,
ok enn síðr
nokkru þann, við mik
sem nái jafnast.
Við hvern á ek þá
at umgángast,
utan skepnur þær,
ek skóp sjálfr,
sem allar eru
óendanliga
mörgum tröppum
frá mèr dýpra,
enn önnr dýr, Adam!
eru undir þèr?""
Enduðu svo orð
ens Almáttuga;
en ek auðmjúkr
hóf enn svo tal:
„„ó, þú, Ypparstr
allra hluta!
allir oflitlir
eru þinna
eylífu vega
ógrynnis dýpt,
ok hæð hvervetna
hræðiliga,

til at mæla með
manna þánkar.
Því þú algjörr ert
í þèr sjálfum,
ok enginn brestr
hefir í þèr stað;
erat eðli manns
einn veg háttat,
takmörk hefir hann,
ok hèr fyri,
með því margt brestr,
mjök svo þráir
lagsmann líkan sèr
til liðs ok bóta.
Er eigi þörf þess,
at þú fjölgir,
sem fyllir allt upp
óendanligr,
allar ígegnum
ok yfir tölur
ertu, þó einn sèrt,
æ fullkominn.
En meðr tölu
gjörir maðrinn
augljóst, at hann sè
ófullkominn;
getr hann líkt sèr
af líku sèr,
ok eykr sjálfr
eptirmynd sína,
sem æ er áfátt
í einveru;
því er honum þörf
þeirrar elsku,
sem honum hèr í
til hjálpar sè,
ok ástar atlota
inniligustu.
Ok þótt þú, aleinn
ánægðr bezt,
megir umgángast
með þèr sjálfum,
án þess fèlagskap
at fá þurfir,
getr þína þú,
ef þóknast svo,
sjálfs skepnu hafit
þèr til samneytis,
ok gjört, sem geðjast,
guðdómliga.
En ek get eigi
meðr umgengni
hafit upp dýr,
sem er hauðrlútt,
nè heldr náð þar
nægju minni.""
Ek innti þannig
einurðarfullr,
ok fengit frelsi
mèr færði í nyt;
tilgefin var mèr
taldyrfska þessi,
ok guðlig gæzku-raust
mèr gegndi svo:
„„Hefir ek, Adam!
viljat híngattil
reyna þik með því,
er þèr sagði;
sèr ek, at eigi
þú at eins kennir
fullvel alla fjöld
foldardýra,
sem nú nefnt hefir
nöfnum rèttum,
heldr þekkir þú
ok þik sjálfan;
Ok vel útþrykkir
andann frjálsa;
þèr í brjósti býr
bílæti mitt,
er eigi veittist
öðrum dýrum;
óverðug þín því
eru þeirra mök,
með fullum rètti
fyrilitin,
ok til síðu sett
af sjálfs dáðum.
Haf æ hèr eptir
svo hátt sinni;

sanngjörla sá ek,
áðr sagðir þú,
at er eigi gott
einn sè maðr;
var ok víst ekki
sá vili minn,
þèr til meðhjálpar
þær at gefa
skepnur, sem þú sást
ok ek sýnda þèr;
Heldr því at eins
ek þat gjörða,
at ek reyndi svo
rèttdæmi þitt,
ok sæi, hvort hluti,
sem hæfa þèr,
vissir at meta
at verðugleiknm.
Þat, sem þessu nærst
ek þèr færi,
skal þèr, vertu viss!
virðast betra,
þín algjör ímynd,
þú annar sjálfr,
maklig meðhjálp þín
ok meginósk,
heil girnd hjarta þíns
ok hæð þánka.'"
Hann hætti tali,
eðr heldr þó,
ek heyrða orð hans
eigi lengr,
mitt hit jarðneska
var mjök svo þreytt
af hins himneska
ofrmegni,
eptir átök þau
átt svo lengi;
Ok eptir strángt strit
um stiga brattan
svo mikils samtals
við sjálfan Guð;
hueig þat at hlutum,
sem harðla lángt
sköguðu ofarr
skilníngarvitum,
úttæmt af afli,
ok af sèr komit,
nú í svefn niðr,
til at næra sik.
Bráðt greip mik blundr,
ok brár lukti
hann, sem náttúran
hefði kallat;
augun urðu lukt,
en opin stóð
ímyndan mín,
sem er atsetr
ennar óbyrgðu
innri sjónar.
Sá ek, þótt svæfi,
sem í leiðslu
staðinn, þar ek lá,
ok þar standandi
sömu dýrðar-sjón,
sem fyri skemstu
hafði vakanda
mik viðr rædt;
Sú, at sundraðri
síðu minni
við negg, hit nærsta
þar nam út rif,
fjörugt, löðranda
í fersku blóði,
ok af lífsöndum
öldúngis heitt;
Víð var undin,
en varð at bragði
af honum aptr
uppfyld með hold,
svo at heilu sik
samanlukti;
rifit handlèk hann
í hagligt form;
Hèraf myndaðist
á millum hans
skapandi handa
skepna nokkur,
mynduð eins ok ek,
en annars kyns;

húu var harðla fríð
ok hugfángandi.
Svo var fögur sú,
at sèrhvat annat
í allri náttúru,
sem var augna-lyst,
lítilmótligra
mèr leizt henni,
ok mèr virðtist víst
sem væri þat
í hennar ásýnd
ok augnasvifi
allt til samans
ok í eitt komit.
Fann ek streyma strax
ífrá stund þeirri
á mitt innst hjarta
unun sæta,
sem fyrr aldrei
hafði fundit til,
ok þat sýndist, sem
svipr hennar
ánægju ok ástar
yndælum blæ
á eitt ok sèrhvat
andat hefði.
Hún hvarf í einu
ok hèr mik lèt
einan eptir svo
í ólýsu;
við þat vaknaðr
ek í vetfángi
hugðist annathvort
hana finna,
eðr hvarf hennar
harma skyldi,
yndis-skirr síðan
at eylífu.
Varð mèr viðlitit,
móti von minni,
þángat, sem ek sá
hin sama stóð,
eigi fjærri mèr,
sem mik fyrr dreymdi,
útbúin öllu,
sem til ágætis
himin ok hauðr
gátu henni veitt,
ok at hún yrði
sem elskuverðust.
Nú kom hún nærr,
þvíat náðug Guðs
hönd, þó hulin mèr,
henni stýrði,
ok veg vísaði
hans voldug raust,
hafði hana sú
harðla vel frædda
um heilagt sáttmál
ok hjúskapar sið.
Full voru af fegurð
fótstig hennar,
en í augum skein
yndæll himin;
öll hræríng, hegðan
ok hennar fas,
voru vafin ást
ok verðugleika.
Gat ek nú eigi,
yfir gjöf slíkri
fyri fögnuði
frá mèr numinn,
haldit mèr frá því,
at hrópa svo:
„„Hèr fæ ek fullt þat,
sem fátt var mèr;
efnt er nú heit þitt
æskiliga,
góði Skapari!
með gjöf þessi;
frábærr Fègjafi!
sem fagrt allt,
ok hit fegrsta
af öllu, þetta,
eigi vildir mèr
láta ógefit.
Sjálfan sèr ek mik
í sýn þessi;
er þat bein ekki
af beinum mínum,

ok manns hold myndat
af mínu holdi?
skal hún karlinna
kölluð vera,
því hún komin er
af karlmanni.
Fyri því skal hann
föður ok móður
yfirgefa,
en eginkonu
sinni samtengjast,
svo þau skulu
eitt hold ok andi
einn vera tvö.""
Orð mín heyrði hún,
er ek hermda svo,
af hugar ákefð
upptendraðr,
en þótt Alfaðir
ósýniligr
leiddi mæta mær
til mín sjálfr.
Samt af sakleysi
ok siðkurteisi,
af göfgi dygðar,
sem í geði bjó,
innra tígugleiks
af tillinningu,
er sik eigi strax
uppnæma lèt,
nè frambauð sik
at fyrra bragði,
heldr hafði sik
hæversk undan,
til at uppörfa mik
ennþá meirr;
Eðr af afli,
svo ek allt greini,
náttúru hreinnar
án nokkrs flekks,
feilaði fljóð sèr
ok fór undan,
svona sígandi,
er hún sá mik fyrst.
Ek kom á eptir,
en allvel barr

hún á heiðr skin,
ok með blíðugri
ristils hátign lèt
röksemdum þeim,
sem ek setti fram,
gefit samþykki.
Leidda ek nú brúði
af blygðun rjóða,
eins ok morgunsins
er mynd fögur,
hátíðligum at
hjónalundi;
allr himininn
ok herr stjarna
hamíngjuríka
yfir heillastund
úthelltu blessun
æskiligustu.
Hauðr ok hæðir
gáfu hylliteikn;
fagnandi fuglar
fagrt súngu;
mildir ljúfligu
í lopti vindar
geispuðu gleði
á græna skóga,
dustandi rósir sèr
af dúnvængjum.
Dásætir dampar
ok dýr reykelsi
blèsu sèr balsams
blómrunnum frá;
unz fugl ósorgar
ástarljúfr
hóf sinn hjónasaung,
ok sèr hraða bað
yfir fjallit upp
aptanstjörnu,
með kveikt brúðarblis
fyri blessuð hjón.
Allt hefir ek nú
um ástand mitt
sögu þulit þèr
þannig mína,
ok hana lengst leidt

uppá Inkkutopp,
sem ek nú nýt
af nægtum jarðar.
Má ek meðkenna,
at mikla gleði
ek ok yndisleik
í öllu finn,
en hvort ek brúka,
eðr ekki, slíkt,
allar mèr engrar
umbreytíngar,
nè heitrar laungunar,
í hjartanu.
Finn ek allar þær
forlystíngar
af sjón ok smekk
ok af sætum ylm,
af jurtum, blómstrum
ok jarðar ávöxtum,
fögrum lundum
ok af fugla saung.
En hèr annann veg
er allt háttat,
hèr fær mik fánginn
þat ek finn ok sè;
eitthvat ókendt rann
í mitt hjarta,
óborin bylgja
í blóð mitt fyrr;
þar ek óhrærðr
við allra stóð
annarra hluta
eign ok brúkun,
ok rèð virðta-vel
við mik sjálfan,
en fyri fríðleiks
feikna skini,
ok tafni töfra hans,
em ek til veikr.
Annathvort hefir
í eðli mínu
náttúran látit
nokkut vanta,
ok eptirskilit
óborgit rúm,
svo sterka laungun
til at standa af mèr.
Eðr hefir hún,
þá mèr hlið skerðti,
ofmikit máske
frá mèr numit;
at minnsta kosti
hefir meirr, enn barr,
fegurðar hún
yfir fljóð ausit;
at fríðleik utan
er hún fullkomin,
en ei innvortis
yfir máta;
At sönnu sèr ek,
þat sinni hefir
eptir fyrstu fá
at fastri vizku
ok enum innri
óðs kröptum gjört
náttúran hana
nokkut minni;
Eigi heldr er
hennar ytri mynd
eins lík Skapara
okkar beggja,
ok er ekki svo
útþrykkiligt
á henni at líta
auðkenni þat,
at hafa herravald
hinna skepna.
Þó samt, nær sem ek
henni nærri kem,
sýnist drósin mèr
svo dæilig,
ok í sjálfri sèr
svo fullkomin,
ok vel vitandi
síns verðugleiks,
at öll orð hennar
ok athafnir
virðast mèr vera
þat hit vísasta,
dygðasamasta

ok dáðabezta.
Hærri hyggendi,
hver sem eru,
virðast mèr hjá vífi
veigalítil;
siti ek við svanna
á samtali,
alvöru ásýnd
ferr af orðspeki,
ok sýnist ekkert
utan heimska.
Með henni fylgjast
myndugleikr
ok skír skynsemi,
sem skapazt hafi
til einhvers áforms
í upphafi fyrst,
en svo upp þaðan
ófyrisynju.
Ok svo allt í eitt
innibindist,
geðsmuna stærð
ok göfgi sálar,
henni Skaparinn
sem skipt hefir,
finna hjá fljóði
fegursta sess,
ok hafa útbreidt
umhverfis hana
vegliga hátign,
sem vakt engla."
Annar engillinn
með ásýnd dökkri:
„niðrattu í nokkru
náttúrunni,
allt gjört hefir hún,
þat hennar var,
þú eins, hvat þitt er,
þarft at gjöra.
Treystu vel vísdóms
enni vissu hjálp,
er þik aldregi,
yfirgefr,
yfirgefir þú
hann ekki fyrr,
þegar hefir þú
hans þörf mesta,
ok hann ætti þèr
við aðra hönd.
Miklu minnr
metandi hlutum
þar er þvílíka
móti þekkíugu
eignar þú
yfirburði;
eðr hvat er þat
þú svo atdáist?
Ok hvat er þat þá,
er þik svo tendrar?
þetta utan á?
án efa fríðt,
verðugt undrunar,
vals ok ástar,
en aldrei þinnar
undirgefni.
Veg þú vel sjálfan
móti vífi þik,
ok met eptir því
ykkr bæði;
opt er ekkert meirr,
enn eginn þótti,
einum til nota,
ef á er bygðr
innri sannsýni
sjálfsmetnaðr,
en eigi teygðr
yfir takmörk fram.
Þess meirr þú af raun
í því æfist,
mun hún þekkja þik
fyri þann, sem ert,
herra ok höfuð sitt
mun hún halda þik,
ok þínum sönnu
yfirburðum
allt sitt hit ytra
offrat láta.
Var hún vegna þess
svo væn sköpuð,
at hún ánægði
augum þínum,

ok gædd göfugleik,
svo gætir þú
ást ok virðíng veitt
viðhjálp þinni;
mun hún skjótt finna,
ef þú frávíkr
rèttum vísdómi
ok ráði þínu.
En ef áunægju
allri framarr
tekr tanm af þèr
tilfinníng sú,
sem fær framkvæmda
fjölgun manna,
þá skaltu þenkja,
at þessi sama
sköpuð er skemtan
skepnum öðrum,
fènaði, vörgum
ok villidýrum;
Eigi svo vanvirðt
hún væri þó,
eðr almenn gjörð,
ef í sèr helðu
not hennar nokkut,
sem nemdi því,
eða verðt væri,
at við þat yrði
sál ok sinni manns
sært ok þvíngat.
En allt, hvat æðra
þú í umgengni
frúar finnr
forkostuligt,
sèrhvat vegsamligt,
verðugt mönnum,
yndisligt, alsvinnt
ok ávinnanda,
utan afláts
skaltu elska þat.
Þvíat ágætt er,
at elska rètt,
en með geðglöpum
er gott eigi,
er sízt elska rètt
í því fólgin;
þánka hreinsar hún
hæfa dýrum,
ok víðkar hjartat
til ens vegliga.
Drottnar hún í skynsemd
ok dæmir þar;
hún er hárr stígi,
hverjum eptir
gjörla getr lært
at gánga þú
upp til háleitrar
himins elsku.
En í holdligar
heimsku-girndir
síðr enn ekki
máttu sökkva þèr,
þvíat þessvegna
var þèr engi
meðal mállausra
maki fundinn."
Hèr við blygðaðist
at hálfu leiti
Adam, frumfaðir,
ok fann til svars:
„hvorki gjörir geð
svo glaðvært mèr
forkunnar fegurð
fljóðs en ytri,
nè nokkut holdligt
í notum ásta,
sem er dýra-sæg
sameiginligt,
(þótt ek hjónasæng
hærra virði
leyndardómsfullri
með lotníngu);
Heldr heiðrsöm
hálund svanna,
ok allt þat yndi,
sem orð ok verk
hennar handleiðir
í hvívetna,
blandat blíðláta
við brúðar ást,

sem tær ok tállaus
tjáir jafnan,
at sál söm ok ein
okkr sameini.
Svo heillum hlaðit
hjóna samlyndi,
er allri saumglyst
yndisligra;
þó samt ærumst ek
við ekkert slíkt;
innt hefir ek þèr
hit einlægasta,
hvat ek hjá mèr finn
í hugferði,
en þótt þat eigi
mik undirþvíngi.
Oðum mæta mèr
margskyns hlutir,
gegnum skilníngu
er ek skynjat fæ,
þó vel ek þar af
þat hit bezta
með fullu frelsi,
ok fylgi því,
sem ek fyri rètt
samþykkt hefi.
Lætr þú til lasts
eigi lagt mèr þat,
at ek elska,
því at innt hefir,
at elskan færi einn
upptil himins,
hún sè leið þángat
ok leiðtogi.
Seg mèr, ef unnt er
orðlof spurnar:
eru ei ástir
með öndum himins?
ok ef eru,
hvernig auglýsast?
hvort einusaman
augnamáli,
eða samblöndun
ítra geisla?
eðr andligri
áþreifíngu?"
Enn svarar engill
ástúðliga
kærligu brosi,
sem á kinnar hans
rjóðrat himneskum
lèt rósfarfa,
eginn lit ástarblíðu:
„Lát þèr nægja þat;
sem ljóst er þèr,
at vèr farsælir
erum nærsta,
en ei farsæld
án elsku nein.
Þat sem í líkham
þínum hreina
(því skírr ok hreinn
ertu skapaðr),
fær þú fundit til,
þat finnum vèr,
en þó allt hærra
ok ypparligra.
Höfum eigi vèr
hindrun neina,
sem þèr líkhamir,
af þúsund himnum,
eigi limum
nè liðamótum;
þá er innbyrðis
andar faðmast,
öll vera veru
viðblandast þar,
lèttara enn lopt
sèr við lopt blandar.
Sækjum vèr at eins
til at sameina
hreinu þat hreint er,
ok hrindir ekkert,
ei er nein nauðsyn
nokkurra gánga,
sem þá líkhami
við líkhama,
eða sál við sál
samanblandast.
En ek sèr, Adam!

at ekki má
ek dvöl hafa hèr
hjá þèr lengr;
hángir hnígin sól
við höfða grænan,
aldeigðrar jarðar
á yztu þröm,
ok vel blómgaða
vestrgarða;
teiknar hvarf hennar
mína hèðanför.
Stattu fast, farsæll,
ok framhaldt elsku,
elska fyrst ok fremst
framarr öllu
hann, hvern at elska
er hlýðni at tjá,
ok hans mikla boð
minnst at geyma!
Lát ekki sterka
lokkun neina
blinda þinn skilníng,
nè blekkja þik,
til at fremja þat,
sem frjálsum vilja
hefðir þú hatat,
ok þik hryllti við.
Undir þèr komin
eru egin þín
ok alls afkvæmis
ill kjör ok góð;
gef þar gætr at,
því gleði mikil
verða mun þat mèr
ok meðenglum,
ef þú geymir þín
í góðu trútt.
Stattu stöðugr,
þvíat standa þèr,
ok at falla frá,
er í frjálsræði;
ertu algjörðr
í þèr sjálfum,
þarftu eigi því
þèr til hjálpar
eptir öðrum
um at litast;
lát enga freistni
þik færa úr stað."
Strax, at svo sögðu,
sik hann reisti;
frumfaðir vorr
honum fylgdi á veg,
ok orð blessunar
yfir mælti:
„Svo gakk þá, gestr
af Guði sendr!
þess, er tilbið ek
tign ok gæzku;
gakk! þar mèr lengr
eigi gefst þín dvöl.
Með yndi, elsku,
ok með ástsemi,
vildir þú virðast
til at vitja manns;
þess skal mæt minníng
ok miklar þakkir
hvervetna haldast
í hjarta mínu.
Vertu mönnunum
mildr jafnan,
ok kom aptr opt
ofan híngat!"
þannig skildu þeir,
ok þegar flaug
engill hraðfara
til himins aptr;
Adam leið sína
heimat lundi gekk.

---

## Hèr hefr
## Níundu bók Paradísar missirs.

Sýng ek eigi meirr
um samræður,
þá er gjörði Guð,
eða gestr einn
engilligr, sik
frá upphæðum
handgenginn manni
ok hjásitjandi,
sem hjá vin, vinr,
lèt sèr vel lynda
ljúfliga máltíð
af landsgróða;
mundi manni leyft
margs at frètta.
Sèzt nú saung brugðit
til sorgar mála,
mætir margskyns íllt
af manns álfu,
eiðrof ok uppreist
ok öfughyggjur,
úflbúð ok óró
ok ágreiníngr.
En frá himni
hylli brostin,
fjarlægð, frávísan,
forskulduð reiði
ok dauðadómr,
sem daprt feldi
vei ok volæði
yfir vora jörð,
ok synd, með dauða,
sínum skugga,
ok dýngju af böli
dauðans fylgju.
Víst verðr sorgligt
efni verka míns,
en hvergi minur
já, heldr miklu,
hæfiligt háan
fyrir hetjudikt,
enn Achills reiði,
þá er óvin sinn
hrakti flýanda
með heipt þrisvar
týrhraustr kríngum
Trójú-múra;
Eða Túrnusar
æðandi grimd
handgripinnar
vegna heitmeyjar,
hverri Eneas
frá Ilíuborg
lèt hann ræntan,
Lavinínu;
Eðr Hafguðs heipt
ok hennar Júnó,
sem hörðum helltu
yfir her Grikkja,
ok enn kaska kund
kýtereu,
straum af lángvinnu
lukkutjóni.
Hefi mín himnesk
hjálpar-gyðja
óð minn verðugu
með orðfæri,
sú mik virðir þess,
at vitja mín,
af sèr sjálfri til,
um svartnætti.
Ok þegar sef ek,
þánka mína
örfar með anda
án umhugsunar;
les hún mèr fyrir
í leiðslu stöddum
ljúft runnin ljóð;
síðan lèt ek fyrst
slikt mèr helzt hugkvæmt
hróðrar efni;

lengi var valit,
en var seint byrjat.
Með því, at mín er
mærðar gáfa
af náttúrunni
eigi nærsta hneigð
til at gala ljóð
um geirasennur
ok blóðga bardaga,
bragarefn
haldin híngattil
hetjulig ein.
Þegar rímna skáld
riddara sína
láta berjast
fyri listar skuld
með leiðinliga
laungu kappi,
draumdiktuðum á
darra þíngum.
Eigi voru um dygð
kveðin æru-ljóð,
nè þrek þolgæðis,
þrautum stærra,
nè um hetjumóð,
sem hraustir sýndu
undir píntíngum,
píslarvottar.
Betri þóktu bragir
um burtreiðir,
renniskeiðs raunir
ok riddaraspil,
hríngbrot, hertýi
með hrúgat gull,
ok skjöldu skínandi
skreytta myndum;
Um virkta viðhöfn
í vopnaburði,
væna víghesta,
velbúna mjök
beizlum ok söðlum
borðalögðum,
ok með ektavír
útflúruðum;
Um stoltar riddara
með stengr ok sverð,
þeir, er sýndu sik,
ok saman áttu
veð um vaskleik sinn
á vígskeiði;
Þá voru veizlur
vanar at haldast,
yrkisefni
ekki minna,
rausnarríkum í
ræsis höllum,
hvar at þjónuðu
hofsiða menn,
skutulsveinar
ok skenkendr;
Allt listarleysi
lítilvægt mjök,
hèrvilluskapr
ok hègómi,
sem hverki menn má,
nè mærðarsmíði,
hetju nè höfðings-
heiti sæma.
Em ek ótamr
öllu slíku,
enda er mèr annat
ypparligra
óðarefni
eptirskilit,
þat af sjálfu sèr
getr saung minn upp
hafit, til at heita,
hetju-diktr.
Nema seinn tími,
eða sárkaldt lopt,
eðr yfirtaks
áraþúngi,
þessu þorflugi
þrykki niðr,
hvat at vísu þeim
mundi vel takast,
mitt ef egit eitt
væri um at fást,
en hennar ekki,
sem opt hvíslar mèr

um myrkva nátt
mærð í eyra.
Nú var sól sígin
í saltan mar,
en brunuð kvöldstjarna
fram á braut hennar,
sú er sèr tama
sýslun hefir,
at færa rökkr
yfir fold vora,
stendr eigi þess,
nema stundarkorn,
dóms umboð, milli
dags ok nætr.
Svo hafði sínum
sjóndeildarhríng
húmlitum gríma
hjúpi sveipat,
þegar Satan sá,
sem fyri skömmu
hafði Gabríels
fyrir hótunum
flúit frá Eden,
felmtrslaus nú,
en kýngifullr,
kom til baka;
Með margfaldaðri
meginvondsku,
ok djúpt umhugsaðri
Djöfuls flærð,
brynjaðr kom hann
til böls mönnum,
fældist hann eigi,
þótt fyrir yrði
meiri meinföllum
máske sjálfr.
Flúit hafði hann
um helzta nótt,
kom um helzta nótt
hann til baka,
hafði hann á meðan
í hríng farit
jarðar heilan hnött,
en, sem helvíti,
forðaðist hann
at flakka um daga;
Síðan Uríel
sólarvörðr
fèkk hit fyrra sinn
ferð hans sèna
inní Eden,
ok um áform hans
gjörði engla vakt
atvaraða;
Síðan samfeiða
sjö nátta myrkri
fór hann, framkeirðr
af feyknum geðs,
jörðina umkríng,
ok jafndægra línu
þrisvar sirklaði,
ok í þrákróka
fjór-flang ígegnum
farvagn nætr;
Oð hann til eins
frá öðrum póli,
ok báða bauga,
sem bókmenn stjarna
kalla eólúra,
klauf hann um þvert,
nótt næz áttundu
kom nú aptr.
Hittir hann Edens
við hina síðu
leyniligan veg,
lángt frá hliði
því, er inn ok út
lá um aldingarð,
ok frá engla vakt
ógrunaðan
Einn var sá staðr
þar innan garðs,
sem nýúngagjörn
nú á dögum
forvitni leitar
forgefins at,
af synd umbreyttum,
en ekki tíma,
þar fljótit Tígris,
við fót Edens,
steypist í stórdjúp
undir storðar grund.

Vall þat upp aptr
sem ólgandi hverr
neðan úr djúpi,
at nokkru leiti,
lystiligu nærri
lífsins trè!
þat gjörði Satan
sèr at vegi.
Lèt enn Lævísi
með lagar straumi
sèr sökkt niðr
í svelg djúpan;
fleygðist hann svo fram
en fólgnu gaung,
en kom klæddr upp
kufli þoku.
Lengi leitar hann,
hvar leynst geti,
ferr hann fold ok mar
fram ok aptr,
frá Paradís
yfir Pontum út,
ok at Möótis
mikla feni,
yfir Ifulljót
at ási suðrs;
Ok eins endilángt
frá Oront vestr
út at djúps múrnum,
Darín rifi,
ok þá enn þaðan
at því landi,
Ganges ok Indus
þar er geysast fram.
þannig drattaði
Djöfull hnýsinn
endilánga jörð,
ok yfir þvert
gekk hann á gægjum,
ok grannt at hugði
sèrhverju dýri,
hvert sinnar til
bragða bruggunar
væri bezt fallit.
Meðal allra,
sem á mörk alast,
finnr hann fræníng
fremstan at slægð;
eptir efasöm
umbrot ráða
ok lángar launtölur
leizt honum bezt
vera valinn sá
fyri verkfæri;
Ok fyrir ílát
illra svika,
sjálfr svikull
handa svikulum
eins ok yfirhöfn
í at fara,
dimm ráð ok djúplögð
til at dylja þar
fyri sjón jafnvel
fullskyggnustu;
Með því af móins
mjúku brögðum
mundi engum ílls
uggr standa,
heldr metast þau
fyri meðfædt vit,
ok hans sniðkróka
snotrliga;
En þvílík atferð
af öðru dýri
mætti gefa grun
geigvænligan
um Djöfuls nokkru
í því dulinn krapt,
er þess ósköptu
eðlis megni
meirr enn möguligt
meðverkaði.
Sú varð ályktan
um síðir hans,
þó þutu fyrst upp
af þrúngnu brjósti,
er af ángist var
atkomit spreng,
sorgartölur,
svo látandi:

„O, hvat ertu, jörð!
all-lík himni,
megir þú ekki
(þat er meira sagt)
reiknast með rètti
ok at raun betri,
verðugri guðum
at vera bygð;
Þú, sem ert samin
síðarr honum
endrnýaðri
með yfirvegun,
er sú en eldri
var umbætt með;
eða mundi Guð
miðr byggja
eptir áðr byggt
annat betra?
Jarðneskr himin!
sem jafnan er
umhverfis danzat
af öðrum himnum,
þeir er þer bera
til þjónustu,
sjálfir skínandi,
sína lampa,
ljós yfir ljósi
til at lýsa þèr,
ok þat sýnist svo,
sem þèr einni.
Safnast þeir öllum
sínum ljóma
ok helgum verkunum
heim á þik;
svo sem Guð gjörvalls,
er á Gimli mið,
en þó útbreiðist
til allra hluta;
Eins ert miðpúnktr
af öllu þú
þeim, er þyrpast at
frá þessum hnöttum
öllum án afláts
útstreymd gæði,
sem þú tekr
eins ok tolli mót;
Vottast þeirra þèr,
en á þeim ekki,
allmenn gróðagjöf
þú en göfugri!
framleiðir hún eykr
ok fögr grös,
einnig með lífi
ok anda gæddar
tegundir dýra
tröppugángi
í vexti, tilfinníng
ok vitsmunum,
sem allt samhrúgat
er sett á mann.
O hvílík unan
mèr orðit hefði,
um þik at þramma
ef í þánka mèr
kveikst gæti af gleði
gneisti enn minnsti!
er svo öllu hèr
til yndis skipt.
Hversu er hèr ekki
sem allt hlæi!
eitt er öðru meirr
til yndis hèr,
fjöll ok dalir
ok flóðstraumar,
grónar grundir,
grænir skógar,
land ok lögr,
lífligar strandir
björkum krýndar,
björg ok holur.
En hvergi hefir ek
mèr hæli fundit;
því fleira fagrt
fyri mik berr,
því fleiri finn ek
feykn af plágum
í mèr innvortis,
sem af andstæðum
hlutum, hverr annann
sem hata mjök.

Eitrat ólifjan
er allt gott mèr;
hagr minn, jafnvel
á himni sjálfum,
æ verri ok verri
verða hlyti;
en ek, án þess
at auðnist mèr
at sigra Sjólann,
sem þar ræðr,
hirðir ekki hót
hèr at ega
sess nè samastað,
enn síðr þar.
Býst ek eigi við,
at batna muni
kjör mín, nè kostir,
þó komi fram
því, sem þráir ek,
þat er fjærri!
heldr vil ek því
til vegar koma,
at aðrir, sem ek,
rati eymdar kjör.
Sú er ósk mín ein
ok ástundan,
þótt ek þarfyrir
þýngri kvalir,
ok straff enn stærra,
steypi mèr í;
svo gjörist gramr ek
ok geðhrjúfr.
Ekkert annat,
enn eyðilegging,
fær mèr sefaða
sinnis ólgu;
mèr ef mætti tækt
mann at fella,
ok fá flekaðan
til at fremja þat,
sem hann misti með
mæti gefin,
hverjum hèr er allt
uppí hendr lagt;
Eflaust yrði þat
þó afit tapat,
honum því at þat
er svo þráfylgit
í heill ok óheill;
at ekki má
neinu móti með
við mann skilja;
allvel þá! ófrelli
ok eyðilegging
vil ek víst nái
sem víðast út.
Skal engum öðrum,
enn einum mèr,
af mergð helvítskra
maktar skara,
hlotnast heiðr sá,
at hafa spillt
ok umrótat
á einum degi
enu sama, sem
í sex daga
ok í sex nætr
var at semja þó
hann, sem Almáttkr
hermist vera;
Ok hverr má vita,
hversu lengi,
ok með hve hörðum
heilabrotum,
áðr hefir hann,
enn hófst þat verk,
þessu þrávelt
í þaunkum sínum?
En máske þetta
eigi meira sè,
enn þat, ek vann
á einni nóttu,
er ek þúngum þreif
undan þrældómi
ok háðugligum, helft
himneskra nafna,
ok fèkk þýligra
þunnskipaðri
tölu gjört
hans tilbiðènda.

Hugði hann á hefnd
fyri hnjóð slíkan,
ok á endrbót
áfallins tjóns;
en, hvort honum var
hnignuð orka,
fleiri engla
til at framleiða,
hafi hann raunar
þó hina skapt,
eðr at herða
háðúng vora;
Tók hann fyri sik,
at tilbúa,
í staðinn vor,
af storðar leiri,
skepnu nokkra,
ok at skreyta þá
(ókynjan þvílíkt
svo at upphefðist)
háleitu himins
með herfángi,
herfángi voru,
sem höfðum mist.
Fyritæki hans
varð at fullkomnun;
manninn skóp hann,
ok til manns nota
vegliga veröld,
vandaða mjök;
varð hans bústaðr
þessi böllótt jörð,
ok hann heitinn
hennar drottinn;
Ok, hvílík háðúng!
honum at þjóna
vængjaðir englar
voru settir,
um hann at hirða
ok at halda vörð
uppheims andar
láta óvirðast
svívirðiligri
með sveins-stètt jarðar;
Þessir eru þó
þeir ek forðumst,
árvekni þeirra
mèr er óttalig;
ok, svo ek brögðum
láti blekkta þá,
dreg ek yfir mik
dularham þenna,
þakinn þjófsliga
þoku knfli.
Læðumst ek svo leynt
ok um lágnætti
í svörtum sudda,
samlitum því,
leitandi lund hvern
ok leðju-fen,
höggorm sofanda
ef hittan fengi.
Smjúga vil ek inn
í hans smákróka,
ok hans flækjugaung
at fylsnum hafa
fyri mik, ok mín
þau en myrkvu ráð
(gjöra verðr fleira,
enn gott þikkir).
Víst er viðbjóðsligt,
at vita til,
at ek, sem áðr
eigi lángt síðan
um gramstól á Gimli
við guði barðist,
níðsligri niðrun
skuli nú geta
fengit af mèr,
at fara í dýr;
At ek sjálfr svo
svívirði mik,
at sleugja mèr saman
við slím orma,
at verða vill
vera þessi
kjöt ok kvikendi,
sem kepptist strax
eptir guðdómstign
göfugustu.

En, hvat er oflágt
ok auðvirðiligt
herravalds fýkn
ok hefndargirni?
hverr, sem hyggr sèr
hátt at stíga,
má fyrst lágt lúta
ok leita djúps,
fara skríðandi
fyrst eða síðarst
undir skör hverri
skammar mestu.
Svo sem hefndin er
sæt í fyrstu,
beiskist hún þó bráðt,
ok bítr sik,
sjálfa hvat sárast,
at síðurstu,
sè þat svo þá!
ek sæti því lítt.
Eigi hirðir ek,
hvat eptir kemr,
nái hún at eins
enu neðra hèr,
þar hitt it hærra
heppnaðist ekki,
takmarki því,
sem hún til stefnir,
ok sem æsir nærst
öfund mína.
Þessum hugljúfa
himins nýa,
manni mynduðum
af moldar leir,
háðúngar syni,
sem hugmóðs vegna
ok oss til forakts
hefir framleiddan
Höfundr hans
af hauðrs dupti,
forakt bezt goldit
er með forakti."
Hann, at svo sögðu,
sveimar gegnum
votan ok þurran
viðarrunn hvern,
sveipaðr svartri
sudda þoku;
hèldt hann nætrnjósn
sem nákvæmast,
fofnir sofanda
hvar fyrst hitti.
Loksins lítr hann
linna sofinn,
vundinn í króka,
sem völundarhús;
hausinn var í miðri
hrínga flækju,
fullr af flærð
ok flaðrgirni.
Þannig svaf hann þá,
en þó eigi
dvaldi, svo sem nú,
í dimmum skugga,
nè hauðrs holu
herfiligri,
af því hann enn nú
var óskaðvænn;
Heldr lá hann,
svo sem hægast var,
á mjúkum mosa
meðal blómstra;
engi hræddist hann,
ok honum eins
stóð ei af neinum
stuggr minnsti.
Læddist í munn hans
lymskr Fjandi,
skynlaus fángandi
skilníngarvit,
höfuð ok hjarta
hauðr skriða,
skaut þar inn anda
skynsamligum,
þó án svefnbrygða
fyri sváfnis ham;
svaf hann makráðr,
unz morgnaði.
Itrum árdegis
útskaut geislum

himins helga ljós
yfir hauðr deigt,
ok öll ángandi
Edens blómstr,
er nú andat
lètu útaf sèr
miklu reykelsis
morgunoffri;
Asamt gjörvöllu,
sem gufar ylm,
ok sinn ómálga
fær uppsendan
skylduskatt af dýrð
Skaparanum
storðar altari
enu stóra frá,
úthellandi svo
ánægjusamri
nægð af sætleik
fyri nasir hans.
Framkomu þá fljótt
með fórn sína
mælanda munni
manndómlig hjón
ljúfrar lofgjörðar,
útaf laufskála,
ok við blönduðu
vegsemdar raust
mýmarga kóra
enna mállausu.
Skemtu þau sèr þá,
at því gjörðu,
við blíðu morguns,
þar er bezt þókti
inndælis vegna
af ylm ok lopti,
metandi með sèr,
hve mættu bezt
sínum vaxandi
verka störfum,
ok sem lèttast,
til leiðar koma.
Af því ærit víðt
aldingarðs rúm
mjök var ofmikit
mundum tveggja
umhirðíngar til
ok atvinnslu;
Eva ver sinn við
því vakti máls:
„En þótt, við Adam!
sem allra mest
ástundum yrkíng
aldingarðs þessa,
at rækta eykr,
urtir, blómstr,
skemtiliga skipun
okkar Skapara;
Æ, svo lengi þó,
at ekki því
fleiri hendr fást
til framkvæmdar,
munu störf okkar
stórum aukast,
því meira kappi,
sem kostum til,
ok þess meirr þróast,
sem þvíngun mæta.
Hvat við vönuðum
í vinnu dags,
bundum ok brutum
eða bein-studdum,
frambrýzt á fresti
fárra nátta,
gjörandi gis at
með gerum þroska
ástundun okkar
fyrir ofvexti,
svo at viðliggr,
at villt gjörist.
Legg á ráð nokkrt,
eða leyf ella,
at ek framfæri,
hvat flaug í hug;
sundrum samvinnu,
sè þín framin,
þar, sem þarfast er,
ok þikkir bezt;
Át vinda geitablöð
vel luktandi

kríngum trèstofn,
tvinnut saman,
ok í öðrum stað
ormboginn sinn
vísa vaxtar stig
viðlímings jurt
álmviðar
upphjá meiði.
Mun ek ámeðan
framat miðdegi
ærit nóg finna
til endrbótar
viðr vorrósir
enar vænu þær,
sem með mórberja
meiðum spretta
yndisligum á
aldinvelli.
Því svo lengi sem
við saman tvö
erum allan dag
at okkar starfa,
hvat er at undra,
þótt augnasvif,
eðr ástarbros
ok orð kunni,
at verða okkr
at verkaþjófum?
Glepr þat gjörðir
ok gjörir litlar,
þótt við tökum til
tímanliga,
kemr þá svo kall
okkar kvöldverðar,
at fengum fátt
fyrirunnit."
Adam ansaði
ástúðliga:
„einust Eva!
þú atstoð mín!
sem ein fylgir mèr
í fèlagskap,
dýrmætari enn allt,
sem dregr anda!
Vel hefir þú mælt,
ok vendt þaunkum
at því, sem þartil
þarfligast er,
at styrkja framgáng
starfa þeirra,
æðstr Alfaðir
sem okkr bauð.
Mun ek þèr ekki
minnar synja
hrósunar heldr,
þvíat hvergi finnst
annat hjá vífi
elskuligra,
enn haglig hússtjórn
ok handyðnir
með manni sínum
til mestra nota.
Ei hefir þó
enn Almáttugi
við svo straung störf
okkr staðbundit,
at hafna hljótum
hressíngu við,
þá hennar þurfum
þess ámilli;
Hvört sem manns megin
matarnautn er,
eðr orðræður
ástúðligar,
ok sætt samneyti,
sinnis fæða,
eða dæilig
dægrastytting
ástarbrosum af
ok augnahvarfli.
Skíra skynsemi
egu skyldt við bros,
meinut eru þau
mállausum dýrum;
ala þau ástir,
þær eð eru sízt
minnsti tilgángr
at menn lifa.
Því eigi strits eins
ok starfa til

hefir Alfaðir
okkr sköpnt,
heldr ok til yndis
ok til ánægju
batt hann skynsemi
ok skemtun saman.
Gjör þèr gátulaust,
at gángrúm vor
ok þessi lundr
meðr þrifnaði
ok yðjusemi
okkar handa
mun verjast vanrækt
ok vaxtar göllum,
ok þat án þrauta,
svo sem þörf er til,
unz ýngri hendr
okkr styrkja.
En ef máske þèr
munaðarfull
ok svo yðuglig
aflar leiða
ok ofmettunar
umgengni mín,
mun ek leyfa þèr
um litla stund
frá mèr fjærveru,
því fèlag bezta
opt er einvera,
ok aptrfundi
skilnaðr sæta
skammr gjörir.
En þat er annat,
sem mèr ugg vekr,
at nokkr vond vo,
ef við mik skilr,
eðr eitthvat
til óhamíngju,
muni kannske þèr
koma at höndum.
Veiztu vara þann,
er við fengum
um ílls Ovinar
öfundar hug,
sá er mjök misann,
því at mist hefir
sjálfr heill hverja
ok hennar von,
einnegin okkr
allrar sælu;
Hann með hrekkvísi
heimugligri
ástundar okkar
óheill ok skömm;
er hann eflaust hèr,
í umsátrum
leyndr nálægt,
ok í lymskri von,
at fái fundit
okkr fráskilin,
eptir ósk sinni,
hvort öðru sèr.
En ef eru við
ásamt bæði,
verðr honum von sín
at vettugi,
kemr eitt okkar
öðru til liðs,
svo fá hrekkir hans
hindrun skjóta;
tveimr enu einum
því tekzt betr.
Hvort sem hans er fyrst
hugarstefna,
okkr feld at fá
með fláræði
frá helgri hlýðni
við Herráns boð,
eðr ætlar hann,
öfundar vegna,
at fyrifara
okkar fögnuði
af heillaríkri
hjúskapar ást;
Mun hún máske þat,
er mest æsir
öfundar eld hans
af öllum þeim
glaðværðar gnóttum
ok góðra hluta,

sífeldt saman
er við sítjum at,
Hvort þat er þetta,
eða því verra,
þá skil þik ekki
við þessa síðu
trúskaparfulla,
sem til varðst af,
ok sem æ enn nú
er þín verja.
Hvar, sem hulinn er
háska at óttast,
eða vanvirðu,
er vissuliga
konu bezt borgit
hjá bónda sínum,
sá er henni hlíf
ok hjálp veitir
meðr móð ok dug,
sem mest hann kann;
Ok með traustri trygð,
meðan tilhrökkr
afl ok orka,
óslítanliga;
eðr ok er æ
til at útstanda
böl meðr beðju
beiskasta hvert,
ok raunir römmustu,
reiðubúinn."
Meyarlig hátign
móður vorrar
aptr andsvar gaf
einnveg háttat
ok sú, er elskar
af innstu rót,
en hefir orðit
fyrir ofhörðu,
ok beiskju blandna
blíðu sýndi:
„O, þú himins,
ok hauðrs arfi,
ok þó einn herra
yfir allri jörð!
at við óvin þann
egum dulinn,
sem stundar okkr
at steypa í tjón
þar um er þekking mèr
af þèr gefin.
Heyrða ek ok engil
herma sama,
áðr uppsteig,
þá ek aptr kom,
ok beið um kvöldit
bakvið runna,
þar ek falda mik
í forsælu,
er sik aldin blóm
aptrluktu.
Hitt er mjök svo mèr
ámóti von,
at þú tortryggir
trúfesti mína
ok stöðuglyndi,
er svo sterkliga
hèt ek at geyma
við Guð ok þik;
en þótt Fjandi sá
freista kunni,
hugðist ek eigi
mundu heyra slíkt.
Afl ok áverkar
Ovinar þessa
eru víst eigi
þat, er óttast þú,
því hverki dauði
nè döpr pína
skepnum slíkum
megu skaða fá;
annathvort engin
eymstr verkja
fáum við fundit,
eða fárekum.
Slægð hans þat er þá,
sem þú hræðist;
meinar þú, at muni
mínar trygðir,
ok kærleiks kraptr
kunna at verða,

svæfð ok sigrut
fyri svikum hans?
En hvernig, Adam!
getr ölgar þær
þú latit fljúga
þèr í hnga,
ok svo ílls gètit
til innu þinnar,
sem svo er dýrmæt þèr
ok dátt elskuð?"
Gaf nú geðs ama
til græðslu þeim
Adam svanna svar,
svo látanda:
„ó, dóttir Drottins!
ok dóttir manns!
ódauðlig Eva!
svo ertu víst
óatfinnanlig
ok án syndar.
Ei er þat af því,
at um þik efist,
heldr freistíngu
til at forðast þá,
sem okkr er
af Ovin búin,
at ek skirrumst svo
skilnað okkarn.
Sá freisting fremr,
en þótt forgefins,
flekkar fagrt nafn
ens freistaða
ok mannvirðíngu
at minnsta kosti,
með því hann meinar,
at muni fá
trygð hans ok trúskap
á tálar dregit,
eigi sterkan nóg
til at standast sik.
Sjálf þú sannaðir
sögu mína,
reiðast mundir þú,
ok reikna hnjóð
órètt gjörðan þèr
ok áreitíngu,
þótt fengi freistíng
eigi felda þik.
Því tak þat eigi
þèr til stygðar,
at ek gjöri mèr
alvöru svo,
at frávenðt fái
freistíngu þeirri,
ok áreitíngu,
einstaddri þèr.
Varla mun voga
Vèlasmiðr,
allt hvat djarfr er,
við okkr tvö,
ef ásamt erum,
at ypta freistni;
ok, ef í þat ræðst,
mun hans áleitun
fyrri mik, enn þik,
fyrirhitta.
Virð eigi vettr
vèlabrögð hans,
hugslægr hlýtr
hann at vera,
sem tókst at tæla
tignar-engla;
eigi óþarfa
met því annars hjálp!
Viðr álit eitt
augna þinna,
hjá mèr hver ok ein
sik hækkar dygð;
vísari verð ek,
ef þú viðstödd ert,
vex mèr forsjálni
ok varasemi,
ok styrkjumst stórum,
ef styrks er þörf.
En sú svívirðíng,
svikinn at verða
ok sigraðr,
ef þú sæir til,
vopna mundi mik
til mótstöðu,

ok til framgaungu
fullhugaðrar,
at leggja alhug á
eitt með þèr.
Því skyldi sama
hjá þèr eigi
minnar viðveru
verkan spretta?
at þú eins vilir
ásamt mèr
bíða freistíngar,
ef berst at höndum,
ok gefa raun með mèr
um mótvörn þína,
traustasta vitni
þinnar trúfesti."
Adam ypti svo
með áhyggju,
kvíðboga ok kærleik
til konu sinnar;
en sèr Eva mat
oflítt trúat,
ok tæpt tilgetit,
hversu trygg hún sè,
mildu máli því
mælti þannig:
„Sèu þat okkar
sílofut kjör,
at lifa lukt
í litlu gerði,
atkreppt af Óvin,
fyrir ótta skuld,
fullum fláræðis
ok fárheiptar;
Ok sè hvort okkar
eitt fyri sik
ekki útbúit
orku þeirri,
at án hins hjálpar
beri hreisti til,
allt eins ok ella
ódeigs hugar,
hvar sem hitta kann,
honum at mæta;
hvernig megu við
þá heita sæl?
Er þá sæla sú
sífeld hræðsla
fyrir ílls ömun
ok ólukku?
en utan syndar
getr okkr hitt
engin ílls ömun,
nè ólukka.
Er þat einúngis
at egin dómi
freistanda Fjanda,
at freistíng hans
óvirðir okkr,
þar hann ályktar
óvirðuliga
um okkar trygðir.
En óvirðíngar
ályktan sú
flekkar alls ekkert
okkar heiðr,
heldr heim vendir
á hann sjálfan
strax um hæl, honum
til háðúngar.
Hví fráfælumst við
Fjanda þenna?
munu við ekki
miklu heldr
tvöfalds heiðrs
mega til hlakka,
þá er sjálfan svo
svikafullri
hann með tilgátu
hefir tældan sik?
Rósöm hugarhvíld
ok himins þóknan
verða verðlaun þau,
sem við hreppum,
ok seinast vitni,
þegar sigrat er,
um okkar stríðs styrk
ok stöðuglyndi.
Hvat er trúmennska?
hvat er dygð?

hvat er hýr elska?
nema hvert þeirra
standist eitt útaf
í einu brjósti,
án þess at njóti
annars hjálpar.
Ætla því aldrei,
sá okkr skóp
hafi hálfgjörða
svo heill okkar,
at eins örugg
fyrir annat sèr,
sem bæði saman,
sè hún ekki.
Helzt til lausliga
lagðr væri
grundvöllr okkar
góðu kjöra,
ok Eden ekki
væri Eden þá,
ef háskar henni
hèldu slíkir."
Heitr varð Adam
ok hèr til gegndi:
„gættu þín, kona!
þat er Guð setti,
ok hvat vili hans
hefir ákvarðat,
æ jafnan er
hit allra bezta.!
Af öllum hlutum
ei hit minnsta
lètu hendr hans
heim skapendr
ónóg útfrá sèr
ok ófullgjört,
svo þá ok manninn
sízt af öllu;
Oveittan honum
lèt hann engan hlut,
þann er heillir hans
hefja knátti,
ok velferð vora
þat er vernda má
útvortis öllu
fyrir ofríki
annarstaðar frá,
enn okkr sjálfum;
Með því einúngis
í manninum
hans sjálfs hulinn
háski liggr,
er þar ok einnig
ásamt kraptr
fullnógr fólginn
til·at forðast hann;
Móti hans vilja
mætir honum
engin ólukka
nè ílls líðan;
viljann gjörði Guð
ok gaf frjálsan;
frjálst er skynsemi
hvat fylgir allt.
Skynsemd gjörði Guð
góða ok hreina,
ok bauð hvervetna
henni at vaka,
svo hún ekki sjálf,
frá sanndæmi
toguð afvega
fyri tálarglis
ósannra gæða
ok augna matar,
villi vilja manns
frá vegi rèttum;
Til at girnast
eða gjöra þat,
sem Guð berliga
bannat hefir;
því er þat, sem mèr
þrýstir til
opt ok einarðt
þik at áminna,
ekkert mistraust
nè efablendni.
Heldr mjúk mannást
miklu framarr,
ok viðkvæm umhyggja
velferðar þinnar,

gættu hennar eins,
gjör hit sama,
opt ok einarðt mik
at áminna.
Fast stöndum við,
en fætr okkar
ske má þó
at skriðnat geti;
ske má hægliga,
at skynseminni
verði fyri
þar í veginn lagt
af fölskum Fjanda
fótakefli;
Fellr hún þá fljótt,
ef hún forsómar,
eins ok áminnt var,
æ at vaka,
ok með gaumgæfni
at gæta sín;
veldrat sá varar,
þó verr fari.
Gef ekki þik því
fyri þá á veg
freistíngu fram
at fyrra bragði,
sem óhultara var
um at flýja;
er þar vegr til
enn vissasti,
at þú skilir mik
aldregi við;
kemr opt freistíng
þó kallist eigi.
Stundir þú at sýna
þinn stöðugleik,
þá lát þekkjast fyrst
þína hlýðni;
hverr má fræðast
um hit fyrra rètt,
hverr má víst þar um
vitni bera,
sjálfr reynda þik
nema sèt hafi?
En ef þú ætlar,
ósókt freistni
okkr minnr vör
muni hitta,
enn þú nú sýnist,
at nýheyrðri
atvörun þeirri,
sem ek þèr gaf,
gakk, sem tíðir þik,
því töf þvínguð
fær at eins gjört þik
fjarlægari.
Gakk í meinleysi
meðsköpuðu
ok djörfu trausti
dygða þinna,
heimt þær allar út
þèr til atstoðar;
Guð sitt gjörvallt
hefir gjört til þín,
gjör einnig þú þat,
sem þèr byrjar."
Svo kvað forfaðir
fyrsti manna;
Eva hèldt sinu
svo auðmjúk fram:
„fer ek því framarr,
at fengit hefi
af þèr orðlof,
ok því öruggri,
at ek er af þèr
atvöruð svo;
Helzt af hinnsta því,
sem hrærðir við,
at koma kunni,
þótt köllum eigi-
eðr atleitum,
okkar reynsla,
ok verða varbúnum
voða-meiri.
Ei er ætlanda,
at árás veiti
Dólgr drambsamr
enum dugminna:
at hann ekki sèr
oflágt meti,

at leita fyrst
á enn lægsta garð.
En ef hann áræðst
ei at síðr,
þá berr hann þaraf
því meiri skömm,
er hann brýzt af mèr
á bak aptr,
tómhendtr, tældr
á tafni sjálfs."
Þannig mælti mær,
ok mund sinni
smeygði hægt ok hægt
úr hendi vers;
gekk hún glík sjónum
sem gyðja væri
fjalla, flóða,
eða fagrlima,
ok ein af dísum
í Díönu fylgd,
beinleiðis sínum
at blómstra skógi.
Þó barr hún meiri
í mynd ok gaungu,
enn dís hin Delisk,
drottníngar tign,
herðum hennar á
þótt heyrðist ekki
álmr gjalla,
nè örfamæli.
Garðtóli vopnuð
gekk hún einn,
þvílíku, sem þat
í þann tíma
ómynduð íþrótt,
af eldi síku,
hafði hagbúit,
eðr helgr nokkr
í hendr engill
henni fengit.
Prúðbúin þannig
var hún Pales lík,
eða Pómónu
eplagyðju,
þá varast vildi
Vertúmní brögð,
ok sjálfri Ceres,
áðr sína lèt
píkustands prýði,
Próserpínu
af völdum Jóvis
þá er viðtók hún.
Horfði hugfánginn
með heitri þrá
Adam al-llengi
eptir beðju;
kjöri hann, at konan
hefði kyrr verit;
aptr ok aptr
bað hann optsinnis,
at skilnat þeirra
sem skemstan lèti.
Hèt eigi sjaldnarr,
um hádegi
víf at vitja
vers í lundi,
þá at matreíða
til máltíðar,
ok miðdags hvíldar
þat, er meðþyrfti,
í tækan tíma
til at búa.
O, hvat aumliga
þèr at öðru varð,
ófarsæl Eva!
illa svikin;
önnur varð, enn ætluð
aptrkoman,
villt ok blekkt von þín,
vo fyri dyrum,
böl er ok beiskja,
sem bíða þín.
Aldrei uppfrá þeim
óhapps tíma
varð þèr munntamrar
máltíðar unnt,
nè hægrar hvíldar
í helgum garði
prýðiligrar
Paradísar.

þvílík lágu hèr
launsvik dulin;
ólmr Ovinr
í umsátri
beið hèr í skugga
meðal blómstranna;
höfuðhrekkvísin
úr helvíti
lá ok leyndist hèr
á leið þinni,
þjófr, sem þenkti
þèr at stela.
Hugðist hann at hindra,
þat heim kæmir,
eðr heldr þó
heiptar sinnar
illum frágángi
at aptrskila,
senda þik svipta
þínu sakleysi
til baka, at týndri
trygð ok sælu.
Því nú var Djöfull,
síðan dagr rann,
farinn á flakk
í fofnis hýði,
ok hèldt huldri njósn,
þar helzt vænti
hitta mundi menn þá
af mannkyni
tvo, sem tilvoru,
en tegund þá
í sèr alla
innihèldu,
herfáng þat,
er hann hugði sèr.
Leitandi fór hann
í lundi hverjum,
ok um breiða mörk,
þar er beð voru,
reitir ok runnar,
rík af prýði,
sem honum litust
til lystigarðs,
eða bústaðar,
þeim bezt fallin.
Líka læddist hann
ok leitaði
upp ok ofan
með árstraum hverjum,
ok við sèrhverja
uppsprettu lind,
ok hjá hverjum læk
í hlèskugga.
Æskti hann sèr helzt,
at hitt gæti
almóður Evu
í einrúmi sèr;
vildi hann, en varla
vænta kunni,
at tóm svo torfengit
mundi tilbera.
Eptir óskum,
en umfram von,
sèr hann Evu nú
í einrúmi;
ángandi gufu
var hún ísveipuð,
svo hún sást varla,
ok síumgirðt
sem runni rjúkandi
rósa blisa.
Beygði hún sik opt
til at binda upp
mætablómstr mörg
á mjóum leggjum,
ok enn ofveikum
upp at halda
hángandi höfðum,
þeim er hrósuðu
prýði sinni
með purpura lit,
háum gullhjálmi
ok himinbláma;
mórberja baðmr
voru bönd hennar.
Lítt hugði hún þá
at hag sínum,
er hún, ágætust
allra blómstra,

stóð nú stoðarlans
frá stafnum lángt,
en hvast hretviðri
var harðla nærri.
Nú kom Níðhöggr
í náud svanna,
fór í krók ok kríng
margar krossgötur
harðla fagrar,
ok háum með
girðtar cedrus-trjám,
greni ok pálma.
Snèri hann sèr stundum
sniðugt ok djarft,
eða leyndi sèr
ok *laumaðist*,
brá honum fyri
meðal blómstranna
ok runna þeirra,
sem við ristils hlið
af höndum hennar
hirðtir stóðu.
Var þar inndælla
um at litast,
enn í skrautligum
skröksögu görðum,
eignuðum Adon
enum uppvakta,
eptirlæti
Astargyðju;
Eðr ok hinum,
þar Alcínóus
Laërts bur
leiddi í gildi,
eðr öðrum þeim,
ódiktuðum,
þar sem Vísir
sá enn vitrasti
inna skemti sèr
Egypzkri *með*.
Dáðist Djöfull. mjök
at dýrum garði,
en þó undraðist
hann Evu meirr;
lík sem lýðríkri
sát lengi hefir
búit í borg,
þar er byggíngar
háreistar hamla
hreinu lopti;
Genginn sumardags
glaðan morgun
utan múra,
til at anda þar
í ljúfu lopti
landsbygðarinar,
fagnar hvívetna,
sem fyriberr.
Kætist hann við ylm
af korni ok heyi,
hjarðir í högum,
ok hvat *sem* sèr,
við eym af miklu
mjólkr safni,
ok hljóð, sem heyrir
at hætti sveita.
Vili nú svo til,
at væn stúlka
gángi gegnt honum,
sem guðmey skógar,
gjörist honum allt,
sem gladdi fyrr,
fyri drósar skuld
dæiligra,
en drós af öllu
dæilignst,
safnast allt yndit
í ásýnd vífs.
Svo fannst svasliga
nú svafnir um,
er hann blómstrbeð
sá blíð þessi,
dvalarstað Evu
ennar dávænu,
þar hún alein er
svo árla dags,
upphimins ímynd,
engils bílæti,
kærlig, kyrrari
þó, ok kvennligri.
Svasligt sakleysi,
er í sèrhverjum

látum, hegðun
ok límaburði
vífs, ok viðmóti
vottaði sik
unaðs megni með
í minnsta hverju,
vann á vonzku hans,
svo af virðíngu
fyri fljóði sèr
feila hlaut.
Hepti þat um hríð
huga grimman,
ok eitraðs áforms
ofstæki drap;
varð nú hinn Vondi
vondu flettr,
ok í stórri deyfð
um stundarsakir
góðr, slægða-sljórr
ok slippr stóð,
þá án öfundar
ok illsinnis.
En heitt helvíti,
þat er hvervetna
brennr í honum,
þó bygð ætti
á himni miðjum,
lætr honum bráðt
gjörvalla gleði
gánga úr brjósti.
Þat kvaldi þel hans
at því sinni
með þess sárara
sviða loga,
sem fleira fagrt
ok fagnaðarverðt
bar fyri Bölverk,
bannat honum.
Vekr hann þá upp
at vörmu spori
ok samankallar
sinnar heiptar
gjörvallan grúa,
svo gekk aptr
hver ein hugrenníng
hamíngju tjóns;
mæltist hann fyri
sèr til málsframa:
„Hvert hafi þèr mik,
hyggjur! leiddan?
hve slíkt feykna megn
gat fángat mik,
ok glapit geð mitt,
svo ek gleymt hefi,
hvarfyrir ek em
híngat kominn?
Hatrs vegna
em ek hèr kominn,
en ástar ekki,
nè í anðnu von,
at fá Paradís
fyri víti;
engi tilhlakkan
ánægju smekks,
nè minnsta neista
af nokkurri gleði;
hefir mik
híngat knúðan;
Heldr heit girnd,
at hrynda gleði,
ok alla ánægju
at eyðileggja,
utan einu þá,
sem ek enn hefi,
at fá eyðilagt
alla gleði.
Allt er mèr annat
eptirlæti
til grunna gengit
ok gjörtapat;
má ek því ekki,
alls svo móti hlær
sjálfkrafa tilreidt
tækifæri,
þat úr greipum mèr
gánga láta.
Því sjá! þar er nú
þessi kona,
einsaman, öndverð
ok auðveld mèr,
til at fara fram
freistíng hverri,

með því verr vitr
(því ek víðt of sèr)
henni hèr er nú
hvergi nærri;
stendr mèr stærri
honum stuggr af.
Skilníng hefir hann
henni meiri,
hugdyríð ok hreysti,
ok höfðíngskap;
honum er gefit
hetjuligt eðli,
en þótt mynduðum
af mold jarðar;
Gjörir þat mèr hann
geigvænligan,
sem óvin einn,
er ekki særist;
sjálfr get ek særzt,
því svo hefir
daprt helvíti
mik djúpt lægðan,
ok kvöl mik krenktan
at kröptum gjört,
hjá því ek áðr
var í himninum.
Harðla væn er hrund
ok himinfögur,
mektugra guða
maklig elsku,
eigi óttalig,
þótt einnig sè
fegurð ok elsku
fylginn ótti,
nema hatr hann
heiptugra gnæfi;
Heiptugt hatr
ok því harðara,
ok meirr megnanda,
at þat meðklint sè
tálláta lit
loginnar elsku;
þenna vel ek veg,
sem er vissari,
ok skal fljótt farinn
til fljóðs skaða."
Svo mælti mikill
manna fjandi,
í eitrormi
innilukt,
búandi verri
bústað illum,
ok þar nærst Evu
andspænis kom.
Eigi skreið hann þá,
sem æ síðan,
bárótum bugðum,
heldr barr hann sik
allhátt, upprèttan,
undinn í hrínga,
sem hófust hreyktir
hverr á annann,
hríngr yfir hríng,
sem hrínga-turn,
viðlíkt ok gaung
í völundarhúsi.
Stugghærðr kambr[1]
stóð á höfði,
augun glórðu,
svosem glóðarsteinn[2];
glóaði af gulli,
ok sló grænku á,
hálsinn háttreistr
hrínga ámilli,
þeir um foldar fax
fóru í bylgjum.
Skrautlig var myndin
ok skapfellig,
aldregi síðan
hefir augum skemt,
nè fundist fegurr
fágaðr honum,
annar neinn
af ormakyni.
Hverki þau Cadmus
ok Hermíóne,
at ormum orðin
í Illyríu,

[1]) Stugghærðr, horricomis, hryllilígr í hárfari. [2]) Glóðarsteinn, Carbunculus.

nè Eskulapíus,
Epídaurs goð,
nè þeir, sem guðum
gjörðu sik at,
báðir Jóyis
sem báru heiti,
kallaðir Ammon
ok Capítólínus.
Færðist enn fyrri
í fofnis líki
sökum ástar
við Olympíu;
hinn vegna hennar,
sem honum ól
son, Scipíón,
ok þar samfara
rètting ok upphefð
Rómaborgár.
Ferr hann fjölbeygðan
í fyrstu gáng
svikafullr
á svig við Evu,
sem einn, er æskir
annann at finna,
en efar atgáng
fyrir ótta skuld,
at máske komi
óhentugliga
Ok sem stjórn tamr
stýrimaðr,
en þar ókunnr,
sem atvillist,
þegar unnar elg
á at beita
at elfar mynni
fyrir anness tá,
tíðum tafsama
tekr slagi,
ok eptir vindi
ekr seglum.
Svo brá Níðhöggr
sinni naðar-slóð,
vafði sik ok vatt
á veg ýmsan,
í krók ok kríng,
með kætilátum
umhverfis Evu,
at hún ánga sèr
láta skyldi lèð,
eða líta við
affarasniði
síns aptrhluta.
Hún í önnríki
yðju sinnar
heyrði, hvernig þaut
í hrærðum blöðum,
en brá vettr við,
því vandist opt
ýmisháttar leik
allra dýra,
útum víðan váng,
viljugligarr
hennar hlýðandi
hvervetna raust,
enn svín í álögum
Circes[3] kalli.
Gjörir hann sik djarfan,
ok gegnt henni
sjálfkrafa kemr,
eigi kallaðr;
stóð hann ok starði,
sem stórri furðu
yfirfallinn af,
ok opt hneigði
fiðrfágat höfuð
ok fagran háls.
Gljáði, sem glaðast,
á gullspreklur hans,
en fofnir flaðrandi,
þar fljóðit gekk,
slægða slúnginni
sleikti túngu
fold, ok flensaði
fótspor hennar.
Þessi smjaðrandi
þagnar ræða
gat Evu ginnt til
at gá at sèr;

[3]) *Circe* er ein galdrakona hjá Hómer, sem hann segir umhverft hafi með töfrum í svín stríðsmönnum Ulyssis.

mjök svo furðar fljóð
fjölbreytinn leikr;
glaðr varð hann við,
at vunnit hefði
atgætit auga
sinnar atferðar.
Ok með orms-túngu
uppgjörðri ræðu,
líka máske með
mentar tón,
þegar listar lag
loptit pressar,
svikafreisting svo
ena svörtu hóf:
„Undrast ekki þú,
einvalds drottníng!
ef þat nokkut er,
sem undrunar
(því ein ert undr)
aflat getr;
fær ei himinblíðt
í harðneskju
auga þíns yndi,
fyrir óblíðu,
nè vanvirðíngu,
þó ek vogist til,
þèr svo nærgaungull
nú at verða;
þótt ek, af þinnar
þegi mettr
ásýndar skoðun,
á þik horfi
þannig eina þèr,
ok þína miklu
óttumst ek ekki
auglitis dýrð;
En þótt hlygðun
meðr bljúgustu,
ok ljúfri lotníngu,
mik láti sjá;
ok þótt af því sèrt
óttaligri,
at þú ert svo hèr
í einrúmi.
O, skærs Skapara
þú en skíra mynd!
á þik horfir allt,
sem anda dregr,
göfgar þik gjörvallt,
sem þèr gefit var;
enginn himneskan
augum leiðir
tignar glansa þinn,
nema tilbiði
frá sèr numinn
fegurð þína;
En hún allrabezt
þar yrði sèn,
sem atdázt væri
almenniliga;
hèr, helzt til litlum
í hagagarði,
meðr mállausum
merkr sæg
skilníngslitla
fær þú skoðendr.
Hverir helft eina
hvergi nærri
fegurðar þeirrar,
sem fylgir þèr,
ok þess ágætis,
sem eðli þínu
skæru skartar á,
skynja megu.
Hverr er sá hèrna,
sem hyggi at þèr,
þar sem enginn er,
nema einn maðr?
en hvat skal einum
þik alla at sjá?
ættir, sem gyðja
meðal guða, þú,
at vera *sísèn*
ok sítilbeðin.
Ok engla flokkr
ótöluligr
(þat er tign þinni
tilheyriligt)
ætti hvern dag
at umkríngja þik,
til at þjóna þèr,
þik at heiðra,

ok at fylgja þèr
um fótstig hvert."
Þvílík fleipraði
flaðrmæli
falskr Freistir;
en þau fundu veg
Evu bráðt í brjóst,
þó bilt yrði
mjök svo vífi við
venjubrygði,
er hún heyrði hèr
höggorms mál;
loksins svarar hún
eigi lítt skelkuð:
„Hvat er hèr á ferð?
hverju sætir
manns orð ok manns vit
af munni dýrs?
meintak þeim mundi
at minnsta kosti
ens fyrra synjat,
sem fengu eigi,
þegar sköpuðust,
skilmerkiligrar
lagna túngu til
tóns greiníngar.
En, hvort skilníngr
er skaptr þeim,
var ek óviss um,
því opt sýna
athafnir þeirra,
sem ok augnaráð,
at umþenkíngu
innan brjósts hafi.
Kunnak þik, fofnir!
kyndugastan
meðal gjörvallra
merkr dýra;
dulin var ek hins,
at þú dáð hefðir,
mannligri meðr
at mæla raust.
Far nú fram á ný
furðu þeirri;
inn mèr, hvernig atbar
umbreytíng slík,
at þú, ómálgr
í öndverðu,
getr nú svo rædt,
sem gumna hverr.
Ok hví þú heldr,
enn hin dýrin,
sem hvarfla hjá mèr
á hverjum degi,
vinsemi slíka
lætr veitta mèr?
seg mèr þetta þú,
þvílík furða
verðug allrar er
athugasemdar."
Freistir fláráðr
fann til svara:
„harðla hægt er mèr,
ó, þú heims drottníng!
ítrskær Eva!
allt at herma,
sem þú skipaðir;
ok skyldugt er,
at svo vel ek þèr,
sem allir hlýði.
Ek var öndverðr,
sem önnur dýr,
þau er jörð elr
jurtum troðnum,
hyggjur lágu lágt,
líkt sem fæða;
gjörðak eigi grein
nema grass ok kyns,
hafðak um hærra
hugsun enga.
Unz ek einn dag var
umreykandi,
kom ek augum á
ófyrisynju
eyk ypparliga,
sem stóð all-lángt frá,
okuð ávöxtum
yfirmáta.
Lystiligustu
litir þeirra
auðkendu eyk þá
frá öðrum lángt;

glóaði þar rauðt
ok gull saman;
happ hendti mik,
þegar hana sá.
Nú fór ek nærr,
til at njósna slíkt,
gans þá frá greinum
góðr ylmr,
sá óðum æsti
hjá mèr ílaungun,
mín meirr kitlandi
munarfæri,
enn fræbærasta
feníkulblóm;
Elligar eymr
ylmandi mjólkr,
er af ásauðar
at aptni dags
ok geita-spenum
í gras lekr,
þá en kátu lömb
ok kiðlíngar
gamans vegna
gleyma att sjúga.
Yfirtaks laungun,
sem í mik hljóp
af at bergja
eplum þessum,
óðt rak eptir mèr,
ok áleitendr
þessir þróttkir tveir:
þorsti ok svengd,
örfuðu mik upp
til áræðis,
æsktum ávöxtum
eptir at klyfra.
Vatt ek mèr þá upp
í vetfángi
mosavöxnum af
meiðar stofni;
svo var af hauðri
hátt at greinum,
at þína þyrfti,
til þeirra at ná,
at minnsta kosti,
eða maka þíns
Adams, víðfaðma
armslengd fulla.
Ask umhverfis
stóðu önnur dýr,
æsktu þau, sem ek,
at uppkæmist;
en fyri flokk þann
var þat forgefins,
ekkert náði
til ávaxtanna.
Nú komst ek upp,
en svo nálæg mèr
ok svo girnilig
gnægð úr máta
drog mik án dvalar
til at drepa sult,
ok at eta svo
sem í mèr lá.
Því sætt sælgæti,
svo sem þetta,
á fóðurfoldum,
nè við fagra lind,
hafðak híngattil
hvergi fundit;
merkta ek nú strax,
sem mettr var,
á mèr umbreyting
undarliga:
Hófust skapsmunir
til skynsemi,
leið ok ei lengr
at léntist mál,
þótt ek ennþá
sè í þessari
orms mynd, sem áðr,
inniluktr.
Hóf ek nú hyggjur
til hárra mála,
ok til alldjúprar
ígrundunar;
skírum skilníngi
lèt ek skoðat allt,
sem var sýniligt;
sá ek gjörla

hvat eitt á himni,
handri ok lopti.
Fann ek fagrt allt
ok fullkomit;
fann ek, at fagrt
ok fullkomit allt,
er hjá einni þèr
í eitt safnat,
þú himnesk gyðja!
ok í háleitum
guðdóms fegurðar
geislum þínum.
Algjörla finn ek,
at ekki vætta,
á jörðu þessi
má jafnast þèr,
hefir þat ok mik
híngat knúðan,
en máske ofmjök
þèr í ótíma.
Skundar ek ok til þín,
at skoða þik,
ok at tigna þik
tilbiðjandi,
þú, sem með rètti
yfir þessari
ert voldug drottníng
veröld allri,
ok svo hátt hafin
höfðíngsfrú,
er allar skepnur
undir lúta."
Svo mælti svafnir
á svik lærðr;
honum hún, án þess
at hugsa sik um,
svo feldum orðum
lèt svar gefit:
„Hvat þú hælir svo
úr hófi mèr,
tekr til at gjöra
mik tvíbendta,
ormr! um orku
epla þeirra,
sem þú svo hrósar,
ok sjálfum þèr
ollu fyrst slíkrar
umbreytíngar.
En seg, hvar stendr
þetta stoltar trè?
hversu lángt hèðan?
því harðla margir,
ok mjök margskonar,
eru meiðir Guðs,
sem hann prýddi með
Paradís þessa,
eigi alla þá
við enn þekkjum.
Unnt hefir okkr
örlæti hans
yfirfljótanligt
um at velja;
allr þorri því
af þeim gróða
ósnortinn hángir
af okkar mund,
geymdr eykum á,
enn óspiltr;
Unz meiri verðr
manna tala
til at þrífa þær,
sem þörf gjörist,
ok fleiri armar,
af ofhlöðnu
baki náttúru
byrði lètta."
Nú svarar naðr
næsta kátr,
ok heldr mjúkmáll,
af myrkvu falsi:
„hèr við höndina,
háborna frú!
liggr leið þángat,
erat lángfarit.
Fram er at fara
hjá fagri röð
mórberja meiða,
þeir er mildt skyggja;
þá verðr fyri
þessi slètta,

þar sem eykin er
hjá uppsprettu,
bakvið einn lítinn
balsams runna.
Mun ek þèr, mær!
nema móti sè,
ok at ljúflyndis
leyfi þínu,
með skjótum skunda
(skamt er at fara)
þegar í stað
þángat vísa."
„Farðu þá fyrir!"
sagði frummóðir;
en hann hröklaðist
í hríngum fljótt,
allt, hvat áðr var
undit hlykkjum,
sýndist þráðrètt þá,
er hann þirlaðist;
svo flýtti fólskan
falli voru.
Tvöfaldt teygðr upp
af tilhlökkun
glenti hann með gleði
gullroðinn kamb;
eins ok þá fram ferr
af feitum dömpum,
ok nístum saman
fyri náttkulda,
í hröðum blossa
hræfareldr;
fylgir honum opt
(at fólk segir)
nokkr vond vofa,
sem villir menn.
Hoppar hyrr slíkr
híngat ok þángat,
ok viðsjárverðr
villuljósi
ginnir af götu
þann, er gekk um nótt,
í fen ok foröð,
svo hann ferst þar af
lángt burt frá bygðum
ok björg allri.

Glíkt gjörði lýsa
grábakr nú
allt of auðtrúa
aðalmóður,
er hann færði fljóð
í fallsnöru,
ok at björk þeirri,
sem bönnuð var,
undirrót allrar
vorrar ólukku,
ok alls andstreymis
upphafs stofni.
En er Eva sá,
hvat af eyk þat var
viðr vondan svein
varð henni at orðum:
„betr væri báðum
braut ógengin,
ok sparat ómak
okkr híngat;
því þótt hángi hèr
á hverri grein
yfirvættis gnægð
af ávöxtum,
er þat fyri mik
ávaxtarlaust.
Undrvirkan þú
um eykar krapt
geym sögusögn
til seinni tíma;
furðanlig er víst,
sem þú fráskírðir,
verkan hans,
er við þik skeði.
En, eyk þessari
at við afbergjum,
er í allan stað
ógjöranda,
ok við at hræra
ekki voganligt,
þat Guð berliga
bannat hefir.
Okrenkjanlig
er einka dóttir
Skaparans raustar
skipan þessi;

varnat var oss þess,
ok vettr ella;
ern við í ölln,
nema einu því,
okkar egin lög,
ok en einasta
skrá okkar lögmáls
er skynsemin."
Svartr Svikari
svarar aptr:
„hvernig hagar því?
svo hefir Guð
talat tvímæli;
þið af trjám öllum
í Eden ekki
eta megið,
ok þó hvatvetna,
sem hauðr berr,
líðr í lopti,
ok um lög sveymar,
ykkr undirlagt
einvalds herrum?"
At sinni syndlaus
svarar Eva:
„gjörvöllum gróða
í garði þessum
er okkr heimilt
af at neyta,
en álits fagran
um ávöxt þess
ens mæta meiðar
í miðjum garði
bauð hann: „ „bergið ei
af björk þessi,
óhrærð sè hún,
at ekki deyið!""
Fljótt barr hún fram
þessi fáyrði;
en Dólgr freistandi
djarfari varð,
ok með enn dýpri
yfirdrepskap
nú lèk níðings spil
nýum hætti.
Olgandi lèzt hann
af ást til manna,
ok vegna þeirra
af vandlætingu,
ok af óþókknun
órèttar þess,
sem honum sjálfum
sýndr væri.
Sem af ýfingu
ákafs hugar
vindr hann sèr við,
þá með virðingu
ok alvarligu
yfirbragði,
sem umtals efni
væri innan brjósts
harðla höfugt,
hann sik reisti.
Eins ok í Róm
ok Athenuborg
frægir talendr
forðum daga,
meðan mælskukunst,
mállaus síðan,
harr sitt blómaskrúð
í báðum stöðum,
stóðu mikilvægt
fyri málefni,
reistir, röskligir
á ræðustóli,
fullsamsafnaðir
í sjálfum þeim.
Ok hver ein hegðan,
eðr hræríng lims,
hvert eitt háttalags
hót it minnsta,
áðr útbrytist
orð af túngu,
heimti hljóðlæti
ok hvers munns þögn.
Unz án umsvifa
í einum rykk
brast fram brimflóð máls
af brunni vara
voldugt, vellandi
af vandlætíngu
röksamligri
fyri rètt þeirra,

formála lángan
sem fyribauð.
Svo stóð nú heitr
um hjartarætr,
á hæð geystustu
geðshræríngar,
með myndugligum
mælindis svip,
Freistir fláráðr
í fræníngs hýði,
unz heldr hnarreistr
hóf svo ræðu:
„O, þú heilaga,
ok hávís sjálf,
vísdóm veitandi
veglig planta!
móðir mannvits
ok mentunar hverrar!
klára kennir ek
þinn krapt í mèr.
Kennir ek í mèr
krapt þinn mikla,
eigi einúngis
um uppruna
til at gjöra grein
gjörvallra hluta,
heldr einnig ok
til at uppgötva
vegu, sem gánga
þeirra verkendr,
andur, hvat vísir
sem ætlast þó.
Legg þú, heils hauðrs
háleit drottníng!
legg ekki trúnað
á tölur þær
harðra heitínga,
sem hafðar voru;
þú munt án efa
ekki deyja.
Eðr af hverju?
ávextinum?
nei, hann lènar þèr
líf með vizku;
hvat þá? af honum,
sem þèr hótaði?
sjáðu sjálfan mik
til sannfæríngar!
Mik, sem tók á trè,
sem tögg ok át,
en sem lifi þó
ei at síðr,
sem hefi nú náð
nýu lífi,
ok fullkomnara,
enn þat forlög mèr,
öfundsjúk máske,
ákvarðat höfðu.
Með því at ek
yfir merki þau,
sem mèr sett voru
sjálfskapnaðar,
ok mèr haslaðan
hlutskiptis völl,
vèk svo með vogun
ok með viðleitni.
Mun þá manninum
meinat vera
þat, sem heimilt er
hinum dýrum?
getr þá Guði
orðit gramt í hug
við svo lèttvægt
ok lítit efni?
Mun hann ei mega
miklu heldr
ykkar hátt hrósa
hugprúðu dygð,
sem helstraffs hótun
hvergi látið,
(hvat sem hel þat er
at hræðslu efni)
ykkr fæla frá,
at freista þess,
sem lífi lyptir
til lukku meiri,
ok glöggrar greindar
um gott ok illt?
Já, til þekkíngar
þess hins góða,
hve sannsýnilig
er sú ekki?

ok ens illa þá?
ef er nokkut
íllt í raun rèttri,
hversu ráðligt er,
at menn þekki þat,
svo því betr
verði þat varast,
ok við því spornat?
Getr þessvegna
Guð víst ekki
refsat ykkr,
ok rèttvíss verit;
ef ekki rèttvíss,
þá ekki Guð,
ok ekki framarr
óttaverðr;
ef ekki rèttvíss,
þa eigi heldr
verðugr er
at veitist hlýðni.
Sjálfr ótti sá,
sem þið berið
fyri dauðanum,
drepr ótta;
fyri hví þá
er hèr forboð sett?
til at geta gjört
ykkr geigbundin;
At þið alla tíð
óttaslegin,
lág ok niðrlút
ok lítt þekkjandi,
í önnúngs ánauð
fyrir ógnun hels,
tigna skulið hann
ok tilbiðja.
At ykkar augu,
veit hann algjörla,
sem þið sjálf meinið
at séu skær,
en mjök myrk eru,
muni verða
opnut ok upplýst
á þeim degi,
sem þið etið af
ávexti þeim.
Ok, at ykkar sjón
uppljómaðri,
guðum glík
gjörast munið,
þaðan í frá
eigi þeim minnr
vitandi vorðin
um vondt ok gott.
At þið, svo veglig,
verðið guðir,
þar ek, ótíginn,
at varð manni
í anda mínum
ok óðs kröptum,
rèttr jöfnuðr
er at reikníngi,
eptir tiltölu
tröppu hæðar.
Þar ek, sem áðr
at eins var dýr,
er nú af dýri
orðinn maðr,
verðr at vera,
þat er vitanligt,
at þið, sem eruð
á undan menn,
verðið á eptir
vegligir guðir.
Munu þið síðan
máske deyja,
búníngi manndóms
þegar býtt hafið
fyri tívum tíðt
tignar eðli?
dauðinn, hèr hafðr
fyrir hótat straff,
er þó allt ofmjök
æskjanligr,
nær ekkert verra
kemr eptir hann.
Hvat eru guðir þess
at göfugleik,
at menn þat ekki
orðit geti,

guðafæðn
þá er gjörst hafa,
hinum jafnt,
hluttakendr?
Fyrst voru guðir
(svo fólk trúir),
ok eptir trúnni
kemr allt frá þeim;
en ek þverneita,
at þetta fylgist,
eðr hángi svo
hvat af öðru.
Því sjálfr sèr ek,
at sólin ein
vermir væna jörð,
ok vetna hvat
getr ok gjörir;
en guðir þessir,
hvat er þarfa þat,
sem þeir vinna?
Ok, ef allt kemr
frá einum þeim,
hverr lèt þekking þá
í þessum viði,
svo um íllt ok gott,
innilæsta,
at hverr, sem etr
ávöxtu hans,
án orðlofs þeirra
um þat fræðist?
Í hverju er þá
innifalit
afbrot ykkar?
at öðlist vizku?
mun Guði mega
verða mein at því,
at þið vís verðið?
viðr þessi
hvat mun geta gott,
nema Guð vili,
ef allt er hans
ykkr gefit?
Eða mun öfund
vera orsök hans?
getr hún gist
í guða brjósti?
nei, sú ástæða
ok aðrar meiri
ofbert auglýsa
hèr ykkar þörf,
nauðsynliga
sú er nautn býðr
ykkr af aski
til upphafníngar.
Rett því mund þína,
mannlig gyðja!
óhikat til
eykar greina;
taktu tafarlaust
tígnglig epli,
örugg ok óhrædd
et, sem þik lystir!"
Ormr tvítýngdr
tölum hætti;
orð hans flærðarfull
fundu, því verr!
ofhægan inngáng
í Evu hjarta,
svo var sál hennar
sjónum leikin.
Stöðugt starði víf
á stoltar epli,
sem var seiðtafn
fyri sjón eina;
hljómuðu þá enn
í hlustum blekktum
töfra tælíngar
af tölum orms,
virðtist henni þær
vissuliga
styrktar af sannleik
ok stórri vizku.
Teygðist nú tíðin,
meðan tilbar slíkt,
svo at mál mundi
miðdags verðar;
megn kom matarlyst,
er mjök svo jókst
við ylm ávaxtar
í Evu vitum.

Mænir hún á mat
munar augum,
upptendruðum
af ilaungun,
tennr vóðu vatn
í vífs munni,
ok nú var fýsn flogin
á fremsta hlunn,
til at teygja hönd
á tálbita.
Þó varð þá enn,
áðr þat skeði,
brúði biðleikat
um bil lítit,
meðan hún mælti
fyri munni sèr
í hálfum hljóðum
þat, er hèr greinir:
„Víst er frábær,
þú, enn fegursti
allra ávaxta!
þín eðlis dáð,
en þó nautn þín sè
neituð mönnum;
hvat, sem hverr segir,
hárra dygða
auglýsir þú afl
undrunarverðt.
Ollengi bönnuð
afneyzla þín
gaf dumba dýri
dáð til ræðu,
strax hit fyrsta sinn,
er freistat var;
túngu, sem var tals
eigi tilsköpuð,
lærðir þú at lýsa
lofstýr þínum.
Einnig sjálfr sá,
sem oss hefir
lagt fyri blátt bann,
at bergja af þèr,
hefir eigi hulit
hrósun þína,
þar hann þik nefndi
þekkíngar-trè.
Vottat hefir hann
með heiti þvísa
vits veitanda þik
um vondt ok gott;
þó fyrst þareptir
þversynjaði
okkr þinnar
afbergíngar.
Fyri forboð þat
ertu frægari,
gjörir þat þik okkr
girniligri,
er þat gæði þau
gefr til kynna,
sem vantar okkr,
en þú veita mátt.
Því þat hit góða,
sem þekkist ekki,
at maðr eigi,
þótt hann eigi slíkt,
er honum eflaust
eitt ok hit sama,
sem hann eigi þat
sízt af öllu.
Hvat er þat at hlut,
sem hann bannar?
hvat nema þekkíng
ok hyggendi?
eins hlutar varnat
er okkr góðs,
vísdóms varnar hann
vegligs góða;
en við boðorð þat,
sem bannar gott,
eru við eflaust
óskuldbundin.
En ef á eptir
okkr bindr
fjötrum voldugum
fölr dauði;
hvort er okkr gagn þá
at geðfrelsi?
á hverjum degi,
sem epli þau

en dæiligu
dyrfist eta
(sá var dómr vorr),
deyja skuluð.
En þá ormrinn?
er hann dauðr?
át hann, ok lifir,
ok öðlaðist vit,
talar, ályktar
ok atgreinir
skynsemdarfullr,
sem þó skynlauss var;
er þá einúngis
okkar vegna
hegning sú fundin,
sem heitir dauði?

Eða var at eins
okkr mönnum
greindrar varnat
guða fæðu,
hinum dýrunum
sem heimil er?
sýnist, at hún sè
saunarliga
skynlausar einar
fyri skepnur geymd.

Ok þat eina dýr,
sem af eyk þessi
frábæran forða
hefir fyrst reyndan,
misann ei manni
munaðar slíks,
heldr girnist þat
ok gleðst viðr,
at hann happs sama
hluttakandi,
sem því vildi til,
verða megi.

Gefr dýrit geig
eða grunsemi
um undirhyggju
ei hit minnsta,
ærit er þat einlægt
ok ástlollt manni,
fals ok fláræði
eru fjærri því.
Hvat óttumst ek þá,
sem ekkert þekki,
er ek óttast þarf,
nè íllt frá góðu,
eigi hót hluta,
sem heita dauði,
hverki hefnd nè Guð,
nè hans lögmál?
Hèr er meðalit,
sem mik læknar,
gróði þessi
guðdómligr
góminn gleðjandi,
gaman augum,
vísdóms veitandi,
voldugr mjök.
Hvat er, sem tefr
þá mitt tilræði,
æsktan ávöxt
af at plokka,
ok mín með honum
mettut láta
sál ok líkhama
í senn bæði?"
Alltof hraðhendt,
at hermdu þessu,
rètti drósin út
sinn djarfan arm:
óþarft handarvik!
olli Fjandi!
tók hún epli ok át
á óhapps stund.
Sársauka jörðin
síns þá kendi;
stundi náttúran
við stíng sáran
í iðrum innstu
ámynniliga;
allt, hvat skapat er,
gaf ángrs teikn
grátlig, gjörvöllu
at glatat væri.
Bráðt hvarf í burt
á bakvið runna
sekr svafnir,

at synd drýgðri,
var þat honum hægt,
því hún gætti
einkis, nema áts,
fyrir ofrdáð
af smekk nýnæmis
nærsta sætum.
Aldrei þóktist hún
æfi sinnar
(svo var hún af sæld
frá sèr numin),
jarðar aldin
hafa jafnsætt bergt,
aldrei inndæli
á kennt slíku.
En hvort, sem satt var,
eða svo þókti
innbyrlíng einni,
upplyptist hún,
ok tók at tendrast öll
af tilhlökkun
góðs ok íls greindar,
ok guðdóms stands.
At hún ákaft,
en óþenkt lèt,
at hún svalg í sik
sáran dauða;
unz södd um síðir,
ok sem af víni
kát ok kófdrukkin,
hún kvað upp orð
viðr sjálfa sik,
svolátandi
(þókti vífi vænt
um veg sinn ok ráð):
„O, þú ypparsta,
æðsta ok bezta,
Paradísar öllum
af prýði-trjám!
Vegligum gædd
með vísdóms krapti,
ókennt allt hèrtil
ok áskyggt hnjóð!
Fyrir óhróðr
ok illan grun
hèngu epli þín
ágætustu
kraptfull á kvistum,
en þó kyrr látin,
sem engin væru
ok til einkis sköpt.
Æ! uppfrá þessu
skal anna fyrst
morgun hvern
mèr at kveðja
þakkarsaungum þik
ok þjónustu
virðíngarfullri,
sem þú verðskuldar.
Þá skal ek þakklát
þínar greinir
afferma sínum
ofrþúnga,
sem þær svo bjóða
sèrhverjum ljúft;
unz ek, vaxin svo
at vísdómi,
öðlast ávöxt þann
ávaxta þinna,
at sè guðum glík,
sem gjörvallt þekkja;
En þótt mèr óunnt
af öðrum sè
þess, sem þó eigi
megu þeir veita;
því ef þeirra gjöf
þetta væri,
mundi þat eigi
hèr á meið vaxit.
Þèr, reynsla! þarnærst
kveð ek þakkarorð,
hefir þú mik svo
at heill leidda;
því ek væri víst,
ok verða mundi,
föst í fávizku,
nema fylgt hefði
vegvísun þinni
at vizku dyrum,
er þú opnat lèzt,

en þótt væri
henni þar haldit
í hylmíngu.
Ske má ek sjálf sè
í sama máta
hèr í hylmíngu,
því harðla lángt
er himin hafinn
frá hauðri þessu,
get ek, at ekki,
muni gjörla sjást
hvat eina þaðan,
sem hèr gjörist.
Máske enum mikla,
sem meið bannar,
umsorgun önnur
ok annríki
glepi sífelda
sjónar vöku;
einnig máske hèr
mèr sè borgit
fyri nálægð
hans njósnarsveina
ótöluligra,
sem hann umkríngja.
En Adams augum,
þegar aptr kem,
með hverju móti
skal ek mik sýna?
skulu honum hermd
hagbrygði mín,
ok hreptrar heillar
hlutdeild gefin?
Mundi mèr ekki
miklu betra,
yfirburðum þeim,
ek öðlaðist,
hjá mèr at halda
hærri vizku
ódeildum öllum
fyrir eina mik?
At ek bæti svo,'
þat er brestr á
kosti kyns míns
móti karlmanni,
at hans meirr til mín
magnist ástir,
ok ek geti gjörzt
honum glíkari.
At jafnvel ok,
sem er óskaverðt,
mik ek geti gjört
honum gyldari,
ok, nær svo atber,
yfirdrottnat;
hverr má lauss lifa
í lægra standi?
Kostulig kjör,
ef þau kæmist á!
en ef sjálfr Guð
mik sèt hefir,
ok ek bíð bana,
þegar búit er,
þá em ek öll,
ok engi framarr.
Fær þá Adam sèrr
at faðmbúa
önnur Eva
ok at auðnu-naut,
í sið ok sambúð
síðu fylgiu;
mín verðr máðrar
minnst at engu.
Til þess at þenkja
er þegar dauði;
skal því skjótt ráðit
ok skorðat fast,
at blíðt ok bitrt,
böl ok sæla
gángi eins yfir
okkr bæði.
Svo ann ek Adam
með ást heitri,
at ek víst vil,
hverjum vera skal
dauðdaga, honum
deyja meðr,
en enganveginn
fyrir utan hann
lifi lifa
lukkusælasta."
Hafði hún sik,

at hermdu þessu,
nú í. burt frá björk,
en sik beygði fyrst
með lítilæti
lotníngarfullu,
fyri makt þeirri,
sem í meið byggi [4].
Eða fyrir einhvers
anda krapti,
þess er hefði hèr
í helgan við
hellt vísdóms vökva,
veig himneskri,
góðu nektari
ok guða drykk.
Orótt var Adam,
er hann eptirbeið
innu sinnar
aptrkomu,
knýtti hann á meðan
krans af blómstrum
enum fegrstu,
sem fundit gat.
Hugðist hann hennar,
þegar heim kæmi,
heiðrsteikni því
hadd at prýða,
ok til umbunar
unnins starfa
kostgæfna kæru
krýna þannig;
eins ok optliga
sá uppsker korn
haustyrkju drottníng'
höfuð sæmir.
Hèt hann sèr í hug
hárri kæti
af fegins fundi,
þegar fljóð kæmi,
er hann oflengi
var án at sjá,
nýrri ánægju
því nú spáði.
Þó var sem þýngra
þess ámílli
eitthvat onaði
ok á hann legðist,
fann hann hugboð hryggt,
hroll í blóði,
ok vèk til vegar
á vit svanna.
Fór hann, því hugðist
henni mæta;
samstundis svo
ena sömu leið,
sem um morguninn
hafði mær gengit
fyrst, eptir skeðan
skilnað þeirra.
Var þá vegr hans
hjá vísdóms-trè,
fann hann ok fljóð þar;
er frá því snèri,
vildi hún nú heim,
ok hèldt á kvisti
fullum epla
enna frábæru.
Var sem lífligum
þau lèki af dun
af trè nýnumin,
í nasir honum
ambrósiskum ylm
blès útaf þeim,
ok sem hlæi þau
í hans augu.
Örfar Eva spor,
en angljós stóð
afsakan þegar
í yfirbragði;
vatt hún vörnum fram
viðstöðulaust,
ok heldr mjúkmál
mælti þannig:
„Hefir þik, Adam!
ekki furðat
bísna laung
mín burtuvera,
ok hvat tilkæmi,

[4]) Þat er snilliliga diktat, at Eva, strax eptir nautn þess forboðna ávaxtar, fellr í afguðadýrkun.

at ek tefði svo?
einn ertú ok þat,
sem ek þráð hefi,
fannst mèr feykna lángt
í fjærvist þinni.
Elsku sárendum
aldrei slíkum
hefir ákennt ek,
nè öðru sinni
hèreptir þvílíkt
hyggst at reyna;
framvegis aldrei
mun ek freista þess,
er allt ofbráðlát
ok óreynd nærsta
dyrfðist ek í dag,
er dvöl sú laung
særði sál mína,
í sundrun okkar.
Breytilig var orsök,
sem bar til þess,
ærin undr
ok eindæmi;
hversu þikkir þèr
um þetta trè?
furða mun þik fregn,
er fær at heyra:
Eigi er við át
af eyk þessi
sá, er hótat var,
háski bundinn,
engan opnar hún
ólukku veg,
heldr göfgum gædd
guðdóms krapti
upplýkr augum
afbergjanda,
ok þá at guðum
fær gjörða strax.
Þat er fullfundit
at fofnis raun,
freistat hefir hann,
okkr hyggnari,
eigi bundinn eins
nè auðsveipr,
sèr mat at meiði
í munn at bera.
At hann ávöxtinn,
en ekki dó,
eins ok okkr var
til ógnar hótat,
heldr fèkk manns mál
ok manns skilníng,
ok nú ályktar,
svo undrum gegnir.
Unnu svo á mik
umtölur hans
kynja kröptugar,
at hann kom mèr til
eykar eplum
af at bergja;
varð ek vör hjá mèr
í vetfángi
sömu verkunar
ok svafnir hlaut.
Upplukust þegar
ok urðu skær
augu mín, áðr
sem ofsljó voru,
ljóst sik liðkuðu
mínir lífs andar;
hjartat hefr sik
ok hán vex
tíva standi til
at taka ámóti.
Þráir ek þat helzt
fyri þína skuld,
en get utan þín
einkis metit,
því hver heill, sem er,
mèr at heill verðr
því at eins, at þú
í þeirri jafnt
hlutdeild með mèr
megir taka,
en mjök leiðinlig
ok lök ella.
Berg því af björk,
svo beggja sami
í heillum hluti,
sem í hugar ást,
söm ok ein gæði,

okkr sameini;
þvíat, nema þú
þar af neytir,
mundi misjafnrar
máske dygðar
bæð ok hamíngju
okkar hag sundra.
Ok ek uppfrá því
afsegi mèr
þèr til geðþekknis
guðdóm þenna;
en ofseint, máske
þegar afsal slíkt
er af forlögum
fyrimunat."
Svo innti Eva
atburð skeðan
með blíðu bragði
bónda sínum,
þó brann nú þegar
þegjanda teikn
á kvilltum kinnum
köldu roði.
En strax, sem Adam
í annann stað
heyrði hermda
hrösun svanna,
brá honum svo við,
at bleikr stóð,
hremdr af hræðslu
ok sem höggdofa.
Hrollr dauðligr
hljóp um æðar,
löfðu lèmagna
limir hans allir;
svo datt skjálfandi
úr dalnauð krans,
er hann fyr' Evu
ofinn hafði.
Hrutu víðs vegar
ok visnuðu
allar hans rósir
ok aldinblóm;
Adam stóð, sem steinn,
ok starði fram
nötrandi, mállauss
ok náfölr.
Loksins í lyndi
lítit hrestr
viðr sjálfan sik
hann svo mælti:
„ó, þú, at fegurð
frábær skepna!
sjálfs Guðs hit bezta
ok síðarsta verk!
A hverju allt skín
í afbragðs glanza,
sem fyri sjón
ok sinni má
um aldr æskjast
eða skapast,
gott, heilagt, geðfeldt
ok guðdómligt.
O, hví ertu svo
illa fallin?
hví ertu hröpuð
hastarliga?
hversu horfin svo
heiðrs sæti,
ósæmd ok afskræmd,
offruð dauða?
Hvernig gaztu svo
herraboð strángt
af þèr fengit
at yfirtroða?
hve þú vogaðir,
at vanhelga
ávöxt fastliga
fyriboðinn?
Bölvuðum brögðum
hefir blekta þik
einhverr óvinr
illa dulinn,
ok felda með mèr
í hit mesta tjón,
því ek þola skal
með þèr dauða,
er þat áform mitt
óraskanligt.
Hvort get ek lifat
at þèr látinni,
eðr án verit

umgengni þinnar,
sem er svo inndæl
sinni mínu,
eða gleyminn gjörzt
góðrar elsku,
sem okkr svo heitt
hefir sameinat,
en villst einn aptr
um eyðiskóg?
En þótt Alfaðir
Evu nýa
mèr fyri meðhjálp
mynda vildi,
ok ek annat rif
enn lèti til,
mundi missir þinn
mínu hjarta
ógleymanligr
ávallt svíða.
Nei, ek fullvel finn,
hversu fastliga
nátengd náttúra
nauðdregr mik;
ofdýrmæt ertu mèr
ok ástfólgin
þú, sem hold ert
af holdi mínu,
ok bein, sem byggt var
mínum beinum af;
víst skal því vesæld
eða velgengni
okkr tvö
aldrei skilja."
Nú sýndist sál hans
þá er svo hafði
raunatal rakit,
rórra verða,
sem eins, er eptir
ángrsamt tjón
heptir harm sinn
með hugsun fastri,
at bera böl þat,
sem ei breytast kann;
vèk hann sèr til Evu
viðmóts hægr:
„Drýgt hefir þú, Eva!
dælskufullt verk,
ok hætt þèr fram
í háska mikinn,
er þú ei at eins
lèzt augu þín
munarfull mettut
á meið helgum,
heldr ok dyrfðist
hans at smakka,
fýsnarfrek, ávöxt
fyriboðinn.
En hverr umliðit
aptrkallar?
hverr getr gjört
þat, er gjört hefir,
aptr ógjört
ok aldrei sket?
eigi Guð sjálfr
almáttugr,
nè föst forlög,
geta framkvæmt þat.
En hverr veit? máske
þú ekki deyir,
vel máske nú sè
verknaðr þinn,
eigi slík illgjörð,
sem í öndverðu,
áðr epli þau
áhræið voru,
nú við naðar át
svo niðrlægð,
óheilög orðin
ok almennilig,
áðr enn þat við
af þeim bergðum.
Ekki dó ofnir
af áti þeirra,
heldr lifir hann,
sem hermdir þú,
lifir víst, sem við,
því vann með áti
æðra lífs eðli,
enn áðr hafði.
Öflug ástæða
fyrir okkar von!
at ef við etum

at orms dæmi,
munu við ok eins
á okkar máta
eptir tiltölu
at tign vaxa.
En hver má aukníng
á okkar tign
gjörast önnur,
enn guðir verðum,
háleitir englar,
eðr hálfguðir?
Einnig er mèr þat
ótrúanligt,
at hinn góðgjarni
Guð ok vísi
fái í alvöru,
þó svo ögraði,
af sèr, okkr
at eyðileggja;
Okkr, af honum
sem erum sköpt,
ok hans en helztu
handaverka,
vegsemdar þeirrar
sem hann virðt hefir,
at yfir öll þau
við erum sett;
Ok þar þau at eins
okkar vegna
sett eru ok samin
af sjálfum honum,
glatast hlytu þau,
ef við glötuðumst,
með því svo hángir
á meginreim
tilvera þeirra
tengd við okkar.
Svo hlyti sjálfr
sína at gjöra
Skaparinn sköpun
skjótt at engu,
brjóta at bragði
þat, er byggt hafði,
ok hafa unnit allt
til ónýtis;
en þat er um Guð
óhugsandi.
Kann hann at sönnu
fyri kröptugt orð
fljótt aðra sköpun
fram at leiða;
en hann ógjarna
mun okkr þó
láta tortýnd,
svo tækifæri
fái fjandi vorr
at fagna slíku;
Ok at segja svo
sigri hrósandi:
„„sjá! hversu staðlaust
stand þeirra var,
sem Guð mestar á
mætur hafði!
hverr honum lengi
mun hugþekkr?
Fyrst hann feldi mik,
þat var frumhlaup hans,
nú kollkastar
hann kyni manna;
hvers mun hèr nærst
verða hrakfall slíkt?""
Þvílíkt gefst aldrei,
þat er er fjærri,
hatanda vorum
hæðnis efni.
Hvat sem um þat er,
skal áform mitt
fast ok fullráðit,
forlög sömu
með þèr at bera,
sem mætir þú,
ein skal fordæmíng
okkar beggja.
Ok þótt ek með þèr
offrist dauða,
láta skal ek dauðann
mèr líf vera,
svo sterkr er mèr
strengr í brjósti,
þeim er náttúran
nauðdregr með
mik at því milt er,

at mínu í þèr.
Því allt, hvat þú ert,
þat er mitt egit,
engiun atskilja
má okkar stand,
tvö við eitt erum,
eitt hold bæði
eylífri samtengt
meðr einíngu;
þat er því sama,
ef ek þik missi,
sem ek mista mik
með því sjálfan."
Adam sagði svo;
svar gaf Eva,
með hughræríngu
hjartanligri:
„hversu hrósverðr
ok hárr vottr
ást algjörðustu
auglýsir hèr
svo sjáanligum
sannleiks rökum?
O, dýrmætt dæmi,
sem mik dregr til
endrgjalds skyldu
í eptirbreytni!
en hvernig mèr mun
möguligt vera,
sem er svo miklu
síðr enn þú,
at ná algjörleik
þíns ágætis?
Þrefaldt þikkjumst ek
nú þess sælli,
Adam! enn áðr,
at ek útaf spratt
svo sanndýrmætri
síðu þinni.
Öll eru orð þau
mèr eptirlæti,
sem þú setr fram
um samband okkar;
söm er beggja sál
ok samt hjarta,
vissasta vitni,
sem verða kann,
þarum berr
þessi dagr.
Er þú af elsku
hefir einsett þèr,
með mèr heldr
at mæta strafli,
ok í fordæmíng
falla sömu,
enn at svo stöðug
ok í eitt bundin
okkr, sem unnumst
svo yfrit heitt,
skuli fá sundr-
skilit dauði,
eðr hvat honum
er harðara;
Sè þat annars satt,
at synd drýgjum,
þótt við etum af
ávexti þeim,
hvers kjarna kraptr
kom til vegar,
at svo auglýstist
þín elsku stærð.
Því frá góðum
hlýtr gott at koma,
ef ei eins kostar
ok í fyrstu,
þá auðnusama
fyrir afleiðíng.
Ef ek óttaðist,
at eptirfylgdi
dapr dauði
því ek dyrfðist til,
eins ok ögrat var
í öndverðu,
vilda ek ein taka
móti álögum,
en eigi fá þik
til at fylgja mèr.
Ek vilda heldr
yfirgefin
ok í útskúfun
aldr lykta,
enn at tilteygja

með tölum þik
raskanda gjörníngs
þinni rósemi.
Einkum þareð þú
þannig vottar
traustustu teiknum
trygðarfulla
ást ok einlægni,
sem ekki kann
fullum jöfnuði
at fást göldin.
En ek á mèr finn
aðra verkun,
engan dauða,
heldr æðra líf,
vel opnar sjónir,
vonir nýar,
unun aukna mèr
ok ánægju.
Svo góðan gómsmekk
ok guðdómligan,
at allt, hvat áðr
hefir ágætt þókt,
ok í vil verit
vitum mínum,
finnst mèr fúlt vera
ok fullt af remmu.
Taktu mik, Adam!
trúanliga,
reið þik öruggr
á reynslu mína;
et nú hughraustr
ok hrynd í vind
döprum ótta
fyri dauðanum."
Tók hún hann í faðm,
er talat hafði,
ok fögr feldi
fagnaðartár;
svo hrærðist hjartat
af hæð ástar,
sú er hugskot hans
svo hvatt brýndi,
at Guðs óþókknun
tæki yfir sik,
ok it harða hel
hennar vegna.
Ok til umbunar
(aðra betri
þvílík velvild
eigi verðskuldar),
helzt til örlátri
hún rètti mund
af grein ginnandi
guma sínum
tára verðugt tafn,
tálar epli.
Tók ok át Adam
án umhugsunar,
þó þvert ámóti
þekkíng betri;
var hann víst ekki
vèlum tældr,
heldr sigraðr
heimskuliga
af kýngikrapti
kvennfegrðar.
I iðrum innstu
nú aptr skalf
fæliligum fold
með fjörbrotum;
nú gaf náttúran
á ný stunur
útaf ofboði
yfrit þúngar.
Loptit sveipar sik
svörtum skýum,
billtist gegnum þat
blöskrandi reið,
mörgrèt himin
nokkrum dropum,
sem sorgar teikni,
fyri syndar skuld
nú fullframinnar,
fólks aldauða.
Tók eigi Adam
eptir teiknum þeim,
heldr saddi sik,
sem han lysti;
ei heldr ægði
Evu at drýgja
aptr sömu synd

sinni djörfu,
svo hún með samnantu
sínum því meirr
verða skyldi ver
til velþóknunar.
Sveimuðu bæði,
sem af víni
kláru kófdrukkin,
í kæti brɔ́ðt;
fannst þeim nú þegar
í þánka sínum,
sem til göfugs, flugs
at guðdóm
innvortis í þeim
yxu vængir,
með hverjum, hafin
frá hauðri lángt,
vildu þau at því
þeyta spotti.
En öll varð önnr,
enn þau ætluðu,
vottuð þeim verkun
afvèl-epli,
holdligan losta
lèt þat vakinn;
vatt verr at Evu
vífnum augum,
víf vatt at honum
vergjörnum eins,
bæði brunnu nú
í brjóstinu.
Enn kvað Adam svo
við innu sína:
„reynt er nú, Eva!
hve í rèttum smekk
máttu vera mèr
fyri meistara,
er hann víst ekki
okkar vizku
lítill partr,
nè hinn lakasti.
Því þar við líkjast
þánkar vorir,
ok með góðri greind
vèr hann góm nefnum;
þigg nú þèr skilinn
þenna hróðr,
svo vel hefir þú
mèr veitt í dag.
Hvílíks munaðar
við mist höfum,
er bezta bundumst
at bergja á mat,
þessum fyritaks
fagra gróða?
ok þekktum ekki
fyri þessa stund
veruliga smekks
vellystíngu.
Sè í sèrhverju,
sem er bannat,
liggjandi leynd
þvílík lystisemd,
mættu við óska,
at okkr væru
bönnut tíu til
trè fyrir eitt.
En kom nú, kæra!
svo kætt ok hresst,
leikum okkr tvö
lítinn tíma,
svosem sambýðr
sætum rètti
ok matar máltíð
munaðarfullri.
Síðan sælan dag,
er ek sá þik fyrst,
ok trúlofan eylíf
tókst með okkr,
svo fríð sem þú mèr
æ sýnzt hefir,
ok með algjörleik
allskonar prýdd,
aldrei þínir mik
augna töfrar
hafa sigrat svo
með sætri girnd
til at þýðast þik,
sem þessu sinni.
Nú ertu fegri,

enn nokkrn tíma
áðr varst
í augum mínum,
er þat án efa
einu at þakka
eplis áti
af askinum góða."

Adam innti svo,
ok eugum gleymdi
gjálífrar girndar
gamanlátum;
Eva skildi skjótt,
ok skaut ámóti
ástar eldpílum
allt eins næmum.

Hann tók heitt kyndtr
í hönd svanna,
ok leiddi bráðt á burt
at bekk einum,
grænni greinasíð
var hanu gjörskygðr;
Eva vökur var,
því viljug gekk
fýsnarfullra
til faðmlaga.

Blómstr voru brúkut
fyri beð þeirra,
glæstar fjólur
ok gulljurtir[1],
hýacintus
ok hèr nudir
ferskt ok fiðrmjúkt
fjörgynjar skaut.

Þar lètu þau nú
þorsta lofnar
fá sik fullslökktan
fýsnar gamni,
ok á sök sína
sameginliga
innsigli þessu
lètu af sèr þrykkt.

Þetta höfðu þau
sèr at þelfróa,
annar var ekki,
fyrir unnit brot,
unz af lystar leik
lèmagna vorðin
deigr dvalasvefn
þau datt yfir.

Eigi var allr
af þeim rokinn
kýngikraptr
kjarnans etna,
er þeim hverheitr
um heila vall,
ok allt hit innsta
afvega leiddi,
nè þúngr svefn,
af þykkvum getinn
dömpum, ok döprum
hrjáðr draumórum,
rekinn frá þeim fyrr,
enn fákát risu.

Urill voru þau
ok órólig,
sem kránkr maðr
eptir köldu-svefn;
horfði höggdofa
hvort á annat,
sán þau þegar,
at þeirra var
opnuð augna sjón,
en innri, sinnis,
þar ámóti myrk
mjök svo vorðin.

Burt var sakleysis
blæjan helga,
er allt hingattil
hafði á þau skyggt
fyri þekkíngu
þess hins illa;
ást ok trúnaðr,
uppruna dygð,
heiðr ok sómi,
en hærsta prýði,
voru töput
ok við þau skilin.

[1]) Gulljurt, á þýzku: *Goldwürtzel*, Lat. asphodelus, eða: hastula regia.

En skömm skuldfull
var skilin eptir
nöktum hjá,
er nú þau klæddi,
naktari þó þau
væri þarfyrir.
Svo reis Samson upp
síðarr mikla,
Herculis maki,
hetjan frá Dan,
af djúpum dvala,
þá í Dalílæ
skækju skauti lá
skerðtr afli.
Afklædd allri dygð,
aum ok nakin,
hljóð ok höggdofa,
þau hýmdu nú,
tvist ok trublut,
sem túngulama;
unz Adam loksins,
þótt Evu jafnt
bæri brjóstit fullt
bitrar sneipu,
hreytti hraðt fram
af hryggu geði
sundrslitnum
sorgartölum:
„Æ, ill var, Eva!
ólukku stund,
er eyra lèðir
ormi slægum,
hverr sem munn-ment
hefir magnat hann,
at fá eptirhermt
okkar tali.
Fullsatt finnu við
er fall okkar,
en ósatt loforð
um upphafníngu;
kennu við, því verr!
bæði vondt ok gott,
tekit við illu,
en tapat góðu.
Vesæll ávöxtr
af vísdómi,
ok ángrsverðr
yfirmáta!
þegar þess at eins
verðr þekkíng náð,
sem okkr allsber
eptirskilr;
Sem okkr sviptir
sönnum heiðri,
hreinleik, sakleysi
ok helgri trygð,
okkar ágæti
er áðr vorn,
en svo saurug
ok svívirðilig
lætr okkr nú
í ljós koma.
Okkr eru brend
í ásjónur
enna ljótustu
lystínga teikn,
sem ekkert annat
draga eptir sèr,
enn feykn fárligrar
fordjörfunar,
ok síðarst allrar
ólukku, skömm,
sem engum efa
lætr óhrundit
um allt hitt áðr
á' undankomit.
Hvernig get ek nú
Guðs ok engla
ásjónur litit
uppfrá þessu?
hverra skoðan
fyri skemstu þó
fèkk mèr fagnaðar
frá mèr numdum.
Augu munu mín
myndir himneskar,
er ek lít jafnan,
jarðnesk blinda
óþolanligri
meðr ofbirtu.
O, at ek mætta
hèr enda líf,

vesæll, einmana,
villuráfandi,
þar mestir eru
myrkviðar skógar,
ok hverki skærir röðull,
nè skin stjarna,
geta gegnumþreyngt
geislum sínum;
Heldr útbreiða
sik allt um kríng
skuggar þykkir,
ok skelfíngar
sortafullir, eins
ok svartnættit;
hylið grenitrè
en háu mik!
áskygg mik, cedrus!
ótal greinum,
at ek sjái þá
aldrei meirr!
En látum okkr
meðal óefna
þat umþenkja,
sem þurfum fyrst:
með hverjum hætti
hvort fyrir öðru
skapnaðar pörtum
skýla megum,
þeim, er minna mest
á minkun okkar,
ok sízt er sæmiligt
at sjáist nú.
Máske meið nokkrn
megum finna,
sem lífi ok lendum
ljái skýlu,
þá er blöð hans
þau en breiðustu
tekit höfu við
ok tengslat saman;
Svo at fastan fót
eigi fái sett
skömm hinn nýkomni
skaðagestr
okkr hjá
æfinliga,
eðr uppljósti
unnu broti,
ok kasti óhreinleik
okkr í nasir."
Adam ræddi svo
ok ráð lagði,
en bráðt burtgengu
þau bæði samt,
ok af fíkjutrè
fatnað völdu,
þó eigi tegund
þeirri sömu,
sem er orðlögð
fyrir ávöxt sinn;
Heldr af hinni,
sem er harðla kunn
mengi Indía
í Malabarí,
ok döglíngs dæmi
Dekanisku;
arma hengir hún
harðla víðt breidda
hunnopt þar
á hauðr niðr;
Festa þeir í fold
frjófar rætr;
er af úngviðum
allt íkríngum
mætt móðurtrè
mikil girðíng,
há, sem pílárar
af hvölfdum skuggum;
þá eru gángrúm
þar ámilli,
sem taka undir,
þegar talat er.
Er hèr opt hirðir
Indíaniskr
leitandi sèr
at ljúfri kælu,
þá er miðdags sól
sem mest brennir;
rekr hann fè sitt
undir rjáfrþak,

þar, sem greinir
eru þykkvastar.
Af blöðum þessum,
er sik breiddu víðt,
eins ok skjaldmeyja
skildir forðum,
samansöfnuðum
ok saumuðum
bjuggu þau nú til,
sem bezt gátu,
blygðunar skýlu
berum lendum.
Fyri skuld skeða
var skýlan aum,
ok óvirðíngu,
sem þau óttuðust,
nærsta mjök ólík
naktri prýði,
er áðr voru þau
umvafin með.
Eins fann Colúmbus
Ameríkana
umgirðta fjöðrum
meðal eykanna
ægis ströndum á
ok eyjum skóga,
allsbera at öðru
ok ósiðaða.
Þau þannig klædd,
ok, sem þá hugðu,
hulinni blygðun
at hálfu leiti,
þó með þrúngnum hug
ok þúngu skapi,
settu sik niðr
ok sárt grètu.
Eigi rigndu augun
at eins tárum,
heldr tók ok hvass
hugarstormr
at blása ok brúsa
í brjóstum þeirra,
mistraust ok missátt
ok misgrunr,
hatr ok úlbúð,
heipt ok reiði,
æstu frá grunni
þeirra geðsmuni.
Þar sem áðr var
unaðsöm ró,
land fullt af friði
fyri skömmu,
var nú vorðit
svo sem vindugt haf,
ólgandi ok umhverft
í óreglu.
Af því skynsemin
ekki stýrði,
forsmáði vilinn
fræðíng hennar;
þau voru bæði
nú at þýum gjörð
holdligrar girndar,
er hreykti sèr
uppaf djúpi djörf,
ok sèr drottnunar
yfir skynsemi
óðum krafði.
Utaf innvortis
óró slíkri
lyndis líðana
ok lángri þögn
braust fram Adam
með brjósti þrúngnu,
umbreyttri ásýnd
ok öðrum róm,
ok við Evu svo
enn mælti:
„O, ef þú, Eva!
orðum mínum
hefðir hlýðug gegnt
ok hjá mèr verit,
er umbað ek
svo af alúð þik,
þegar farfýsi
fábreytilig
at þèr kom
á óhapps morgni,
án þess at vissir
þar orsök til.

Bæði væru við
þá í vellíðun
augabragði á
enn nú þessu,
en ei, sem erum,
æ, því miðr!
öllu ágæti
aumliga svipt,
vesæl ok nakin,
vafin hneisu.
Enginn ástundi
uppfrá þessu,
nema stór nauðsyn
hann neyði til,
sinni skyldu-trygð
at skapa reynslu;
ok ef óskar hann
af alvöru,
at fyrra bragði
freistíngar sèr,
vita megu menn,
at muni sá
orðinn allnærri
ýfirtroðslu."
Brást Eva bist
við bríxli þessi,
ok gaf Adam svar
aptr þannig:
„hvat er þat orða,
Adam strángi!
sem þú veltir fram
af vörum þèr?
hví skellir þú nú
á mik skuldinni,
ok farfýsn mína,
er þú framberr svo?
Mundi þá ekki
meinslis þetta
okkr hendt hafa,
ef hefðir þú
sjálfr verit við?
ok veiztu gjörla,
hvort ei hefði þat
hendt þik sjálfan?
En þótt hefðir þú
hjá mèr verit,
þá er flærðarfull
freistíng skeði,
mundir þú ekki,
þat er meir enn víst,
hafa fals fundit
með fofni þessum,
slíkri túngu
sem hann talaði?
Eigi var þá enn
um óvinskap
móins hjá mèr
enn minnsti grunr,
engin átylla
til ótta-meins,
at hann mundi mèr
vilja mein gjöra.
Akaft óskar þú,
at ek hefði
hvergi haft mik burt
frá hlið þinni,
þá var mèr eins þarft,
at ek þar hefði
fast ok líflaust rif
legit jafnan.
En þar ek eitt sinn
var at Evu gjörð,
hví bauðst þú ekki,
sem ert höfuð mitt,
fortakslaust mèr
at fara hvergi?
með því svo mikill,
sem meintir þú,
háski var
hèr við bundinn.
Hèr varstu sjálfr
helzttil linr,
stóðst þú mèr aldrei
sterkliga gegn,
heldr samsinntir,
síðan leyfðir,
ok baðst mèr virðta,
þegar burtu gekk.
Hefðir þú framfylgt
nokkut fastara

ok alvarligarr
afsögu þinni,
væri víst ekki
mik villa skeu,
nè þú með mèr
í misgjörð fallinn."
Nú firrtist Adam
í fyrsta sinni,
ok Evu gaf
annsvör þessi:
„er þat nú elskan?
er umbun slík
maklig at mæta
mínum trygðum,
ok þeim stöðugleik
sterkrar ástar,
er ek, óþakklát!
auðsýndi þèr,
ek, þá síku saka,
þèr sakaðri?
Ek gat æ lifat
ódauðligr,
notit fagnaðar
ok farsældar,
en kjöri heldr
með konu minni,
með þèr, Eva!
at mæta dauða.
Ok nú enn framarr,
var ek orsök til
óhapps þíns
ok yfirtroðslu?
var ek, þá vildir
við mik skilja,
ofvægr í því
at aptra þèr?
Hvat gat ek meirr,
enn ek gjört hefi,
atvarat, áminnt
ok aflatt þik,
sagt þèr fyrifram
fólginn háska,
ok Ovin dulinn
í umsátrum?
Þat heitir þvíngun,
sem þar er yfir;
en eigi viljinn
at vera frjals,
þá má þar engin
þvíngan snerta,
engin kúgan kann
koma þar nærri.
Afar stollt oftraust
ýtti þèr fram,
reiddirðu þik ríkt
á rángan þánka,
at engan háska
væri um at fást,
ok enn þótt væri,
mundi af honum
reynsla sigrsæl
þèr sæmd auka.
Máske mèr líka
missèzt hafi,
er ek ofhátt mat
ágæti þitt
ok hvat fullkomit
í fari þínu
svo mjök sýndist mèr,
at sífeldt trúði,
eigi neitt íllt
mega at þèr ná.
Yðrumst ek nú,
en allt um seinna,
öfugdæmis þess,
sem at illu varð,
mèr at yfirsjón,
þèr at átillu
at bera skuld á mik
ok bríxla mèr.
Sama mun sækja
þann sèrhvern heim
æ eptir þetta,
sem ofmjök treystir
á dygðir drósar,
ok drottnunar ráð
yfir sèr lætr
eptir henni.
Engar aptranir
mun hún umbera,
ok, sem hún svo er
sjálfráð látin,

sínum fara fram
fyritækjum;
hljótist þar íllt af,
verðr ellaust hún
bráðust ok beiskust
at bríxla manni
um ódugnað
ok allátsemi."

Svo týndist tíðin
með tómu kífi,
en hvorugt sjálft sik
í sekt dæmdi,
ok alls engin
á illu þeirra
ónýtis aggi
sáust endalok.

---

## Hèr hefr
## Tíundu bók Paradísar missirs.

---

Varð nú vitanligt
um veldi Gimla
Satans svikaverk
svívirðiligt
unnit í Eden,
þá í orms líki
Evu tældi til
três ávexti
undanskildum
af at bergja,
en mær dróg mann sinn
í mein sama.
Hvat er þat, augu
kann at umllýja
allt sjáandi
ens Almáttuga?
hverr fær áleikit
alvizku Guðs?
víss ok rèttvíss
í vegum dóma
hann eigi Helvarð
hindraðan lèt
freistíngu frá
í frammi at hafa
hjörtu manna við
hauðr-skaptra.
Með því hann hafði
hjörtu þessi
brynjat fyrifram
með fullum styrk,
ok þeim veita virðst
vilja frjálsan,
svo þau sèt gátu
við sèrhvers eins
fjanda fláræði
ok falsvinar,
ok þat útrekit
auðveldliga.
Vel vissu þau
ok þeim virða bar
yðugligs minnis
ok umhugsunar,
háleitt Herrans boð,
at hafna nautn
af ens tiltekna
três ávexti,
hverr sem þartil þau
þenkti tæla.
En, þá er þau nú
þetta viðr
boðorð fyrsta
brotlig urðu,
hröpuðu þau harðt
(hve gat annat
illri óhlýðni
á eptir fylgt?)

í fordæmíngu,
var ok fall þetta
makligt margföldum
misgjörníngi[1].
Hvarf nú en helga
hastarliga
engla vakt
upp til himins
Edens aptr frá
endimörkum,
mjök svo mundu þeir
fyri manna skuld
hryggir ok hljóðir,
ok höfðu þegar
orðit áskynja
um ófall þeirra.
En þó yfir því
undrunarfullir,
með hverjum hætti
hrekkvíss Fjandi
óvitendum þeim
hefði innstolizt
svo leyniliga
í luktan garð.
Strax, sem stygðar fregn
af storð neðan
heyrðist á himni
um hrösun manna,
hverft varð hverjum við
ok hvumleiðt mjök,
allir kunnu illa
ótíðendum.
Allar ásjónur
uppheimsbúa
drógu svip á sik
sorgligrar dymmu,
þó mjúka blandinn
svo við meðaumkvun,
at ei raskaðist
ró nè sæla.
Þustu í þyrpíngum
þjóðir himins
umkríng engla vakt
aptr komna,
til at taka
móti tíðendum
af ásjáendum,
eins ok skeðu.
En þeir án dvalar
fyrir Alvalds trón
skunduðu, skírslu
ok skil at gjöra,
fyri viðhafða
í varðhalds gæzlu
árvekni sína
í Eden jarðar.
Afsökun sína
þeir sáu glöggt
vissa vera þar
ok velþóknun;
lèt þá miðt útaf
leyndardóms skýi
enn allra hærsti
eylífr Faðir
raust sína duna
í reiðarþrumu:
„Samansafnaðar
sveitir engla!
ok þèr herskarar,
sem heim komuð
ógiptusamri
umsýslun frá!
látið yðr ei
ofmjök hryggja
fengnar fregnir
af foldu neðan.
En þótt allshugar
árvekni þèr

[1]) Sèrhver synd er á vissum tröppum af fleiri syndum samansett, ok guðsmenninnir, sèrdeilis Miltons meiníngar áhángendr, halda, at í þessu eina nautnarbroti af enum forboðna ávexti hafi atskiljanligar syndir verít innibundnar: t. d. dramsbemi, vellyst, straffsverðug forvitni, vantrú, óhlýðni, o. s. fr., svo at maðrinn, vegna þessa margfalda misgjörníngs, hafi verðskuldat missir Paradísar sælu.

ok transtum trúskap
hafið tilvarit,
var yðar megni
eigi möguligt
því at afvenda,
sem þar barr til.
Skírða ek svo fyrir
at ske mundi,
ginnúnga gap
þegar gegnum fór
Satan á sveimi
svikafullr;
sagða ek þat þá,
svo at þèr heyrðuð,
at hans erendi
til ílls stofnat,
mundi framgáng fá
ok fullkomnast.
Hann mundi manninn
í misgjörð tæla,
ok fletta öllu
með flaðrmælum,
með því maðrinn
meinlygum hans
meirr, enn mèrr,
mundi trúa.
Engin ályktan
af mèr skorðuð
hefir fyrifram
fall hans dæmt
óumflýanligt
at þat skyldi;
alls enga þvíngun
óbundinn hans
ok fullfrjáls vili
fundit hefir;
þann ek vera lèt
í vigt jafnri
begjanligan
á báðar síður;
en, hvert hann honum
halla vildi,
lèt ek í ábyrgð
hans egin vals.
Hann er hrasaðr,
hvat er þá eptir
annat, enn straff,
sem illgjörð fylgi?
hel þat, er honum
var hótat fyrr,
sem hann at sönnu
gjörir sèr í lund,
at ek gjört hafi
at gamni mínu,
en án alvöru
ok uppfyllíngar.
Með því enn ekki,
sem hann óttaðist,
hefir dauðinn hann
hastarliga
geystr gripit
með grimmu slagi;
en áðr þessi
er allr dagr,
skal hann sjálfr sjá
hit sannara.
Hann skal verða varr
af vissri raun,
at ei sè uppgjöf,
þó undandragist;
eigi rèttlætit,
eins ok náðin,
skal á bak brotit
með beru spotti.
En hvern mun ek fá
ofan sendan,
til at segja dóm
yfir sökuðum?
hvern, nema þik,
minn hjartkær Sonr!
þik, minn eingetni
ok elskuligi!
þeim ek gjörvallan
hefi gefit dóm
á himni, hauðri
ok í helvíti?
Hversu auðsært er,
at ek vili
láta með mildi
mýkt rèttlæti,

þareð þik ek kýs
í þessa för,
til at dæma menn
dauða seka?
Þik, sem ert settr
af sjálfum þèr
þeirra lífs leysir
ok lausnar borgan,
þik, mesta manns vin
ok meðalgángara,
þik, sem áðr ert
ákvarðaðr,
til þess dauðligr
um tíma sèrt
sem hann, svo honum
frá heli bjargir."
Svo kvað Faðirinn,
ok fullr blíðu
sendi með sama
til sinnar egin
hægri hliðar
af hýrum geislum
sterkt stranma flóð
á enn stóra Son;
Ok lèt á honum
auglýstan sinn
gjörvallan glanza
guðdóms dýrðar,
án áskyggingar
allraminnstu;
en hann útþrykkti,
sem ímynd rètt,
Föðurinn allan
í fullu ljósi;
hèrnærst anzar hann
himinskærri
mildi með,
ok mælti þannig:
„Allt at álykta,
eylífi Faðir!
er þitt einasta,
ok eins er mitt,
at gjöra vilja þinn
guðdómligan
svo á hauðri,
sem í himninum,
at þú velþóknun
alla þína
eylífliga
megir á mèr sjá.
Svo stíg ek strax
í styrkleik þínum,
Faðir almáttki!
á fold niðr,
at dæma söku-
dólga þína;
þó er þèr kunnugt,
at þeirra dómr,
hverr, sem helzt verðr,
mun it harðasta
sannliga falla
yfir sjálfan mik
at fyllíng tíma
framkominni;
Heit mitt er þat,
sem hefi ek gjört
í augsýn þinni
allrahelgustu;
ok með því ekki
mik yðrar þess,
er ei órèttvíst,
at þú leyfir
mèr mildiliga
at mýkja dóm,
er mik áhrærir
eins ok hina.
En svo mun ek mjök
mildiliga
rèttlæti ok miskun
reira saman,
at öllum megi
vera opinbert,
hvílík fullnægja
þeim fengin sè,
ok sjálfs þíns sinni
sefat orðit.
Ei er fylgdar þörf
nè föruneytis,
af því úrskurð minn
skal engi sjá,

utan ein þau tvö,
sem hann á fellr;
en einn hinn þriði,
sem er Ormrinn,
verðr bezt dæmdr
í burtuvist;
Sjálfr sannar hann
á sik glæpi
fordæmanliga
með flótta sínum,
at hann strokinn er
undan lögum;
höggormr, hlaupinn
útaf helvíti,
er ei virðandi
viðrmælis."
Svo kvað Sonrinn,
ok sínum glæsta
stóð uppaf stóli,
þar sterkum nærstr
Föðnr sínum sat
í sömu dýrð.
Fylgdu honum fram
furstar himins
ok há herravöld,
sem honum þèntu,
at porti himins,
þar er Paradís,
ok allt umhverfis,
var opit sjón.
Fljótt fór hann ofan,
því flýtir Guðs
fær ei tíð teiknat
tölu neinni,
þótt vængjuð væri
enna vökrustu
mörgum mínútna
milliónum.
Nú sunna sígin
frá sínu lángt
miðdags-veldi var
á vestr-hulla,
ok á tamri tíð
tók at opna
blástrsbelg sinn
þat hit blesta lopt,
til at viðra váng
vorrar jarðar
meðr kvöldkuli
komnu af vestri.
Kom þá með geði
enn þá kaldara
mildr Dómari
ok Mýkir saka
inní Eden
meðal eykanna,
at leggja úrskurð
á auma menn.
Guðs raust, í garði
er gekk um kríng,
urðu þau vör við,
því vindr hægr
henni hratt nu
svo hentugliga,
þegar kvöldaði,
þeim at eyrum.
Skelkut urðu þau
ok skjálfandi,
þá hana heyrðu,
ok hans fyri sjón
fórn, freistandi,
ef falizt gætu,
þar, sem trjáþyrpíng
var en þèttasta;
bæði blygðuðust
þau í brjósti mjök.
Unz enn Almáttki
kom enn þá nærr,
hrópandi á Adam
hárri röddu:
„Adam! hvar ertu,
sem alltíð hefir
vanr verit,
þó værir fjær,
at kætast mjök
við komu míni,
ok renna móti mèr,
sem mest glaðr?
Saknar ek þín,
ok svo at reyka

lengr einn
eru leiðendi;
hversu fúss þú varst
at fyrra bragði
áðr mèr at inna
alla skyldu!
Er ek þá um sinn
ótígugligri?
eðr hver ollir
umbreytíng því,
at þú undanflýr
augsýn minni?
hvat er atorðit,
sem aptrar þèr?
komdu nær, Adam!
ek kalla á þik!"
Kom þá Adam nær
með konu sinni,
var hún feilnari,
ok fór mjök seint,
en þótt fyrri
væri fljótari,
til at ata sik
yfirtroðslu;
báðum var brugðit
ok böl í sinni.
Ekki sást eyma
í ásýnd þeirra
eptir af elsku
til alda Föðurs,
nè af hýrum hug
hvors til annars,
heldr ólguðu
þar illsku teikn,
sök ok svívirðíng,
sár örvýlnun,
róleysi, reiði,
römmust þrjózka,
fals ok fjandskapr,
ok fleira slíkt.
Stórum stamaði,
vegna sturlunar,
Adam all-lengi,
unz um síðir
andsvari stuttu
gat útkomit:
„ek heyrða orð þín
í aldingarði,
varð ek felmtraðr
ok falda mik,
af því at
ek em nakinn."
Mildr Dómari
mælti, án stygðar:
„hve tíðt hefir þú
heyrt mína raust,
en aldrei orðit
óttasleginn,
heldr hvervetna
við hana glaðst?
hví er hún þèr nú
hræðiligri?
En hverr birti þèr,
at berr værir?
eðr ertu nú
af eyk þeirri
búinn at bergja,
sem ek bannaða
strax í öndverðu
strengiliga?"
Harmþrúngnu hjarta
honum svarar
Adam aptr,
ok inuti þannig:
„æ, himin! hversu
em ek hèr í dag
staddr í sturlun
ok stórum vanda
fyri Dómara
ok Drottni mínum!
Annann hvorn ókost
má ek útvelja,
á mik einn játa
minu broti,
eðr áklaga
mik annann sjálfan,
míns lífs meðhjálp
ena mætustu.

Mundi mèr ekki
miklu heldr
byrja brot hennar
at byrgja skýlu,
ok verja þannig víf,
sem vandligast,
fyrir álösun
ok óvirðíngu?
Nei hörðust nauðsyn
ok nærsta döpur
þrengíng þvíngar mik
þat at gjöra,
svo at synd, straff,
bæði sameinut,
svo óbærilig
sem þau eru,
einn mik eigi
undirþrykki.
Ok þótt ek þegða,
væri þarfyrir
ei minnr opit
fyrir augum þèr,
hvat ek hygðumst
at hafa dulit.
Svanni sá, Herra!
sem þú gjörðir
at minni meðhjálp,
ok mèr veittir,
sem fullkomnustu
ok fegrstu gjöf,
er svo góð virðtist
ok svo girnilig,
hagkvæm handa mèr
í hvívetna;
Sú, svo guðdómlig
er sýndist mèr,
at mik af henni
íllt hit minnsta
áðr aldregi
ona kunni,
heldr hvat eina,
sem hafðist at,
virðtist mèr vel gjört
vegna þokka,
hún gaf mèr af meið,
ok ek mataðist."
Háleitust nálægð
himna Jöfrs
svar gaf hèr uppá
svolátanda:
„var hún þá Guð þinn,
at þú gegndir meirr
munnmelum hennar,
enn mínu boði?
Lènta ek þèr hana
fyri leiðtoga?
ellegar er hún
þinn yfirmaðr?
var hún við þik jöfn
at verðugleik,
er þú vers-rètt þinn
veittir henni?
Ok gleymdir gálauss
göfgu sæti,
sem þinn Skapari
hafði skipat þèr
ærit lángt
ofarr henni,
með því hún mynduð
er af mynd þinni,
hún gjörð handa þèr
ok heiðr þinn,
af yfirburðum
algjörðari!
Dæilig ásýnd
er drósar prýði,
ok með yndisleik
er hún umvafin,
at hún ávinni
ástir þínar;
þó sómir henni
ekki þarfyrir,
at hafa yfir þèr
herradæmi;
Ei er annann veg
eðlis gáfum,
sem veittust vífi,
varit, enn svo;
er þeim ekki skapt
yfir at drottna,

heldr þèr, þær,
sem þeirra höfði,
æ egu vera
undirgefnar;
þat var skylda þín
ok þinn hluti,
þú ef þik sjálfan
hefðir þektan rètt."
Því nærst Drottinn,
at þessu mæltu,
Evu fám orðum
ávarpaði:
„grein mèr, kona!
hvat þú gjört hefir."
Meðkendi mærin
misgjörð sína
utan umsvifa,
ángrvær mjök,
nær því neisu
niðrlnígin;
hvorki fjölfleiprin
nè forsug í lund
dýrðligum sínum
fyri Dómara
svarar hún, slegin
af samvizku:
„ormrinn sveik mik,
ek át af trè."
At heyrðu þessu
yfir höggormi
dvaldi eigi Drottinn
dóm at segja;
gat sá ekki
fyri gjörníng sinn
skotit skuldinni,
skynsemdarlauss,
á hinn, sem hafði,
honum sofanda,
fyri tálartól
sèr tekit hann;
Ok hans eðlis mið,
honum ákvarðat
í sköpuninni,
skemt ok saurgat;
þó varð hann bundinn
bölvunar dómi
af Ræsir röðuls
rèttiliga,
nú orðinn níddr
í náttúru.
Meira at vita,
þar ei meira sá,
manninn minnst
mundi varða,
gjörði þat ok ei
glæp hans minni.
Samt fèkk sinn
einnig at síðurstu
sjálfr Satan,
í synd enn fyrsti,
dóm af Drottni,
þó dulinn helgum
meðr myrkyrðum,
er mundu víst
þikkja þarfligust
fyri þann tíma.
Ok nú úthellti
enn Almáttugi,
eins ok greinir hèr,
guðdómligri
formælíngu
yfir foldar orm:
„Fyri því, Fofnir!
at framdir slíkt,
skaltu bölvaðr
meðal skepnanna
framarr sèrhverju
foldar dýri,
skaltu á kviði
láta skríðna jörð,
ok til dauðadags
eta dupt hennar.
Fjandskap vil ek
milli fljóðs ok þín
síteldan setja,
ok sæða milli
hvorstveggja ykkar,
hennar ok þíns;
knosa skal haus þinn
kvinnu sæði,

en þú munt bíta
þat í hælinn."
Greindi svo þessi
guðdómlig spá,
sú er sannaðist
síðarr laungu,
mætt meyar sæði
þegar Maríu,
annarar Evu,
arfi Jesús
leiðan Satan leit,
loptsins fursta,
ofan hrapa,
svo sem eldíngu.
Einnig eptir þat,
nær uppaf gröf
hann sik hóf
með háum sigri,
fletti herfángi
furstadæmi,
tók fángna tróna
ok tignarvöld,
ok skírrar leiddi
fram til skoðunar.
Svo at síðurstu
með sóma ok dýrð
steig til himins
á stól Föðurs,
flutti herleidda
herleiðíngu,
ok Satans ríki,
þat hann svo lengi
órèttiliga
hafði undir sèr.
Hann, Sigrherrann
yfir helvíti
mun sjálfan Satan
sundrtroða,
at velli lagðan,
undir vora skó;
hann, sá er honum
hausmolun sína
hafði fyrifam
fornkunna gjört,
ok nú hóf dóm sinn
yfir drós þannig:
„Ek mun auka tal
eymda þinna:
hvert sinn, þegar þú
þúnguð verðr,
skaltu afkvæmit
ala með sótt
ok hörðum harmi,
skal ok hèr eptirr
vili þinn vera
valdi bónda
at öllu leiti
undirgefinn,
hann skaltu hafa
fyrir herra þinn."
Loksins lèt hann dóm
lagðan þannig
yfir Adam
fyrir afbrot hans:
„sökum þess, at þú
þinnar konu
athlýddist orðum,
ok átst af trè,
því ek harðliga
hafða bannat,
þá sè jörð bönnuð
fyri þína skuld!
þú skalt með þrautum
ok þúngri mæðu
af henni ala
æfilángt þik;
hún skal þyrna þèr
ok þistla bera,
ok hennar urtum
skaltu á nærast.
Um andlit sveittr
skaltu eta brauð,
unz þú at jörðu
aptr verðr;
minnstu myndunar,
maðr! þinnar,
þvíat þú ert jörð,
þaðan kominn,
ok skalt at jörðu
aptr verða."

Svo dæmdi Drottinn,
dómari manna,
ok manna mildr
meðalgángari;
þó var dvöl dregin
á dauðans slag,
sem fyrst var hótat,
fram lángt þaðan.
Meðaumkan greip hann,
er menn sá nakta,
þó líknarlausa
móti loptinu,
þar nú fráföllnum
fyrilágu
ærnar ástands
umbreytingar.
Mat hann þá þegar
þjóns mynd eigi
nokkra guðdómi
niðrun gjöra,
sem þá sjálfr hann
á seinni tíð
þénara sinna
þvoði fætr.
Svo fékk hann fata
föðrliga
nú enum nöktu,
sem nauð beygði,
voru skjól þau gjör
af skinnum dyra,
feldra máske
eða fleginna,
ok nýrri klæddra,
sem naðr, húð.
Aleit hann, eigi
sem ofgjört væri
óvinum sínum
at alla skjóls;
þau hann, ei at eins
útvortis ber,
skinnkyrtlum klæddi
at kröfum þarfar;
Heldr ok himnm
í hjarta ok sál
neisu-næmara
nakinleik þeirra
skykkju réttlætis
hann skýldi með
Föður síns
fyrir augum.
Hvarf hann nú til hans
á himins aptr
skyndiliga
í skaut hit sæla,
ok á háan trón,
þar hann sat fyrr;
fékk hann Föðurnum
fráskírt gjörla,
en þótt allt vissi,
hver urðu hér
málalok þessi
fyri manninum.
Friðar árnandi
fyribænum,
sem manna mildr
meðalgángari,
blíða ræðu
lèt hann blandaða
harðla heitri
meðr hugarást.
En á meðan,
ok áðr væri,
hèr hafin synd
á hauðri voru,
ok Drottinn dæmdi
hennar drýgendr,
hýmdu sitjandi
við helvítis dyr
saman bæði
Synd ok Dauði,
ok horfðu innan hliðs
hvort á annat.
Opit var vítis
hit víða gin,
ok spjó eyðíngar
æðandi blossum
í gap ginnúnga,
sem gein ámóti,
síðan Satan gat
þar svamlat út,

at harðt fráhrundnum
helgrindar slám
af sísaurugum
syndar höndum.
Mælti mella svo
við magran bur:
„hví við hèr, son minn!
hýmum þannig
auðum höndum,
atgjörðalaus,
án gagns glápandi
gegnt hvort öðru?
Meðan minn ok þinn
mikli faðir,
sjálfr Satan,
er síreykandi
öðrum heimum í,
til at uppleita
með stórri mæðu,
meginhugaðr,
okkr, sem erum
hans ástkær börn,
bústað til handa,
betri þessum.
Krýnd er án efa
kostgæfni hans
erendislokum
æskiligum,
væri víst ella
viðstöðulaust
híngat horfinn
hann fyri laungu.
Hefðu skjótt híngat
með heitri grimd
ofsækendr hans
(óskamiði
nema náð hefði)
niðrkeyrt hann,
með því enginn er,
eins ok þessi,
honum hentugr
til hegníngar,
ok harða hinna
fyrir hefnd, staðr.
Kemnir ek kvikna
krapta nýa
hjá mèr fyrifram,
ok finnst á mèr,
sem vængir vaxi
með von góðri
um hátt herravald
fyrir handan djúp.
Dulin em ek þess,
hvat dregr mik,
hvort meðfædt megin,
eða mikit sterk
silfja samlíðan,
sú er hluti
líkrar tegundar
um lengstu hverja
fjarlægðar feykn
meðr frændsemis
leynitaug er til
at tengja saman
gegnum hulin gaung,
gnógliga kná.
En þú, hlýtr mèr
við hlið fylgja,
skuggi! sem við mik
ei skilja kannt;
því synd ok dauða
at sundrskilja
verðr aldrei unnt
orku neinni.
En svo at ofstórr
örðugleikr
eigi aptrför
okkar Föðurs,
ótroðin atgrunns
yfir öræfi
híngat hverfanda,
hindra megi;
þá látum okkr
til lèttis honum
röskliga ráðast
í raun nokkra,
ok þúngt þrekvirki,
sem þor krefr,
en þótt ek ok þú
fyrir orku skuld

sèum fullfengin
þat at framkvæma.
Látum brú bygða
yfir breiðan svelg
hèðan helvítis
frá hyldýpi,
sú neðan nái
til ens nýfundna,
harðla fagra, heims,
sem hlökkum til,
ok nú er Satan
undirgefinn.
Mun þat mikilvægt
minníngar teikn
vorrar vegligu
verðskuldunar,
allsherjar æru
til at upphefjast
hèr af helvítis
heilu veldi.
Fær þat fèlagsskap
foldar milli
nærsta hægan nú
ok niflheims gjört,
líka lèttari
leiðir ára
hèðan, hauðr þat
nær heimsækja,
eptir sem örlög
láta ákvarðat.
Fer ek viss vegar,
eigi vill á mis,
kennir ek mik knúða
svo knáliga
af slíks innblástrs
ofrmegni
stórvirkis starfa
til at stofna þann."
Mælti við mellu
magr skuggi,
ok gaf bráðt andsvar
orðum hennar:
„far, hvert sem forlög,
ok en frábæra
lyndis lokkan þín,
fær leidda þik.
Ek mun eptir þik
enganveginn
drýgja dvöl lánga,
nè dragast seint,
mun ek ok ekki
fara afgeipa,
er þú ferr fyrir,
ok fylgir mèr,
svo gýs næm nálykt
í nasir mínar,
ok þat nú þegar
í þessum fjarska.
Á ek þar ótal
æta vonir,
finn ek frá öllu,
sem á fold lifir,
kitlat kok mitt
með keim hræva,
fyrifram vissum
feigðar boða.
Einneginn atstoð
ósparaða
mun ek þèr, móðir!
mína láta
í stórum starfa,
sem þú stofna villt,
vil ek við þik
sem veðkapp þreyta."
Svo sagði Dauði,
ok nú sogar hann
í sik með ákefð
ok yfirlæti
drjúgum daunsnandi
dám af skeðri
bana-breytíngu
bústaðar vors.
Sem þá herhópar
af hræfuglum,
en þótt mjök margar
mílur fjærri,
undir atkominn
orrostu dag
flykkjast fljúgandi
of flatir breiðar,

þar, sem hjörva hreggs
herlið bíða;
Lokkast þeir af lykt
lifandi hræva,
sem við blóðga böð
skulu bana fá
nærsta dag eptir
at ná-sköpnu;
þannig þefaði
þunnr draugr
frammí fárspillt lopt
flenntum nösum,
kendi hann strax keiminn
af krás sinni.
Þustu þau á flug
þarnærst bæði
um hlið helvítis
úti harðla dimmt,
stórt ok stríðsamt,
en stjórnlaust, veldi
ílls at útliti
Oskapnaðar,
svámu þau síðu
til sinnar hvort.
Samsteyptum styrkleik
(ok stórr var sá,
er þau unnu með
afrek þetta),
yfir afgrunns flóð
óðt sveimandi,
hrundu þau hverju,
sem hitt gátu
þykku ok þúngu
af þèttu slími.
Þat er hrærðist hèr
í hafs brimi
upp ok niðr allt
með ókyrrleik,
þessu hrundu þau
nú þètt saman,
miklu þreki með,
ámilli sín,
gagnvart hvergemlis
gini víðu.
Sem þá króniskum
sín ímilli
vindar voligir
á víði tveir
blásast bistir á
frá báðum pólum,
ok ærnum íta
saman ísfjöllum.
Af því aptrlykst
ímyndaðr
verfáka vegr,
sem væntu menn
fyri Petsóra
ok framhjá henni
austr eptir
auðsællra til
Kataí stranda
komist yrði.
Meðr steingjörðar
sterkum fleini,
lurki þrítenntum
sem líkr var,
dustaði Dauði
dýngjur sínar,
sem hann samanrak
á sinni leið,
þurrar ok kaldar
svo þær urðu.
Fast varð, þó flyti,
þetta forvirki,
eins ok Deley
á dögum fyrri,
þegar í sjó svamm
(at sögn manna);
en hit blautara
batt hann svo
með augum einum,
þegar áhorfði,
at undir eins
varð óbifanligt,
ok gaf því gjörvöllu
gargans hörku.
Bikuðu bæði
þat er bjuggu til,
svo allfast yrði,
með Asphaltisku,

jafnbreiðt portinu,
jarðarlími,
ok svo djúpt ofan
í afgrunnit,
at nam við neðstu
niflheims rætr.
Þannig hlóðu þau
þvert yfir djúp
breiðt ok brúsanda
brúargarð mikinn,
ómælanligrar
ógna lengdar,
rann sú rjáfrhæð
rakleiðis fram;
Náði sú at múr
ennar nýsköptu
vorrar veraldar,
án virkis nú,
ok djúpt dottinnar
undir dauðans vald,
hægust leið héðan
til helvítis.
At líkja stóru
ok litlu saman,
var en bygða brú
braut þeirri lík,
sem frá Súsa gekk
Xerxes forðum,
mjök tignar mæru
Memnons hofi;
Þar hann þegar sá
við þröm sjáfar
frelsi Grikkja
undir farg sitt lagt,
er hann brú bygði
breytiliga
handa her sínum
yfir Hellespont,
sú er saman batt
á síðunum
Austr- ok norðr-
álfur jarðar.
Flengdi forsugr
fylkir í grimd
stoltar stórbylgjur
stirðum vendi,
ægir agandi,
óhlýðinn karl,
sem atti ofsa
í gegn ofstopa.
Nú var mæðgina
meistaraverk
brúar byggenda
búit at fullu,
feykna forvirki
framit með list,
hryggr hlaðinn
af hángandi klettum
yfir afgrunns hyl
ærit víðan.
Fótförum Satans
þau fylgt höfðu,
unz stig stöðvuðu
í stað þeim sama,
er hann feldi fyrst
flug af væugjum,
yfir óskapt djúp
kominn áleiðis,
ok á útjaðri
alheims berum
loksins landfastr
tók hía hvíld.
Bundu þau brúna,
svo ei bifaðist,
fullsterkum festum
fjötr-hlekkja
króknm ok kengjum,
sem kunnu bezt,
hvat eitt var af demant
enum harðasta;
víst varð hún öfföst
ok varanlig,
unnin oss til meins
illu heilli.
Klaklaust komust þau
at klárum merkjum
glansandi Gimla,
ok í grend við heim,
var nú víti þeim
til vinstri handar,

lánga leið fjærri
lágt í djúpi.
Þrír voru vegir,
ok vissi hverr
þeirra þar til eins
af þessum stöðum;
þann, sem þaðan lá
á þessa jörð,
höfðu þau hittan,
hverr et þræddi
beint innat Edens
aldingarði.
Sáu þau Satan
í sama bili
fagrs engils í
uppgjörðri mynd;
skínanda Mann-hests[2]
ok Scorpíóns
hann miðt ámilli,
merkistjarna,
lèt sína í lopti
leiðarstefnu
horfa til himins
uppaf hvirfli sèr,
þá er röðull reis
í Rúts-merki.
Torkendr kom hann;
en hin kæru börn
fullskjótt Föður sinn
fengu þektan,
ham sinum hversu
sem hafði breytt.
Eptir þat Eva
var af orms tölum
svikin til
synd at drýgja,
hafði Níðhöggr
í nærsta skóg,
svo ekkert ábar,
innlæðst þegar,
ok, svo hann sæi,
hvat síðan skeði,
afklæðst ófrjálsum
ofnis ham.
Sá hann, at saknæm
svik hans voru
orðin af Evu,
þótt óvitandi,
meðdeild manninum
í misgjörð hans;
líka leit hann,
hve þau lètu sèr
forgefins annt um
at útvega
byrgjandi blöðku
blygðun sinni.
En þá er Arfi
þess ens Eylífa
híngat steig
af himni niðr,
til at fella dóm
yfir fallna menn,
flúði hann af felmtri
fyrir honum.
Varð þat at vísu
eigi væntanda,
at fengi sèr fulls
forðat honum;
þó var honum þekkt
at því sinni,
at verða eigi
fyri augsýn hans.
Svo hann fyrstu feykn
fyrikæmist
refsandi reiði,
sem ránglátt verk
honum helzt gjörði
hræðiliga.
En at afstöðnum
ófalls dómi
nálgast hann á ný,
þegar náttaði,
heldr hljóðliga,
ok á hleri stóð,
hlýðandi á hjóna
enna hrösuðu
tárugar tölur
ok tvista klögun.

[2]) Mannhestr, Centaurus, er himintúngl, nefnt eptir einu dikinðu dýri, með manns ok hests skapnaði.

Rèð hann af rauna-
ræðum þeirra
sína dóms deild,
er hann dróg saman;
glaðr varð hann við,
er vita fèkk,
at hefnd hótuð
mundi höfuð sitt
eigi strax í stað
steypast yfir,
heldr seinka sèr
þartil síðarr meirr.
Hverfr hann því nú
hastarliga
heimleiðis hèðan
til helvítis,
eigi allslippr,
nè erendislauss,
heldr fullfermdr
frèttum gleði.
Hnykkti honum við,
ok hnárri furðu,
þá er at þröm kom
þessumegin
ginnúnga gaps,
gjörðist fánginn;
Býsnum bygðrar
viðr brúar sporð
er hann í einn,
gegn öllum vonum,
sá hèr sín koma
sèr ámóti
verðug börn
vegfarandi.
Feginsfundr varð
með feðginum,
er þau sáu sik
samankomin,
en þó óx honum
enn meiri gleði,
framit furðuverk
nær fèkk at sjá.
Stóð hann kyrr um stund
með sterkri furðu,
ok kom til sjálfs síns
um síðir aptr,
unz hann orðum Synd
ávarpaði,
dáfríð dóttir hans,
þat drótta tál,
harðla mjúkmynnt
ok mælti þannig:
„Sjá hèr sigrteikn
sjálfs þíns, faðir!
þat eru þín verk
þau en miklu,
en þótt álítir
ekki sem þín,
ertu fyrst ok fremst
þeirra frumkvöðull,
ok enn ypparsti
aðalsmiðr.
Fèkk ek eigi fyrr
fundit í hjarta
(því æ at þaunkum
er þínu líkt),
sökum síleyndrar
samhljóðunar,
heimugligt hugboð
um happasaman
framgáng á foldu
þíns fyritækis,
þann ek ljósliga
les þèr í augum;
Fann ek þat ei fyrr,
enn ek formerkta
(en þótt veraldir
væru ámilli)
hjá mèr hugardrátt,
sem harðt knúði
mik, þessum meðr
mínum syni,
faðir! at fylgja
þínum fótsporum.
Svo hafa forlög
sameinut gjört
okkr öll þrjú
óslítanliga;
ekki mátti meirr
myrkra ríki

okkr í sèr
innikreppa.
Ei heldr afgrunns
öræfi þau
hugleikit áform
hindra knáttu,
Föðurs fótsporum
enum frægustu
eptir at fylgja
í aðra heima.
Þínu þreki
er at þakka slíkt,
fèkkstu okkr frelsut
af fángelsi,
sem við sátum í,
svörtu vítis,
ok með þori þú
ok þrótt nógum
útbjóst okkr,
svo við orkuðum,
at slá ógna-brú
á afgrunn dimmt.
Þinn er, ó, faðir!
þessi heimr,
svo geysivíðr,
gjörvallr nú;
þat, sem sjálfs höndum
samdir eigi,
hefir hánn móð
ok hugdyrfsku
þú lagt undir þik,
ok at þínu gjört.
Endurrètt er nú
með ábata
af vizku þinni
þat, er vær mistum
í himins hernaði,
er oss heill flúði,
ok tvíbætt tjón þat,
er tókum þar:
hefir þú hèr einn
herradæmi;
Ohult eru hèr
yfirráð þín;
vartat þaðra þú
þannig stjórnandi;
lát hinn Almáttka,
sem yfirvann,
ráða ríki þar,
sem hann rètt fèkk til
af þeim ósigri,
sem oss hendti!
Hann má frá heimi
þessum hertekna,
en þótt nauðugr,
nú sik gefa,
sem eptir egin
úrskurði hans
annara er orðinn
egindómr.
Hann mun hèreptir
herradæmi
milli þín ok sín
mega skipta;
aðalbliks ummörk
gjöra aldeilíng
hans á ferhyrndu
himins veldi,
ok heimi hnöttóttum,
sem er hluti þinn.
Er honum ella
sá ótti viss,
hástóli hans
at sè hèreptir
af þèr æ jafnan
öllu meiri,
heldr enn fyrri,
háski búinn."
Gegndi glaðeygðr
glósun Syndar,
mælandi þannig,
myrkra Fursti:
„dávæn dóttir mín!
ok dótturson!
hversu hafi þið
höfugum rökum
svarit ykkr sjálf
í Satans ætt!
Hyggst ek hróðugr
af heiti þvísa,

er ek allmáttkum
aðalbliks Gram
stæltum stórhuga
stend ámóti.
Hve mjök hafi þið
ykkar háa gjört
virðta verðskuldun
við mik sjálfan,
ok alla vítis
innbyggendr,
er glæstar himna
svo í grend við dyr
sigrteikn settuð
gegn sigrteiknum.
Sigrmerki mín
af mundum ykkar
hreykt í gegn hinum
svo hróðugum,
sem hèr sett voru
til sigrhróss;
hèrmeð hafi þið
gjört helvíti
ok þenna alheim
at einu ríki,
auðveldustu samtengd
með umgengni.
En á meðan ek
ykkar þetta
stíg niðr stræti
til stallbræðra
í víti vorra,
sem vænta mín,
til minna trúu
tignar fursta
harðla hægri ferð
gegnum hyl dimman;
At ek inni þeim
atfarir mínar,
ok öll ákomin
erendis lok,
svo með þeim minnar
yfir mektugum
ferðar framgángi
fagna kunni;
þá fari þið nú
um þenna veg
ofan alla leið,
ótal milli
þessara knatta,
sem þið sjáið,
ok allir saman
heyra ykkr til
einmiðt í Eden
ykkr steypið.
Hafið þar bústað,
ok með heill drottnið,
ok umráð ykkar
útbreiðið víðt
eins yfir lopti,
sem allri jörð;
hafið hvervetna
herradæmi,
mest ok helzt þó
yfir manninum.
Hann, sem er herra
yfir hitt settr
(svo hefir sá lýst,
er hann saminn lèt),
frelsi firrtan þræl
þið fyrst gjörið,
svo at síðurstu
sviptið lífi.
Ykkr sendir ek
erendisreka
með mínu umboði
ok makt fullri,
ósigranligri
skuluð orku gædd,
sú at eins er
frá mèr upprunnin.
Undir ykkar styrk
ásamt beggja
kominn er allr
þessa konúngsríkis
varanligleikr
vors ens nýa,
þat er ek með því,
er ek þar framdi,
þèr, Synd! háð hefi
ok til handa vígt,

ok þegar þín verk
þartil koma,
er þat sjálfsvarit
syni þínum.
þarf ei helvíti,
nær þið stjórnið
foldu þessari,
fyri kvíða,
at missa muni
eitt hit minnsta hót,
þóat þið
þaðan færuð;
víkið ykkar veg,
ok vel dugið!"
þarnærst Satan,
at þessu mæltu,
vatt sèr til vegar
ok við þau skildi;
en þau þyrjandi
gegnum þykkvastan
urmul af stjörnum,
sem alla vegu
leiptra litu
kríngum leið sína,
hvervetna heltu
hel færanda
eytri útfrá sèr
ok illri pest.
Fölnuðu af felmtri
fagrar stjörnur,
er þær áhrærðust
anda þeirra;
hávar plánetur,
sem hann bar at,
fengu fullkomnar
formyrkvanir.
Nú fór Níðhöggr
ena nýu braut
at púka pælu
portum niðr;
en hit auða gap
Óskapnaðar,
klofit í tvennt
undir klif brúar,
brauzt um belgjandi
til beggja hliða;
Ok með brimbylgjum
blýfastan garð
ofsafullum
ákaft lamdi;
en allt at einu
óbifanligr
skar hann skimp eitt at
þeim skarkala.
Óslaði Satan
innaf portum,
er hann opin fann,
því engi gætti,
allt var í eyði
umhverfis þar;
þau, sem þángattil
höfðu þar setit
gátta geymendr,
gengin voru
alfarin út
til efri heima.
Hinn herinn allr
sik hafði flutt
inní landit lángt
kríngum Lúcífers
(stórt er stoltar nafn
af stjörnu dregit,
hvar við honum var
á himni líkt)
ágæts atsetrs
aldèflis múra.
Hèr hafði varðhald
hernaðarlið,
á meðan múgr
maktar Fursta
röksamligri sat
á ráðstefnu
útaf áhyggju
fyrir ótta skuld,
ef kannske komizt
Keisari þeirra
einhverja hefði
í óhamíngju.
Hafði hann þeim,
áðr heiman fór,

sjálfr fyrisagt
svo at breyta;
geymdu tortýndir
við tignarboð
fjarlægs Foríngja
fulla hlýðni.
Eins ok Tartarar
taka flótta
Garðaríkis
fyri grimmum her
Astrakans
umkríng múra,
snarfara um snöggvur
snjófi þaktar.
Svo sem Baktriskr
Sóphalýðr
flýtir sèr ok flýr
undan fælandi
túngls-hornum Tyrkja,
svo tæmist land
allt, bakvið ríki
Aladúlas,
Tarfs[3] eða Casbíns
unz til hann nær.
Eins gjörðu ára
illar dróttir
himni fallnar frá
fyri skömmu,
hverein útheröð
í helvíti
um margar mílur
þar í myrkrinu
auð, yfirgefin,
ok með öllu tóm.
Hafði herinn sik
kríngum höfuðborg,
ok var vandliga
vörðr haldinn,
af því ósvífins
Oddvita síns
væntu þá ok þá
þángatkomu
nýrra veralda
frá njósn aptr.
Miðt meðal þeirra,
í myndar gerfi
stríðsengils nokkrs
af stètt lægstu,
gekk hann inní garð,
svo ei gætti þess,
en gjörðist allr
ósýniligr,
er at porti kom
Plútóns hallar.
Stígr hann strax
uppá stillis trón,
hann stóð í hærra
hallar enda
undir hám himni
harðla skreyttum,
vafinn í viðhöfn
at venju tiggja.
Nú sezt hann niðr
um nokkra stund,
ok leit allt í kríng
eigi sèðr,
unz hann blikbjörtum
brúmatindi
skaut skyndiliga,
sem af skýum, upp,
glæstr gjörðist hann,
sem glöð stjarna.
Eða þó enn meirr,
því öllum nú
lèt hann til tjaldat
tignar ljóma
þeim, er íllt ófall
hafði eptirleift,
ok sem hann, auk þess,
at yfirvarpi
gat með táltöfrum
sik tyldrat á.
Brá þá mjök í brún
breytiliga
við skyn skyndiligt
skörum vítis,

[3]) Taurus, Tarfr, er fjall í Asíu, sem skiptist í fleiri, svo sem Kaukasum, Imaum o. s. frv.

öll hvurfu augu
með undrun þángat;
allir eygðu nú
þat, er æsktu sèr,
Yfirherra sinn
aptrkominn.
Gullu glymjandi
gleðiraddir
umhverfis allt,
ok í því sama
risu af ráðstólum
ríkis furstar,
þeir er samsætis
útaf sal dimmum
komu nú, ok kvöddu
Kóng sinn nýum,
fagnaðarfullir,
fremdar óskum.
Hann bendti hendi
frá háum stól,
sletti þá í þögu
þíngheim öllum;
heyrn ok huga
lagði hverr einn við,
er hann orðræðu
upphóf þannig:
„Þèr trónar! furstar!
tignar kraptar!
nefnir ek svo nú,
ok nógliga
segi sannendi,
yðr svo vera,
ei at eins eptir
umkepptum rètti,
heldr algjörðum
eignar notum.
Giptugefnari,
enn ek gat til fyrst,
en ek nú aptr
erendum frá
á hendi höfðum
híngat kominn,
yðr alla
til at útleiða
sómasamligu
með sigrhrósi;

Burt af bölvaðri,
bitri, leiðri,
helvízkri holu,
sem hèr gistum,
ángistar inni
andstyggiligu,
dimmri dýblissu,
sem oss dæmdi til
harðráðr hegnir,
himna Gramr.
Farið nú, nemið
nýa staði,
harðla rúman heim,
sem himni vorum
enum fyrsta frá
fæðíngarstað,
greinir mismunr
mjök svo lítill,
leikið þar ok lifið
sem landsdrottnar!
Með stórri mæðu
ok miklum háska
ek fèkk unnit hann
yðr til handa;
at greina gjörvallt,
þat ek gjörða ok leið,
sögn ok tímatöf
til laung yrði;
Hve bágt mèr veitti,
at brjótast gegnum
óskapat afgrunn
ómæliligt,
auðt ok utan ljóss
allt á rángli,
ok í óskipun
ógnarligustu;
Þar er sett hafa
Synd ok Dauði,
til at gjöra gáng
yðar greiðara
til hinna heima,
yfir hyl víðan
nærsta breiða brú,
býsnum samda.
En ek hlaut óveg

ógnarligan
ærnum aflsmunum
um at brölta,
berast á baki
baldstýrugs djúps
í svelg þann sokkinn,
ok svartrar nætr
ennar eylífu
ófagrt skaut,
ok ofsafulls
Oskapnaðar.
Þau af vandlæti
vegna sinna
lángvaranligu
leyndardóma
móti settu sik
sèrligri ferð,
ill ok öfundsjúk
ok með ólátum
báru fyri sík
bann forlaga.
Ok hvernig ek fèkk
uppgötvaðan
heim nýskaptan,
sem á himni var
umgjörð ályktan
áðr laungu,
algjört undraverk
ok yfrit stórt.
Ok á meðal þess
manneskjuna
ypparligum í
aldingarði
prýðiligustu
Paradísar,
sú er svo stóra
hefir sæld öðlast,
af því útrudt var
oss af himni;
Henni hefir ek
heillir glapit,
ok tiltegíngu
tálfullri með
skilit hana frá
sínum Skapara,
er hún óttaðist,
afvega leidda,
ok þat með einu,
sem allramest
yðr undra mun,
epli skógar.
Þóktist hann með því
þúngliga stygðr,
má þat makliga
yðr mest hlægja,
ok strax ofrgaf
öldúngis hann
manninn, metfè sitt
hit mætasta,
með heilum heimi,
at herfáng skyldu
sameginligt
fyri Synd ok Dauða.
Er þá ok sjálfsagt,
at sè þat vort,
ok þat án þrauta,
þreks ok háska,
megu vèr þar búa
ok mök hafa,
ok öll ráð eiga
yfir manni,
sá er eins ætti
yfir öllu ráð,
nema fráfall hans
ek framkvæmt hefða.
Veit ek at vísu,
ok vil ekki
draga dulr á,
at ek dæmdr var
óljósum orðum
af Almættinu,
eða raunar þó
rèttarr at segja
ormr óviti,
þeim ek íklæddr
meinbrögðum mínum
mein hans tælda.
Allt hvat í dómnum
áhrærir mik,
er: óvinskapr

af honum settr
mín ámilli
ok manneskjunnar:
mun ek hæl hennar
(þat hèt svo) bíta,
en hennar sæði
mun höfuð mitt,
at ótilteknum
tíma, mola.
En er sá nokkr,
at ekki vili
kaupa heilan heim
fyrir hausknosun,
ok þó mörg meiri
væri meiðsla raun?
hafi þèr svo heyrt
hermda sögu
míns fullframkvæmda
fyritækis.
Hvat er þá eptir,
sem ekki er gjört?
ó, þèr guðir!
nema at uppstöndum,
ok höldum hèðan
til heima sælli,
fullrar farsældar
þar fáum not."
Hann tafði um tíma,
er talat hafði,
ok vænti veglig
mundu viðkveða,
fyllandi hlustir,
fagnaðar óp,
ljúfir lofsaungvar
ok lukkuóskir
umkríng eyru sín
alla vegu.
En þvert ámóti
var þar at heyra
ekkert annat,
enn ógrligt hviss,
blístr ok blástr
með beru spotti
ótal þúsund af
ára túngum.

Undrast hann efni,
en ekki lengi,
af því önnr nú
undarligri
fann á sjálfum sèr
sjáanlig býsn,
sem honum brá við
ok blöskraði.
Fann hann andlit sitt
frammjótt ok hvasst,
sívalt orðit
ok samanskorpit,
fast klemmdir armar
fylgdu rifjum,
föld ust flækt saman
fætr ok tær.
Unz hann allr valt
ofanaf tróni,
ok lá á gólfi
ljótr ormr,
í mörgum hlekkjum
þar á maga skreið,
barr hann sik sem bezt,
ok branzt ámóti;
en til ónýtis,
því ekkert dugði.
Hèr dróg hann annar
hærri kraptr,
sem honum hegndi
nú í höggorms mynd
enni sömu, sem,
þá syndgaði,
áðr hafði hann
til hjálpar sèr,
sú var ályktan
yfir honum.
Mæla hugðist hann,
en heyrði þegar
hviss á hviss ofan
í hverjum stað,
kímiligan klið,
þar klofnar túngur
blístruðu: hyss, hyss,
sem hverr gat mest.
Allir voru árar

í orma snúnir,
allir samsekir
syndar dyrfsku;
blöskranligt var buldr
af blístri því;
ægði salrinn
af ófreskjum,
flæktust háls ok haus
hvers í annars.
Skríða sáust þar
scorpíónar,
aspídes
ok amphisbenur,
hyrndr cerast
ok hýdru kvikendi,
dipsas ok ellops
með djöfulæði.
Ekki var eins kvik
af illyrmum
ötuð grimmu grund
Gorgons blóði,
nè ægis eyjan
Ophíúsa,
sem it háfa hof
í helvíti.
Þó var eins enn
meðal allra þar
sjálfr Satan
sá enn stærsti,
óx hann í ægan
eitrdreka,
sluggvænni ok stærri
storðskriða þeim
enum orðlagða
ógnar Pýthon,
sem klakti sól út
af saurleðju.
Enn sýndist Satan
yfir sæg þessum
hæð ok herratign
halda, sem fyrr;
fúsir fylgdu þeir
sínum Foríngja
útá opna mörk,
er hann undan skreið.
Voru þar um völl
vopnaðir skarar
eiðrofs engla
í orðu settir,
þeir er þengils síns
með þrá væntu,
sem þeir sjá hugðust
í sigrdýrð.
En hèr bar annat
fyrir augu þeim:
hóp af höggormum
hræðiligum;
kom at þeim kaldr
klýu hrollr,
ok sár sinnis deyfð
fyri samlíðun;
Er þeir sjálfa sik
sjá ok finna
allteins umsnúna
í ófreskjur þær
ófrýnligar,
sem þeir óttuðust,
þar sem fèlagar
þeirra voru.
Titrandi hendr
týndu vopnum,
þeyttust þau á jörð
ok þeir sjálfir;
nú úppkom aptr
ergiligt hviss;
afskaplig alla
þvílík ummyndan
dreifðist á djöfla,
sem drepsótt næm;
svo sem þeir í synd
sín ámilli,
svo í sekt einnig
urðu samlíkir.
Svo giörðist glaumr
ok gleðiradda
hljómr, sem hverr einn
hlakkaði til,
bríxlandi blístr
ok ber háðúng;
ok sigrsaungvar,

sem þeir væntu,
snèrust í sneipu
þá, er snjáldum úr
þeirra sjálfra þar
yfir þá helltist.
Sást af jörð spretta
í sama bili
skógr skamt þaðan,
sem þeir skiptu mynd,
(var sá vili .
þeirra volduga
Hegnis á himnum
til at herða straff);
Hann var fullfögrum
fermdr eplum,
eigi ólíkum
þeim af Edens fold
til böls brugguuar
brúkat hafði
illr Ovinr,
þá Evu sveik.
Stórum varð starsýnt
með sterkri fýsn
nú á nýlundu
niflheims búum;
meintu þeir, at mundu
mörg trè bönnut
sèr þar sett vera,
nú í svip sprottin,
til straffs stækkunar
í staðinu eins,
meira mein ok skömm
svo meðfylgdi.
En brjóst bítandi
bruna-þorsti
greip þá grimmliga,
ok svo gráðug svengd,
at þótt vel vissu
vistir þessar
settar sèr til spotts
ok sársauka,
þoldu þeir ei við,
nema þær ætu.
Þángat undust þeir
í þyrpingum,
ok á táleykr
uppklyfruðu;
hèkk þar höggorma
á hverju trè
miklu stærri mergð,
enn á Megeru
nauðljótu höfði
naðar-lokka.
Gráðgir gripu þeir
ginníngar tafn,
ásjálig epli,
augna gaman,
harðla lík hinum,
sem á hafströndum
límsortu löðrs,
þar í loga fórst
saurug Sódóma,
sjást uppspretta.
En þó villtu verr
vítis epli:
gjörðu þau ei gabb
gómum einum
áþreifenda,
heldr einnig góm'
þeirra, sem þráðu
þau at smakka.
Hagkvæmum hètu
húngrs bótum
þeir af mætum mat
mögum sínum;
en þar, sem epli
voru augum sýnd,
tóma tugðu
tönnr ösku.
Velgdi vælendi
við at taka,
ældu þau aptr
því, er í þau kom;
þó þrísti þeim til
þorsti ok sultr
aptr ok aptr
á at bergja,
sem þó óðarr allt
gekk upp um hvopt.
Kreistu kinnar þeir

með klýu sterkri,
allar uppfylltar
með ösku ok sót;
þannig urðu þeir
í þrá sviknir
alltíð með agni
einu ok sama.
Optarr enn Eva,
sú er eitt sinn fèll,
glæptust glópar þeir
á gliseplum,
því, er þó höfðu
þeir með spotti
ok heppnis hóli
hlakkat yfir.
Þannig kvöldust þeir
með þúngri svengd
ok leiðinliga
ljótu hvissi,
unz þeim örlög
unntu um síðir
sína fyrri mynd
at fá aptr.
Þó segja sumir,
at sama straff
á djöfla detti
um daga nokkra
á ári hverju,
þeim til auðmýktar,
at deyfa dramb þeirra
ok dælska gleði
meinteldra manna
yfir misferli;
En þótt orðrómi
útdreifðu þeir
helzt til hólfullum
meðal heiðíngja
sjálfir síðarmeirr,
hve sèr hafi
furðuvel farnast
sitt fyritæki.
Ok hversu ormr,
í öndverðu
Ophíon
af þeim nefndr,
hafi ásamt með
Evrýnóme
(þeirri máske með
meinist Eva)
yfirdrottnun átt
á Olympó.
Ok hve þaðan þau
hafi þareptir
af Ope ok Satúrn
verit útrekin,
áðr Júpíter
alinn væri
kendum í
Krítar helli.
Nú náðu Eden
hin nefndu tvö
helvítis hjú,
meðan hitt skeði
niðri við Níðhögg
í niflheimi,
þau er helzttil hraðt
hèrlend urðu.
Hafði saurug Synd
sjálf í fjarska
áðr innlæðst þar
í undansendum
kýngikrapti,
en var komin nú
nauða-nærnum í
náðar hamsi,
til at nema sèr
þar nýlendu.
At hælum henni
hröklaðist Dauði;
var hann ekki,
þeim nú á sitr,
blakki bleikum
á bak stíginn;
mælti við son sinn
Synd en vonda:
„Sèrhvat sigrandi,
son minn, Dauði
sem ert hinn annar
af ætt Satans,
seg, hvat þikkir þèr

um þenna stað,
okkar nú numit
nýa ríki,
en þótt áunnit
með erfiði,
sterkum starfa
ok stórum háska?
Mun eigi betra hèr
bygð at eiga,
enn sitja sífeldt
viðr svartar dyr
dimmrar díblissu
í djúpu víti,
ok þeim án afláts
yfir vaka,
allri frægð fjærri,
engan fælandi,
af hor ok húngri
hálfdauðr þú?"
Anzar ófreskjan
alin af Synd:
„mèr, sem æ amar
eýlíft húngr,
allt, hvat sem er,
fyrir eitt kemr,
himin, Paradís
ok helvíti,
met ek mèr þar bezt,
sem mest fæ át.
At sönnu eru hèr
ekki sem minnst
faung ok fjárafli
fyrir höndum,
sem viss er von til
at verði lík;
þó sýnist þetta
eigi þörf nægja
til at teppa
þetta tóma gin,
ok svánga seðja
svelghít þessa,
sem æ slök slapir,
slipp af fylli."
Blóðskammar skækja
skökk þá mælti
svo við svipljótan
son ok bróður:
„fæð þik fyrst um sinn
á fögrum mjök
jurtum þessum
ok jarðar gróða;
Ok þá þareptir
með þessum dýrum,
fuglum ok fiskum,
því fæða slík
er ei lastanlig,
nè lèttmeti;
svelg allt þat óspart
í iðr þín,
tímans lángi ljár
sem láta mun,
ávalt eyðandi,
þèr upphöggvit.
Mun ek á meðan
manneskjum í
ok í ætt þeirra
inni búa,
gjörðir ok girndir,
ok geðshræringar,
orð ok augnasvif
eitri meinga;
mun ek þèr máltíð
matreiða svo,
at en síðarsta
sætust verði
krás þín, kundr minn!
kynslóð þessi."
Nú þrutu þessar
þeirra ræður,
svo at sýslunum
fór sinn veg hvort,
þó var eitt áform
eitrat beggja,
öllum foldar fjám
at foreyða;
Ok at óðauðleiks
ekki lengr
nokkr nyti
neins hlutar ætt,
heldr at hverein

háð ok svarin
skyldi sköpt vættr
skjótt eða seinna
eyðileggíngar
endalokum.
En er eylífr
alda Faðir
þetta sínu sá
af sæti skæru,
ótal engla mergð
sem umkríng stóð,
hóf hann svo ræðu
til helgra skara:
„Sjáiðr hve hundar
helvízkir þeir
ólmast innkomnir
oss svo nærri,
til at niðrslá,
níða ok ræna,
vegliga veröld,
þat verk ek sköp
svo fagrt, farsælt
ok fullkomit.
Því ek ok einnig
at eylífu
haldit hefði við
heillir sömu,
utan hamhleypum
helvítis þessum,
alls eyðendum,
hefði inngáng leift
djarfr mannanna
dáraskapr.
Glópsligan gjörníng,
ok glappaskot
óafsakanligt,
álíta þau,
ok vítis Vísir
með vinum sínum,
þat ek þrautlaust
ok án þrekrauna
hafi heimastað
svo himinligan
eptirlátit þeim
at eigna sèr.
Hafa þau með hlátri
sèr at háðs efni,
at ek dælsku dár
dólga minna
helzt til hóglátr
hjá mèr leiði,
eins sem ek hafi
þessum alheimi
vegna geðs gremju
gjörvöllum sleppt
viðr varga klær
vondar þeirra.
Hulit er þeim hitt,
at ek hefi þau
knáliga knúð
ok kallat híngat,
hræhunda mína
frá helvíti,
at þau alla þá
andstygð ok saur
uppsleiki ok sloki,
sem slett hefir
á allt áðr hreint
illgjörð manna;
Unz þau etit
hafa ofmett sik,
nú fyrst nóg svelgdum
af nái sprúngin,
ok, þíns sigrarms
einu blaki
snortin, snarast
í hit snauða djúp
af þèr, Arfi mínu
elskuligi!
Svo at síðurstu
Synd ok Dauði
ok gröf gínandi
skulu gjörlykja
hvergenulis hvopt
þann enn hvomvíða,
um alla eylífð
innsiglaðan.
Þá skulu hauðr
ok himin bæði
endrhelgut

gjörast ítrskír,
ok af flekk atast
aldrei síðan;
þó skal þeim yfir
allt þángattil
boðnð bölvan
báðum vera."
Enduðust svo orð
ens Almáttuga;
saung þá sæll himins
söfnuðr allr
honum heiðrsfullt
halelúja!
þat var glíkt græðis
gjálfranda nið,
er raddir ruddust
í rofinn lopti
gegnum gría þann
af Guðs englum.
Svo lèt samhljóða
sanngr þeirra:
„allir eru,
þú enn Almáttugi!
vísir ok rèttir
vegir þínir;
rèttir eru
þínir ráðs dómar
yfir öllu því,
eylífi Faðir!
sem þú sjálfs höndum
samit hefir;
hverr mun mega
gjöra minni þik?"
Svo súngu þeir ok
syni Guðs lof,
fólki til frelsis
fyrirhuguðum,
sá er síðarr
á sínum tíma
himin ok hauðr
mundi hæðum frá
endrnýnt
ofan færa.
Svo kváðu kórar,
ok nú kallar Guð
hetjur með heiti
helztu mektar,
sína sèrhverjum
hann sýslun bauð,
þess er heims hættir
heimta mundu
eptir umbreytíng,
sem orðin var.
Fyrst var mætri mær
Mundilfera
skipat at skunda,
ok at skína svo,
at ýmist yrði
af ofsa kulda
nístandi nepja,
eða nauðast bærr
hèr á jörðu
hita-bruni;
Ut at æsta
frá yzta norðri
vindsvalan vetr
ok af vellanda,
sárheitt sumar,
suðr skauti,
miðjarðar mön
þat er mest brennir.
Settu þeir sýslun
silfruðum mána,
ok hvelum hinum
hvarflandi fimm
traðir teiknuðu
ok tilsýndar form,
stundum sexstrendt,
en stundum fer-
eða þrí-hyrnt þá
þess ámilli.
Engum mun minnr,
þá í meinsamar
gegnstöður gánga,
ok til grands auka
hleypa saman sèr
sút eflendr.
Stýrðu þeir stjörnum,
svo á storð þessa
veittu verkunum

voðalignm,
þeim er álfröðuls,
nær hann uppgengr
ok í sæ sígr,
sveinar skyldu,
eða fárviðris
fyriboðar.
Einuginn englar
lètu ákvarðat
sèrhverjum vindi
sitt jarðar horn;
þaðan þeir skyldu
ifrá þeim tíma
brúsandi blása,
ok bilta saman
legi, lopti
ok löðr-ströndum.
Eðr öskrandi
þá með ógn skrugga
veltist voliga
gegnum vindfar dimmt
endilaungu þess
eptir hvolfi.
Þat er sumra sögn,
at sínum hafi
umboðit englum
alda Faðir,
hauðrs hjólási
frá hinum sólar
með viðvendíngu
at vinda á ská
um tvisvar tíu
tröppur[4] ok meira;
snèru þeir með þraut
um þvert til hliðar
miðmarks hnetti
frá meginlínu.
En aðrir meina,
at álfröðli hann
boðit hafi,
burtu sínum
eldvagni at venda
enum víðförla
líka leiðar breidd
frá línu þeirri,
sem deilir at jöfnu
daga ok nætr;
At uxamerki
ok Atlas dætrum,
systrum sjö
enum sískæru,
ok til Tvíbura-
teikns frá Sparta,
ok svo uppeptir,
allt at háu
sumarsólstaða
setri, Krabba;
Þaðan lægri leið
Ljóns í gegnum
Meyjar merki
ok Metaskála
ofaneptir,
allt at vetrar
sólstaða stjörnu
Steingeit niðr,
til umbreytíngar
á árs tíðum
í hverri heims álfu
ok himinnstriki.
Hefði hvervetna
á hauðri þessu
æ verit ella
yndisligt vor
með blíðu brosi
ok blómstra skrúði,
ok jafnlaung dægr
um jörð alla,
nema nærst skautum,
norðast ok syðst.
Þar hefði þjóðum
þrotlauss dagr
æ lýst á lopti,
því en lága sól,
í fullnað fyri
fjarlægð hennar,
væri þeim sísèn
kríngum sjóndeildar
alltíð upplýstan

4) Tröppur, nl: gradus.

arkandi hríng.
Austr ok vestr
væri ókennt þeim,
ok háfjöll hefðu
þess ens harðfreðna
Estóthí lands,
ok enna syðstu,
sem sjást Magellans
fyri sund handan,
verit vafalaus
vörn fyri kulda.
Þegar óleyft át
var í Eden sket,
rendi sjálf sunna
sèr til baka
frá fyrisettu
fararskeiði,
Thýestis máltíð
svo sem tilbar við.
Hvernig hefði ella
hauðr þetta
af synd óspillt,
eðr engum byggt,
heldr enn sem er,
getat umflúit
sáran sviðkulda
ok sjóðanda hita?
Þessar á himni
þannig skeðar
umbreytíngar
yfrit stórar
aðrar all-líkar
drógu eptir sik,
þó samt seinligar
ok sígandi,
eins á legi,
sem á löndum þeim
harðla margháttar,
sem hann girðir.
Gjósandi gufur
gátust i lopti,
þúngar þokur
þaraf risu,
drápnæmir dampar
ok drúngafullir,
óholl loptýlda
ok illir suddar.
Nauðkaldir nú
frá Nórúmbega;
ok sjáar síðu
Samójeðískri,
brutust Cæcías
ok Bóreas út
af klaka klæddri
kopar díblissu;
fylgdi þeim haglhríð
ok hreggviðri,
stormar, stórsjóar
ok steypiregn.
Tók þá Trascías
tryltr næsta,
ok Argestes,
at öskra býsnum,
brjóta þeir bjarkir,
bilta skógum,
ok æsa hafit upp
með ólátum.
Þá þustu saman
þeim á móti
ákafir Nótus
ok Afrícus,
harðla svipsvartir
frá Sèrra-León,
af skrugguskýum
skelfiligir.
Þvert yfir þessa
þeyttu sín horn
á báðar síður
beljandi stormar
af austri ok vestri,
Evrus ok Zephýr,
líka Síroccó
ok Líbeechíó,
hvæstu þeir hvinum
yfir hvestan sæ.
Þessi var stríðs stofn
ok styrð upptök
dagligrar deilu
með dauðum hlutum;
samt fèkk Syndar jóð,

sundrþykki,
fyrst meðal skepna-
enna skynlausu
döprum Dauða
dyr upplátnar.
Bestíur börðust
viðr bestíur,
fuglar við fugla
nú flugust á,
ok fiskar fiskum
friðspell gjörðu;
at fyrra fóðri
fyrilitnu,
urtum ok grösum,
sem átu dýr,
át nú hvert annat
uppfrá þessu.
Lítilli lýstu
lotníngu þau
viðr manninn meirr,
sem þau mest flýðu,
eðr hornauga
til hans á svig,
ílúðlig, undu
umgánganda.
Svo komu fyrst fram
frumtök bölva
við mann utanat,
þat Adam sá,
þótt hann þrúnginn
af þúngum harmi
dyldist í skugga,
þar sem dimmast var.
Eymdar enn dýpri
innan brjósts hann
í sinni sínu
sjálfr kendi,
svo hann gjörglöpnum
geðshræríngum
yfirfallinn af,
sem í ægis brim
nú á kaf kominn,
klagaði sáran:
„Vei mèr, vesælum!
hve var ek sæll!
eru slík alheims
ens yppárliga
orðin endalok
ok afdrif mín,
sem fyri stuttu
var á storð þessi
svo vegsamligri
vegsamligastr?
Hlýt ek, híngattil
svo heill vafinn,
nú bölvun bundinn,
at byrgja mik
fyrir augliti
ens Almáttuga,
er mèr áðr var
á at horfa
hæst ok hreinast
allrar hamíngju.
Ok væri vel,
ef mitt volæði
yrði svo at eins
á enda rakit,
ek þat víst, því verr!
hefi verðskuldat,
ok vil, hvat vann til,
vel umbera.
En mèr allt þetta
er ekki nóg,
þat ek et ok drekk
ok mun of geta,
er allt beisk bölvan,
sem breiðist út.
O, hversu raustin,
er svo ræðandi:
„„frjófgist ok fjölgið!""
mik fyrr gladdi,
ok upptendraði
minn allan hug,
er nú orðin mèr
at ópi dauða!
Hvat fæ ek frjófgat,
nema formælíng?
hvat get ek getit,
nema grimmustu
bölvun mèr

yfir bert höfuð?
Hverr mun hèðanaf
um heims aldr
allan, sá ekki
mèr árni böls,
er at eins finnr,
hverja ólukku
honum hefir ek
til handa byrlat?
„ „Æ verði illa
(svo mun atkveðit)
frumföður vorum,
sem fèll í synd!
allt slíkt egu vèr
Adam at þakka;
illa þökk eina
skal hann af oss fá
allar óbænir,
óskir bölva.“ “
Æðir svo á mik
í aptrkasti,
auk míns egin böls,
með ofsa straumi
allt þat hit illa,
sem af mèr hlauzt,
sem á miðpúnkt sinn
ok sömu stöðvar.
Þrykkir þetta mèr,
sem þýngsta farg,
en þótt allt hjá mèr
egi heima;
ó, þú ærit völt
Edens gleði!
ofdýrt, allt ofdýrt
hefir ek þik keypt
með eymd ok ángist
ævarandi.
Bað ek þik, áðr
enn bjóst mik til,
skæri Skapari!
at skyldir lágri
mik af mold
at manni gjöra?
Fór ek þess á leit
at fyrra bragði,
at frá eylífri
óminnis nótt
lètir útæstan
Adam þenna,
ok í aldingarð
innsettir hèr
prýðis ok sældar,
Paradís þessa?
Með því minn vili
eigi minnsta hót
hefir hjálpat til
hèrveru minnar,
svo væri sannligt
ok samkvæmt rètti,
at mik aptr,
sem ek áðr var,
lètir dauðt dupt
ok dáðlaust verða.
Ek em albúinn
ok ánægðr,
allt, hvat ek meðtók,
af at leggja,
með því möguligt
mèr er ekki
harða skilmála
at halda til fulls,
með hverjum mæti
mèr lènt voru
þeim, er ek aldrei
hefir eptirsókt.
Hví eykr þú þá
á þeirra missir,
sem einn er álag
mèr ærit nóg,
ángrs ok eymdar
óendanligrar
tregafullri
tilfinníngu?
Rannsókn ok skíríng
rèttlætis þíns
virðist mèr vera
eigi voganlig;
en ek minnast má
ok meðkenna,
at nú allt ofseint

ok í ótíma
þráttar ek við þik
um þetta mál.
Barr mèr í fyrstu,
þá er birtir þú
þína, þvílíkir
sem þeir voru,
skilmála, skýlaust
at skorast undan,
ok með einörð
þá at afsegja.
En ek samsinnta,
ok sagði: já;
mun ek geta fyrst
gæða notit,
ok þá þareptir
hafit prætumál
um þá skilmála,
þau skorðast viðr?
Lát vera, at hafi
Lávarðr minn
myndat mik
án minnar bænar;
mundi mèr geðfeldt,
ef minn sonr,
ávítaðr
fyrir óhlýðni,
bæri fyri sik
sem bót í sök:
„„hví fórstu fram
mínu faðerni?
munda ek mælast til,
at mik gætir?""
Mundi mèr virðast
maklig ok rètt
óbljúg afsakan
yfirsjónar?
þó gjörist grein hèr,
því hans getnaðr
var at eins verkan
(en val ekki),
sem nauðsyn nokkr,
náttúrunar.
En mik myndaði
minn Guð sjálfr
fullu frjálsræði
ok fríu vali,
sinn af sínu
hann mik saminn lèt,
þat ek þegn skyldi
ok þjón hans vera;
verðlaun mín hann mèr
af mildi gaf,
ræðr hann því rètt
minni refsíngu.
Veri þat svo þá!
ek þegja hlýt,
sjálfsigraðr,
ok á sök fallinn,
því dómr Drottins,'
at ek dupt verði
reistr af dupti,
er hinn rèttasti.
Kærkomit straff,
nær sem kemr mèr!
en hví hikar hann,
hótun sinni
strax at framfylgja
þenna fælu-dag?
hvar til skal leiðt líf
lengr vara?
hví em ek dáraðr
með dauða þeim?
Hví em ek geymdr,
geysikvalir,
sem aldrei endast,
til at útstanda?
hversu fullfúss
ok fegins hugar
vilda ek dauðligleiks,
sem er dæmdr mèr,
hrepptu hlutskipti
hlaupa móti,
ok verða tómt dupt
án tilfinníngar!
Hversu mundi mik
í moldina
ánægðr ek
ok óska-glaðr,
móður minnar

í hit mjúka skaut,
nauðum horfinn nárr,
niðrleggja!
Þar mun ek ugglauss
allvært sofa;
eigi mun þar ógn
í eyra mitt
dyna, dómþruma
Drottins raddar;
enginn ótti
fyrir ókomnu
þyngra böli þó,
sem mik þjá muni,
eðr ætt mína,
mun uppfrá því
kunna kvelja mik
kvíða sárum.
En þó er annar
innan brjósts mèr
ógnblandinn efi,
sem mik á stríðir:
uggir mik,
at ek ekki muni
til grunna gengit
gjörvallr fá.
Vekr geig grunr,
at geti sízt
undir lok liðit
lífsins andi,
þat þessi hreini
þenkjandi blær,
er mèr innblès
enn Almáttugi,
eigi muni með,
þeim af moldu varð,
látast nè lykta,
líkham mínum.
Mun þá mik í gröf,
eða máske þó
öðrum ógnarstað
enn þá verra;
hverr veit hvílíkr
hjarandi dauði
utan afláts
of allt kvelja?
Hryggilig hugsan,
væri háttat svo!
en mun þetta þó
þannig vera?
einn var lífsandinn,
sem íllt gjörði;
hvat er þat þá,
sem má þola hel,
utan hvat lifir
ok íllt gjörði?
holdit er hvorugt,
ek heill því dey.
Sú skal ending á
efa mínum,
er mèr ógnar svo
ok ángrar mik,
með því minn eigi
mannligs þánka
kraptr kann
at komast lengra.
Oendanligr
er at vísu
Hilmir himins,
sá er heiminn skóp,
mun þá þarfyrir
hans þúng reiði,
eins ok hann,
vera óendanlig?
Ok, en þótt svo sè,
eru sízt þannig
eðlishættir hans
ásigkomnir,
heldr er honum
hèðan ífrá
dauði dæmdr
af Drottins munni.
Hvernig getr Guð
grimd sinni þá
úthellt yfir mann
endalausri,
þann, sem orðinn er
með andláti
á hann dæmdu,
óendanligr?
Eða mun dauðinn

ódauðligr
geta gjörst
af Guði sjálfum?
þat er sjálfræk sögn,
sèrligar öfgar,
einnig Alföður
ómöguligt,
eigi valds vottr,
heldr veikleiks eins.
Getr hann af heipt
fyrir hefndar skuld
teigt þess takmörk,
sem tekr enda,
manns refsíngu með
útí mátalaust
ok óeyðanligt
endaleysi,
at hann sínu svo
sinni straungu
inni ánægju,
sem aldrei fæst?
Hann lèti hèrmeð
hræðiligan
dóm sinn dregin út
yfir duptit lángt,
ok yfir gjörvöll
allsherjar lög,
sem ná nær ok fjær,
náttúrunnar.
þau, sem þó eru
fyri þenna heim
regla hvers hlutar
í hans verkum,
eptir því, sem er
hverjum eginligt,
ok hverjum utarr
ekki vætta
í hríng sèr settum
sik má hræra.
En gjörum ráð fyrir
ok getum til,
at dauðinn ekki,
sem ek ætlaði,
sè eitt eimúngis
augabragðs slag,
þat er taki burt
tilfinníngu,
heldr þrotlaus þraut
frá þessum degi,
þeirrar, því miðr!
ek þekki ok finn
ofmikil orðin
upptök þegar,
eins fyrir innan
sem utan mik,
ok sú vond vesæld
máske viðhaldist,
um eylífð alla
óslítanlig.
Vei mèr vesælum!
því veltr sú
aptr ofboðslig
ótta þruma,
helzttil harðslæg,
yfir höfuð mitt,
vafit vondri sekt,
en vörn horfit?
Eru við orðnir,
ek ok dauði,
svo at eylífu
sameinaðir,
at báðir búum
bendlaðir saman
ósundranliga
í einum ham.
Egi ek einn,
heldr allt mitt kyn
er, sem ek, orðit
offr dauða;
bana blótin
eru börn mín öll,
útsnarat afrak
óblessunar.
Hve furðu fagra
föðurleifð ek
yðr eptirlæt,
arfar mínir!
ó, fengi ek fè því
fyrir yðr
sjálfr sóat út

at sæuð eigi!
Hve þèr munduð mik
þá mjök blessa,
ok hrósa auðnu
fyrir arfleysi,
þèr sem nú bistir,
munduð bölva mèr.
Æ! skal þá allr
einkis sekr
kynmúgr manna
fyri mína skuld,
sem einn er syndugr,
í sekt dæmast,
svo framt þeir sjálfir
eru saklausir?
En mun þá annat,
enn alspillt kyn,
útaf alspilltum
æxlast kunna?
getr getist mèr,
nema gjörsaurgat
at sál ok sinni,
saurugum af?
Nei, ekki nóg þat,
nema mína
gjöri gjörnínga
ok girnist sama;
hvort munu þeir þá
þversnúnir svo
fyri Guðs augum
geta staðizt?
Nei, ek neyðumst til
nú at játa,
þannig þreyttrar
viðr þrætu lok:
at hann síkn saka
sè með öllu,
en öll engu neyt
afbötun mín.
Gjörrækar reynast
mínar röksemdir;
króka-grafgötur
gegnum margar
leiðumst ek loksins
til at leggja fram
mína meðkenníng,
at misgjört hafi.
Sök minnar syndar
á sjálfan mik,
sem frumstofn, fellr
fyrst ok síðarst,
á mik einnsaman,
ok með rètti,
allrar spillíngar
uppsprettu brunn.
O, at öll á mik
einnsaman þó
Refsandans reiði
rata mætti!
en hve dárligt er
at óska slíks!
mundi byrði sú
mèr bær verða,
þúsundfaldt þýngri
þessari jörð?
Já, ei jörð at eins,
heldr jafnvel ok
eins óbærilig
öllum heimi,
sem hún hvervetna
er honum þýngri,
þótt ámilli mín
metum jöfnum
þvílíkum þúnga
ok þessarar,
skyldi skipt verða,
skemdar-kvinnn.
Þannig em ek eins
af ósk minni,
ok því, sem óttumst,
meðr ónýtri
forgefins fróun
nú firrtr von
um athvarf, allri,
ok yfirlýstr
at vera vesæll,
hverju vesælli
vætta, sem var,
eða verða mun;
sem Satan einn

í synd ok straffi.
Hvílíkt hyldýpi
harms ok ótta
söktir þú mèr í,
samvizka mín!
öllum þessum af
til at útrata
hrygðar hugsunum
finn ek hvergi dyr,
heldr djúpt dottinn
dýpra steypist."
Þannig þuldi með
þúngu skapi
viðr sjálfan sik
sorgar tölur
Adam upphátt
alla þá nótt;
hún var hýr ekki,
holl nè skemtin,
eins ok meðan menn
voru meinlausir;
Heldr hryllilig
ok harðla svört,
skuggafull
af skaða dömpum,
svo í sárskelfdri
samvizku hans
öll tjóns tilfinníng
tvöfaldaðist.
Sorgliga lá hann,
ok lítt barst af,
allr útteigðr
endilángr
niðri á naktri jörð
ok nauðkaldri;
opt af örvýlnun
gaf hann illa þökk
sköpun sinni,
at hún sket hèfði.
Allt eins ákaft,
ok ekki sjaldnarr
deildi hann á dauðann,
at dveldi svo
helzttil lengi hann
yfir heitíngar,
tiltekinn dag
ok três afneyzlu:
„Hví heptir dauðinn
yfir hótan fram
(Adam sagði svo)
sína komu,
til at útenda
mitt auma líf
þreiðu, þrí-æsktu
með þarfa-slagi?
Hefir þá hótun
at halda gleymt
sjálfr Sannleikr
sína þegar?
vill Guðs vandlætíng
svo vís ok rètt
draga dvöl á
dóms fyllíngu?
reynist Rèttlætit
eigi rèttvíst meirr?
En þótt ek þannig
í þrá kalli,
kvikar ei at koma
kaldr dauði,
ei heldr örfar
sín oftreg spor,
þó við grátbænum
Guðs rèttlæti.
O, aldin skógar
ok uppsprettur!
hæðir ok dalir
ok háir lundar!
ó, hvat ólíkr
var ómr sá,
sem þèr senduð mèr
til svars áðr!
allr var annar
yðar saungr."
Svo sá nú Eva,
þar setit hafði
afsíðis orðlaus
ok ángruð mjök,
Adam liggja lágt
í lund, sleginn
með svo heitri hrygð
ok án huggunar;
gekk hún nokkut nærr

nærsta döpur.
Bljúgum blíðmælum
hún barr sik at,
hans svo gustgeystar
geðshræríngar
at stilla ok stöðva;
en með styggum róm
hann bistr brúði
burtvísaði.
„Ut frá augum mèr,
eitrnaðra!
hæfir slíkt heiti
þèr harðla vel,
þú, sem sameinuð
svikulum Ormi
í glæps gjörníngi
glík er orðin
honum, eins hrekkvís
ok hatrsverð.
Þat eina skortir,
at þinn skapnaðr
ok þitt yfirbragð
sè ormi líkt,
svo þat vari við
vættr allar
þèr, ok þinni slægð,
sem í þeli býr.
At ekki þú þær
þinni meðr
gjörir heill horfnar
himneskri mynd,
sú af svikum þó
er svo meinguð
ok hrekkja húmi
helvízku fýtt.
An þín óröskuð
enn nú stæði
farsæld mín
í fullum blóma,
nema þótti þinn
ok en þarflausa
gaungu-girni,
þegar gegndi verst,
hefði viðvaran,
sem ek veitta þèr,
vettugi virðt
ok í vind kastat.
Reiddist þú af því,
at þèr væri
minnr trúat
fyri mótstöðu,
enn þinn væri til
verðugleikr;
svo varstu sárþyrst
at sèt yrðir,
ok þat jafnvel af
Andskotanum,
full af falstrausti,
at fá hann sigrat.
En þá Fjandinn fyrst
varð fyri þèr,
gjörðist þú með gabbi
ok með ginníngum
*sjálf, í sigrs stað*,
svikin ok spillt,
þá ek, því miðr!
af þèr síðan.
Alltof auðtrúa
lèt ek eptir þèr,
svo at sundra þik
frá síðu minni;
hèldt ek þik hyggna
ok ei hvikula,
kostum fullfrjófa,
ok freistíng hverri
allörugga til
at afhrinda.
En ek sá ekki,
at allt var slíkt
svipul sjónhverfíng,
en sönn dygð engin,
eigi neitt, nema
af náttúrunni
raunar bogit rif,
sem af rökum sèzt
hneigt þar at hlið,
sem hnekkt er gæfu.
Víst er þat áðr
í öndverðu
sjálfs míns af
síðu tekit,
en hefði betr

verit burt snarat,
meðþví metit var,
sem mèr um of.
Vegna hvers vildi
sá enn vísasti
Alsmiðr, anda
sem alla skóp
á himni karlkyns,
í kvennlegg engan,
nú hèr niðri
þessa nýlundu
semja síðarst
ok setja á jörð,
fagrt náttúru
fals ok galla?
Hví lèt hann ekki
hauðr þetta
uppfyllt svo í senn
seggjum einum,
sem kláran himin
með karlenglum,
án þess at kvennkyns
væri kvikt nokkut?
Hví mun hann meðöl
til mannfjöldgunar
önnur ekki hèr
hafa upphugsat?
hefði þá hverki
heillatjón slíkt
auman mik
yfirkomit,
nè annat enn verra,
sem áhorfist.
Otalfaldt ángr
ok andstreymi,
sem at manns mökum
við meyja kyn,
ok fljóða falsi,
munu framkoma,
verða æ hjá oss
ættarfylgja.
Æ mun annathvort,
at allsjaldan
finni maðr mær
til maka sèr
honum hagkvæma
ok helzt at skapi,
heldr einhverja,
sem, eins ok þú,
gjöri honum glæp
ok gæfu missir.
Eðr hitt, at hann
þá, er helzt kysi,
mun sèr mjök sjaldan
at maka fá,
vegna sèrsinnis
sjálfrar hennar,
heldr annar einn,
honum argari;
ok ef honum hún
gefr hjarta sitt,
banna frændr feng
ok foreldrar.
En þá hann æskir
framarr öllum sèr,
ok honum hefði
til heilla verit,
hittir hann ofseint,
þegar helft önnur,
forsmáð ok fíuð,
er af forlögum
áðr á hann fest
æfinliga.
Hèraf orsakast
óendanlig
mæða mun
í manna lífi,
ok hússfriðr
hryggiliga
umturnast
fyrir alda kyn."
Adam þuldi þat
ok þagnaði,
ok sèr snöggliga
frá snót venði;
Eva lèt þó af
eigi at heldr;
varpaði víf sèr
vott um kinnar,
svo hrundu tár tíðt,
at tók ei fyrir,
en hárit flaksaðist,

at fótum vers;
Ok þá með auðmýkt
umfaðmaði,
fyrigefníngar
ok friðar bað;
hún grèt hástöfum,
ok hèrnærst þannig
tvist ok tregafull
tók til orða:
„Utskúfaðu eigi
mèr, Adam! svo;
kref ek himin þess
hærstan vitni,
hversu hjarta mitt
þik heitt elskar,
ok af heilum hug
þèr heiðrs ann.
Illu heilli tæld
ok óvitandi
hefir ek þik moðgat
ok misgjört við;
nú hèr framfallin
við fætr þína
bið ek bljúg þik
með beiskum tárum:
Lát mik ósvipta
því ek lifi við,
áliti, blíðu
augna þinna,
hjálp ok handleiðslu,
hugar viðkvæmni,
stoð, sem styrkir mik
i stórri neyð,
ok engin ella
ógæfu minnar.
Hvert skal ek hverfa,
ok hvar vera,
ef ek af þèr
verð yfirgefin?
látum svo lengi,
sem lifum við,
máske stutta stund,
stríðlaust vera
(ekki má minna)
millum okkar.

Svo sem bæði við
erum sameinuð
illum kjörum í
óhamíngju,
svo líka sèum
sem eitt bæði
i fastri fíun
viðr Fjanda þann,
sem skírt ok skorinorðt
var skipaðr
í dýrum dómi
fyri dólg okkar.
Legg ei óvild á,
nè illan hug,
fyri skemdarskuld,
sem sket hefir,
mik, sem auk þess er
allt of töpuð,
ok þèr miklum mun
miðr stödd.
Við erum bæði
brotlig orðin,
þú þó at eins
við þengil himna,
en ek, æ því verr!
æ, auma mik!
hefi Guði ok þèr
gjört á móti.
Ek vil í þann stað
aptrhverfa,
sem við af Drottni
fengum dóm okkarn;
þar vil ek til þrautar
með þrábænum
ok hágrát herja
svo á himininn,
at öll fordæming
frávendi sèr,
ok höfuð hegníng,
höfði þínu;
Ok á eina mik
ofan falli,
mik, sem ein er
til okkar böls
orsök orðin

ok upphafsmaðr,
mik, sem hefndin hjá
á heima rètt."

Svo lág hún lengi,
þótt lètti ræðu,
eins ok áðr
óhræranlig,
ok syrgði sáran,
unz hann sigraðr
ok fullfriðaðr
henni fyrigaf
meðkenda misgjörð
ok mjök grátna.

Komst við Adam.
ok kendi í brjósti
um bljúga beðju
barmandi sèr;
hneigðist hjarta vers
til hennar skjótt,
at stilltu stríði,
sem strax áðr
einka lystisemd
ok líf hans var,
ok nú flaut flöt
við fætr honum
af ángri ok auðmýkt
öll í tárum.

Skepna furðu fríð
um frið biðjandi,
ok um styrk ok vernd,
þann er styggt hafði,
gjörði reiði rekks
í rykk slippa,
svo hún datt í dá
ok dó þegar.

Varð nú viðmót hans
vinsamligra,
rètti hann ristli
reisandi hönd,
ok með sáttsamligs
sinnis ræðu,
hermandi þannig,
henni gegndi:

„Óforsjálliga
ok ofbráðla,
eins ok áqrðit
hefir áðr þèr,
beiðist þú enn þess,
sem þekkir eigi,
er þú óskar,
at eina þik
syndar stóra straff
steypist yfir.

Berðu þá af því
þinn hluta fyrst;
vei! hve þú værir
nærsta vanmáttug
himna Grams heila
hefnd at bera,
hverrar fátt eitt fis
þú finnr nú,
með því minnar þú
misþóknunar
fær svo lítt liðit
lèttan ama?

Yrði ályktun
almáttugs Guðs
breytt meðr bænum,
svo hún bifaðist,
ek skyldi skunda
skjótarr enn þú,
í þann stefnustað,
er strax nefndir;

Ok hrópa hærra
uppí himininn,
at svo hefnd heila
höfuð mitt yfir
af Drottni dæmda
dregit fengi,
ok þèr uppgjafar
allat á sekt.

Blekkt varstu vèlum
ok veikara kyns,
önn þín ok ábyrgð
var mèr umboðin,
en ek sleppta þèr
við slíkan háska.

Rís nú á fætr!
rimmu slítum!
hendum ekki hnjóð
hvort at öðru,

allt ofmjök ákærð
annarstaðar.
Heldr höldum fram
hvort við annat
kostgæfnu kappi
í kærleiks skyldum,
svo með því megum
þetta mæðu farg,
ok lífs líðanir,
léttari gjöra.
Því dapr dauði,
sem á dag þenna
hótaðan hèldum
ok hræddumst við,
mun þó, ef mèr
eigi missýnist,
okkr ekki strax
yfirfalla.
Heldr sísigr
seingengr at
dauðinn innvortis
um dag lángan
manninum meira
til meins auka,
ok svo hann, eins
hjá okkar kyni
(æ þat ókynjan
aumkunarverðt!),
sem hjá frumkvöðlum
syndar, okkr,
öðlist innleiðslu
fyrir ættplöntun."
Hughrestist Eva,
ok hèr til gegndi:
„orðit er, Adam!
alkunnugt mèr
af ángrs raun
undanfarinni,
hversu lèttvæg
ok lítt at trúa
mín orð metr þú
ok meiníngu.
Með því svo mjök þau
á mis við rètt
híngattil
hafa farit,
ok þá þess vegna,
þat hlaut at ske,
storlun ok slisum
af stað komit.
Þó fyri þá sök,
at þú af nýu
virðir meira mik,
enn ek maklig er,
fyrigefníngar
ok fullra sátta,
ok ek glöð gjörumst
af góðri von
aptr fenginnar
elsku þinnar,
í lífi ok láti
sem er lyst mín ein;
Þá vil ek þaunkum
eigi þik leyna,
sem mín hrelda sál
hefir sagða mèr;
megu þeir máske
meðöl finna
til nokkrs lèttis
ok linunar
eðr algjörðrar
endalyktar
eymdum þessum á
allra stærstu.
Sè þat sárt meðal
ok sviðamikit,
sem mèr hefir helzt
í huga flogit,
þá er þat þó samt
þólanligra,
enn svo ógnarlig
armæða vor
Ottasöm ángist
ef okkar sinni
niðrþrykkir nú
fyri niðja skuld
okkar ókomnu,
sem allir munu
verða vissustu
vesældar til,
ok sökkva síðarst
í svelg dauða.

Sè vondt ok vesælt,
at vita sik
einka undirrót
ógæfu þeirra
allan heims aldr
ofan ígegn,
sem einn lèt sjálfr
af sèr getna.
Blöskri brixli þat
svo beiskliga,
at leiddum fram
af lendum okkar
fólk á fold þessa,
undir formæling
Alföðurs orðna,
aumkunarverðt.
At um alla jörð
útbreidt höfum
ætt þá, sem eptir
eymdafullt líf
skal loksins lenda
í ljótum kverkum
skelfiligs skrímslis,
ok svo skilja við.
Þá er þèr, Adam!
innan handar
því at varna við,
hún verði til,
ætt slíkrar alin
til óhamíngju;
barnlauss ertu nú,
ok barnlauss vert!
Sjá mun dauðinn sik
þá sárt leikinn,
ok feitri bráð
vera frá sèr kippt,
er hans, einúngis
með okkr tvö,
nauðsoltin náshít
nægjast hlýtr.
En ef þikkir þèr
þúngr kostr,
sætum sèrhvers dags
samvistum í
at sjást ok unnast,
en ástar notum
ok hegðun hjónabands
sèr halda frá:
Visna þannig upp
ok vanmegnast
af eptirlaungun
utan vonar
rètt í viðrvist
þess vinar síns,
sem sjálfr
ok í sama máta
vonlauss visnar upp
ok vanmegnast.
Þat er víst þvíngan,
ok þýngri pína
hverskonar hörmúng
enni hörðustu,
sem kvíða kunnum
at koma muni;
en böl má böli
bót á vinna.
Tökum okkr til,
tefjum ekki,
Adam! okkr sjálf
ok afsprengi
gjörvallt þat,
er geta kunnum,
frelsum at fullu
undan fárligri
ógæfu þeirri,
sem óttumst við.
Leitum dvalarlaust
eptir dauðanum,
ok ef hittan hann
hvergi fáum,
vinnum víglúsum
við okkr sjálf
embætti hans
með eigin höndum.
Hví stöndum við svo
undir sturlunum,
hrist ok hrjáð
af hræðslu þeirri,
sem ekki sýnir,
nema sárast hel?

Egu við ekki
fyrir okkr sjálf
undir egin vild
at útvelja,
dauðans mjök mörgu
meðal vega,
þann, sem skemstr er
ok skjótfarnastr,
svo eyðist eyðíng
meðr eyðíngu?"
Hún hætti ræðu,
eðr heldr þó
áköf örvýlnan,
sem var innan brjósts,
hana hindraði
at herma fleira;
svo var djúpt hjá drós
dauðans hugsun
í hit þrúngna þel
nú þrykkt orðin,
at næman kinnar
tóku nálit við.
En Adam Evu
ósvinnu ráði
gaf ekki gaum at,
því geð sefat
hafði hafit upp
at hárri von
erfiðissamri
með yfirvegun;
gaf hann svanna svar
svo látanda:
„Sú einkis öktun,
Eva! sem þú
í ljósi lætr,
lífs ok gleði,
er sem auglýsi
æðra nokkut
ok hærra hjá þèr
hinu smáða.
En sjálfs tortýníng,
sem þú tilræðr,
meiníngu minni
um mikilleik þinn,
ok ypparliga
yfirburði
þinna kvennkosta,
kollvarpat fær.
Er þat víst ekki,
sem hún auglýsir,
fjörs ok fagnaðar
fyrilitníng,
heldr ángist ein
ok örvýlnun
vegna látins lífs
ok lystisemda,
ofdátt áðr
sem elskat hafðir;
þú ef þess vegna
þráir dauða,
at endist eymd þín
í einu svo,
eðr ætlir þú
svo at umflýja
álagðan úrskurð
fyrir okkar synd.
Drag ei dul at þèr!
Drottinn hefr
vísligarr vopnat
voldugan arm
harðrar hefndar,
enn at hjá komast
þessu móti með
megir honum
Onei, ek óttumst,
at andlát þat,
sem svo athremmt er
með ofríki,
muni ekki minni
gjöra mein okkar,
heldr uppegna
enn Almáttuga,
þat hann, þvílíkrar
fyri þrjózku skuld,
eylíft hel láti
í okkr lifa.
Reynum heldr ráð
til rauna bótar
annat eitt
öruggara,.

þat er sýnist mèr,
sem ek hafi
augum ákomit
opinbert nú.
Nær ek hugleiði
nákvæmligarr
eina deild dóms,
sem Drottinn gjörði,
þikki mèr, sem þar
kvæði þannig at,
at sæði þitt
á sínum tíma
móins haus
mola skuli.
Þat væri vesæl
volæðis bót,
nema níðhöggs sè
nafni meðr
meintr hinn mikli
Meginfjandi,
Satan, sá er
svikafullr
hafði sik hulit
í höggormi,
ok með því okkr
afvega leidt.
Sú væri sönn hefnd,
at sundrmola
höfuð hans
hit hrekkjafulla;
þó væri þeirri
með því glatat,
ef við ofbráðri
með egin mund
flýttum flasliga
okkar fjörtjóni.
Eða vildum við
vera án barna,
eins ok óforsjál
örvænting þín
innti mèr áðan
sem óskaráð,
svo yrði Satan
frá sinni laus
hugaðri hegníng,
en höfðum yfir
okkar tortýníng
tvöfaldaðist.
Ahrær því ekki
eginhanda-
morð fyri mèr
í máli framarr,
eðr innilukt,
svo at ei getist
okkar afsprengi
fyrir ásetníng.
Verðr svo von öll
vor at engu,
en þat auglýsir
óhófligt dramb,
illsinni, andstygð,
óþolinmæði,
hugmóð ok hroka
móti himna Gram,
ok gegn oki því,
sem öllum rètti,
okkr hefir hann
á herðar lagt.
Minnstu, hve mildr
meðkenníngu
okkar afbrots
hann áhlýddi,
ok dæmdi dóm vorn
án drambs ok reiði,
án umbríxlunar,
ok utan spotts.
Meintum við, at mundum,
sem makligt var,
verða vettugi
at vörmu spori,
þar er þenktu við,
at þann dag sama
hefði hann okkr
hugat at deyja.
En gættu grant at,
hvílík gjörð hans var:
ein var á þik lögð,
nær elr jóð,
barnburðar sótt,
er borguð skyldi

meiri gleði með,
at mög fæddum.
Bölvan misti mín,
en meginhluti
hennar á hauðri
höggstað náði;
ek skal með eljnn
mèr afla brauðs;
er þat ógæfa?
en yðjuleysi
væri þó víst
verra miklu,
því verk ok vinna
eru viðhald eitt.
Hèrmeð, svo hvorki
hiti nè kuldi
skyldi skjóllausum
skaða gjöra,
hans en góðgjarna
guðdómlig önn,
óbeidd af okkr,
egin höndum
huldi sakat hold
húðklæðum með;
mild var meðaumkan
miðt í dómi.
Hversu miklu meirr
mun hans eyra,
er við áköllum,
nú opna sik,
ok hjartat vikna við
til vorkunar?
mun hann mótvarnar
meðöl síðan
ígegn illviðrum
okkr læra;
Móti votviðrum
ok vetrar snjó,
hríðum ok hagli,
sem hreytast þegar;
þeim ok lýsir lopt
með lögun ýmsri
nú á nálægum
nýpum fjalla.
Þvíat nú þegar
þeyta vindar
bistari blástra
ok bleytnrosa,
ok fagrfágat,
fjölkrullat, hár
blómgaðra bjarka
láta burtrifit.
Minnir okkr á
umbreytíng slík,
at leita líknar
okkar líkhömum,
sem nú strax styrðna,
stærri enn áðr,
ok hlúa heldr
at þeim hèreptir,
áðr sól sígr
í sæ með degi,
ok skilr eptir
ískalda nótt.
Við skulum vita,
hvort vinnst ekki,
at samansafna
sunnu geislum
tilbaka brotnum,
ok svo bríma þann
þurru varðveita
viðr lífi.
Máske með gnýun
megi líka
tíðri takast
tveggja hluta,
þegar þarvið skekst
hit þunna lopt,
í því duliun eld
út at draga.
Eins ok nú nýsket,
er nýstust saman
af sterkum stormum
stríðandi ský,
ormi lík elding
útblossaði,
ok skall skáhallt
skjótfleyg niðr
á full furutrè
feitrar kvoðu.

Hlín bráðt borgaði,
með blíðum yl
hollrar hressíngar,
hita sólar,
en þótt frá okkr
endilaungu
flýgi lánga leið
eptir loptinu.
Eldsnytjar þær,
ok annat fleira,
sem vor syndagjöld
gjörir sætari,
lær hann framvegis
frædt okkr um,
ef við hann auðmjúk
þarnm áköllum.
Er því okkr þörf
einkis kvíða,
at í eymd slíkrar
óhamíngju
munum líknarlaus
ljúka dögum;
meðr margfaldri
mun hans gæzka
stoð ok styrkíngu
okkr styðja við,
unz í heimahús
ok hvíldarstað,
at loknu lífi,
leggjumst jarðar.
Hvert er nú annat
fyrir okkr ráð,
enn at strax förum
í stað enn sama,
sem við meðtókum
svo mildan dóm,
til at falla fram
fyri Guði?
Með auðmýkt misgjörð
meðkennandi,
biðja bljúgum hug
brots uppgjafar,
væta græna grund
með glóandi,
ótæpt úthelltum,
yðrunar tárum;
Ok senda af hjarta
sundrmörðu
útpressut andvörp
upptil himins,
okkar allshuggar
yðrunar teikn,
alvarligs ángrs
ok auðmýktar.
Þá mun án efa
aptrhverfa
Ræsir röðuls
frá reiði sinni;
hvat skein heilögum
útaf hans augum,
nema náð ok ást
ok nóg gæzka,
þá hann sárreiðr
sýndist vera?"
Adam yðrandi
svo at orði komst;
ekki barr Eva
ángr minna;
bæði gengu burt
í birtan stað,
þar sem af Drottins
dóm sinn höfðu
mildum munni
meðtekit fyrr.
Féllu þau þar fram
fyrir honum,
meðkendu misgjörð,
miskunar báðu,
vættu græna grund
með glóandi,
ótæpt úthelltum,
yðrnuar tárum;
Ok sendu af hjarta
sundrmörðu
andvörp heit
upptil himins,
sem teikn ok túlka
fyri trega af rót,
ok fyrir auðmýkt
allradýpstu.

## Hèr hefr
## Elleftu bók Paradísar missirs.

Þar lágu þau nú
þannig á bæn
yðrandi ok auðmjúk
fyrir Alföður,
með því miskunar
frá mildum tróni
niðrsteig náð hans
nú til þeirra,
föðrlig,
at fyrra bragði.
Hún tók steinshörku
frá hjarta þeim,
ok lèt aptr hold
endrborit;
útbrutust andvörp
ómælilig,
sem þeim blès í brjóst
bænar andi.
Með meira hraða,
enn málsnildar flug,
í hæðir himins
hann þau flutti;
eigi var sem almennt
ákall þeirra.
Eigi var sú bæn
ómerkilig,
heldr enn hin
á heims tíð fornri,
þó miklu síðarr,
enn þetta var,
sem aldin innir
ein um Pyrrhu
ok Devcalion
dæmisaga;
þau frammi fyri
fórnaltari
Themídis tvist
þegar tilbáðu
göfgaða guði,
ok grètu sáran,
at mætti mannkyn
í mar sokkit
útaf þeim
endrnýast.
Beint flugu bænir
bljúgra hjóna,
Adams ok Evu,
upptil himins;
eigi viku vindar
af vegi þeim
minnsta hót,
þó móti blèsu.
Gimla gengu þær
ígegnum port
ólikhamliga
at ljóss altari
enu gullliga,
sem glaðt tendrat
æ stendr offrum
fyrir Alföður.
Þá er höfðu þær
verit þar klæddar
með miklu reykelsi
af Messía,
færðust þær fram at
Föðurs tróni;
Sonrinn síðan,
með sólu fegri
ásýnd, Alföður
offrgaf þær,
ok bað svo blíðu
enum brotligu:
„Sjá hèr, ó, Faðir!
þenna frumgróða
náðar himneskrar
frá nýrri jörð,
þeirrar, sem þú
hefir þar plantat
egin mundum með
í manna hjörtum.

*Alít hèr* andvörp,
auðmjúka bæn,
þau ek þèr færi,
sem þinn prestr,
þèr til þóknunar
í þessu gullna,
ádreið reykelsi,
offrkeri.
Sjá sætan ávöxt
af sæði því,
sem þú sjálfr
með sundrknosun
hefir hörð sáð
í hjörtu þeirra,
miklu mætara
ok meirr ylmanda
þeim, er hefðu þau
getat þèr offrat
ágætustum af,
sem yrktu þau,
eykum, ófallin
í Edens garði.
Beyg nú blíðt eyra
til bænar manns,
ok gef gætr at
hans grátbeiðni;
álít andvörp hans,
eylífi Faðir!
en þótt fyri þèr
*ómálgi sè.*
Ok með því, mál hans
er svo máttvana,
bæn, svo sem byrjar,
at bera fram,
þá *lát* mik *túlk* hans
ok talsmann vera,
at mitt túngutak
honum tilreiknist.
Forsvar em ek hans
ok friðþægíng;
gjörðir gjörvallar,
góðar ok vondar,
er hann athefst,
tek ek uppá mik.
Fá skal fullkomnum
enum *fyrrnefndu*
gefna guðdómlig
(því gjörðar eru
víst í veikleik)
verðskuldan mín;
hinar síðari
minn sárr dauði
skal þèr, Faðir! fullt
fyri bæta.
Taktu móti mèr
í mannkyns stað,
þigg af mèr þannig
þakknæmiligu
frá því framborinn
friðarins ylm,
lát þat fullfriðat
fyri þèr lifa.
Lát manninn mega
at minnsta kosti
sína töldu tíð
tárngra daga
í friði fylla,
þótt fáir verði.
Unz dauðinn, deild hans
eptir dómi nú
(er ek ekki bið
aptrkallist,
heldr meirr mildr
gjörist manninum),
berr hann í burtu
til betra lífs;
því er full fylgi
fagnaðar gnógt;
ok ljúfr lýðr,
sá ek leyst hefi,
sè þar í sælu
sílifandi
óendanligrar
unaðsemdar,
allr eitt með mèr,
sem ek ok þú
jafnan eitt erum,
eylífi Faðir!"
Asýnd fullfagri,
án fölskva neins,

anzar Alfaðir
Arfa mildum:
„allt, hvat þú óskar,
skal af mèr veitt,
minn Son mætasti!
fyri menn þína,
áðr hefir ek
þat ásett mèr.
En at maðrinn,
at misgjörð skeðri,
Eden í
inni búi,
rígskorðaðri röð,
ok ráðnum fast
aleðlis lögum,
er aftekit.
Hinar himnesku
höfuðskepnur,
ódauðligar æ
ok utan flekks,
þær ekkert þýðast,
sem er þykkgjörðrar
ok sízt samkvæmrar
samblöndunar;
sem dregg ok sora
honum saurguðum
hvervetna hrynda
frá sèr hèðanaf
honum líkt í lopt,
eigi lètt nè hreint;
Ok til fjörfóstrs
fæðu þeirrar,
sem er dauðlig
ok ferr dvínandi,
svo til sundrunar,
er synd hefir
honum vond verkat
á veru hans,
allrabezt
undirbúist.
Synd hefir sèrhvat
með sárri pest
í náttúrunni
nýdt ok saurgat,
sem óspillt ella
hefði æ verit.
Ek skóp ágættan
í öndverðu
tveimr manninn með
mætagáfum,
algjörðri farsæld
ok ódauðleik.
Þá er hafði hann
fyrir heimsku skuld
fyrifarit
fyrra kosti,
eigu ens síðara
til einkis var,
utan at ala
eylífa pínu,
hefða ek til hans
eigi hel kallat.
Því er nú hel hans
en hinnsta lausn;
at liðnu lífi
líðunarfullu
orðinn alreyndr
með andstreymi,
ok fyri trú tærr
ok trúar verk,
rísa skal hann upp
með rèttlátum
til lystiligra
lífs ok betra,
himin ok hauðr
þá hefjast ný.
En látum oss
á ypparligan
of heilan himin
herradags fund
sæla söfnuði
samankalla!
því eigi þeirra
fyri þekkíngu
dylja vil ek
dóma mína;
Nè þeim leynt láta,
hve löguð skal
meðferð mín
á manni föllnum,

svo sem nýliga
hana sáu þeir
englum á,
sem eiða rufu.
Þeir svo því heldr
með þekkri trygð,
en þótt stöðugir
staðit hafi,
fyri þat fræðist
enn nú fastligarr,
æ at varðveita
verðuga hlýðni."
Endnðust nú orð
ens Almáttuga;
svo gaf með sama
Sonrinn teikn
þeim, sem þar honum
til þjónustu
alskínandi stóð,
engli nokkrum.
Þessi lèt þegar
þeyttan lúðr,
máske sama, sem
síðarr laungu
huldum Hórebs á
hátindi gall,
er þar ofan stè
enn Eylífi,
ok sem líkligt er
látinn verði
dróttir hinnsta dag
til dóms ræsta.
Allr tók undir
við engils hljóm
gimla geimr
geysivíðr;
sælir ljóss synir
sik upptóku,
þá er hann heyrðu,
hèruðum frá,
lystilundum
ok ljúfum skuggum,
maðs auðgan,
kríngum amarant.
Þar sem þeir
við þægar lyndir,
eðr yndislig
ódáins vötn,
hèldu hèr ok þar
hópa sína
fagnaðarfullum
í fèlagskap.
Samansöfnuðust
sveitir þessar
allar í þann stað,
sem æstuðust;
sinn sæti
vendi serhverr at;
hèrnærst háleitan
himna Jöfr
vilja sinn
frá veldisstóli
gjörði þeim kunnan,
ok greindi svo:
„Orðinn er, synir [2]!
(Alfaðir kvað)
svo sem einn af oss
at óð maðr:
veit hann vondt ok gott,
því af vörnuðum
eykar ávexti
etit hefir.
Látum hann laungum
lof sèr skapa,
ok sik at sællí
sjálfan meta
at fengnum fróðleik
um fargat gott,
ok um hit illa
sèr áunnit.
O! hvat hans væri
heill þó meiri,
ef unat hefði
ánægðr við
þess ens góða greind,
nè girnst meira,

[1]) Ex. 20, 18, ok 1 Thess. 4, 16. [2]) Öll þessi ræða er bygð á Gen. 3, 22-24.

en aldrei eitt hót
um íllt skynjat.
Nú er hann hryggr
ok hugarsleginn,
yðrast eptir,
ok ákallar mik
með sáru sinni
ok sundrmörðu,
sem ek sjálfr
hefi sendt honum.
Þó þekkir ek
yfir þessa fram
hugarhrellíngu,
meðan hún varir,
hjartalag hans,
sem er hverfult mjök;
veit ek, hve valt þat
ok villugjarnt
af hverjum hègóma
hægliga blekkist,
sè þat sjálfráðt,
ok svíkr hann.
At hann ekki því
ofdjarfri mund
sèr til sárara
sorgar auka
glæpist tilteygðr
á trè lífsins,
eti þar af,
ok svo æ lifi,
eða myndi sèr
at minnsta kosti
draum þann, at aldrei
deyja muni;
Þá er sú óræk
ályktan mín,
at hann frá Eden
skuli útrekinn,
ok í annann stað
af mèr sendr,
svo á sömu lóð
setr egi,
ok í öndverðu
var afgjörðr,
sú, at svo komnu,
honum samkvæm er.
Þú munt, Michael!
minni, sem ber,
skjótt með skilríki
skipun hlýða;
tak nú til þín flokk
enna traustustu,
köskustu ok kænstu
af Cherúbinum,
útvalit afbragð
til orrostu.
At vorr Óvinr
ekki skuli
nokkrt niðrbrot
á ný fremja,
annattveggja, til
sèr at tryggja mann,
eðr, at sjálfs síns
setri gjöra
auðan stað,
þar engi byggir.
Fljúg sem fljótast
á fold niðr,
útrek óhlífinn
af Edens garði,
Guðs aldingarði,
glæpuga menn;
vanheilögum vík
frá vång helgum;
kunngjör sína þeim
ok kyns þeirra
eylífa útlegð
af Edens mierkjum.
En svo þau ekki
undir dómi,
ef hann ofhast
kemr yfir þau,
fyri felmtrs skuld
fallin liggi,
sem ek brjóstbugut
sè brot gráta,
þa hyl óyptar
ógnanir Guðs.
Ok ef þínn þau
með þolugum

ok hægum huga
hlýða boði,
þá lát þau ekki
þýngd af harmi
óhuggut
við Eden skilja.
Kunngjör fyrifram
fyrsta manni,
hvat með tímanum
muni tilbera,
eptir því, sem ek
með innblæstri
af mildi minni
mun þik fræða;
lát svo at lyktum
í ljúfum friði
hann frá hendi þèr,
þótt hryggr sè.
En á aldingarðs
austrsíðu,
hvaret hægust er
á hæð Edens
atkomendum
uppgaungu leið,
skaltu kríng setja
af Cherúbimum
varðhalds vakt
ok vafrloga
sveipandi sverðs míns,
svo at skelfist
allt, hvat atkemr,
frá inngaungu;
Ok leið, sem liggr
at lífsins tré,
svo varin verði
vætta hverju;
svo at síðurstu
saurgir andar
eigi fái Eden
fyrir atsetr,
ok allar eykr
undir sik leggi,
sem ek setta þar,
en sviki menn
optarr ófrjálsum
með ávöxtum."
Aflèt orðum
enn Almáttugi;
en bjóst at bragði
bráðustu til
ofanferðar
engilkraptr;
hópr harðla stórr
með honum var
klárt skínandi
Cherúb-loga.
Fögr andlit
hafði fjögr hverr[3],
jafnt sem tvöfaldr
Janus væri;
skein af skærum
þeirra skapnaðr
augum allr
yfirþakinn,
miklu stærri mergð,
enn í margeygðu,
ævakanda,
Arguss höfði[4].
Þó voru þeirra
þartil um of
svefnskirr sjónarljós,
at svæfast lètu
fjölkýngisfullum
fyri tónum
Hermess hljóðpípu
ok hirðis reir,
eða vígðum völ,
værð færanda.
Vaknar ámeðan,
ok veröld heilsar,
skírleitt goð
með skæru ljósi;
draup frá henni dögg,
sem dampa raki

[3]) þessi skáldliga útmálan englanna er tekin af Ez. 10, 12-14. [4]) *Argus* hafði 100 augu; Júpíter lèt Hermetem nl. Mercúrium svæfa hann með hljóðpípu ok drepa.

yfir blíð blómstr,
af balsami.
Höfðu þá lokit
hjón en föllnu,
Adam ok Eva,
auðmjúkri bæn;
hreysti hjá sèr
af himni senda
nokkra fundu nú
ok nýa von,
af örvæntíngu
til at útlosast,
ok gleði í geði,
þó geigblandna.
Lèttari lundar
með ljúfum orðum
Adam sèr
til Evu vendi:
„er víst, Eva mín!
auðtrúanligt,
at gjörvallt gott,
sem gleðr okkr,
hellist ofanat
í okkar skaut.
Hitt er til torveldt,
at trúa megi,
at frá okkr
geti uppklyfrat
nokkut á himin,
þat er nægi til
Guðs ens sísæla
sinn' at hræra,
ok víkja vilja hans
svo voldugum.
Þó mun þat manns bæn,
sem megnar slíkt,
mjök stutt mæðnkall
mannligs anda,
þat getr þreyngt sèr
at þengils tróni,
þess ens eylífa
ok almáttuga.
Því frá þeirri stund,
er ek þreyta tók
heils hugar kapp,
með heitum bænum
at blíðka Guðdóm,
sem brant ek móti,
ok ek kraup niðr
með knèfalli,
mik af allri önd
auðmýkjandi;
þá er mèr svo, sem
ek sjái hann
friðþægðan föður,
fullan mildi;
hrærðist hugr Guðs,
hneigðist þegar
ástúðligt eyra
til andvarps míns.
Trúnaðartraust mitt
tók at vaxa,
at mitt ákall
væri uppi heyrt,
ok mjök meðtekit
mildiliga;
nú fann ek færast
mèr frið í brjóst.
I því uppvaknar
endrminníng
ljúfrar lofunar
Lávarðar míns:
at sæði þitt
á sínum tíma
haus vors Hatanda
skuli harðt mola.
Þetta, sem þá var,
er ek þýngstan bar
harm í hjarta,
hulit ok gleymt,
fær mèr fullvissu,
at framhjá gengin
sè bannvæn beiskja
bitrs dauða;
víst, ok án vafa,
munu við lifa.
Heil sèrtu, Heva[5]!
svo heitin rètt,

[5]) Adam nefndi kvinnu sína *Heva*, af því hún er allra lifendra móðir.

móðir mannkynsins!
móðir allra
lifandi hluta!
því lifnar maðr
at eins útaf þèr,
en allt lifir
hèr á hauðri
fyrir hans sakir".
Svip með sorgfullum
svarar Eva:
„helzt til lítt hæfir
þat heiti mèr,
sem fyrst syndgaði,
ok sú er mundi
ákvörðuð at eins
þèr til atstoðar,
en er þèr orðin
ófalls snara.
Hitt er heldr,
þat ek heimta kann,
ok með rètti mèr
mætti gjalda:
álasan, hnjóðr
ok óvirðíng,
umbríxlan
ok illr grunr.
En hvat í uppgjöf
óendanligr
var enn Voldugi,
sem mèr valdi dóm!
ek, sem öllum fyrst
olli dauða,
náði náð þeirri,
nú at verða
ein fyrir alla
uppspretta lífs.
Einnig miklast mèr
mjúklyndi þitt,
er svo virðir mik
vegligs heitis,
annat ávarp þó
sem ætti skilit,
yfrit ólíkt
ok æru minna.
En fold aldöggvuð
álits fegri
kallar okkr út
til erliðis,
er við egum sveitt
at ástunda,
þótt sorg synjaði
okkr svefns í nótt.
Því sjá! þokast at
þægr morgun,
fæst hann ekkert um
ónæði vort,
renna rakleiðis
róslitaðir
fætr hans
án fyristöðu,
svo hýrt hlæjandi
kemr hann á jörð.
Við skulum venda
at verkum okkar;
mun ek aldrei meirr
mik fráskilja,
svo sem fyrr gjörðak,
síðu þinni,
hve lángt sem liggr
leið til starfa;
Ok hvat mæðusamt
sem mèr veitir,
eptir því, sem er
á okkr dæmt,
nuz sunna sígr
í sæ at kvöldi,
ok berr í burt með sèr
enn bjarta dag.
Hvat má okkr helzt
hèr búendum
svo lystiligum
landshögum í
þrautasamt þikkja,
eða þeli leiðt?
unum hèr ánægð
okkar daga,
en þótt fallin frá
fyrra standi!"
Auðmýktrar Evu
var ósk þessi,

er lètu örlög
ósamþykkta;
nú gaf náttúran
næsta mörg teikn
á lopti, fuglum,
ok á landdýrum.
Laust í leiptrs stað
yfir lopt dimmu
eptir hverfulan
himinroða;
ok þar allnærri,
sem Adam var,
feldi fugl Jóvis [6]
flug í lopti,
er hann undan sèr
rak aðra tvo
með fögrum fjöðrum
fugla skrýdda.
Fór nú fyrsta sinn
á fjárveiðar
dýrit óarga,
drottinn skógar,
blóðuga bráð
til at brytja sèr.
Elti með ákefð
afargrimt ljón
dýr tvö dæilig,
ok drepa vildi
geðgæfasta par
af grúa skógar,
hjört ok hind,
sem hèldu flótta
beinum Edens at
austrporti.
Ægði þat Adam,
er ofsókn slíkri,
áðr ósèðri,
eptirhorfði,
ok enganveginn
óhrærðr við
at víli vendi,
ok vèk til orða:
„Ellaust er okkr,
Eva! búin
einhver umbreytíng
önnur stærri,
ok sú, er okkr
mun engu fjærr,
hverja himininn
hryggiligum
tjáir með teiknum,
ok tilbendíngum
nýstárlígum nú
náttúrunnar;
þær er þegjandi
þannig boða
okkr ætlaðan
ásetníng Guðs,
eðr uppvekja
til andvara
ígegn ofrausti
á uppgjöf straffs
af fengnum fresti
fárra daga,
ok hlífð híngattil
fyrir helslagi.
Hverrveit, hve lángvinnt
muni líf okkar?
ok hverr veit, hvílíkt,
eðr hvat muni,
unz deyjum, drífa
á daga okkar?
hvat vitu við,
sem verðr, meira,
enn, at dupt erum,
ok eitthvert sinn
munum moldar dupt
af mönnum verða,
ok enda daga dvöl
með dauðanum?
Hví var hèr leiddr
á hauðri ok lopti
tvöfaldr flótti
fyri sjónir
á sömu svipstund
ok um sama veg?
hví drottnar dimma
fyri dag miðjan

6) Jóvis fugl er örnin.

um allt austrlopt,
óvenjulig?
En mætr málar
morgunroði
með skæru skyni
ský í vestri,
fleygir fegurð sú
sèr furðuvíðt,
ok hjúpar heiðblátt
hvolf með glanza,
þeim er farm flytr
á fold af himni
nokkrs, sem nú
kemr niðr hèr."
Orð ok at sönnu
var Adams sögu;
jafnsnart til jarðar
af jaspis-himni
allt inní Eden
kom engla skari,
ok nam nú staðar
á nokkrum hól.
Dæilig var sýnin
ok dýrðlig mjök,
utan úngist
ok efasemi,
ok holdlig hræðsla,
huldu myrkri
Adams augu
helði umvafit.
Var hún at vegsemd
vissuliga
engum minni
enni miklu sýn
Jakobs forfeðurs[7],
er fjöld skara
ódauðligum af
fyrir augum varð
Mahanaims mörk
á mjök víðri,
er skein allt umkríng
með engla vakt.
Ei heldr himni,
sem á hæð Dóthan
síðarr sást
sveifla geislum,
þá gjörvallt girðtu
glóanda hers
feykna fylkingar
fjall umhverfis;
Sendar Sýrlands
móti siklíngi,
sá er einúngis
fyrir eins manns skuld
fór falskliga,
sem flugumaðr,
með heilan her sinn,
hesta ok vagna,
án þess áform sitt
at auglýsa,
ok kom á óvart
Israels lýð.
Strax skipti stöðu
með stríðsher þessum
helgr höfðíngi,
hverr fèkk sína
eptir orðu, tign
ok ypparleik,
var svo varðhaldi
varinn garðr.
En hann einnsaman
fór á Adams leit,
þar, sem hafði hann
sik í hlè dregit;
Adam varð hans varr,
ok við Evu,
er hann göfga gat
gests komu merkt,
hóf at herma,
sem hèr greinir:
„Víst er nú, Eva!
von á frèttum
merkiligum mjök
ok mikilvægum;
mun nú fullskipat
forlögum okkar,
líka máske lýst
lögum nýum

7) Gen. 32, 1, 2, ok Kóngab. 6, 13, o. s. frv.

frá hærstum himni,
sem halda skulum.
Ek sè álengdar,
hvar einn kemr
frá skæru skýi,
sem skýlir hæð;
einn af her himins
híngat skundar;
greinir gángr hans
glöggliga, at sè
engimi óæðstu
englastèttar;
Heldr af hærstu
herra trónum,
ok voldugustu
meðal veanna,
svo prýðir hefð hann
ok hátign gángs.
En þótt hann ekki
sè ógnarligr,
nè okkr ótta
afla þurfi,
þá er þó eigi
þægilig eins
ásýnd hans,
nè auðug blíðu,
til at tala við
trúnaðarmál,
sem var Raphaels,
heldr röksamlig,
höfugt ok háleitt
með herrafas.
At hann af okkr
ekki styggist,
hyggst ek at hverfa
fyrir hann í veg,
ok honum heim
híngat fylgja
með allri auðmýkt
ok undirgefni;
en gakk þú, Eva!
nokkut afsíðis";

Adam lèt útsagt,
en atbar skjótt
ítran Alf ðurs
erendisreka;
ekki barst hann á
sína aðalbliks
tignarmiklu mynd,
heldr mannliga,
með því hann hugðist
at hitta mann.
Stuttri stríðskápu
var steypt yfir
harðla skær hervopn,
en hún var fáin
prýðiligasta
með purpura lit,
miklu mætari,
enn Meliböa[8]
fèkk saminn sýnt,
eða sar Týrí;
Kóngar ok kappar
sem klæddir voru
í gamla daga,
þegar geir hvíldi;
hermætum möttli
Michaels í
var verk Irídis[9]
veftarfarfi.
Opinn alstirndr
um enni hjálmr
fèkk honum frama
fulltíða manns
at fyrst enduðum
æskutíma;
honum mundi hjörr
við hlið festr
í mjök skínandi
megingerðum,
Djöfli dauðlig ógn,
nær deildu þeir,
en spjót ógrligt
spenntu greipar.

[8]) *Meliböa* var staðr í Thessalía, þar sem farfaðr er enn bezti purpuri, sem ok í *Týró*, hvar þessi litr var kallaðr *Sar* eða *Sarra*. [9]) *Iris* kallast regnboginn.

Adam hneigði sik
auðmjúkliga;
engill öldúngis
óhrærðr stóð
fyri tignar skuld,
at tiggja venju;
hann barr óðarr upp
sitt erendi:
„Eigi þarf, Adam!
Alföðurs boðum
formála lángan
fyrir at hafa:
þat er þèr nóg,
at þínar eru
af honum heyrðar
heitar bænir.
Dauðinn, sama dag,
eptir dóms orði,
sem þú syndgaðir,
sakrèttr þinn,
má missa þín
um marga daga,
áðr hrömmum hans
herfáng verðir.
Er af góðgirni
guðdómligri
þèr gefinn þartil
þessi frestr,
at þú á honum
umvendir þèr,
ok þinn gjörðan glæp
með góðverkum,
sem mest þú megnar,
megir hylja.
Máske þinn Guð þá
við þik sáttr
nú á ný orðinn,
af náð sinni
frelsi þik til fulls
undan fárgrimmri
rángirugs dauða
rèttar kröfu.
En prýðifullri
Paraðís í
þessari lengr
at þú búir,
er þèr afsagt
í allan máta,
ok uppfrá þessu
óleyfanda.
Heldr hefir ek
á hendi boð,
ok brýnt erendi
ofanferðar,
gagngjört þik frá
garði þessum
blikandi blómstra
at ek burtflyti.
At þú egir svo
ífrá þessu
hvervetna heima
á hauðri sama,
ok hann skóp þik af
í öndverðu,
á þat ok betr
nú við eðli þitt."
Engu jók engill
hèr orði við,
með því brjóstbenjum
bitrum lostinn
Adam innvortis
af ángri stóð
orðlauss, fárfölr,
firrtr rænu.
Fákát frummóðir
í felum stödd
hafði heyrt ræðu
höfuðengils;
varð henni svo við,
at vottaðist,
hvar hún hèldi sik,
af harmaklögun,
sem hún lèt hafna
hástöfum svo:
„Sárt er sorgarhögg,
þat ek sízt vænta,
dauðans dörslagi
miklu daprara;
hlýt ek þannig þá
við þik at skilja,

Paradís!
með prýði vafin?
þik, fold farsældar!
fyrilata?
fóstrfold mína,
meðan farsæl var,
síðarsta sinni
nú sèt hafa?
yðr, sæl engi!
yndælir, lundar!
ok skemtuir skuggar,
skapfelligir
voldugra vea
til at vera bygð?
Þar sem von mín var,
at ek víst mundi,
at söunu sorgfull,
þó samt í ró,
fá fullendaðan
frest á komu
dagsins dapra,
sem með dauðanum
mundi mèr færa
missir yðar,
ok gjöra okkr
at engu samt.
Þèr blíðt brosandi
blómstr ok grös!
sem ek víst veit,
at vaxið eigi
mèr til yndis upp
annarstaðar,
minnar fyrstu mið
morgungaungu,
sem ok sèrhvert kvöld
ennar síðurstu!
Þèr, sem mjúklát mín,
hefir mund fóstrat,
frá því framskutuð
fyrstu knöppum,
er sik opnuðu,
þegar útsprúngnð!
hefir ek ok hverju
heiti gefit.
Hverr mun hèreptir
við hýrri sól
yðr útbreiða,
ok eptir kyni
nærsta nákvæmla
niðrraða,
ok af uppsprettu
ambrosligri
veita yðr vökvun,
sem viðþurfið?
Ok at ályktun,
aðalblóm mitt!
þú hátíðligi
hjónalundr!
þann ek með öllu
hefir útflúrat
því, sem yndælt er
ylmun ok sjón,
hve ber ek þraut þá,
þèr at sleppa?
Hve mun ek hèðan,
í heim lægra;
myrkvan ok villan
móti þessum
fagnaðar-foldum
enum farsælu,
geta gefit mik
ok gengit burt?
Hve mega munum
í meinguðu
lægra heims lopti
lífsblæ anda,
sem er þykkt ok þúngt
ok þeigi hreint,
við, svo lengi vön
viðrlífi
ódauðligs
aldingróða?"
Máli Michael
mær huggandi
tók fyri tvistar
tölur hennar:
„kveinkvörtun, Eva!
þú kastat lát,
ok ber þúnga þann
þoliumóðliga.

At frá þessum þú
þannig víkir
bústað burt
brotlig orðin,
sem þú sjálfkrafa
með syndar þinnar
fullri forskuldun
hefir fyrigjört.
Hirð eigi hjarta
hégómlignm
dálætis dróma
ok dáraskapar
þitt við þá hluti
svo þètt at reira,
sem þú átt nú af
ei hit minnsta.
Eigi ferr þú ein,
nè yfirgefin,
maðr ferr með þèr,
sem er maki þinn,
þat er skylda þín,
at þýðast hann,
honum hvervetna
við hlið fylgin.
Hugleið, at hvar sem
hann er staddr,
þar er fyri þik
ein þæg Eden,
er þar ok einnig
upprnna þíns
aðalból
æ hit sama."
Meðan Michael
ok mær hnípin
sín ámilli svo
saman ræddu,
Adam til sjálfs sín,
at sjatnaðri
ángistar ólgu,
var aptrkominn.
Líka hafði hann
nú heimt saman
lífs anda sína
úr lagi færða;
hann því ljúfliga
ok með lotníngu
engil auðmjúkr
ávarpaði:
„O, þú sjálfs himins
sendiboði!
einn meðal mestu
mektar tróna,
ef ekki sjálfr
þeirra ypparstr!
eins er ásýnd þín,
ok einhverr sèrt
frægastr fursti,
fursta drottinn.
Mjök hefir mèr þú
mildiliga,
ok með góðgirni
enni gætnustu,
kunngjört erendi
komu þinnar,
þat er hefði þó
meðr þjóstugri
atferð, er sem mest
hefði úr því gjört,
flasla framborit
feykna sárum
lostit lund okkar,
eða loksins deydt.
Þau ein þú hefir
þannig okkr
tíðendi tilkynnt,
sem í tárgri þraut,
ángist okkar
ok örvæntíngu,
ok bágum breiskleik,
borit getum.
Okkr er álagt,
aldingarð þenna
himin-skærskreyttan
at skilja við,
sælan samastað,
sinnis huggun
okkar einustu
ok augna fró,
er þeim einúngis
er um kunnugt.

Öll önnr vill
ok ósætilig
virðast okkr víst
veraldar lönd,
er ok okkr nú
allteins dulin
þekking um þau,
sem þeim um okkr.
Væri voganlig
von fyri mik,
at fá beygt með bæn
ok beiskum gráti
Ræsis eylífa
ráðinn vilja,
hverjum ekkert er
ómöguligt
frá því, er eitt sinn
hefir ályktat;
þá skyldak þreyta
meðr þrábeiðni
svo lengi lund hans,
at hún línaðist,
ok svo hátt ok heitt
í himin kalla,
unz þar andvörp mín
fengju áheyrslu.
En at beita bæn
í bifunar von
ígegn ráðstöfun
rígskorðaðri
eylífs Alföðurs,
sem engi kraptr
getr hót haggat,
er svo hjálparlaust,
sem varpan anða
móti vo-stormi;
Sú er ótalföld
aptrrekin
hverfr heim á hann,
sem henni blès;
hèrfyrir háu
Herrans boði
ek mik auðmjúkr
undirkasta.
Þó er mein þat, mik
sem mest sturlar,
at eg færist fjærr
hans fögru sjón
hèðan hrakinn,
ok háblessuðu
hans mik sviptan sè
(þat særir mik)
guðdóms augliti
gjörsamliga.
Hèr gætak heimsókt
helga staði
alla með offri
auðmjúks heiðrs,
þá er hefir hann
háleitrar virðt
sinnar nálægðar
sýniliga,
við mín þá mættak
svo mæla börn:
„„Hèr birtist hann mèr
á hæð þessi,
undir aski þeim
hann augljóss stóð,
hans ek heyrða raust
hèr ámeðal
grenitrjánna glöggt,
guðdómliga:
hjá vatnslynd þessi
ek við hann rædda.""
Þá skyldi ek þar,
honum þakklátr
strax láta standa
í stað hverjum
honum til heiðrs
hátt altari
af fagrgrænum
foldar hnausum.
Ek skylda öllum
álits fögrum
uppaf straumbifi
steinum safna,
ok hèraf hlaða
háa vörðu
at minnismerki
fyri manna kyn

ævaranda á
öldum seinni.

Hèrá heilagar
honum skyldu
fórnir færast af
feitri kvoðu,
sú er ylmaði
sem allrabezt,
ok af ávöxtum
útvöldustu,
blómstrum, sem blèsu
frá sèr balsami.

En hvernig hinum
í heimi lægra
hans má öðlast ek
opinberun?
ok hve má auðnast,
þess ens Eylífa
fótspor mèr
at finna þaðra?

Því þótt ek rinni,
er hann reiðan sá,
felmtrsfullr
fyrir honum,
þá samt, með því mik
til meira lífs
endrheimti hann,
ok hèt mèr sæði,
er mer nú unan,
enn yzta fald
ef lít hans ljóma,
ok langt í burtu
tilbið fótspor hans,
er fæ þau sèt."

Var með viðmóti
vinsamligu
honum hèrtil gegnt
af höfuðengli:
„veiztu vel, Adam!
at í valdi Guðs
himin heill
ok hauðr eru,
en ei Edens hæð
at eins þessi.

Enginn er staðr,
þar hann ekki sè,
hann, sem lopt ok lög
ok láð fyllir,
ok allt, hvat í þeim
hefir anda lífs,
sá því sínum með
síverkanda,
frjófgun, fjör ok il,
færir krapti.

Þèr til eignar
ok yfirráða
gefit hefir hann
þessa heila jörð,
svo lángt, sem tilná
takmörk hennar,
var þar víst ekki
við at taka
lítilmótligri
nè lakri gjöf.

Þenk ekki því,
at í þraungri sik
hann at eins Eden
innilyki,
nè innan porta
Paradísar,
svo hann eins ekki
allstaðar sè.

Hèr máske hefði
höfuðstaðr
ok aðal atsetr
æ verit þitt,
hvaðan hauðrs sik
um heilt veldi
allar ættkvíslir
útbreidt hefðu;

Ok híngat heimsókt
hvervetna þik
jarðar öllum af
endimörkum,
til at heilsa þèr
ok hylla þik,
æðstan frumföður
ok forseta,
með lítilæti
lotníngar-fullu.

Þessum hefir þú

með þinni synd
fyrifarit
fremdar sóma;
því hlýtr þú,
með þínum sonum
niðrlægðr nú
í náttúru,
lægra liggjandi
lönd at byggja.
Efa þó ekki,
at eins sem hèr,
Drottinn í djúpum
dölum búi;
eins á flatri fold,
ok fjalli þessu,
sinnar setr hann
í sèrhvern stað
of allt viðveru
votta ljósa.
Fylgja þessir þèr,
hvar sem þú dvelr,
ok með hans mildi,
við mund sèr þik
ok fastri föðurást
framleiðandi,
guðdómligt auglit
ok gángstig hans
þèr einnig þeir
munu þar sýna.
Þú svo því heldr
þessu trúir,
ok hljótir huggun,
áðr hèðan ferr,
þá vit, at Vísir
voldugr himins
sjálfr sendi mik,
til at segja þèr
þat, er þik við
ok þína niðja
fyrirhugat er,
at framkomi.
En brynja brjóst þitt,
ok bú þik undir
góðs at verða varr
ok vonds saman,
sterkrar styrjaldar,
er stríðast á,
himnesk góðgirni
Guðs at ofan,
ok nýdd náttúra,
hèr niðri, manns.
Þú skalt af þessu
þolinmæði
sanna venjast við,
ok þèr vel temja
með hrygð ok hræðslu
hreinskila geðs
við hóf at halda
hugar kæti,
ok bera böls,
sem blíðrar lukku,
hvorutveggja hag
hóglyndr eins.
Þú munt þína
með þeim hætti
óhultast æfi
á enda rekja,
ok svo bezt búast
undir banadag,
hvenær sem hann
at höndum kemr.
Far nú, ok feta
uppá fjall þetta,
Eva mun ámeðan
mjök vært sofa,
hefir ek henni
svo hvarma lukt;
vakinn skaltu víss
þess, er verða mun,
svo sem áðr
varstu sofandi,
meðan myndaðist
þèr mær af síðu."
Þá gaf með þeli
þakklætisfullu
Adam engli svar
aptr, þannig:
„farðu þá fyrir,
ferli þínum,
trausti leiðtogi!

tregðulauss mun
ek ok öruggr
eptir fylgja.
Fylgja skal ek fúss
Föður-hendi
ens milda himins,
þó mik tipti,
ok breiða brjóst mitt
við böli hverju,
færa hjarta mitt
í herbúnað,
svo með sárri raun
sigr öðlist,
ok æskta ró
meðr erfiði,
svoframt fyri þat
er fáanlig."
Gengu báðir svo
til guðligra,
ásamt uppá hæð,
undrsjóna,
er var í Eden
af öllum hærst;
svo var þar víðsýnt,
at viðblasti
heil helft önnur
hauðr-knattar
útá yztu mörk
alla vegu.
Hvorki var hærra,
nè heldr lèt
víðarr verða sèt
um váng jarðar
fjall þat, er flutti
Freistir svartr
vorn annann Adam
uppá forðum
annars erendi,
þar hann öll sýndi
veraldar veldi
ok vegsemd þeirra.
Hèr horfði Adam
af hæð þessi
yfir öll lönd
ok álfur jarðar,
hvar nokkur nafnfræg
at nýu ok fornu
á bygðu bóli
hefir borg risit,
merkiligustu
mektarsæti
stærstu stjórnenda
hèr á storð vorri.
Fra Cambúls múrum,
þar er Can hefir
Cathaí veldis
konúngstól sinn,
ok frá Samarchand
við Oxusfljót,
Timurs tróni
tignarríkum,
allt at Peking,
sem er prýðis hof
keisarans
í Chínaveldi.
Þá aptr þaðan
at þjóðlöndum
ens mikla Mógols,
þar meginborgir
eru orðlagðar
Agra ok Lahor.
Hèðan sprogar hann
um hálfeyju
Chèrsónesum,
kenda við gull,
ok þar sem auðgir
í Ecbatana
eðr Hispahan,
höfuðborgum,
sátu síðarmeirr
sjólar Persa;
Ok þar í Moskóv,
mektar sæti,
ræðr ríkjum
rússiskr Zar,
svo ok þar seggjum
Soldán stýrir,
mögr Túrkestans,
í Miklagarði.
Eigi var óljós

fyrir Adams sjón
Negus folda fjöld
enna firnstu
allt til Ercócó
yztu hafnar
ægir við, sem þær
umgirðir;
þá þarmeð ríki
þau en smærri,
er sik útbreiða
at unnar ströndum,
Mombasa, Kvíló
ok Melinda,
svo ok Sóphala,
sama ok Ophír
menn sem meint hafa
mundi vera.
Einneginn Congó
ok Angóla
leit hann hvar lágu
lengst í suðr,
þá enn framarr frá
fljóti Níger
at Atlas fjalli
enu ísþakta.
Allar Almansórs
endimerkr,
Fetz ok Svetz,
ok þá framvegis
Tremíris, Algíer
ok Trapezúnt,
meðr Maroccó,
mektug ríki.
Síðan sveimaði
sjón hans þaðan
nærsta lángt
til Norðrálfu,
þar en ríka Róm
rindar elju
ákvörðuð var
til yfirráða,
Einnig í anda
hefir Adam sèt
máske Mexíkó
Montezúmas
meðal svo margra
mektarlanda,
ok öðlíngs atsetr
Atabalíbas,
Cúscó í Perú
kostuligra.
Glíkt sem Guíanam,
áðr grægði ráns
hafði hana svipt
háum blóma,
hverrar höfuðborg
en helzta at frægð
örfum Gerýons
Eldóraðó
hraustum af
heitin mundi.
Til at taka við
tignari sjónum
Adams augum frá
óskírum dróg
Michael mikli
þá meinhímnu,
sem fèkk sveipat með
sjáaldr þeirra
tafn ens tálfulla
très ávaxtar,
þat er þó áðr
hafði þeim heitit
sviksamliga
sjónskerpíngu.
Hann einnig hèrnærst
heilnæmri með
augnafróar urt
Adams hreinsar
sjónar sínar,
þvíat sannliga
helzt til margs mundi
fyri mann at sjá;
líka lèt hann
af lífs uppsprettu
þremr dropum
þaryfir hellt.
Hèraf himneskr
hulinn kraptr
lengst inn hjá Adam,

í atsetr
sálar sjónar hans,
sèr nú þreyngdi,
ok svo djúpt dreifðist,
at í dá fallinn
hlaut, sem hamnuminn,
hvarma at lykja.
En jafnsnart engill
ástúðligr
viðrhresti hann,
ok hrausta mund
sína rètti rekk,
reisti á fætr,
ok til atgæzlu
athugasamrar . .
hárra sjóna
hann svo vakti.
„Haf opin, Adam!
augu þín nú,
skaltu fyrst skoða,
hversu skelfilig
verkan sýnir sik
af synd þinni,
þó hjá ýmsum þeim
þinna niðja,
sem af bjarkar bergt
ennar bönnuðu
eplum, eins ok þú,
aldrei hafa;
Eigi mál nè mök
við móinn haft,
nè gjört seka sik
með synd þinni,
en þó erft hennar
ei at síðr
skaðvæna skemd,
er svo skjótliga
illverk enn stærri
af sèr fæðir."
Nú upplauk Adam
ennisljórum,
sá hann undir eins
opnaða mörk,
sú er sáðland var
at sumu leiti,
blómlig bindeni
voru búin þar
næsta nýliga
nú uppskorin.
Hin var helftin
hagbeitar land,
hulit hvervetna
hjörðum sauða,
en miðt ámilli
var, sem merkja-steinn,
sett eitt sveitarligt
svarðaltari,
at utan þakit
allt með rósum.
Þar at sá hann svo
í sama bili
kófsveittan koma
kornyrkjumann,
frumgróða frambarr
hann af fold sinni,
ófullsprottin öx,
ekki valin,
enn nú græn ok grönn
á gulum hálmi,
slík, sem fyrst fíngrum
urðu fyrir hans.
Hèrnærst hirðir einn
hugklökkvari
frambarr fjárlamb sitt
hit feitasta,
Alföður valit
í offrgjörð;
dýru reykelsi
var dreift yfir,
mör ok innifli
ok meiðr klofinn
undirlagðr
fyrir eldsneyti;
gætt var ok allra
offrsiða.
Laust þarí ljúfum
loga af himni,
en hann uppbrendi
alla þá fórn,
steig þar ylmr af
yfrit sætr;
en fórn ens fyrra

varð fyrilitin,
af því ófróm var
ok ekki hrein.
Hann gjörðist hèrvið
af heipt óðr;
síðan þegar þeir,
at þessu búnu,
tölnðu tveir samt
trúnaðarmál,
voFeifliga þessi
varpaði miklum
morðstein' í
mannsins síðu,
svo hann bráðan beið
bana af höggi.
Hann fèll helbleikr
á hauðr strax,
ok með umbrotum
ógnarligum
í stað útstundi
stríðandi sál,
streymdi banablóð
úr ben sárri.
Ogn ok ofboð
við ofsjón þessa
fèll á föðnr vorn,
svo hann frá sèr varð,
ok með hrærðum hng
hastarliga
hrópaði svo
til höfuðengils:
„Æ, hvílík óheill
yfirfèll hèr,
himins lofligi
lærifaðir!
rekk enn ráðvanda
ok rèttsinnaða,
sem Guði greiddi
geðþekka fórn!
er þá umbun slík,
þat er uppskera
göfgir geðsmunir
af guðrækni?"
Miklast Michael,
svo hann mjök komst við,
eins sem Adam
innst í brjósti
af sýn sorgligri,
ok gaf svar þannig:
„Báðir þessir
eru bræðr tveir,
ó, þú, Adam!
þeir er' afspretta,
áðr lángt líðr,
lendum þínum,
en ránglát reiði
rèttlátan mann
deyðir dólgs þess,
er drýgði vonzku.
Svellr honum svo
svart í brjósti
öfundar eitr
fyrir offrs skuld,
þess er þegit var
þóknanligarr,
enn hans eginn
ílls hugar fórn.
En hefnd er huguð
heiptar morði,
líka sem lofsverð
ens liðna trú,
hjá Guði geðþekk
ok gyld metin,
mun ekki missa
mætra launa;
þótt þú hafir hann
hèr umveltan
í dupti ok dreira
deyjanda sèt."
Fann nú svar fyrsti
faðir manna:
„viðbjóðsligt er verk
ok vondt tilefni!
en hvort hefir ek nú
hèr sèt dauða?
verðr vegr sá,
er ek venda skal
í duptit aptr,
uppruna minn,
eptir úrskurði
á mik lögðum,
sami, sem þessi,

sárr ok ljótr?
O, hughrellandi
hræðilig sýn!
ógnarligt ofboð
á at líta!
hörmúng hryllilig
at hugsa til!
feykn at finna til
framarr öllu!
ó, hvílík ósköp
þá at útstanda!"
Mælti Michael
mildiliga:
„sinni ásýnd í
at eins fyrstu
hefir þú hèr sèt
hel á manni;
en mjök svo margar
eru myndir þess
ok vegir (vit þat!),
sem viðbjóðsligu
dauðans gingapi
munu gengnir at
finnast fjölbreyttir
furðanliga.
Allir eru þeir
ógrligir,
þó skelfiligri
fyri skilnínginn
atgángs útvortis,
enn innantil,
því dyr dauðans
eru dimmastar.
Sem þú sèt hefir
mun sumra líf
dauðinn áæða
meðr ofbeldi,
elds ofrmegni,
ærslum vatna,
ok sárum sulti,
en þó samt fleiri
meðr matar nautn
ok megns drykkjar,
hvar sem hvort um sik
er haft um of.
Af því útbreiðast
illar sóttir,
kaldir kvillar
ok kránkdæmi
hryllilig ok hörð,
yfir hauðr allt;
ok svo vel vitir,
hve verkat hefir
mikla mönnum eymd
misgjörð Evu,
skal þèr nú skari
skelfiligr
fyri sjón setjast
af sjúkdómum."
Strax sá hann stað,
sem var stuggr at,
dimman ok dapran
ok daunillan,
spilling var þar ein,
sem í spítala;
sást þar af sjúkum
sægr mikill,
allskonar eymdir
voru inni þar.
☞ Sina samdrættir
enir sárustu
ok teygjur, pína
tilfinningar,
hræðsla, hjartaþraung
ok hálfvisnan,
slag ok limalát
ok liðaveiki;
Gjörvöll köldukyn,
kæfandi flóð,
steins ok nýrna neyð,
niðrfallssótt,
iðraverkir
ok íll kýli,
vitlaust vargæði,
sem villt geysar;
Ráðlaus mánamein
ok megrusótt,
svartagalls sýki,
sinnuleysi,
bjúgr ok vatnsótt,

brjósterfiði,
tak ok rifja-raun,
rotnunarsótt,
ok drepsótt döpur,
sem drótt eyðir.
Var þar viðbjóðsligt
vein ok pína,
þreyngdust út með þrant
þúngar stunur;
aumust örvýlnan
fyrir önn sjúkra
frá kör til karar
með kappi rann.
Sínum sveiflaði
sigrglaðr
dauðinn dör
yfir dýngjum þeirra,
þó dróg hann dvöl á,
at deyða þá
með hörðum helstíng,
sakir harðýðgis;
Hvernig sem hètu
þeir á hann til þess,
einka hjálp ok hægð
ok hinnstu von,
með bæn brennandi;
ok beiskum gráti,
ó, hvílíkt hjarta
af hörðum kletti,
þat er þolat gat,
þurrum augum
á at horfa
þessa aumu sýn!
En nú gat Adam
ekki lengr,
svo var bugat brjóst,
bundizt tára,
hann grèt hástöfum,
þó af holdi vífs
eigi, sem aðrir,
alinn væri.
Vann þar viðkvæmni
vorkunsöm mjök
karlmannligan á
krapt í brjósti,
ok lèt hann lengi
löðra tárum,
unz straum þann stillti
önnur sterkari
umhugsan
ok yfirvegan.
Er hann allrafyrst
gat orð talat,
bráðnaði í brjósti
brennanda hjarta
í hug hrærandi
harmaklögun,
sem brast brimi lík
af brunni máls:
„O, þú aumt mannkyn!
ölmusu þjóð!
hve þú hrunin ert
hraparliga!
hve nú nýdd orðin
ok niðrlægð!
hvílíkrar varðveitt
til vesældar,
ok undir ástand
aumkunar verðt!
O, hversu betra
væri yðr, menn!
ófæddum hèr
aldrei koma,
var oss vegna þess
veitt at lifa,
at lífit af oss
skyldi aptr pínt?
var ekki því svo
þreyngt með valdi
uppá oss
óumbeðnu?
Vissu menn hvat var,
þat er veittist þeim?
hverr er, sá ekki
hefði annathvort
aldrei orðlof lífs
undirgengit,
eða fljótt fengit
af forlögum
með tárgum bænum

þat at taka burt,
ok hrósat happi,
svo án hörmúnga
at fá í friði
fararleyfi?
Hvort má á manni
mynd Alföðurs,
áðr svo algjör
ok yfrit skær,
nú þótt nærsta skemd,
niðrlægjast
undir eymdir
svo ógnarligar,
ok miklu stærri mein,
enn mönnum hæf,
þau ekkert auga stendst
á at horfa?
Ætti þó ekki,
þaret enn heldr
maðr af mynd Guðs
menjum nokkrum,
hann at hjásleppa
hólpinn slíkri
afskræmis andstygð,
svo hann atnyti
lèntrar líkíngar
við Lávarð sinn?"
„Þeir mistu mynd þá,"
Michael kvað,
„er þeir sjálfa sik
svo mjök lægðu,
gálausra girnda
at gjörast þý,
ok lasta líkíng
lagna dýrum
egin voldum af
á sik tóku,
er varð Evu mest
agn til glæps.
Því eru þeir nú
þessu straffi
undirokaðir
auðvirðiligu,
getr þat ei gjört
Guðs bílæti
nokkrt niðrdrep,
þvíat nú er brott;
Svip þeirra sjálfra
svívirðir þat,
eðr, er þat mynd
ens Almáttuga,
þá er hún afskræmd
af þeim sjálfum,
er þeir svo illa
hafa umsnúit
nærsta heilnæmum
náttúru lögum
í svo viðbjóðslig
vanheilindi.
Reynist þeim því rètt
refsíng goldin
þessi, sem þú sèr
á þeim liggja,
með því mynd Guðs
eigi meirr virðtu
þeir á sjálfum sèr,
meðan sú var lènt."
„Ek gef mik upp,"
segir Adam þá,
„því ek rètt finn rök
ræðu þinnar;
en, er þá enginn
fyrir utan þá
skæðu, skerandi
ok skelfiligu,
er nú auglýsast,
annar vegr
at dauðans dyrum,
ok at duptínu,
upphafs efni
allra manna?"
„Er hann víst," anzar
engill honum;
„ef þú rækir rètt
reglu þessa:
ekki ofmikit!
í öllum sið,
ok hefir hófsemd
fyrir handleiðir
í maga mettum

á mat ok drykk.
Nauðsýnlig næríng
ef í nautn þinni,
en ekkert óhóf,
nè ofsæl lyst,
er at eins þat,
þú eptirsækir,
unz mjök mikilli
mergð af árum
hefir hlaðit
yfir höfuð þèr;
þá mun þik eigi
þrjóta mega
dug nè daga,
unz þú dettr af,
svo sem sjálfkrafa,
á seinum tíma,
eins ok ávöxtr
alþroska, frjórr,
í mjúkt moldarskaut
móður þinnar.
Þá mun þèr einnig
þroskuðum nóg,
til at takast burt
á tíma rèttum,
hægt hèðan reittum
verða heimsafnat,
en harðri hendi
eigi hrifinn frá
þjóstugliga þú
þínum stofni,
hèr er há elli
með heill stofnuð.
Þó hlýtr þú samt
þá at lifa
af þèr allan burt
æskublóma,
fegurð ok frækleik
ok enn fyrra styrk;
visinn verðr þú
ok vanburða,
hylja höfuð þitt
hærur gráar.
Skerðist skarpleikr
skilníngarvita,
slök ok sljó orðin
þau sleppa nú
gamans geðþekkni
ok glaðværð allri.
Fyri fjörug svif
fimrar æsku,
svo skemtiliga
sem nú skygnast um,
full af fagri von
ok fögnuði,
drottnandi dampa
þèr í dofnat blóð
þú af þúnglyndi
þánkafullu
komna kenna munt
með kulda ok þurk.
Þrykkja munu þau
hjá þèr niðr
á lok líðandi
lífs þíns öndum,
ok svo um síðir
þínu svasliga
frá þèr farga
fjörs balsami."
Nú mælti mikill
manna faðir:
„hvorki vil ek hel
hèðan ífrá
flýja nè fía,
eða fyrirhöfn
mæðusamri með
mitt líf spara.
Hitt skal mèr heldr
vera hugleikit,
ok kapps um kostat,
at komast frá
sem bezt böllfullri
byrði þeirri,
sem mèr ádæmt er
undir at þjást.
Unz mèr upprennr
andláts dagr,
þess ek þreyjandi
með þolgæði
ok hranstum hug

hyggst at bíða."
En gaf Mickael
hans máli svar:
„Un eigi, Adam!
ofmjök lífi,
haf þat at hatri
hálfu síðr;
lát at eins líf þat,
er lifir þú,
vera vel lifat,
veit því gætni.
Gef í Guðs vald
þat, hann gjöra vill,
hvort, þèr dæma dvöl
daga marga,
eða skamman skamt
at skapadægri;
en bú nú augun
fyrir aðra sjón."
Upp leit Adam,
ok opna·slèttu
tjöldum setta sá[10]
sundrleitum,
margvísliga
voru mislit þau,
birtist húsmali
á beit hjá sumum;
Heyrðist frá hinum
hljóðfæra saungr,
gullu gullhörpur,
glumdu trumbur
lagliga stilltar
ok lètu vel;
einnig únglíngr
íþrótt tamr,
sást með list lífga
læti þeirra,
sá er fimum fór
fíngrum strengi,
liprt lágt ok hátt,
svo sem lagit gekk.
Hagr halr einn
á hina síðu
stórum starfsveittr
stóð við smíðar,
stykki hafði hann
við hönd sèr brædd
allmikil tvö,
af eiri ok járni.
Annathvort áhitt
einhversstaðar,
hvar af hendíngu
hafði logi
fargat á fjalli
fagrlima,
eðr í dölum,
svo æðar fróns
hefir sèr í sökkt
söknm þýngdar;
Eða kannske þat
at kælanda
hafi heitt runnit
hellismynni
ærit djúpt
undir sandi,
eðr árstraumr
uppfrá botni
ske má líka
hafi skolat því.
Svo lèt smiðrinn
sundrbræddum
málmi hellt í mót,
sem myndat hafði;
hann gjörði hèraf
hæfilig tól
handa sjálfum sèr,
seggja fyrstr;
Einnig ýmisligt
annat smíði
mentartamri mund
af málmi gjört
með steðja ok hamri
eða steipníngu,
hvert um sik samit
á sinn máta.
En komu aðrir

[10]) þetta voru tjalbúðir Kaíns afkomenda; hjarðirnar voru Jabals, hljóðfærin, Júbals: smiðrinn, Túbalkain.

eptir þá fram,
þó á hina hlið
hugvitsmanni,
af fjöllum ofan,
allnærri þar,
hvar þeir hèldu sik:
á hanðrit slètta.
Eptir ásynd
ok atferð þeirra
virðtist, mætir menn
sem mundu þeir,
gjarna gefnir
fyri Guðs dýrkun,
ok voldug verk hans
vel at þekkja,
er hann óduliu
fyrir oss lætr,
einnig allt þat,
sem efla knátti
frið ok farsæld
meðal firða kyns.
Er þeir umgengist
ekki lengi
höfðu hèr
á hermdri slèttu,
skundaði skari
af skrautligum frúm
til þeirra at tjöldum
tígugligr,
glóandi af gulli
ok af gimsteinum.
Lystugt lèku þær
ljóð á hörpur,
fögr, fángandi,
sem með fjölkýngi,
svaslig ástarorð,
áheyrilig,
dilludu svo drósir
ok dönsuðu.
Sáu seggir
enir sögðu þat,
ok svo siðprúðir
sem þeir voru,
allir röksemd ein
ok alvara,
unntu þeir augum
eptirlætis,
með fullu frelsi
at fljúga umkríng.
Unz þeir sjálfa sik
sáu fángna
ástar möskvum í
ófyrisynju;
valdi hverr sèr víf,
sem vel leizt á,
tölnðu þau tvö samt
í trúnaði,
unz í vestrátt
ástar stjarna
með skæru skini
skundaði fram.
Hjá þeim alelda
fyrir óðri lofn
voru brúðarblis
bráðt á lopti,
heitit var á Hýmen,
hjónabands goð,
þá fyrst göfgaðan
við giptíngar;
fyri gleðiglaum
ok gestaboðum
titraði tjald hvert,
ok *tók undir*.
Svo mörg samkvæmi
sællig ok glöð,
svo mjúk ástar önn
hjá æsku hraustri,
hárr sanngva hljómr,
höfuð kransar
brugðnir af blómstrum
ok brúðar spil,
með hughverfínga
hörpuslætti
fengu fast á sinn'
ens fyrsta manns.
Var, sem hann varla
við sik rèði
fyri fögnuði,
ok til fulls vildi
allr uppgefast

unun slíkri;
af því útjós hann
fyrir engli svo,
heitr í huga,
hjarta sínu:
„Heyr þú, hásæli
himins fursti!
sem mèr í sannleik
sjónir opnar:
ó, hvat allar slík
ánægju mèr
yndis auðig
opinberan!
Miklu meiri von
er mèr gefin
í sjón þessari
enni síðurstu
um frið ok farsæld,
enn í fyrri tveim,
sem þú sýndir mèr
um seinni tíma.
I þeim var ekkert
annat at sjá,
enn hel ok hatr
ok harðkvæli,
sútir sárari
sjálfum dauða,
hèr er, sem hafi
fyri heyrn ok sjón
fullnáð náttúran
nægju sinni."
Mælti Michael:
„met ei gæði,
hvat sè mest ok bezt,
eptir munaði,
þóat þèr finnist,
sem þau eigi
vel við náttúru
ok vegsmark hennar.
Þat Guði gekk til,
er hann gjörði þik
glíkan mynd sinni
guðdómligri,
helgan ok hreinan,
var hærra miklu
augnamið,
enn augna gaman.
Teitar tjaldbúðir,
er tilsýndar
skapa þèr skemtun
skilníngarvita,
ljótra lasta
eru lystihús;
egu hèr inni
afkomendr
hals ens heiptuga,
sem hlíra vóg.
Stóran starfa þeir
ok stund leggja
íþróttir á,
til at uppgötva
þær, er lífi ljá
lystisemi,
ok gjöra glæsiligt
guma ráð.
Margt áðr ósèt
upphugsa þeir,
án þess Alföður
á at minnast;
en þótt andi hans
uppfræði þá,
þekkja þeir aldrei
þat at vera
gefna gáfu þeim
af Guðs hendi.
Þó mun fagrt fólk
frá þeim koma;
sástu fljóða flokk
furðu skæran,
guðum glíkra,
þau er glepja sinn'
blíð ok blikandi
í björtu skrúði.
Örsnauð eru þau
alls ens góða,
sem er sómi vífs,
ok sannarligu
húsfreyju hrósi
á at halda á lopt,
at eins vanin við

vellystíngar.
Kæn sèr við karlmann
at koma vel,
dugligar drósir
at danza ok sýngja,
egin ásýndar
útflúrendr,
túngu trítlendr
tölugar nóg,
ok útförnustu
augna skyttur.
Þessi gumagrein
göfuglyndari,
sú er sona Guðs
sèr með dygðum
ágætt ærunafn
útvegat fèkk,
verðuga virðíng
verka frómra
lítilmannliga
mun láta burt,
gefna guðlausum
ginníngar konum
við töfra táli,
sem tryllir þá.
Svo sveima nú
í sæld ok gleði
enir sömu, sem
at sveima ofrúmt,
ok þat innan skamms
eru dæmðir;
hlæjandi hlakka þeir
með hljómi nú,
en mun úthella
yfir þeim hlátri
veröld veinandi
vatnstraum tára."
Skammri frumfaðir
firrtr gleði
aptr engli
anzar þannig:
„ó, þá geymd ok skömm
yfirmáta,
at skuli skatnar,
fyri skemstu þó
reyndir rækendr
rèttláts vegar,
skipta skapi svo
at skyndíngu;
At þeir falli frá
ferli dygða,
en ljótri lasta
sik ljái braut,
eðr óþolnir
láti uppgefast
á leið lofsverðri,
ok liggi fallnir.
En ek sèr allvel,
at óheill manns
hefir hvervetna
hlaup it sama,
sem í öndverðu,
ok upptök sín,
kviknar hún ok kemr
af kvenmanni."
„Kviknar hún ok kemr
af kvenligri,"
mælti Michael,
„manns hugdeigju;
meiri gáfum með
ok mannviti,
sem þeim bitt voru,
honum byrjaði,
at rækja rètt sinn
röksamligarr;
en bú þik út nú
fyrir aðra sjón."
Brá Adam bráðt upp
brúna ljósum,
ok váng víðlendan
viðblasa sá,
breið þorp ok bæir,
þar bygð voru;
sterkar stórborgir
stóðu ímilli,
fullar af fólki
með forhá port;
ok turna toppa
tígugliga.
Hèr skein á höldum

hildar skrúði,
út gusu af ásynd
ögranir stríðs;
réðust risar þeir
at raun ok vexti,
djarfir, dugrammir,
í dælsku marga.
Sveifluðu sumir
sverðum björtum,
aðrir undu við
ýmsa vega
freiðandi fákum
ok fjölmóðgum,
ýmist í flokkum,
eðr einir sèr;
verklaust vopnaspil
þat var ekki.
Flakkaði frækinn
flokkr annar
heiðar ok haga,
ok hjarðir rak
býsna miklar burt
af búsmala,
þrístnum þjóneytum
ok þarfakúm,
eðr ullklæddum
urmul sauða.
Skirrar urðu ær,
sem eltu þeir,
með mjök emjandi
mjólkrlömbum;
ráku þeir rán sitt
yfir reit slèttan;
en verðir varla,
sem þat vöktuðu,
um hjálp hrópandi,
hel umflúðu.
Blóðgra bardaga
varð bygðin full,
riðust raðir á
reiðra garpa;
engi, sem áðr
voru óttalaus,
hagar fjárfullir
fyri skemstu,
þöktust nú með ná
ok niðlags vopnum
alblóðug, umhverfð,
bæði auð ok snauð.
Aðrir umkríngdu
öfluga borg
hraustum herskildi
ok harðt á stríddu
stigum, vígvèlum,
ok valslaungum,
ok gjörðum gröfum,
grimdarfullir.
Hinir innanat
ofanaf múrum
veittu viðtöku,
ok vörðu sik
skörpum skeytum með
ok skotvopnum,
grjóti, bálblossa
ok brennusteini;
hræðiligt var blóðbað
ok bragna fall,
höfðust hvorir at
herverk trölla.
Sumstaðar sáust
sendiboðar
færa friðarorð
milli fjandmanna;
sína vevígða
báru völu þeir,
hárri heimtandi
á hliðum borgar
rekka saman raust
á ráðstefnu.
Reyndir ok ráðnir
röksemdarmenn,
höfuð hærugrá
ok hervön æska,
grá fyri geirum,
gengu saman,
risu mælskumenn
ok margt ræddu.
En þulur þeirra
urðu þverstýfðar,
ok eins endaslepp

varð eining þings;
tókst þar tvídrægni,
svo tvístraðist
í fylgisflokka
firða múgr.
Reis upp ráðsvinnr
ok röggsamligr
miðaldra maðr
meðal þeirra;
hann lèt hafit tal
ok harðla margt
rædt um rángendi
ok um rèttendi,
sannleik ítrau um
ok ótta Guðs,
frið ok Drottins dóm
ok dýrðar komu.
Ungir ok aldnir
spjöðu ærumann,
ok börðum hefðu
höndum gripit,
nema skært ský
sèr í skyndíngu
himni frá á fold
hefði fleygt niðr,
ok úr þessa þraung
hann þrifit burt.
Ovægt ofríki
fèkk yfirhönd,
knásækin kúgan
ok knefarèttr;
hvergi fannst hæli
til at hænast at
undan órètti
um alla slèttu.
Adam allr í
ekka-tárum
löðrandi leit
til síns leiðtoga,
ok heitar hermdi
harmatölur,
svo segjandi
með særðum huga:
„Hvílík morðmein
eru menn þessir,
megnir morðs þjónar,
en menn ekki!
er svo mjök móti
mannligu hæfi
gefa dauðans grimd
í greipar menn,
ok móti einum
ógjörníngi
hans, sem hlýra sinn
í helju dróg,
tíu þúsund þeir
gjöra þeim verri.
Hverir helzt eru
þeir hèr vinna,
ok á hverjum helzt
heiptar víg slík,
nema bræðr á
bræðrum sínum,
ok menn manna
eru morðíngjar?
En seg mèr, hverr sá var
enn siðgóði
mætamaðr,
sem án miskunar
heiptugum hefði
höndum orðit
fyri rèttlátt ráð
ræntr fjöri,
nema veitt væri
Guðs voldug hlífð."
„Hèr sèr þú (hermdi
höfuðengill)
ávöxtu illa,
þá er afspretta
hjóna samhlaupi,
sem hefir sèt
svo samanbundnu
svívirðiliga,
er góðir gengu
at giptast vondum;
Sem sjálfir hatast
sín ámilli;
en þegar eru
svo með óráði
í samlag settir

ok sængrmök,
verða viðundr,
ok vond skrýmsli
eins at önd ok ham
af þeim getin.
Þeir voru þussar
þjóðræmdir menn,
þvíat þróttr einn
mun á þeim tíma
haldr verða helzt
í hávegnm,
ok heitinn hreysti,
hetjumóðr,
mesti mannkostr
ok megindygð.
At sjá með sigri
sínar margra
makaðar mundír
manna blóði,
þjóðir þjakaðar
þúngu fargi
ok manra mergð
eptir morð framin,
handráns herfáng,
heim at flytja,
telja munu menn
ena mestu sæmd,
alls heiðrs heiðr
á hauðri þessu.
Þetta munu þeir
fyri þef sætan
af veifun vinna
viðhafnarfulls,
en fánýts, frama
í frægðar hrósi
ok strembin stoltar nöfn,
stærst í hvopti.
At heita hraustir
hernemendr,
virða kynsverndar-
ok velgjörða-menn,
regin ódauðlig,
ragna synir;
þarsem þeir ættu
þó með rètti,
drótta drepsóttir,
deyðendr fólks,
ok heims eyðendr,
at ávarpast.
Þannig munu menn
fá mikit nafn
ok frægð á foldu
fyrir ekki;
en hvat mest mætti,
eptir makligleik,
hvervetna hefjast
heiðrs rómi,
mun glatast, grafit
í gleymsku sæ.
En, hvat áhrærir
eptirspurðan,
sem þú sást frá þèr
sjöunda mann [11],
sá einn rètt rækti,
ráð ok gjörðir
í vondri veröld
sínar vandandi.
Hvarfyrir hann barr
hatr allra,
ok af óvinum
umkríngdr varð,
er hann aleinn svo
á at gánga
dáðríkum dyrfðist
dygða vegi.
Ok at segja sæg
sannendi þau,
er þeim svo ærit
óþekk voru,
at enn Eylífi
ofanstíga
sínum mundi með
margra þúsunda
af hirð himneskri
helgum sköruum,
í dýrð dásamri
til at dæma þá.
Þá hefir honum

[11]) Enoch 7di frá Adam, Júd. pist. 14.

til himins upp
frá bófum burtrykkt
í balsams skýi
fleygum fákum með
Faðir eylífr,
at hann með honum
heilögum í
ok sælum sölum
sífeldt búi,
frjáls ok frígefinn
frá at deyja.
Uppá þat, Adam!
þèr augljóst sè,
hvílík ætluð er
umbun góðum,
hve römm ránglátum
er refsíng viss;
lít upp! þetta þèr
mun þá vottat."
Adam leit þá upp,
ok umbreytt sá
aldar athæfi
allt í skyndi;
ekki heyrðist öskr
úr orrostu
ólmri koparkverk
nú koma meirr.
Þat var allt umhverft,
ok orðit þegar
at gamni, gleði
ok gjálífi,
hóflausum hófum
ok hátíðum,
dýrum drykkjum
ok dansi um of.
Gengu giptíngar
geyst úr hófi,
kvenna kreinkíngar
með kúgun framdar,
skikkju-nifta nám
ok nægð af hór,
öllu þær því eins
þegar umgengu;
þá kom þras ok kíf
þeirra ámilli,
breyttust bikarar
í barefli.
Uppreis öldúngr
ærnverðr
þarnærst einn
þeim ámóti,
ok lýsti leiða
fyri lýðs eyrum
geðsmuna sinna
á gjörðum hans;
ræddi með röksemd
ok rökkum huga
hann gegn glæpugum
gárunga vegi.
Í glöðum gildum
ok gestaboðum,
þar kátir kauðar
komu saman
hátíðarhalda
eðr hófa til,
fór hann marga ferð[12]
á fund þeirra;
Ok með orðræðum
opinberum
áminnti einarðt
til yfirbótar
syndugs framferðis
ena forhërðtu,
sálir sanndæmdar
sem áfallit
undir ógnarligt
eyðíngar tjón;
en allt hans umstáng
var til ónýtis.
Síðan, er hann sá
þeirra sigghjörtu
ekkert vikna við
vegna þrjózku,
lèt hann af lengr
at lýja sik,
ok fást forgefins

[12]) Þetta er byggt á 1 Pet. 3, 19. 20.

við fráleitt sinni,
svipti burt í svip
sínum tjöldum,
ok fór lánga leið
frá liði því.
Fèkk hann á fjalli
felda viðu,
borð ok bjálka,
ok nú byggja tók
örk stóra ok sterka;
at stikna tali
mjök var mátuð rètt
mæling hennar,
bæði breidd ok lengd,
ok botn ok ris,
brædd var öll byggíng
biki ok límí.
Voru á hlið hennar
harðlæstar dyr
ok traust timbraðar,
en tilfaung mikil
allskonar innflutt
í örk þessa
mundu matforða
fyri menn ok dýr.
En sjá nú undr
óvenjulig!
sèrhvat, sem er kvikt,
saman pörum,
ferfætt dýr, fuglar
ok foldskriðar,
sjö pör af sumum,
en sumum eitt,
auglýstist óðt,
ok í örk gengu
eptir ávísun
orðu stjórnar.
Inngekk hinn aldni
ærumaðr
sjálfr síðarst
með sonum þremr,
frúr þeirra fjórar
þar fylgdu með;
lèt svo örk aptr
enn Almáttugi.

Síðan reisti sik
af suðrátt
vindr voligr
á vængjum svörtum,
ok keirði knáum
kólgufull ský
með svaka saman
und sólar skeiði;
Ok til aukníngar
ákefð þeirra
sendu fjöll frá sèr
feykn af suddum,
ok þrauta þykkva
þokudampa;
hèkk nú himininn,
hræðilig sýn,
sem dökkr dúkr,
er detta mundi.
Streymdi stórföllum
niðr steypiregn,
unz jörð augum hvarf,
í unn sokkin;
skipit fór á flot
yfir flóð vatna,
rann þat róliga,
ok ristan lèt
bifstraum ok bárur
með bognum stafni.
Önnur inni
fóru öll í kaf
á heilu hauðri,
þar hold bygði,
drakk í sik dröfn
alla dýrð þeirra;
huldi lög lögr
án lands ok fjörn.
Hallir ok hof,
þar er höfðu ríkt
voldug vellystíng
at vörmu spori,
sátu sæskrýmsli,
ok sínum gutu
úngum inni þar
ófrýnligum.
Allt, hvat eptir var

ótöluligrar
mannkyns mergðar
undir Miðgarði,
var í örk einni
innilukt nú,
ok fór á floti
yfir flóðs öldur.
O, hvat sár svall þèr
sorg í brjósti,
aumr Adam!
þegar afdrif sást
kynþátta þinna
þessi en ægu,
afmáðar ættir
í einu svo.
Einnig þik yfir
við álit þess
vall upp voldugt flóð
veins ok tára,
þat er þèr, viðlíkt
ok þínum sonum,
nauðaskelfdum nú
niðrfleigði.
Unz þú, uppreistr
af engli, stóðst,
hagkvæmri hendi
hafinn á fætr,
heill á hófi,
en huggunarlauss,
sem einn syrgjandi
sona faðir,
sá er í einu
alla lítr
eyðast ætt sína
fyrir augum sèr;
kvaðstu mæðumál
við Michael:
"O, þú aum sýn!
betr aldrei sèn!
ó, hvat ek hefða
heppnari verit,
ef af ókomnu
ekkert vissi!
ek at eins hefði
minn eginn hlut
þá af þrautum
þurft at bera,
ok hvers dags hörmúng
verit herðum nóg.
En nú leggst á mik
allr í senn
ókomins aldrs
ofrþúngi,
allrsaman
á mik einnsaman,
ótímabærr,
þar ek áðr veit,
fæðist hann, sem fóstr
eigi fullburða.
Krenkir ok kvelr,
áðr kemr til,
huga minn
hann úr máta,
með því ek þenki
til þess jafnan,
at hann eflaust
á at koma.
Oski sèr engi
svo ílls hlutar,
sín egin örlög,
nè ættleggs síns,
at hann fyrifram
fái skynjat;
sá ekkert annat,
enn ólán sèr,
þat ei forðast fær,
þó fyriviti.
Hitt at eins heldr
hann mun finna,
at illt ókomit,
söknm ángistar,
ok kalds kvíðboga,
sem kvelr æ,
er engu síðr
erfið byrði,
enn þegar er þat
alkomit fram.
En slík áhyggja
til einkis kemr,
með því meirr á fold

er mángi til,
þann er vondu við
vara þurfi;
þvíat þeim fáu,
sem þar sluppu,
eflaust örvýlnan,
ángist, húngr,
fyrifara mun
í fáræði,
auðan vætuváng
nær villast um.
Vonligt virðtist mèr,
at vist mundi
hefjast til heilla
hagr jarðar,
þá er burt þaðan
væri þetta tvennt,
illar orrostur
ok ofríki.
Þá mundi þægr
þjóða friðr
krýna kyn manna
kjörum beztu,
lystiligrar
ok lángvinnrar
gleði ok gæfu
góðum dögum.
En hvat meiníng mín
hefir mik svikit!
því reynslan ræðir,
at ró ok friðr
engum mun minnr
gjöra manneyðu,
enn blóðgir bardagar
ok banaspjót.
Hvat skal hèrum sagt?
ok hvernig er,
góði vegvísir!
varit þessu?
seg mèr, ef sú skal,
er ek sèt hefi,
algjör endalykt
allra manna?"
Mælti Michael:
„manneskjur þær,
sem þú lifa leizt,
eigi lángt síðan,
í sæld siglaðar
ok sigrmekt,
allar umkríngdar
með auðæfum,
eru sömu, sem
þú sást aðr.
Hraustar hetjur þær
ok hugdjarfar,
mikilmenni
sakir mjök framdra
styrjar stórvirkja
við störf hildar,
en þó örsnauð
af itri dygð;
þá er hafa þeir
með þjósti ok grimd
miklum ausit út
unnum dreira,
eydt mörg auðug lönd,
undirlagt þjóðir,
ok sèr utvegat
yfirtaks frægð
með tillags titlum
tíguligum,
ok heilum hrúgum
af herfángi,
munu skjótt skiptast
þeirra skapsmunir.
Bregða þeir breytni
nú til býlífis,
mestu makenda
ok mikillætis,
viðhafnar vegsemd
þeir vígja sik;
unz ofrdramb
ok eyðslusemi,
kyrðar ok kærleiks
í kjöltu miðri,
fæða af sèr fjandskap
ok fólskuverk.
Einnig sigruð sveit,
sverðfángat man,
með mistu frelsi--

manndygð sinni
gjörvallri glatar
ok Guðs ótta,
þar er þýngaðri
þeir meðr bæn
hjálp af himni
hreppta eigi,
þeir at taptri trygð
verða tómlatir.
Láta þeir lynda,
hvat lènt þeim var,
sorglausir sèr,
af sigrherrum;
eigi sèr annat
láta umhugat,
enn at óhultir,
at aldar sið
í kyrð ok kæti
kunni lifa,
með því meirr enn nóg
muu í tè láta
fold, til at freista
fráhalds þeirra.
Svo mun allt óðum
af sèr gánga
sèrhvat, vondt vorðit,
fara vesnandi;
hófsemd, tállaus trygð,
trú, rèttlæti,
með sjálfum sannleik
munu sökkva gleymd.
Maðr einn at eins,
einbirni ljóss
öld þeirri á
svo ærit dimmri,
gegn drótta dæmum,
dagligri freistni,
einnig allri mót
aldar venju,
manna misþóknun
ok meingjörðum,
rækir dýra dygð
ok dánumennsku.
Gefr hann ei gaum
gabbi þeirra,
illri umbríxlun,
nè ofríki;
heldr harðliga
með hugprýði
lastar ljótan
lifnaðar veg.
Hann öld ávísar
öruggari,
bjartari ok betri,
brautir dygða,
illum óvegum,
sem þeir á gánga;
með allri einurð
afdráttarlaust
himins hefndar dóm,
höfðum þeirra
yfirvofanda,
þeim innir hann.
En honum, hröktum
á hæl aptr
eigi spott ok spè
munu spara þeir;
Guð mun einum einn
ásjá veita
sèr þekkum þegni,
sem þá lifir.
Hann mun hèrnærst
at Herrans boði,
sem þú sèt hefir,
fá samit örk,
fundit frumsmíði
furðanliga,
svo hann sèr megi
ok sínu bjarga
hyski frá háska
í heimi þeim,
sem Drottinn dæmt hefir
til drekkíngar.
Varla verðr hann
með varnaði
fólks ok fènaðar,
sem frelsast skal,
í örk inngenginn
undan flóði,
áðr enn allar

uppljúka sèr
raufar ok reunur
á rjáfri ský́a,
svo streymi stórregn
yfir storð alla,
drjúgum dynjandi
um daga ok nætr.
Allir uppspretta
afgrunns brunnar,
ólgir ægis brim
yfir skorður;
unz sik ærit lángt
ógrynni flóðs
hafit hefir
hærra fjöllum.
Þá mun hæð þessi[13],
þar nú stendr
plöntuð prýðisfold
Paradísar
rifin frá rótum
af reiði flóðs,
öllum afklæðast
unaðs blóma;
Ok útí opit
ægis flæmi
strjúkast stríðu
meðr straums afli,
þar hún þaðanaf
mun þruma föst,
óbyggt eyland,
orpit salti.
Svo munu selar
ega setr þar,
hafsúlur, máfar
ok hvalfiskar;
svo þú ljóst lærir,
at lætr Guð
einum stað ekki
umtan vera
hærra heilagleik,
enn hverjum öðrum;
Svo framt sjálfir þeir,
sem þar búa,
utan hans eru,
ok afkomendr;
en lát uppbrugðit
þínum augum nú,
ok gef gætr at,
hvat gjörist framarr".
Hyggr Adam at,
ok örk lítr
sveimandi á sæ,
er nú sjatna tók;
nú hafði napr
norðanvindr
rudt frá regnskýum,
ok rekit þau.
Hafði hvæs-andi,
hvörvetna þurr,
frá Norðra nösum
nýliga gjörðar
flóðsins ásýnd í,
sem aldins manns,
hrufóttar hrukkur
ok húð skorpna.
Horfði heit ok skær
gegnum heiðríkt lopt
Mundilfera mær
í marspegil,
ok, svo sem ásókt
í ærnum þorsta,
lèt bif þráþambat
í Þórs teygum[14].
Læddist líðandi
linr straumr,
eins ok hægt útfall
í undirdjúp
frá stóru storðar
stöðuvatni;
öllum var afgrunns
uppsprettum læst,
ok ljórar lopta
luktir saman.
Fèkk nú flóðs kista
ekki flotit meirr,
heldr sýndist hún

[13]) Þat er flesira lærðra manna meining, at Paradís hafi umturnast í syndaflóðinu.

[14]) Þórr drakk borð á sjóinn úr horni Utgarðaloka.

háum tindi
furðumikils fjalls
föst á standa;
skaut nú á þeim upp
efstu toppum
úr dröfn dvínandi,
sem drángklettum.
Fossuðu flóðin
með fleygistraumi
ofsafull ofan
í ægis hyl,
sem fór flýandi
fæti hröðum;
býsna buldr varð
ok brimnir.
Nú flaug á njósnir
nýúngagjarn
hrafn, ok hræsólginn,
af hrannar kistu,
ok eptir honum
fór annar brádt
trúrri sendisveinn
sem var dúfa,
eitt, ok annat sinn,
til at uppleita
eitthvert aldintrè,
eðr auðan stað,
þar fót af flugi
fengi hvíldan.
Síðara sinni
kom sendiboði
aptr, ok innbarr
olíu kvist,
í nipru nefi
nýblómgaðan,
fagrt friðarteikn;
ok fljótt síðan
þurran sýndi sik
sèrhverr staðr.
Utgekk hinn aldni
nú, at opnuðu
flóðafari,
með fólki sínu;
höndum fórnar hann
til himins upp,
þakklátu þeli
ok þarmeð augum,
heitri auðmýkt af
upptendraðr.
Hann lítr hèrnærst
yfir höfði sèr
skúrar ský
með skærum boga,
lystiliga barr hann
liti þrjá
í yndisligri
orðu setta,
til at teikna fríð,
ok með trygð bundit
síféldt sáttmál
af sjálfum Guði.
Nú hófst upp hjarta
heitt af gleði
Adams aptr
frá angrs dýpt,
er þat strax áðr
hafði umvafit;
útbrauzt með orðum
andar kæti.
„O, þú! opnuðum
augum mínum
sem hluti sýnir,
þá er síðarr skc,
eins sem nálægir
nú þeir væru,
frá himni fenginn
til at fræða mik.
Mjök hressir hug minn
en hinnsta sýn,
ok mik ljúft leiðir
til lífs aptr,
þar ek feginn fæ
fullvissu þess,
at menn ok mállaus dýr
muni lifa,
ok með fjörfjöldgun
á fold tímgast.
Miklu minni hrygð
er mín orðin
vegna veraldar,

sem vötn drekktu,
ok hefnd himna Grams
hræðilig svalg,
af svo saurugum
sonum fullrar,
en mèr gleði gefst
fyri góðs manns skuld.
Sá einn einasti
var af Alföður
fullkominn fundinn,
ok frómr svo,
at af gæzku Guðs
gjörist faðir,
svo mikils metinn,
at mannkyni
aptr uppreistu,
öðru betra,
ok hefnd himins
fyrir hans skuld gleymd.
En seg mèr sjónþýðing:
hvat sú merkir
rák en þríþætta
þriggja lita,
sem ek hauðrs hjálm
hríngbelta sá,
er þat nokkr ný
neglíng vatna?
Mun hún blómstrböng
búin vera
skúraskýum,
til at skorða þau,
at sik annat sinn
ekki losi,
ok helli helstraum'
yfir hauðr allt?"
„Svo er (kvað engill),
sem þú ágizkar;
svo er Guði gjarnt
ok geðkvæmt, til.
ógnar óblíðu
af at láta,
en þótt ángraðist,
þegar ofan leit
yfir fárspillt fólk
fyri skemstu.
Þott storðar Stýri
kæmi stygð í hug,
þá er hann hana
hrekkjum verstu
fulla finnr af,
ok fifldyrfsku,
ok hversu hold allt,
sem á henni býr,
hefir svívirðt sik
ok sína vegu.
En, nær römm reiði
hefir rudt því burt,
mun svo mikla náð
maðr rèttlátr
fundit fá
fyrir honum,
at hann mannkyn mun
í megnri grimd
aldrei uppfrá því
eyðileggja.
Heldr sannsömdum
meðr sáttmála
í ljósi láta
lofun vissa,
at hann aldrei[15]
optarr vili
fyrifara jörð
með flóði vatns;
Oðr ægir
skuli aldregi
tilsett teygjast
yfir takmörk sín;
nè stríðt steypiregn
með stormviðri
heimi syndsaurgum
síðan drekkja
mönnum með
ok málleysíngjum.
Nær hann feld of fold
færir ský a,
þá mun hann þarí
þrílitan álm
láta settan sinn,

15) Eptir Gen. 9, 12.

at svo megi
hverr einn á hauðri,
sem hann lítr,
minnast máldagans
við menn, nýa.
Dimm nótt ok dagr
skulu drottna ávíxl,
sáðtíð hauðri hendt
ok haustyrkja,
hèrmeð hvert um sik,
hiti ok kuldi;
þartil heill heimr,
himin ok jörð,
ítrþvegin öll
með eldinum
ok endrnýut,
gjörast uppfrá því
farsæl fóstrjörð
frómra lýða.

---

## Hèr hefr
## tólftu bók Paradísar missirs.

Sem ferðamaðr,
þó hann flýti sèr,
um heitt hádegi
hvílist nokkut,
eins stóð engillinn
orðræðu sinnar
við á vegi
milli veralda,
ennar aleyddu
ok endrreistu.
Ef máske Adam
einhvers vildi
framarr frètta,
til at fræðast um;
þvínærst, eptir þögn
þegi lánga,
ástúðligri
meðr yfir för
hèldt hann fróðri fram
frásögn þanninn:
„Fullsèt forlög,
fyrsti manna!
heims eins hefir þú,
sem hófst ok fórst,
er þèr ok annar
augljóss gjörðr
aldar stofn
af ætt ens fyrra.
Margt er enn ósèt
fyrir augu þín;
en ek sljófa sè
þèr sjón verða,
með því dauðlig er,
dugir ekki
hún, til at horfa
á hit himneska.
Hlutir guðligir
hljóta at gánga
mjök svo yfir megn
enna mannligu,
skemra skynjandi,
skilníngarvita,
ok þrótt þeirra
með þreytu hrjá.
Mun ek því máli
munnligu þèr
þá, er ske skulu,
skíra hluti;
en gef þú gætr
gjörla mínum
orðum at,
sem þik uppfræða.

Aldar uppspretta
önnur þessi,
meðan mannfá er
ok magnlítil,
ok meðan minníng
ens mikla dóms
ógnarfull
er enn í brjósti,
mun gefa gætr
at Guðs ótta,
rækjandi rèttlátt
ok ráðvandt líf.

Fjölga mun fólk þat,
þegar framlíðr,
ok sik útbreiða
um álfur jarðar;
harðla handtamri
af hauðryrkju
ærin uppsker þat
olíu faung,
kornvistir vænar
ok vín mikit.

Þrátt í þakkarfórn
munu þeir greiða
alihjörðum af
ávaxtarsömum
allfeitan uxa,
elligar lamb,
eðr ok svo hrút,
at eigi gleymdu
óspart útheltu
ollrvíni.

Helgar hátíðir
nær halda þeir,
gjarna munu gjöra
sik glaðværa;
þannig munu menn,
í meinlausum
fögnuði ok friði
framgángandi,
eyða með auðsæld
æfidögum.

Ok í ættkvíslir
atgreindir svo
hverr einn halda sèr,
hyski sínu,
sem einni framferr
undir föður-stjórn,
annarligrar án
yfirdrottnunar.

Unz sik upptekr
einn af mengi
drambsamr dólgr
ok drottnunargjarn;
eyrir hann ekki,
því ofllágt metr
allsherjar jöfnuð
þenna ágæta
ok blíðt bræðralag
at búa við.

Heldr getr hann
ennm hæfstu náð
ræntnm ráðum,
móti rèttendum,
at bera boðsvald
yfir bræðra fjöld,
eindrægnis alúð
at útreka,
ok níða nytsöm lög
náttúrunnar,
ofsækja ok elta
ekki dýr skógar,
heldr mennska menn
miklu framarr.

Stríði mun hann með
ok meinbrögðum
afmá alla,
sem undan skorast,
at tjá sik tapta
fyri týranna,
ok hans harðúðligt
at hylla vald.

Hèraf mun heitinn
hann fyri Drottni
voldugr verða
veiðimaðr,
háleitum himni
til háðs ok stríðs,
eðr af honum
til at útkrefja
önnr yfirráð

einvalds stjórnar;
en þótt hann aðra
um uppreist kæri
mun hann af henni
draga heiti sitt[1],
Hann *mun* þá með hóp,
handfestum sèr
glíkrar metorða-
girndar vegna,
at þeir annathvort
umboðsmenn hans
sèu svo, eða
samstjórnendr,
sækja váng, sem veit
til vestrs þaðan.
Þar fær hann fundit
foldar slèttu,
þeirrar þúngbúnu af
þarma hulstri
vellr svart ok seigt
sjóðandi lím,
eins ok af illu
opi vitis.
Ráðast rekkar þeir
í ráðleysu
ok feykna fífldjarft
fyritæki,
at byggja borg
af brendu grjóti
ok leðjuligu
límbiki því,
ok turn, sem taki
með topp himin.
Svo þeir með þessu
fái þjóðræmt nafn
sèr á hauðri háð,
ok hvergi gleymist
manna meðal
minníng þeirra,
en þótt útdreilist
um önnur lönd
lángtfrá liggjandi
lýðr þessi.
En hvort orðrómr
fyrir illvirki,
eðr athafnir
afbragðs góðar,
efli þeim hjá öld
ódauðligt nafn,
fær þeim alls *engrar*
umsorgunar.
En hinn Almáttki,
sem opt vitjar
af hæð á hauðr
híngat manna
ok gegnumgengr
þeirra gjörvöll hús,
gefandi gætr
at gumna vegum,
þekkir ok þessa,
sem þar starfa.
Bruna mun hann bráðt,
ok at borg hyggja,
áðr turntoppr
teygist hennar
himum hærra,
sem himin berr;
hann mun hlægja at þeim,
ok til háðúngar
reka rugls anda
á rekka túngur;
At hann afmái
algjörliga
móðurmál þat,
er menn mundu,
en þá í þess stað
láti þvögla fram
einn í annars munn
óskiljanligt
fjölblandit buldr,
bera villu.
Þýtr upp þegar
meðal þessara
breytil túngutak
turnbyggenda,
kynligr kliðr
þegar kallast á
ýmsir álengdar,

[1]) *Nimroð* er dregit af orði, sem merkir uppreist.

en engi skilr,
unz þeim ræmist rödd,
svo róm missa.
Þá kemr þaraf
þessu verra,
einn ræðst á annann
með ofstopa;
hverr einn heldr sik
af hinum spjáðan
með eptirhermum
fyrir orðtak sitt.
Héraf á himnum
hlátrar stórir
verða með venm,
þegar viðlíta;
er þeim öllum fýsn
ofan at sjá
yfir villuvès
vogunar-dára,
ok at heyra hljóm
hlæiligan.
Þannig verðr þat
þrjózkufullt verk
turnsmíða, trublat;
at tómu spotti;
hlýtr þat heiti
eptir hamíngju,
kýmiliga kendt,
kallat villa."
Adam brá í brún
ok bistr við
heyrðar framferðir
föðurliga
anzar hann aptr
engli þannig:
„O, þann illa son,
andstyggilıgan!
sá er svo lætr
undir sik tekit
hátt herradæmi
hinum yfir
börnum bornum mér
ok bræðrum hans,
þat er þegi gaf
þengill hinna.

Gaf hann oss at eins
yfir at drottna
fènaði, fuglum
ok fiskum vatns;
nær ei til neinna,
nema þeirra,
lifandi hluta
sú leyfis gjöf.
Þarámóti mann
manna drottinn
aldrei ákvarðat
hefir Alfaðir;
sá tignar titill
vill hann tilheyri
engum, utan sèr
einum saman;
allt, hvat mannligt er,
ætlar hann til,
sè frjálst ok friðhelgt
fyri mönnum.
Nú nægist ekki
níðíngi þeim,
er svo aðra menn
undirtreðr,
at ræna rekka
rètti sínum,
heldr hyggst einnig
hernaðar til
út at æsta
ok innikreppa
meðr turntildrun
Tiggja himins.
Hve mun drambdári
duglítill sá
hugsa, fæðslufaung
at flutt geti
upp þá ógnarhæð,
til at ala sik
ok flokk flóldjarfan,
sem fylgir honum?
Þat it þynnra lópt
þurka mundi
hann allan innan
fyrir ofan ský,
þar sem þat ríkir,

ok þenna skara
húngri myrða með,
ef matar ekki,
þá eflaust eptir
andardrætti."
Mælti Michael:
„makliga þú
hefir andstygð á
illum syni,
er svo færir fyrst
meðal farsællra
í beztu blómró-
bræðra sinna,
rángláta ruglun
ok rèttar brot,
ok frelsi fólks
at fergja niðr,
skorðat skynsemi,
eigi skirrist við.
En vit, at vikit
sinn veg er burt,
síðan syndgaðir,
sannarligt frelsi,
skýlausa skynsemd
eigi skilst þat við,
heldr hvívetna
henni fylgir.
Svo fljótt, sem fellr
formyrkvan á
skæra skynsemi
í skatna brjósti,
eðr er henni
óhlýdt framarr,
galdar girndir
meðr gálausum,
taumlausum, tryltum
tilhneigíngum,
taka strax við stjórn
í stað hennar,
þær frjálsan þvínga
undir þrældóms ok.
Nú með því menn
undir makt slíka
greiligra girnda
gefit hafa
svo skammarliga
sína skynsemi,
dæmir Drottinn þá
dómi rèttum
undir óvæga
yfirvalds grimd,
er þá eins sviptir
ytra frelsi.
Hlýtr því harðráð
í heimi stjórn
týranna tignar
til at vera;
samt eru sjálfir
þeir, er svo drottna,
at heldr engu
afsakanligri.
Þó kunna þjóðir
frá þekkri dygð,
skynsemd ein sem er,
í ódygð heimska
svo djúpt at sökkva,
at svipti þær
enginn órèttr
ytra frelsi,
af hinu innra
svo illa mistu.
Heldr hegnir þeim
hræðiligr
dómr Drottins
fyri dáraskap,
eðr óbænir
á þá lagðar,
ok í bræði birt
bölvunar-orð.
Sannar þat sonr
með sínu dæmi
ofgleyminn æru,
ærumanns þess,
sem þú fyrri sást
at sèr bygði
far til frelsunar
af flóði synda.
Hlýtr at heyra
háðgjarn sonr,
fyri forsmán hans

við föður sinn,
blöskrandi bölvun
af bræði rèttri:
„„þræla þræll
þú skalt vera!" "
hrýn þat hrekkvísu
hans á kyni
eptir álögum
almáttugs Guðs.
Svo mun en seinni
samlík orðin
veröld í vonzku
enni vatnsdauðu
jafnan fara fram
ok freka sik
á lasta leið
enna ljótustu,
ætíð af illri
gjörast enn verri.
Unz þeirra þreyttr
af þvermóðsku
ok bófa breytni
blygðunarlausri
himins Hilmir,
heilögu snýr
frá óþjóð illri
augliti sínu,
ok selr svo þá
at síðurstu
egin óvegum
ofrgefna.
Þá mun þareptir
af þjóðum jarðar
Alfaðir eina
útvelja sèr
þóknanliga þjóð
til þjónustu;
tállausrar trúar
af traustum manni
einum einasta
mun hún upprunnin.
Þá mun þessari
nærri þröm búa
Evphrats elfu
útvalinn sá,
í frá úngdómi
andstyggiliga
æ við uppalinn
afguðadýrkun.
Æ, þau eindæmi
óheyrilig!
(trúir þetta þú
at þannig sè?)
at megi mannkyn
svo meinblindat,
heimskt, hyggjusljóft
ok hrakligt verða;"
At þat nú þegar,
meðan þeir lifa
fáir feðr,
sem flóð leifði,
láti forlitinn
lifanda Guð;
en svo fráfallit
fleygist á knè
sinna fram fyri
fíngra smíði,
tigni trè ok stein
með tilbeiðslu,
ok lúti lurkum,
líkt sem Guði.
Þó mun svo mikils
metinn láta
rekk enn rèttláta
Ræsir eylífr,
föðurhúsum frá,
frændakyni
ok trú tálgoða
hann at taka burt,
ok með sýn æsta
til annars lands,
þat honum heitir
hann at sýna.
Hann mun honum ok
af hans sæði,
þegar þess er tíð
þjóð uppvekja;
bæði verðr margmenn
ok mektug sú,
ok auðguð blessun,

svo at í honum
æ munu ættir
allar blessast.
Hikar hann ekki,
at hlýða boði,
ok þótt leynt liggi
hvert landit sè,
þat Herrann hefir
hann tilkallat,
ferr hann fúss af stað
í fastri trú.
Er þèr hann ekki
auðit at sjá,
en ek allglöggt sè,
hversu ótregr
hann í traustri trú
tilbeðin goð,
vini, vandamenn,
ok váng feðra,
Ur í Caldea,
yfirgefr.
Hèr veðr hann nú
yfir Harans lög,
ok eptir honum
urmull hjarða,
rekinn rakleiðis,
reimar lángar,
naut nærsta mörg
ok nægð af sauðum,
þarmeð þyrpíng stór
þjónustufólks.
Eigi ferr hann aumr
nè öreigi,
með því hann á hönd
til halds ok trausts
veg sinn ok varnað,
í von glaðr,
gjörvallan gefit
hefir Guði þeim,
sem hann á hauðr
hafði kallat,
ókendt at öllu,
af egin mildi.
Lít ek hann nú loks
á landamerki
Kanaans kominn
ok um kyrt seztan;
tjöld hans sèr ek sett
um Sichems mörk,
ok í grend grænar
við grundir Móhre.
Hèr fær hann heimild
ens heila lands
handa sjálfum sèr
ok sínu kyni,
sem honum heitir
himna Jöfr,
ífrá Hemats eign
allt at norðan,
endimörk suðrs
er eyðimörk.
Nú eigi nefnda
ek nefni staði
heitum þeim,
er hljóta munu,
afmarkar Hermon
at austan land,
enn hinn víði verr
á vestr-síðu.
Hermon er á hlið,
sem híngat veit,
en haf á hina,
sèr þú hvorttveggja
andspænis augum,
sem ek ávísa,
þar ek frambendi
fíngri mínum.
Þú sèr þarna fjall,
þat er Carmel,
stórt ok standanda
við strönd sjáfar;
jafnframt sèr þú hèr
Jórdanar-á
tvöfaldri taka
til at renna
útaf uppsprettu
austrmark-rètt.
Þessa mæta manns
munu synir
sinn við Senir

hafa samastað,
er þat fjallgarðr
firna lángr,
sem ek sýni þèr,
er svo heitir.
En gef gætr at
ok gleym ekki
orðum þeim, Adam!
sem ek áminntist,
at í sæði hans
sèrhver muni
jarðar ætt
jafnan blessast.
Er án efa þinn
Endrleysir
enn mikli meintr
með því sæði,
sá er síðarr mun
á sinni tíð
höggorms hans
harðan mola;
skal þèr bráðt betr
þat birt verða.
Faðir fólks þessa
sá enn farsæli,
þann enar eptri
munu Abraham
hinn trúartrausta
tíðir kalla,
einn giptugefinn
mun geta son.
Sonarsonr mun
af syni þeim
aptr útkoma,
ala líkr
at dygð ok vizku
ok dýrri trú,
ok af ágætu
eptirminni.
Líttu þángat, þar
þessi gengr
sonarsonr hans
með sínum tólf
köskum kundum
útaf Kanaans
hörðum hèröðum
á hauðr þat,
af djúpri Nílsá
deildt í sundr,
er mun öld nefna
Egyptaland.
Horfðu á, hvernig
ok hvar sú móða
hvatri rennr rás
úti rán djúpa,
sem hún sammynnist
með sjö ósum.
Flytr faðir sik
á fold þessa
í dapri dýrtíð,
þvíat dyggr bauð
sonr honum hans,
hinum ýngri,
sá er sín fyri
sómafull verk
annar ypparstr
í öllu ríki
finnst, en Pharaó
fylkir sjálfr.
Hèr andast aldinn
arfa faðir,
en fólk hans fjölgar,
ok færist út;
verðr þat at þjóð,
sem þengill annar
hefir öfund á
ok illan grun.
Kostar hann kapps um,
at kafit fái
svo freka fjölgun
fólks útlenda,
mjök hann metr þat
vera margt um of;
hèrfyrir hann
enum heilaga
gestarètti gegn
gjörir þræla
þeli þrælsligu
þessa gesti.
Deyðir dramblátr

döglíngr sá
sèrhvert sveinbarn
af sögðu fólki,
unz Hilmir himins
sendir hlýra tvo,
Mósen ok Aron
Amrams sonu;
At hans útvalda
endrheimta
skuli þessir þjóð
undan þrældómi,
ok heim á hauðr,
sem þeim heitit var,
með auði ok æru
aptrleiða.
En grimmr gilfi,
sem Guði hvorki
nè sjálfs hans sinnir
sendiboðum,
straffast hlýtr fyrst
með stórmerkjum,
ok hans þrjózku þel
þvíngast plágum.
Sèr hann bifallt breytt
í blóð orðit,
án þess týrs tundr
hafi tilverkat;
pöddur, leiðar lýs
ok ljótar flugur,
gyltri gjöra sik
í gilfa höll
ok hverju hèraði,
heimakomnar;
stóð þar stúggr af
um storð alla.
Kvelr kláði ok sótt
kvikfènað hans,
bólur ok blöðrur
búk hans þekja,
ok fergja fólk hans
felmtri slegit;
blossa blandit hagl
ok bistri reið
rifit lætr lopt
lands Egypta.
Veltr þat um váng
með voðadyn,
skeðr af því skaði
ok skelfíng mikil,
eyðir þat öllu
því, er atkemr,
ok hvat eldr sá
ekki svelgir,
urtir ok aldin,
verðr orma bráð.
Felmtrandi flokkar
flugkvikenda
gráðugra gjöra
grúafullt lopt
ok dag koldimman
svo sem draumnjörun,
öllu grænu grund
gjörsneiðandi.
Hylr megnt myrkr
móðslegit land,
svo þykkvar þokur,
at þreifast megu,
þær er þrjá daga
fá þurkat burt,
allteins afmáða
ok engir væru.
Svo at síðurstu
verðr sèrhvat eitt,
þat er fyrst fæðist
á fold Egypzkri,
meðr morðslagi
miðrar nætr
fjöri firrt, bæði
fè ok menn.
Meiddr hinn mikli
móðudreki[2]
tíu sárum svo
gefr svigrúm löks,
at láta lausa
leiða gesti;
gjörast þeir nú gram
geigs ollendr.
Þrjózkufullt þel hans

[2]) Hèr er bendt til Ez. 29. 3.

verðr þrátt bugat,
en gjörist alltíð
illharðara
aptr ok aptr,
ok enn meirr kaldt,
svo sem svell þat,
er svignat hefir
þrátt af þeiviðri,
því meira frýs.
Ok þótt hafi hann
þeim heimför leyft,
er hann eptir þeim
innan stundar,
eltir hann þá óðt
með ofsa heipt,
unz hann ægir
lætr uppsvelgdan
ok allt herlið hans,
hesta ok vagna.
Hèrámót hinir,
sem hann elti,
kreika kólgugrunn,
kristalls tveggja
múra millum,
svo sem meginland;
svo standa stöðugt
með staf Mósis
atskildar öldur,
unz útleyst þjóð
frjálsum fjörugrjót
fótum treðr.
Með slíku megni
mikilla tákna
ok stærstu stórmerkja
styrkta lætr
Hilmir himins
sína helga menn;
sjálfr er hann sínum
sveitum nærri,
voldugr engill
í verndar skýi
ok í eldstólpa
á undan þeim.
Skýlir skýit þeim
um skæran dag,
er þeim eldstólpinn
um ósorg verja,
bæði vegvísir
ok vígi baks,
ígegn ofsóknum
illgjarns tiggja.
Eltir þengill þá
með þjósthúga
um allt nætrnið,
en nær þeim ekki;
myrkrit varir við
ok varnar fundi,
unz deyr draumnjórun
fyri dags ljóma.
Utaf eldstólpa
enn Almáttugi
ok skugga-skýi
nú skygnist um,
ringlar hann röðum
enna rekendu,
ok vökr vagnhjól
verða at molum.
Ok nú útrèttir
at orðum Guðs
Móses mektarstaf
mikilvirkan;
ólm rægir,
auðsveipr gjörr,
lætr valar vald
við sik ráða.
Svo brjótast bylgjur
brúsandi fram,
skella holskaflar
á skara vaska,
brimit biltist at
á báðar höndr,
ok herinn heill
verðr hafs matr.
En án ótta nú
áleiðis heldr
útvalin öld
frá ægis síðu;
kýs húni at komast
í sitt Kanaan,
en þótt ógreiðan

ok ægan veg
yfir öræfi
ok eyðimerkr.
Þó skmnda skarar
eigi skemstu leið,
svo kynlig koma
inní Kanaan
ekki þjóðir þær,
sem þar búa,
ofbráðt uppæsi
til at áráðast
með skjóma skruggum,
ok skelfa þá,
helzttil óvana
hildar störfum.
Eðr öld máske
fyrir ótta skuld
í land Egypta
aptrhverfi,
til at þola þar
í þrældómi
hrakæfi, heldr
enn höggvast niðr.
Því eins ypparlig
ok anðvirð sál
metr mætara
at mega lifa,
ok lystiligra
lárberjum þeim,
sem krýna kappa
þá, er kíf sigra,
nema brýni brjóst
bráðlynd dyrfska.
Líka mun lýðr
fyri lánga dvöl
ófrjófsömum á
eyðistöðum
geta náð góðri
gagnsemd þeirri,
at sitt stjórnarstand
stöðugt gjöri,
ok eptir ættkvíslum
útveli ráð,
þat er þjóð stýri
með þeirra laga,
sem þeim sett verða,
sáttmáls tauni.
Guð mun góð sjálfr
þeim gefa lög,
á fjall Sínaí
ofanfarinn,
hvers af reyk hulinn
harðra reiða
titra mun toppr
fyri tignar hæð
leiptrandi loga
ok hörra hljómi.
Mun verða mátuð
með þeim lögum
sumpart storðar stjórn
ok stétta röð,
sumpart siðir
munu settir þeir,
er við offrgjörð
egu brúkast.
Svo þeir fyrifram
fræddir verði
slíkum myndum með
ok mörgum skuggum
um kært Kvinnu Sáð,
er koma skal,
ok Höggorms hans
harðan mola,
ok hver meðöl mun
til mannkyns alls
Alfaðir brúka
endrlausnar.
En helzttil hræðilig
í hlustum er
Drottins rödd dupti
enn dauðliga;
biðr þjóðin því,
at þareptir
megi Móses
milli gánga;
Ok þeim anglýsi
Aldaföðurs
voldugan vilja,
sem viss túlkr,
at ógn ok ótti,

sem þeim innan brjósts,
öllum ólgir,
enda taki.
Mun víst Móses,
þat er mælst var, til
eptir ósk þeirra,
undirgángast,
gjörla þekkjandi,
at Guð nálgast
mángi má
án meðalgaungu.
Sem fyrimyndan
ok í fígúru
mun nú Móses
meðalgaungu
á hendi hafa
hátt embætti,
at hann annars sè
ímyndar teikn
stærra, sem standi
til stèttar þeirrar.
Hvers dag dýrðligan
dróttum jarðar,
sem síðarr koma,
þannig sýnir hann;
eins munu ok allir
á ýmsum tímum
spakir spámenn
spjalla ok sýngja
ens mikla Messíæ
um mildan dag.
Þá er þannig hefir
þessi lög,
rítúal ok rètt,
rekkum gefin,
sterkliga stadfest
Stillir hærsti,
þá mun mildi hans
á mönnum þeim,
sem hans heilögum
hlýða vilja,
svo vegsamliga
hafa velþóknun;
At hann bráðt býðr
byggjast skuli
sáttmáls tjaldbúð sú,
er svo mun nefnd,
þar þann vill hafa,
sá enn Heilagi,
samastáð sinn
hjá sonum manna.
Svo, sem sjálfr hann
segir fyri,
mun honum húsast
helgidómr,
saminn ok settr
af cedrus trè,
ok með öldu-sól
yfirklæddr.
Ein heilög örk
verðr innsett þar,
ok í örkina
einnig lagðr
hans, til varðveizlu,
vitnisburðr,
minnisteikn sísèt
um sáttmál hans.
Ok þar uppyfir
mun einn settr
náðarstóll
af naðarbóli
enu tærasta,
tveggja milli
klárt skínandi
Chérubima.
Hèr lýsa lampar
logandi sjö,
ætíð óslokuir,
fyri Alföður
glóandi girðíng
er gjörð af þeim,
er þat eptirmynd
elda himins.
Líta mun lýðr
um ljósa daga
heilagt hvíla ský
yfir Herrans örk,
glíkt sem um grímu
glæstan ljóma,
þverr hann þá at eins,

er þjóð ferðast.
Loksins líta þeir
um lánga tíð,
af hans framfærðir
fylgdar engli,
fold, fyrirheitin
sem í fyrstu var
Abrahams trú
ok hans sæði.
En alla aðra
þèr at útskíra,
Adam! atburði,
oflángt mundi:
hvílíkan hernað
munu heyja þeir,
trónum kollkasta,
kefja ríki.
Eðr, ef ek þèr
inna skyldi,
hversu miðju mær
Mundilfera
hvolfi himins á
mun hvíla sik,
ok sínu seinka,
móti sið hennar,
hvers dags hlaupi
húmsala til.
Með því henni mun
af mannligri
raust, er svo ræðir,
gefit ráða boð:
„„statt í Gíbeon
grafkyrr, sunna!
ok eins þú, túngl!
í Ajalonsdal,
unz stríð Israel
unnit hefir.""
Heiti þat mun þess
ens þriðja manns
eptir Abraham,
Ísaks sonar,
ok svo eptir hann
allra niðja
þjóðar þeirrar,
sem með þrásóktum
býsna bardögum
ok blóðgum sigri
mun sèr kaupa kjör
Kanaanslands."
Tekr Adam nú
tali fyrir:
„ó! þú sólarsals
sendiboði!
fyri myrkr mitt
þú mæta ljós!
mjök miklir hlutir
ok mildiligir
af þèr eru mèr
auglýstir nú.
En þó einkum
þat, er innt hefir
um trúar-hetju
ennar traustustu,
ágæts Abrahams,
útvalit sæði,
svo sæmt af Guði,
sèrligri náð.
Nú finn ek fyrst mín
í fullri raun
opnut ok upplýst
augu vera,
ok hjartans ángr
algjörla stillt,
er sik hrjáð hefir
með hugsýki,
hvat af mèr mundi
ok mínum verða
öllum sona sæg
at síðurstu.
Nú lít ek ljósan
Lausnarans dag
ens mikla Messíæ,
manna hjálpar,
í hverjum allar
ættkvíslir þær,
sem byggja breiða jörð
blessast munu.
En hvat mèr er, mjök
gegn makligleik,
unnt svá agætrar

uppfræðíngar,
ek, sem áðr
hefir eptirsókt
ófrjálsum fróðleik
fyriboðnum
meðölum með
mèr til syndar.
Þó er enn eitt þat,
ek ekki skil,
hvarfyrir hærstr
himna Jöfr
leggr lýð þeim
fyri lagaboð
svo mörg ok mikil,
meðal hvers þó
hann vistarveru
virðist hafa.
Með því mörg boðorð
eru misgjörða
allteins margra
uppljóstendr,
þær meðal þjóðar
munu þar drottna;
hversu mun hann þá,
heilagr Guð,
meðr mengi því
mega búa,
syndötuðu svo
ok sárspilltu?"
Mælti Michael:
„meðal þeirra
munu sannliga
syndir drottna,
þareð eru þeir
af þèr komnir;
því verða lög lögð
þeim af Lávarði.
Svo hrekkvís harðúð
hjartna þeirra
ok eðlis illska
verði augljós þeim,
með því en megna
meðal þeirra
síríkjandi synd
sèr upphrokar,
ok stríðir lögum
enum straungu geng.
Svo þegar sjá þeir
en settu lög
illverk ásaka,
en ekki bæta,
utan með einum
offrblóðs skuggum
ærit afllitlum
uxa ok hafra,
dragi þeir þaraf
sèr þenna dóm;
At einn heilagr
hinum betri
ok dýrmætari
dreyri miklu
útheimtist eflaust,
til at afreka
fulla friðþægíng
föllnum mönnum;
at rèttláts refsíng
ok runnit blóð
rángláts boða brot
bæta hljóti.
Svo enir seku
fyri sannarligt,
háleitt ok heilagt
hans rèttlæti,
vegna trúartraustst
tileinkat þeim,
fái fullkomna
fyrigefníngu
synda sinna
hjá sjálfum Guði,
ok sviða-sárrar
samvizku ró.
En lögmál orkar
enganveginn
hèr greint at gefa
gjörvöllum með
setníngum sínum
ok siðareglum,
nè maðr nokkr
getr nógliga
ok at fullu fylgt
fyrisögn þess,
í grein, sem girðir

gjörðir manna.
Ok þó er honum
engi kostr
leyfðr nè lèntr
lífs at njóta,
án þess, at öllu,
sem þat áskilr,
fyrst ok síðarst
fullnað gjöri.
Lögmál sýnir svo
sik at vera
ónóg öllum
með sitt eindæmi,
at eins útgefit
fyrir orsök þá,
at skila skuli
skeikuðum mönnum,
nær tíma takmark
er til þess fyllt,
undir sáttmáls orð
annat betra.
Eptir þat at þeir
eru þvílíkum
skugga-myndum með
ok málverki
vígðir til at veita
viðtöku því,
sem er sannarligt,
sjálfu ljósi.
At lýðir loks
verði leiddir frá
heimsligu holdi
til himnesks anda,
frá leiðinligu
lögmáls oki
til at ná notum
náðar guðligrar
í fullu frelsi,
ok at frásleppa
ánauðar ógn
til ótta barns,
til trúar verka
frá tregdu laga.
Mun því Móses,
þótt mjök sè hann
ástar metum í
hjá Aldaföður,
þess þúnga lögmáls
þjónustumaðr,
eigi loksins lýð
fá leiddan hans
inná fagrá fold
fyrirheitis;
Heldr Jósúa,
Jesús nefndr
enum heiðnu hjá,
sá er heiti þat,
eins sem embætti,
af öðrum hlýtr,
honum, sem Höggorm
hatrsfullan
sigra mun
á sínum tíma.
Sá er mannkyn mun,
mædt af laungum
hrakníngum hèr
yfir hrjóstr lífs,
fá leidt at lyktum
á land hvíldar,
Eden eylífrar
unaðsemdar.
Nú mun Kanaan,
kostuligri
jarðar Eden, í
Israels fólk
með bezta blóma
búa lengi;
þrásamliga þó
mun þjóðar synd
friði frekt
foldar spilla.
Þeir munu erta
hinn Almáttuga
ósjaldan upp,
svo hann óvinum,
gefi þeirra þá
þráliga í vald;
en hann mun ætíð,
nær yðrun gjöra,
aptr frífa þá

af þeirra hendi.
Munu dómendr
þar drottna fyrst,
síðan konúngar
kyni stýra;
meðal þessara
mun hinn annar
verða víðfrægr
vegna dygða
ok hetjuligra
hreystiverka.
Hann mun ok öðlast
ypparligt þat
fyrirheit
af Föður alda,
at um eylífð
óraskaðr
skuli viðvara
veldis stóll hans.
Sèrhverr sjáenda[3]
sonum alda
í spám spakligum
mun spjalla þat,
at af ætt Davíðs,
þat er öðlíngs nafn,
blóma blessaðri,
muni burr koma,
klárt kvinnu sæði,
sem kunngjört var
þèr, Adam! áðr,
ok svo Abraham.
Hann mun hyllast at
til hjálpræðis
fólk allt foldar
fulltrúa sinn;
hann mun konúngum
kunnr gjörast,
ok sjálfr sjóla
verða síðarstr,
því hans þengils stjórn
þrýtr aldregi;
en undan honum
mun ærit laung
röð af furstum
ríki stýra.
Niðj Davíðs
kemr nærst honum,
frægr af fróðleik
ok feyknum auðs;
hann mun ens Hærsta
helgidóms örk,
sem til þess tíma
í tjaldbúð geymist,
flytja mjök mikit
í musteri.
Kemr eptir hann
konúnga fjöld,
getit er sumra
góðrar stjórnar,
aðrir af illri
íllt nafn bera,
samt eru fleiri
enir síðari.
Þjóðar mjök margir
misgjörníngar,
afguðadýrkan
ok önnr brot,
reita til reiði
Ræsir hærsta,
svo hann frá henni
mun hverfa burt.
Hauðr, höfuðborg,
hátt musteri,
helgidóms örk
ok hluti vígða,
sparar hann ekki
undir spott ok rán
ens stolta staðar,
hvers stæriláta
múra byggíngu
málvilla sleit,
berr því borgin nafn
Babýlónar.
Hèr mun herleidd þjóð
haldin verða,
sorgandi, samfleytt
um sjötíu ár;
þó mun hann hana

[3]) *Sjáendanna*, þ. e. spámannanna.

færa heim aptr,
ógleyminn eiðs þess,
er áðr sór
Davíð, döglíngi
dygðaríkum,
órofins eiðs,
sá er aldrei mun
heldr haggast,
enn himins dagar.

Þá er þeir eru,
at þegnu leyfi
Babels *buðlúngs*,
til baka komnir,
er þeim anna fyrst,
at uppbyggja
Mildíngi dýrðar
musteri nýtt.

Nú lifir nýt þjóð
um nokkurn tíma
undir stiltri stjórn
utan stórmaktar,
unz hún aukin
af auð ok tölu
*fellr í friðspèll*
ok flokkadrátt.

Fyrst myndast misklíð
milli presta,
manna milli
sem í musteri
annast eiga
altari Guðs,
þeir er fyrst ok fremst
skyldu frið efla.

Saurgar svívirðíng
sundrþykkis
*Guðs it helga hús*
með háðúngum[4];
loksins þrífa þeir
þengils sprota[5]
ok drýgja drottinssvik
við Davíðs ætt.

Hèrnærst hverfa þeim
en háu völd
enn meirr írættis
til útlendra[6]
svo at enn smurði
sanni jöfr,
Messías mikli,
geti mengi fæðst,
rángliga ræntr
rètti sínum.

Hans híngatkomu
heimi boðar
aldrei áðr sèn
uppi stjarna,
sú ok vegvísir
vitríngum er
fjarlægri foldu
frá í austri,
unz stað fundit fá
fæðíngar hans.

Færa þeir fórnir
frumgetnu barni
af glæstu gulli
góðri myrru
ok af reykelsi
ríkugligar,
trúrri tilbeiðslu
tignandi þat.

Dýrðligr engill
um dimma nótt
hjörðum hjá
í högum úti,
fræðir fjármenn,
hvar hann fæddr sè;
en með hreifum hug
af helgri gleði

4) Einkanliga var musterit vanhelgat af Antíochó enum göfga, vegna tvídrægnis höfuðprestanna, Jasons ok Menelaí. 5) því Aristóbúlus, elzti sonr Hyrcaní höfuðprests, var hinn fyrsti, sem eptir herleiðínguna tók sèr konúngs nafn. 6) þat var til Heródesar, er var ættaðr frá Idúmea; undir hans ríkisstjórn fæddist Kristr.

skunda þegar þeir
til þess staðar.
Heyra þessir þá,
er þar koma,
helgra saungva hljóm
hátíðligan
engla flokkum af,
þeir er um sýngja
Frelsara foldar,
ok fæðíngu hans.
Mey verðr móðir
at Messía,
kraptr hins Hærsta
hans er faðir;
á sinn erfðatrón
uppstigr hann;
hans víða veldi
veröld lykr,
ok hans heiðrs dýrð,
himin allan."
Þagnar Michael,
því af gleði
Adam útflotinn
allr í tár,
eins ok af ángist
orðit hefði,
utan af orðum
andrúmi hans
hefði hægð gefist,
heftu af ekka.
„O, spjalla spakra
spáfræðir þú!
svo teit tíðendi
sem mèr tjáð hefir,
ok allar uppfyllt
óskir vonar
hærstu hverrar,
sem í hjarta rann.
Hvat mèr skín nú skært
fyri skilníngi
þat, ek þrátt hefi
með þánkabrotum
æ til ónýtis
eptirleitat,
sem dýpst ok djarfast
þeim dugði flug:
hve mikill muni
Messías vera
okendr kvinnusáð,
ok kallast svo?
Heill þèr, mey móðir!
af mèr svo kvödd,
þú svo hátt hafin
himins elsku,
sem munt á láð leidd
þó af lendum mèr,
ok síðan Sonr
sjálfs ens Hærsta,
Skaðvalds skelfir,
af skanti þinu,
svo Guð ok maðr
munu gjörast eitt.
Hlýtr Höggormr
helfarar bíða
honum hótaðri
hans molun af
þinn megni með
af Messía;
sú heill er handviss
hugfrói minn.
En herm mèr, hvenær
ok hvar þat skeðr!
hvar mun verða háð
þessi hólmgánga?
hvilíkt verðr högg,
eðr hæl-bit þat,
sem hinn Sigrandi
af Svafni hlýtr?"
Enn svarar engill
Adams máli:
„leið eigi þann þèr
í þánka draum,
hèr at heyjast muni
hólmgánga,
er sækjast Satan
ok Sonr Guðs,
nè líkhamligum
lemstrum særast
hæll eðr höfð
hvors fyri sik.

Sannliga sína
mun sakir þess
guðdóms hátign hèr
hærstu tengja
manndómligri mynd
Messías ekki,
at hann Ovin þinn
öllngra með
slagi slægan
slisat fái,
svo verðr Satan
eigi sigraðr.
Fall hans af himni,
hinn meiri
sem þó er særíng
ok sundrknosan,
hefir hann eigi
mátt hindra frá,
þik með banaben
bitri at særa.
Þá hörðu helund
hann, sem kemr,
ljúfr Leysir þinn,
mun lækna svo,
at hún endrgrædd
sè at eylífu;
en með því ekki
at eyðileggja
sjálfan Satan,
heldr Satans verk,
þau í þèr eru
ok þínu kyni.
En þat með öðru
getr ekki sket,
enn at uppfylla
at öllu leiti
sèrhvat, sem þèr
hefir sèst yfir,
ok á skil skortir
skyldu þinnar;
Með ljúfri hlýðni
viðr lögmál þat,
sem þèr sjálfr Guð
setti at geyma,
ok lagði lífstraff við,
ef lítt hèldir;
með því at þola
þíngan dauða,
rèttdæmda refsíng
þinni rángri gjörð,
ok synd sèrhverri,
sem hún getr.
Loks fæst þá friðstillt,
en fyrr ekki,
mjök til reiði reitt
rèttlæti Guðs;
einu mun uppfylla
algjörliga
Herrans lögmál hann
með hlýðni sinni,
eins sem með elsku,
þóat einsaman
elskan alls lögmáls
uppfylling sè.
Hann mun beisk bera
brota þinna
gjörvallra gjöld,
ok gángast undir,
kominn hèr í heim
ok hold orðinn
til lítilmótligs
lífs ok eymda,
ok yfrit sáran
til at útstanda
við bista bölvun
bundinn dauða.
En yfirlýsa
fyrir öllum þeim,
sem í sannri trú
munu sik reiða
á hans endrlausn,
eylífu lífi,
ef þeir at eins
fyrir algjörða
hlýðni hans,
vilja himni ná;
Vegna vissrar hans
verdskuldunar,
sèr í traustri trú
tileinkaðrar,

en ekki fyri
sín egin verk,
þótt sik lík lýsi
lögmáls formi.
Fær hann fjón ok last
fyri þetta;
hann er handtekinn
ok harðt dæmdr
til at líflátast
ljótum dauða,
smán er fylgir full
ok formæling.
Hann af egin ætt
verðr ánegldr
kvalafullan kross,
ok í kaup fyrir
öllum alrekat
ódauðligt líf.
er hann ofsóktr
alltil dauða.
En hann undireins
allar þínar
neglir senn syndir
á enn sama kross,
þèr mótmælandi
megindólga,
ok alls aldakyns
en illu verk.
Þar verða þau öll
á þessu trè
krossfest ok kafin,
svo kunna framarr
hans vægð veitandi
verðskuldunar
átreystendr
aldrei skaða.
Þannig deyr nú þá
þessi Rèttláti,
en rís upp aptr
þó innan skámms;
honum hel ekki
haldit getr
lengi látnum
undir lás sínum.
Aðr hreift hefir
helgu ljósi
yndæl ens þriðja
augabrún dags,
munu Messíam
morgunstjörnur
sjá af gröf gánga,
gæddan sigri,
eins yndisligan
ok árdags skin,
þá er fágar fyrst
fagran himin.
Er þá af honum
allt at fullu
lokit lausnargjald
fyri lýð sekan,
keyptan frá kvölum
ens kalda hels
með dauða sjálfs síns
fyri syndara.
Fyri fólk þat allt,
sem forsmár eigi
þat líf hann því
meðr þrautum vann,
ok með traustri trú,
eigi tómhendri
af göfgri dygð
ok góðum verkum,
veitir viðtöku
vegligri gjöf.
Gjörir guðdómligt
enn gefna dóm
þrekvinki þetta
þinn at engu,
ok þann afmáir
hinn eylífa
dauða, þeim deyja
þú dæmdr varst,
at loks látinni
lífs von allri,
fyri sakir þess,
at syndgaðir.
Þat dýrðligt Drottins
dásemdarverk
sjalfs mun Satans haus
sundrknosa,

ok hans úttæma
alla krapta,
með því at má af
hans meginvopn
tvö en sisáru,
synd ok dauða.
Broddum þrykkir þat
þúsundsinnum
dýpra dimman hans
í djöfulhaus,
meðr meiðsla kvöl
miklu stærri,
enn hel með hælstíng
hèr í tíma
megnar Messíæ
ok manna hans
rèttlátra, leystra,
líf at særa.
Sú er svipting fjörs,
svefnhöfga lík,
hægr heimgángr
frá hauðri þvísa,
ok ein yfirför
til æðra lífs,
ódauðligs,
í öðrum heimi.
Eptir þat hann er
aptrrisinn
dauðum frá
með dýrum sigri,
skamma hefir hann
á hauðri dvöl,
nema hvat hann nú
nokkrum sinnum
tjáir um tíma
sínum trúuðu
lítanligan sik
lærisveinum,
honum hvervetna
sem höfðu fylgt.
Þeim hann þá býðr,
þjóð heims allri
klárliga at kenna
þat, hann kendi þeim,
lærdóm um lífgjöf
ok lausn manna,
þat hit mjök mikla
Messíæ verk.
Skíra skipar hann
skara þann allan,
sem við trú tekr
í tærum straum,
til teikns, at sèu
hinir trúuðu
af synda saurgun
sinni þvegnir.
Hèrmeð hreinsaðir
til heilags lífs,
ok rètt at reynast
reiðubúnir
þann til at þola,
ef þóknast Guði,
sama dauðdaga,
sem dáinn er
ljúfr Lávarðr,
sem þá leyst hefir.
Mengi munu þeir
fá mentat allt;
trú hin tállausa
tilkynnt verðr
Abrahams ekki
at eins kyni
hinu holdgetna,
heldr at trú
öllum útvöldum
Abrahams sonum.
Hvenær, ok hvar
á hveli jarðar,
sem eru aldir þeir
ok útdreifðir;
þannig verða þá
þjóðir allar
auðgaðar blessun
í hans sæði.
Svo mun Sonr Guðs
sik upphefja
á himin himna
með hárri dýrð,
ok sómasælu
sigrhrósi

á dimmum dauða
ok djúpu víti.
Hvers leiðan Linna,
lopts höfðíngja,
hann mun í hlekkjum
hörðum draga
gegnum hans ríkis
gjörvalla vídd,
ok öllu ræntan,
nema eylífri
skömm ok skelfíngu,
skilja viðr.
Svo mun hann sjálfr,
í sína dýrð
aptr inngánga,
ok áðr bygðan
stól á stíga
enа sterku við
hægri hönd
himna Jöfrs,
gjörvöll hátt hafinn
yfir himins nöfn.
Þaðan mun hann
með makt ok prýði
eitt sinn aptr
ofanstíginn,
vitja veraldar,
þá hún vaxin er,
ok alfrjóf orðin,
svo uppbrend verði;
dæmast þá dróttir
dauðar ok lifs.
Verða vondir menn
ok vantrúaðir
til dauða dæmdir,
en dýrmæt laun
taka trúaðir,
tign ok gleði
hásælum himni
eðr hauðri á.
Þvíat þá mun jörð
at þessu skeðu,
miklu meirr, enn fyrr,
mega nefnast
prýðis Paradís
plöntuð á ný,
ok öld æ sælli
annat veita
lángtum betra líf
ok lukkukjör,
enn þú átt hefir
í Eden þessi."
Engill sagði svo,
ok síðan þagði,
er hann at efsta
hafði áfram nú
tíma takmarki
teygða ræðu;
Adam af undrun
ok af ánægju
frá sèr numinn
framvegis kvað:
„O, hvílíkt elsku
endalaust djúp!
afgrunn algæzku
ómælanligrar!
sem þá gnægð getr
góðs af illu,
ok til góðs umbreytt
enu illa fær.
Þvílík góðgirni
knæfir hina,
ok er enn þá meirr
undrunar verð,
enn sú, er útleidt
fèkk í öndverðu
af skugga skauti
þat hit skæra ljós,
þegar heimr hófst
í húmeyðu.
Er mèr efasamt,
hvort ángrast skal
fyri syndar sök,
sem ek framda,
ok gaf efni til,
at yrði drýgð,
eða miklu meirr
má ek fagna.
Með því svo mörg
ok mikil gæði

af misgjörð minni
munu spretta,
enn meiri æra
himna Eylífa,
miklu meiri náð
mannkyni veitt
ok fyrigefníng
af Föður alda,
þá svo er sigruð
hans sinnis bræði.

En seg mèr einnig,
hvat á eptir mun,
at heims hjálpræði
til himins förnu,
hans fáu frómu
framkoma við,
sem hann svo
meðal sannleiks fènda
í öld illgjarnri
eptirskilr?

Hverr mun veita vernd
ok vegleiðslu
hans fylgdar flokki
meðal fjandmanna?
munu menn ekki
Messíæ sveina
útleikna láta
lífskvölum með
hálfu harðari,
enn hann sjálfan?"

„Efa þat ekki!
(svarar engillinn);
þó mun huggun hann
af himnum ofan
sínum senda
sannleiks vottum,
æðstum Föður frá,
fyrirheit hans,
egin Anda sinn
hinn öfluga;

Er mun innvortis
í þeim búa,
ok þeim láta lög
lifandi trúar,
af kærleiks krapti
sú er kveikt verðr,
í helgut hjörtu
hvervetna skráð.

Svo hann sýni þeim
sannleik allan,
ok þá útbryni
andligum vopnum,
Fjandans freistíngum
til at fá ígegn
strídt ok staðit
með styrk nógum,
ok hans öll útslökkt
eldlig skeyti.

Aldrei æðrast þeir,
nè uppgefast,
hvat sem í höndum
er haft við þá;
hvergi hopa þeir
fyrir harðkvælum,
en þótt andláti
atfram komnir.

Af því innvortis
umbunast þeim
heilnæmri huggun
harðar kvalir,
af þeim útstaðnar,
óbuganligri
hugarhreysti með
ok hetju styrk,
svo at sjálfir þeir,
sem þá pína,
falla fyri þat
í forundrun.

Andinn, sem yfir
útheltr var
prúða postula,
til at prèdika
evangeliskt orð,
öllum senda,
ok síðan yfir
alla skírða,
sæma mun þá með
menta gáfum,
ok hugar orku
undrunarverðri

Svo þeir skírt skilja
skuli túngur,
áðr öllum þeim
ókendustu,
ok öll þau undr,
sem á undan þeim
ljúfr Lávarðr
hjá lýð gjörði,
munu þeir allteins
eptir fremja.
Þannig munu þeir
af þjóðum öllum
ok túngumálum
til sín vinna
stóra manna mergð,
þá er meðtekr
fagrt friðar boð
fagnandi sál,
háva himins gjöf,
heimi senda.
Þegar hafa þeir
þjónat til fulls
sèr faldri sýslun
ok með sæmd runnit
út sèr skamtat skeið,
ok í skrár ritinn
látit lærdóm sinn
ok lofsæl verk,
ókomnum öldum
til uppfræðíngar,
þá munu þessir
fara þjóðbrant hels.
En þjóð þareptir
í þeirra stað,
svo sem sjálfir þeir
sögðu fyri,
fær at fræðendum
fíknar úlfa,
sem eptir sinni
sjálfsþótta fýsn,
ósæmiligan
fyrir ávinníng
auðs ok ærugirnd,
umsnúit láta
himins vísendum
heilögustu.
Hjátrúar hlutum
hègómligum,
ok munnmælum
manna sagna,
saurga seggir þeir
sannleik hreinan,
hvers at eins hirzla
eru heilög rit,
en skilr enginn
án Andans hjálpar.
Æ með embættum
ástunda þeir,
fordildar fullum
fremdar nöfnum,
ok æru titlum,
sik at upphefja,
veraldligt vald
þar viðtengjandi,
en þótt eins láti
at yfirvarpi,
ok eina brúki
andliga makt.
Gorta þeir af því,
at þeim einum
Alföðurs andi
inngefinn sè,
þar eð þó öllum
þeim, sem trúa,
honum heitit er,
ok hverjum býtt.
Svo verðr sett
yfir samvizkur
þrælkreppu kúgan
kirkjulaga,
valdi viðblöndnu
veraldligu;
þar eð þó aldrei
munu þessi lög
rakit geta þeir
af ritníngu,
nè fáin fundit
af fíngri Guðs
hjörtum í
hreintrúaðra.

Hvat er þá einkum,
sem þeir ástunda?
nema niðrslá
náðar anda
ok fergja frelsi,
förunaut hans,
hans mæt musteri
í mönnum trúar
burt at brjóta,
sem þó bygð eru,
traust ok tállaust
til at standa
ekki með annars,
heldr egin, trú.
Hverr finnst á foldu,
fullu traustí
þeim er megi með
maðr hlýða
ígegn innvortis
yfirdæmanda,
sjálfri samvizku
ok sinni trú?
En hve mýmargir
fyri makt eina
þora munu þó
þess at krefja?
því munu þúngar
æða þeim ígegn
ofsóknir öllum,
sem almáttugan
í anda ok sannleik
ákalla Guð.
Svo mun ok manna
mesti hluti
hafa þá táltrú,
at tilbeiðslu
ok dýrkun Drottins
dugi læti,
útvortis yðkan,
ok yfirvarp
fullt af fordildar
fánýtu glisi.
Svo flýr af foldu
fyrir örvum
illrar ódygðar
sá enn eylífi
sannleikr sjálfr,
særðr af þeim;
en tær trúar verk
torsókt verðr
ok nærsta nýstárligt
nú at finna;
þann mun hátt hafa
heimr þessi,
frómra fjandi,
en forsvar vondra;
undir sjálfs síns þýngd
mun hann sárt stynja,
unz dregst upp dagr
dóms enn mikli,
sem með rann reisir
enna réttlátu
ítra uppbirtíng,
en illra straff;
Er sik auglýsir
aptrkominn
hann, sem fáum fyrr
fyrirhét þér
orðum Alfaðir,
ok óljósum,
kærast kvinnu Sáð,
er kennir þú
nærsta gjörla nú
nauðhjálp þína,
þinn upphafs alsmið
ok endrleysir.
Hann mun af himnum
í hám skýum
ok furðu fögrum
Föðurs ljóma,
sik eitt sinn aptr
láta alla sjá
við aldar endir
ofan kominn,
at fá fullkomna
foreyðíngu
Satan, saurgaðri
með sinni jörð.
Ok af útbrunnum
ösku hnaus þeim

himin ok hauðr
hefja at nýu,
heims aldrs eina
óslítanliga
lánga línu,
sem lyktar aldrei.
Verðr veröld sú
víst en nýa
rótfest á elsku
ok á rèttlæti,
ok föstum friði,
til at framleiða
farsæls fagnaðar
fullan gróða
ok endalausrar
unaðsemdar."
En þagnar engill,
ok Adam nú
síðarsta sinni
svarar hónum:
„hversu furðu fljótt
hefir frásögn þín,
sæli sjáandi!
sihlaupandi
heims aldr allan
í orðum mælt,
unz tíð hans tekr
við takmark enda.
Allram lengra,
þat er ógrynni,
endalaus eylífð
ok einber nótt,
hverrar mælir má
mangi líta;
nú get ek glaðr
gengit hèðan,
orðinn uppfræddr
ágæta vel.
Þá fróðleiks fylli
hefir fengit ek,
óðar mælir minn
sem mest tekr;
hitt var heimska mín,
at hyggja á meira.
Veit ek síðan vel,
at vísdómr
sè sannri falinn
í sonar hlýðni,
elsku með ótta,
við hinn Eylífa,
aldrei annann veg
at umgángast,
enn svo, sem hann
væri sjálfr hjá,
hann einn hyllast at,
hans sjón treysta.
O, með hve miklu
mildiríki
elr hann önn
fyrir öllum þeim,
ok veitir viðhald,
verkum sínum,
sem hann, Frumfaðir,
í fyrstu skóp,
yfirvinnr æ
íllt með góðu!
Framkvæmda fær hann
ok fullkomnaða
háleita hluti
með harðla smám,
ok um koll kastar
kröptum heima
með því, sem mönnum
sýnist minnst vera,
engu orkanda
ok auðvirðiligt,
heims hyggendum
með hógværð frómri.
Fyri sannleiks sök
sárt at líða,
þat er há hreysti,
hetjulig dygð,
sú er sæmir mann
sigri stærstum;
efiaust er dauðinn
inngángr lífs
góðum Guðs vinum,
sem geyma dygðir.
Þetta þekkir ek
af þess dæmi,

sem ek vera veit
ok viðkannast,
af þèr uppfræddr,
mína einka hjálp,
ok minn einasta
endrlausnara."

Ok nú engillinn
aptr honum
síðarsta sinni
svarar þannig:
„Þar sem þú, Adam!
ert þessa vís,
hefir þú hèrmeð
hæðar toppi
allra vísenda
hinum efsta náð,
máttattu mannvits
meira vænta;

En þótt atgreindar
allar fengir
stjörnur þektar þú
ok þeirra nöfn,
hvern einn af himins
háu kröptum,
ok ens dimma djúps
dóma leynda,
einnig öll verk
ens Almáttuga
um haf ok hauðr,
himin ok lopt.

Eða þó ættir
auðæfa heims
grunnlausan grúa,
gjörvöll ríki
víðrar veraldar
und valdi þínu,
ok þeim, sem einu,
yfirrèðir.

En lát fast fylgja
í fari þínu
trúar verðug verk
vísdómi þeim,
biðlund, bindendi,
blíðt þolgæði,
kröftugan kærleik,
sem kallast mun
góðgjörðasemi,
ok í gjörvöllum
öðrum dygðum er
ypparlig sál.

Þú munt þá ekki
þessa viðr
ófúss með ángri
Eden skilja,
er þú Eden berr
innan brjósts þèr,
fyllri farsældar
enni fyrr áttu.

En látum okkr
ofan stíga
hèðan af háum
hvoli sjóna!
æstar okkr burt
ákveðin stund;
bíðr boðs frá mèr
at bruna fram,
vakt, á váng hæðar,
sem ek viðskilda.

Sveiflast sveipandi
sverð í lopti,
ok færir felmtr
fyri skörum,
er þat okkr teikn,
at arka af stað;
sèr þú svo at er
eigi sætt lengr.

Vík á við Evu,
ok vek hana!
hefir ek hennar
með hýrum draumum
geðsmuni gladt,
þeim er gott boða,
ok til auðsveipnis
undirbúit,
stillta frá stríðu
ok stórri sorg.

Þú við tíma tóm
ok tækifæri
heyrða hluti fær
henni greinda;

en, hennar einkum
svo at eflist trú,
láttu víf vita
þat vottat hefi,
um alls endrlausn
afkvæmis þíns,
frábært furðuverk
er mun framkvæma
hennar háblessat
heitit Sæði.
  Svo munuð sæl
lifa saman þið
um fjöld framvegis
farsællra daga,
traustri tengd
meðr trú ok von,
at sönnu sorgfull
syndar vegna,
sem stóran stygði
Stillir himna;
  En þó miklu meirr
mildiríkri
hugar hressíngu
af honum sjálfum
endrnærð orðin,
þegar athugið
farsæl endalok
full af heillum."
  Hèrvið lyktar hann
hermda ræðu;
hèldu báðir samt
af hæð ofan;
Adam hleypr hraðt
heim at lundi
undan englinum,
þar Eva svaf.
  Fann hann víf vaknat
af værum blundi,
gladt var í geði
með góðri ró,
blíðu bragði með
ok bjartara,
eigi ángrsöm,
sem áðr vár,
tók mær mælandi
móti honum:
  „Veit ek vel, Adam!
hvar verit hefir,
ok hvert hèreptir
hyggst at fara;
sèr ek, í svefni
er ok sjálfr Guð,
ok dúra draumar
megu drótt fræða.
  Hann mèr hýran draum
af himnum sendi,
sá er sýnda fèkk
sáraumri mèr
mikla meginheill,
mönnum búna,
þá mik, af ángist
yfirkomna,
seig á svefn,
er sætr varð.
  Far nú fyri!
mun ek fylgja þèr
utan augnabliks
eptirdvalar;
eru mæti mèr,
með þèr at fara,
eins ljúft lyndandi,
ok at lifa hèr,
án þín í Eden
ef ek væri,
þá yrði Eden
mèr öll horfin.
  Allt finn ek í þèr
ok af þèr verðr
hverr staðr hauðrs
hagfeldr mèr,
af þèr, Adam minn!
sem ert nú hèðan
útlægr orðinn
fyrir afbrot mitt.
  Ber ek burt hèðan
í brjósti mínu
vissrar vonar
vegliga huggun,
at en þótt yrði,
sakir afbrots míns,

þat ek frjáls framdi
með frívilja,
gjörvallt glatat,
ok til grunna spillt;
Þá mun þó sjálfr
Þengill hærsti
mik svo mikils
metna láta,
at hit sæla Sáð,
sem var heitit
af mèr uppsprottit,
mun öllu loks
veita vegliga
viðrèttíngu."
Svo mælti manna
móðir Eva;
Adam undi vel
orðum hennar,
er hann áhlýddi,
en ekkert sagði,
af því engillinn
allnærri stóð.
Frá öðru fjalli
í fylkíng skærri
komu Chèrúbim,
kallaðir fram
tiltekinnar á
takmark stöðu,
liðu þeir um láð
sem ljós þoka;
Sú er með sudda
á svöln kvöldi
upp af straum stígr,
ok um storð breiðist,
hirðis hælum,
þá at hreisi ferr,
kapps um kostandi
at komast nærri.
Fyri fylkínga
fór hinn nakti
broddi brandr
blossandi Guðs;
bráðum elds öldum
umsveiflaði
hræðiligr hann,
sem halastjarna.
Af hans eyðandi
ofsa hita,
ok víðt vellandi
vætu dömpum,
varð hit ljúfa lopt
ok landsálfa
svo á svipstundu
sviðit ok brendt,
sem láð Lybíu
laungum stiknar.
Tók nú báðum bráðt,
er þau biðu við,
hjónum í hendr
höfuðengill;
fór hann beina braut
með bæði þau
allt at aldingarðs
austrporti;
Ok þaðan eins hraðt
ofan af bjargi
á flatar foldir
fyri neðan;
ok at því búnu
hvarf allr burt.
Nú brugðu bæði
á bak sèr augum,
ok austanverðan
aldingarð sjá,
sælan samastað
sinn fyri skömmu
allan umstreymdan
af eldi sverðs.
Ok hans austrport
afarþèttum
fælumyndum með
ok margskyns ógn
alsett umhverfis,
ok eldvopna
vandliga varit
vafrloga.
Nóg var náttúrligt,
þó nú stykki
trega tár nokkr
við tillit þat,

en með allri hægð,
ofan á kinnar,
sem þau undireins
afþerruðu.
Öll lá nú opin
ok öndverð þeim
en víða veröld,
svo velja máttu
hvern, sem helzt vildu,
hvíldarstað sèr,
ok til atsetrs
í at bua;
himins Forsjón holl
var þeim handleiðir.
Þannig gengu þau
nú þar bæði,
ok hèldt hvort þeirra
í hönd öðru,
fóru þau svo fram
fetum seinum
einmana útaf
Edens fold.

---

